# ÆFISAGA

## JÓNS PRÓFASTS STEINGRÍMSSONAR

EPTIR

SJÁLFAN HANN

---

SÖGUFÉLAG GAF ÚT

SÖGURIT X

REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1913—1916

ÞESSA æfisögubók Jóns prófasts Steingrímssonar gefur Sögufélagið kirkjunni á Bakka við Geirlandsá á Síðu, og mælir svo um, að bókin skuli jafnan kirkjunni fylgja, meðan til endist, mann eptir mann.

Stjórn Sögufélagsins, í Október 1916.

*Jón Þorkelsson. Hannes Þorsteinsson.*
*Kl. Jónsson. Einar Arnórsson.*
*Jón Jónsson.*

EFNISYFIRLIT.

# FORMÁLI.

Æfisaga Jóns prófasts Steingrímssonar á Prestsbakka á Síðu er eitthvert gagnmerkilegasta rit í sinni grein á vora tungu, og er langt síðan menn tóku að gefa því gaum. Árið 1862 birtust í XIV. ári Þjóðólfs[1]) »*þrjár íslenzkar dæmisögur frá miðri 18. öld*«, teknar úr þessari bók, samt án þess, að þess væri getið. Óvíst er, frá hverjum Þjóðólfur hafi feingið þessa kafla, en líklega hefir það annaðhvort verið frá Páli stúdent Pálssyni eða Jóni bókaverði Árnasyni.

Síðan liðu fram langar stundir, að eingir skiptu sér af riti þessu, þar til Valdimar ritstjóri Ásmundsson, sem var fróðleiksmaður og fróðleiksvinur, réðst í það 1898, að gefa æfisögu þessa út í heild sinni smátt og smátt í blaði sínu *Fjallkonunni*, og byrjaði sagan að koma út í blaðinu 28. Janúar 1898. Hófst útgáfan á sögunni sjálfri (bls. 4 hér í bókinni), en forspjalli höfundarins var slept. Hélt Valdimar síðan útgáfunni á þann hátt áfram í blaðinu, þar til hann lézt 1902, og þar sem hann þraut, tók eptirmaður

1) Nr. 7—8 (bls. 27—28); Nr. 9—10 (bls. 34—35); Nr. 12—13 (bls. 47—49). Þetta svarar til bls. 68, $69^{14}$—$74^{9}$, $312_{8}$—$317^{13}$ hér í útgáfunni.

hans við blaðið, síra Ólafur Ólafsson, við og hélt útgáfunni áfram í blaðinu fram til 12. Maí 1903. Var þá komið aptur í 50. kapítula sögunnar (bls. 238[5] hér í bókinni), og hafði þá það, sem út var komið af henni, verið prentað í 82 pörtum, eða í 82 tölublöðum, og þar með var þessari útgáfu lokið í hálfu kafi.[1])

Tveim árum seinna, 1905, birti Björn prófessor Ólsen í I. ári Óðins (Nr. 3, bls. 19) söguna af kerlingunum á Alþingi (hér í útgáfunni bls. 292—295[7]).

Þó að útgáfa æfisögu þessarar í Fjallkonunni hætti svo sem í miðju kafi og hlypi víða yfir og væri í mörgu áfátt, var hún þó með því öðru, sem úr sögunni hafði verið prentað, ærin til þess að kenna öllum það, að æfisaga þessi var bæði skemtileg, fróðleg og afarmerkileg, svo að flestir voru sólgnir í að fá út sem mest af henni. Enn þó að útgáfan í Fjallkonunni væri einhlít til þessa, var æfi-

---

1) Að öðru leyti kom æfisagan svona út í Fjallkonunni:

1898, XV, bls. 14—15, 22—23, 26—27, 30—31, 34—35, 38, 42—43, 50—51, 54 (*rétt* 58)—59 (Nr. 15), 66—67, 78, 82, 95, 107—108, 114—115, 119, 131—132, 140, 143—144, 158—159, 162—163, 183, 191, 195, 203—204.

1899, XVI, bls. 10—11, 18—19, 27, 46, 58—59, 170—171, 183, 195—196, 198—199, 211—212.

1900, XVII, Nr. 3 (bls. 2), Nr. 9 (bls. 2—3), Nr. 11 (bls. 2—3), Nr. 14 (bls. 2), Nr. 20 (bls. 3—4), Nr. 25 (bls. 3), Nr. 27 (bls. 3), Nr. 28 (bls. 2—3), Nr. 33 (bls. 2—3), Nr. 34 (bls. 3), Nr. 37 (bls. 2), Nr. 43 (bls. 2), Nr. 45 (bls. 3—4), Nr. 46 (bls. 2).

1901, XVIII, Nr. 3 (bls. 3), Nr. 17 (bls. 2), Nr. 21 (bls. 2—3), Nr. 41 (bls. 3), Nr. 42 (bls. 2), Nr. 44 (bls. 2—3), Nr. 45 (bls. 3), Nr. 46 (bls. 2—3), Nr. 47 (bls. 2—3), Nr. 51 (bls. 2).

1902, XIX, Nr. 1 (bls. 3), Nr. 10 (bls. 3), Nr. 24 (bls. 2—3), Nr. 25 (bls. 3—4), Nr. 27 (bls. 3), Nr. 28 (bls. 3), Nr. 42 (bls. 3), Nr. 43 (bls. 3), Nr. 44 (bls. 3), Nr. 45 (bls. 3), Nr. 46 (bls. 3), Nr. 47 (bls. 3), Nr. 48 (bls. 3—4), Nr. 49 (bls. 2), Nr. 52 (bls. 1—2).

1903, XX, bls. 3, 19—20, 23, 35, 39, 43, 47, 75.

sagan samt eptir sem áður sama sem óútgefin, því að blöðum halda, að vísu nú, fæstir saman, og sérprentan var eingin tekin, svo að menn gætu feingið bók úr, og svo vantaði allan síðasta hluta sögunnar. Þessi afsleppa útgáfa hlaut því að vera í að eins örfárra manna höndum í landinu, og ný útgáfa jafnnauðsynleg sem ekkert hefði verið prentað. Sögufélagið hafði því í hyggju að gefa æfisöguna út við hentugleika. En þegar fyrir nokkrum árum var farið að smíða upp úr henni skáldsögu, að sumu leyti á nógu djarfan hátt, var undinn bráður bugur að útgáfunni, svo að nú kemur hún hér fullbúin.[1]) Var það virt svo sem flestum mundi þykja fult svo merk orð höfundarins sjálfs sem hvers þess annars, er gerði upp úr henni samsetning eptir eigin höfði.

Æfisaga þessi er hér gefin út orðrétt eptir eiginhandarriti Jóns prófasts, sem nú er geymt í Landsbókasafninu í Reykjavík, 182 4to. Hafði Steingrímur biskup, systursonur Jóns prófasts, feingið það frá síra Jóni köggli Jónssyni á Kálfafelli í Fljótshverfi (d. 1839) og Guðnýju konu hans, dóttur síra Jóns Steingrímssonar. Er sagt, að þau hafi mælt svo fyrir, að biskup skyldi brenna bókina, þegar hann væri búinn að lesa hana. Biskupi kom vitanlega ekki til hugar að gegna því, og því er bókin til enn. Hefir Steingrímur biskup aukið hana að fylgiskjölum, og með þeim hefir Páll Pálsson bundið hana inn.[2])

---

1) Þess er getandi, að áður en Sögufélagið hófst handa um útgáfu þessa hafði Lange málari, sem er vel heima í íslenzkum fræðum, gert afskript af æfisögu þessari, ekki í því skyni að gefa hana út, heldur sér til eignar. Var afskript hans gerð stafrétt, og því ekki hentug til útgáfu fyrir almenning, enda rithátturinn einskis virði.

2) Valgerður Jónsdóttir, ekkja Steingríms biskups, hafði

Æfisöguna sýnist síra Jón ekki hafa byrjað að semja fyrri en eptir lát konu sinnar, en hún andaðist 4. Október 1784.[1]) Síðan hefir hann haldið henni fram eptirfarandi ár alt til dauða síns. Hið síðasta, sem hann getur um með dagsetningu, er þegar hann messaði í seinasta sinni á Kirkjubæjarklaustri 19. Júní 1791[2]). En eptir það skrifar hann alt niðurlag sögunnar frá bls. 309—320, og þar á meðal sumt gamansamt, svo sem söguna úr Hólaskóla. En 11. Ágúst lézt Jón prófastur þetta ár.

Af æfisögunni sjálfri er eingum ofætlun að geta séð, hvað það einkum er, sem hefir knúð síra Jón til að rita æfisögu sína.

Sjálfsagt þótti að láta æfisögunni fylgja þau fylgiskjöl, sem Steingrímur biskup hafði dregið að. Fylgiritum þeim og skjölum, sem fram yfir það er aukið, hefi eg viðað að.

Út af Hvols- eða Steinunnar-málinu (Presta-Steinku), sem getið er um á bls. 111—114, spunnust miklir kveðlingar, sem nú eru sjaldséðir; eru í þeirri kvæðadeilu hvað kunnugust kvæðin »*Hellraspegill*« og »*Stúdentaspegill*«, en flest er það fremur

---

beðið Jón Sigurðsson að semja æfisögu hans. Um það efni fóru mörg bréf milli Árna biskups í Görðum og Jóns, en af æfisögunni var aldrei prentað nema 1. örkin. Í einu af þessum bréfum (17. Júní 1850) minnist Árni biskup svo á síra Jón Steingrímsson: »Eg þekki einn mann í þessari ætt: prófast Jón Steingrímsson; fyrir honum ber eg einlægustu virðingu. Eg hefi lesið nokkrar ritgerðir hans, sem bera vitni um tápmann, guðlegan og duglegan í miklum lífsins kröggum; hann var, að eg ætla, móðurbróðir biskupsins«.

Í öðru bréfi (30. Maí 1859) getur hann Steingríms biskups og Valgerðar svo: »Valgerður var meiri maður en Steingrímur, og við báðir«.

1) Æfisaga bls. 181.

2) bls. 309.

lélega kveðið, og þótti óþarfi að prenta neitt af þeim kveðskap hér.

»*Hellraspegill*« er, afskaplega illa ort, níðkvæði um síra Jón Guðmundsson á Felli, sem í kvæði því er nefndur »Skröggur gamli Roðgvendsson«. Höfundurinn er ekki nafngreindur. Hann kann hvorki stuðla né höfuðstafasetning, og er kvæðið að öllu leyti hinn ómerkilegasti þvættingur, upp á 75 erindi. Síra Jón Guðmundsson kveður líka svo óþvegið um höfundinn:

Aldrei Kvásis æðalaug
í honum rann að fullu,
öllu fyrri hann í sig saug
arnargarna drullu.

Miklu skár kveðinn er »*Stúdentaspegill*« síra Jóns Bergssonar, þó að hann sé hálfgerður þvættingur. Er það níðkvæði um Þorstein stúdent Jónsson, síðar prest á Dvergasteini (d. 1800), son síra Jóns Guðmundssonar, og fleiri eru vísur um Þorstein út af Hvolsmálinu, svo sem:

Steini stúdenti
*steingeit* hann glenti o. s. frv.

Um Steinunni á Hvoli hefir »studiosus Þorsteinn Jónsson« ort og kvæði það, er hann nefnir: »*Hin ljúgandi lausakona*«, liðlega ort níð. Þá eru og »*Rebbaljóð*« eptir síra Jón Guðmundsson, einnig út af þessum málum, og er það níðkvæði um síra Jón prófast Bergsson. En til Jóns prófasts Bergssonar hefir Þorsteinn stúdent ort kvæði móti *Stúdentaspegli*, er svo byrjar:

Um hvað eg kveðið hefi nú
hygg eg manninn gruna,

því bæði hún heilla þín og þú
þekkja meininguna.

Og ennfremur vísu:

Spegil stúdenta
með spotti bragventa
spann heigulbassi o. s. frv.

Móti *Hellraspegli* sýnist Þorsteinn hafa ort *Baulukvæði* (Heyrðu Baulu-Bensi minn). Móti »því hatursfulla lygabulli«, *Hellraspegli*, hefir síra Jón Guðmundsson einnig ort langt kvæði. Á móti því eru einnig nokkrar vísur, sem margar hafa að viðlagi: »Homerus á Klumbu«, og enn fleiri vísur.

Á móti *Baulukvæði* hafa verið ort »*Snókaljóð*« (nafnlaus), og enn á móti »*Snókaljóðum*« nafnlaust kvæði, sem þó mun vera eptir Þorstein Jónsson.[1])

Allmikið er til af ljóðmælum andlegs efnis eptir síra Jón Steingrímsson á víð og dreif í handritum,[2]) en ekki hefir þótt þörf á að prenta fleira af þeim til sýnis hér en »*Angurvöku*« (bls. 357—366). Af kveðskap hans mun að öðru leyti ekkert hafa verið prentað, nema *Jólavers* eitt, eignað honum, í Viðbæti Sálmabókarinnar 1863 (Nr. 38, bls. 61) og í Sálmabókinni frá 1871 (Nr. 71, bls. 55).[3])

Eldrit síra Jóns hefir dr. Þorvaldur Thoroddsen látið prenta í fullri útgáfu í *Safni til sögu Íslands*, bæði *Um Skaptáreldinn 1783* (IV, 1—71) og *Um Kötluhlaup* (IV, 190—199, 219—222). Áður voru þau prent-

---

1) Kvæðadeilu þessa er að finna í handritasafni J. Sig. 479, 8vo. (J. Árn.) og í Ny kgl. Saml. 1896, 4to. í Konungsbókhlöðunni í Kaupmannahöfn.

2) Svo sem í J. Sig. 16, 8vo. og 336, 8vo. og víðar.

3) Grunur er mér á, að þetta vers sé þar ekki óraskað, heldur umkveðið og beyglað eitthvað, því eg man ekki betur en

uð í ágripi í *Ritum um jarðelda*, sem Markús Loptsson í Hjörleifshöfða gaf út 1880.[1])

Að útgáfu þessari hefir verið unnið á þann hátt, að handritið að æfisögunni hafa þeir ritað upp *Guðbrandur Jónsson* og *Ólafur Lárusson* settur prófessor, og registrið hefir samið *Jóhann ættfræðingur Kristjánsson*, en að öðru leyti hefi eg séð um útgáfuna.

Ekki þori eg að ábyrgjast, að ritháttur sé hér fullkomlega sjálfum sér samkvæmur í allri bókinni. En meiri brögð ætla eg sé ekki að ósamkvæmninni en svo, að hún sé bagalítil.

Reykjavík 7. Júlí 1916.

*Jón Þorkelsson.*

---

að eg lærði það ungur af gömlu fólki eystra nokkuð á annan veg, eg held svona:

Heilög jól
höldum í nafni Krists,
blessuð sól
birtist oss réttlætiss,
lýsir, helgar, lífgar menn
ljómandi stjarna,
færir okkur frelsarenn
í flokkinn guðs barna o. s. frv.

Stendur á litlu.

1) Síra Jón fór mjög með lækningar og samdi lækningabók. Hún er enn til með eiginhendi hans: J. Sig. 647, 4to.



**Hjartans elskulegu dætur mínar, Sigríður, Jórunn, Guðný, Katrín og Helga, ykkur, ykkar elskendum og afkomendum, sem nú eru eður verða kunna, ásamt öllum góðfúsum lesendum eptirskrifaðra orða og frásagna, óska eg guðs náðar fyrir Jesum Christum.**

Það er haldin stór vanvirða, eins og það í sannleika er, hjá öllum skynsömum mönnum, sérdeilis þeim, sem að þó teljast kunna í betri og meiri manna röð, að vita lítið eður ekkert til foreldra sinna, afa, ömmu eður annara forfeðra, svo þar má hver einn tala sem hann er lyndur til, máske stundum ósatt, en afkomandinn verður nauðugur viljugur að þegja, sem ei vissi neitt, hverninn því kunni háttað vera, eður hvort þar var nokkur flugufótur undir. Hvar til foreldrarnir, ei síður en börnin, kunna að vera ómótmælanleg orsök, sem ei sagði afkvæmi sínu neitt um sína hagi eður sinna, eður að börnin voru hirðulaus að grenslast þar eptir, eður taka eptir því, sem þeirra foreldrar eður aðrir um kunnugir þar um sögðu í uppvaxtartíma þeirra. Mín ástkæru börn, hér þarf þó ei til þess að koma; optsinnis hafið þið viljað heyra, þá eg hefi sagt ykkur af forfeðrum mínum og ýmsu, sem komið hefir á veg fyrir mig um afliðna æfi mína, og óskað eg vildi kasta því upp ykkur til leyfilegs gamans eptir mína burtkallan, sem

eg hvorki vildi né mátti neita ykkur, bæði þess vegna, að guð hafði gætt ykkur með skarpleik að nema og sækja eptir öllu því, er skemtan og góður fróðleikur er í, sem ætíð, hvar guðfræðin hefir fyrirrúm, leiðir gott eptir sig að viðhalda dygðum og mannkostum, og var það þá ei vel gert fyrir mig að láta ykkur fara á mis við það, sem þar til þjena kunni, sem og hins vegna, að svo sem þið hafið, frá því fyrsta þið drógust á legg, með guðrækni og lastvarri framgeingni auðsýnt mér elsku, hlýðni, auðsveipni og alla mögulega þjónkan og aðhjúkrað, eptir því sem eg hefi tekið að eldast, þá mátti það heita mitt eptirlæti, að gera ykkur þetta til vilja, er mér svo auðvelt var, og því framar, sem eg fyrst og fremst sikta hér upp á guðs dýrð, æru og vegsemd fyrir alt blítt og strítt, sem hann hefir látið við mig framkoma, að dæmi margra guðsmanna á hinum fyrri öldum, sem að hafa og þar til samantekið sínar æfisögur. Þar til hefir og guð mér sem öðrum minnið gefið, að fram skuli teljast hans dásemdarverk fyrir börnum og barnabörnum, og rita hans lof upp á eptirkomendurna og það fólk, sem skapað skal verða; Ps. 102.

Þegar þið, kæru börn mín, lesið þessi blöð, munuð þið finna af því, sem eg hefi sumum af ykkur áður sagt, að eg hefi yfir margt hlaupið, sem satt er, því eg hefi það einasta tiltekið, sem sýndi sérlegustu guðs náð og varatekt yfir mér frá fyrsta til síðasta. Þar næst sönn dæmi sýnt dygða og ódygða í heiminum og hversu guð er alleinasta trúr. Eg hefi optar lítið en ofmikið um eitt og annað skrifað, en svo frómlega og einfaldlega, án nokkurrar stýlunar-viðhafnar, að ef sérvitrir og hótfyndnir lastarar, öfundar- og hatursmenn mínir, sem þið nærri getið, hverir eru, sjá þetta eður heyra, munu þeir útausa yfir mig látinn, ei síður en í lífinu, ásamt ykkur, sinni mannhaturs-ólyfjan og lastyrðum, og því eru þessi blöð ei látandi í þeirra hendur. Eg tileinka hér ei einni ykkar, heldur öllum ykkur, þessa mína æfisögu, því eg þekki ykkar ástúðlegt samlyndi, er eg óska æfinlega viðhaldist, og að ykkar afkomendur verði eins sinnaðir,

og þá kunna þeir og svo að eiga sér hana til fróðleiks og skemtunar, meðan ei sundur rotnar.

Nú, sá guð, sem mig hefir forsorgað alla mína lífstíð til þessa dags, og sá eingill, sem mig hefir varðveitt, blessi ykkur! Hann telur af með mínum dögum allar mínar syndir, svo þeirra straff komi aldrei niður á ykkur né ykkar. En allar mínar fyrirbænir, andvarpanir, tár og mæðuspor yfirdreifð með Jesú píslarblóði veri í minningu hjá guði til beztu nota í bráð og leingd yfir ykkur, mínum náttúrlegum og andlegum börnum. Þess óskar af heitu hjarta

Prestbakka. ykkar faðir

*Jón Steingrímsson.*

---

I. N. J.[1])

# Æfisagan.

---

KAP. I.

Eg Jón Steingrímsson, fyrir guðs sérlega gæzku og miskunnsemi prófastur yfir Skaptafellssýslu og prestur til Kirkjubæjarklausturs safnaða, er borinn og barnfæddur í þennan heim á Þverá í Blönduhlíð í Hegranessýslu eptir vors frelsara hingaðburð MDCCXXVIII, af guðhræddum og frómum foreldrum. Minn fæðingardagur var 10di Septembris, er þá bar upp á föstudag 6 vikum fyrir vetur. Minn góði faðir bar strax umsorgun fyrir því, að eg skyldi öðlast heilaga skírn, hverja mér veitti sá æruverðugi og mikið vel gáfaði kennimaður síra Björn Skúlason, er þá var prestur í Flugumýrarþingum. Mín guðfeðgin hétu Páll Skúlason og Guðný Stefánsdóttir; hann var þá orðinn umferðarkarl; ei hafði hann mikill búsældarmaður verið né gefinn fyrir stundlegu, en yfrið margfróður og guðhræddur; tíðum hafði hann geingið berhöfðaður milli bæjanna, og þó gárungar, sem þeirra venja er, gerðu skimpi að honum, var hann þokkasæll hjá öllum guðelskandi mönnum; heyrði eg opt um það getið, hvað karl þessi hefði heitt beðið fyrir mér, bæði þá er eg skírður var og síðar. Föðurbróðir minn, síra Sigurður, lét heita eptir honum, svo síra Páll á Holti, prófastur í Rang-

---

1) Þ. e. In Nomine Jesu (= í Jesú nafni).

árvallasýslu, ber hans nafn. En um hitt guðfeðgini mitt skal síðar talað verða. Að van(a)legum móð nefndi eg ei í öndverðu á nafn feðra nöfn og foreldra minna, af því eg vildi sér í lagi nokkuð þar um mæla. Minn faðir hét Steingrímur Jónsson, mín móðir Sigríður Hjálmsdóttir; minn föðurfaðir var Jón Steingrímsson lögréttumaður í Skagafirði. Sá Steingrímur var Guðmundsson, af ætt Finnboga lögmanns. Mín föðurmóðir var Ingiríður Aradóttir prófasts í Hegranesseður Skagafjarðarsýslu og prests að Mælifelli. Sá síra Ari var Guðmundsson, hvers ektakvinna, Guðrún, var af ætt Jóns Arasonar biskups. Minn móðurfaðir Hjálmur var sonur þess mikla bónda á sinni tíð Stefáns Rafnssonar á Silfrastöðum, hver í sína móðurætt var kominn af Jóni Arasyni biskupi. Mín móðurmóðir var Helga Guðmundsdóttir; hann var snikkari, bræðrungur[1]) síra Jóns Guðmundssonar, föður Valgerðar hústrúr Mag. Steins biskups á Hólum. Tel eg hér ei fleiri í ættlínum þessum, hvorki upp eptir eður til síðulínanna, því það vildi verða alt of langsamt; þar að auki hefi eg samantekið eina ættartölubók, hvar alt slíkt er að finna[2]). Einasta til gamans og fróðleiks vil eg sýna þeim, er lesa eður heyra (og) hirða blöð þessi, hversu háttað var þessum mínum forfeðrum, þá var föðurfaðir minn og afi Jón Steingrímsson, hvers nafn víða kemur fyrir í þingbókum, og kona hans Ingiríður ei stórrík af veraldarauðlegð, en þar hjá mikið gott gerandi nauðlíðandi; til dæmis er eitt: Er þau bjuggu á Yztamóa í Fljótum, gaf hann þau einu skæðin, er til voru í heimilinu, þurfandi manni, er bar að húsum hans; en nær hann þar eptir samdægurs gekk á fjöru, var þar rekinn stór selur. Svo launar sá alvitri guð miskunnarverkin, sem í hjartans einfeldni eru gerð og í hans nafni. Þaðan flutti hann sig að Bjarnastöðum í Flugumýrarsókn, keypti þá, og gaf kirkjunni þar

---

1) Þannig leiðrétt með hendi Steingríms biskups; »bróðir« hdr.

2) Ættartala síra Jóns Steingrímssonar eptir hann sjálfan er til í tvennu lagi með hans eigin hendi í Landsbókasafni 483. 4to og 954. 4to, og er hún gerð 1790.

altarisklæði af rauðu skarlati með kögur af silki um kring, sem þar er enn. — 13 börn, er þau áttu saman, komust öll á legg og til góðrar menningar. Hann fór ei svo af rúmi sínu, að ei áður með sinni morgunbæn og signingu mælti fram þennan sálm: Þann signaða dag vér sjáum nú enn etc. Hún í sama máta var bænrækinn maður, svo aldrei við sig skildi læribók herra Guðbrands. Seinast gaf hún móður minni það kver, er vakti yfir henni, þá hún héðan burtkallaðist á Hjaltastöðum í Flugumýrarsókn hjá þar þáverandi syni sínum síra Sigurði. Svo var hún guði handgeingin, að hann lét hana vita af sinni andlátsstundu, er hún lá banaleguna; hún bað smásaman aðgættist næturfarið, og er henni var sagt það væri að vissu marki komið, sagði hún: »Nú er stundin komin«, og bað svo þá, er nálægir voru, að biðja fyrir sér og með sér, og öðlaðist hún svo sáluhjálplegt andlát. Sjáið þið nú, börn mín, hversu guðhræðslan er til allra hluta nytsamleg. Síra Ari faðir hennar var mikið vel lærður maður á sinni tíð. Hann stytti *Backium* í mátulegar prédikanir, en þó í sama máli, hverja bók eg á eptir hann, og njóti sá eptir mig, sem guð vill. Hann var svo vel að sér í grísku, að hann var í aðstoð með frænda sínum Jóni Einarssyni, sem orkt hefir Krossskólasálma, að leggja út *Argenidem*, sem þeirra bréf sýna, sem undir hendi hefi. Hann var gott skáld. Hann orkti sálm eptir herra Þorlák Skúlason og enn fleiri sálma. Síra Magnús son hans og ömmubróður minn sá eg; var hann mikið karlmannlegur maður, með kolsvart hár hrokkið á höfði, en hvítt skegg breitt, þykt og á bringu niður. Um móðurafa og ömmur mínar kann eg minna að segja, — því það var fjarlægra, — nema það var gott bóndafólk, sem dó í heiðarlegri elli. Eitt dæmi upp á þá gömlu trygð og dygð vil eg segja. Stefán langafi minn bjó á Silfra- (réttara Silfrúnar-) stöðum, er þá átti Teitur Arason á Bæ á Rauðasandi. Fór hann til þessa síns húsbónda með gjöld sín og til fiskikaupa; lét hann ei mæla né vega vörur þær, er hann kom með, heldur sagði þær skyldu inn ber-

ast, en út aptur viktarlaust fiskur og steinbítur svo mikið, sem tilætlaðir hestar hans gæti borið. Hvar er nú slíkt að finna á þessari öld? Hjálmur sonur hans, afi minn, var smámenni, en þó snar og harður í viðmóti. Hann sá eg. Hann hafði beztu list að ríða hesta til gangs. Margir feingu hann sem meistara til þess. En svo (var hann) gamansamur og smáskrítinn, að á samfundum þótti þar lystugast vera, er hann var meðal manna; gat þó einginn fatað upp á orð hans. Alt fór þetta svo af eins og annað stundlegt, því hann lasnaðist með aldrinum og lagðist í kör; hélt þó við búskap til dauðadags. Helga fyrri kona hans, móðuramma mín, var mikið góð kona, og kunni kvenna bezt handyrðir. Faðir hennar, Guðmundur snikkari, hefir úthöggvið nokkra líksteina á Hólum norður og hér í Odda, item skírnarfontinn á Hólum, er sýnast má mikið meistaraverk. Hann er úr hörðum steini, vel svo í mitt lær á meðalmanni, í kaleiksmynd; fonturinn að ofan er rétt gerður eptir koparhafinu, þar það sést málað með þessum skriptum og stöfum lopthöggnum eður þeluðum: *Labium æneum typus baptismi, Exod. XXX.* Það þýðir: Koparhafið er fyrirmynd skírnarinnar. Þar eptir: *Leyfið börnunum til mín að koma, og bannið þeim það ekki, því þvílíkra er guðs ríki,* Matth. 19. Svo þetta: *Pennan skírnarsá hefir úthöggvið Guðmundur Guðmundsson eptir forlagi og fyrirsögn virðulegs herra Gísla Þorlákssonar biskups á Hólum 1674.* Hér af má sjá og ráða, hvílíkt verk þetta er. Og er svo fátt eitt talað af forfeðrum mínum.

## KAP. II.

Nú skal fyrst sýna, hversu guð með undarlegum, en þó dásamlegum, hætti stjórnar hlutum náttúrunnar, og sýnir opt fyrirfram það, er hann vill láta síðan sjást og framkoma manneskjunni til varúðar og ýmislegs góðs, en sér til dýrðar, — hér þvert á móti vill sá vondi andi fordjarfa slíkt á allan veg, manninum til örvinglunar og alls ílls, — hvar upp á er eptir-

fylgjandi dæmi. Þegar mín góða móðir var ólétt að mér, dreymdi hana, að henni væri sagt, að hún geingi með hvíthyrndan hrút, hvern hún mundi víst af sér fæða; hann yrði ei drepinn, því hann ætti að eyðileggja heilar sveitir í landinu. Hér við varð hún skelfd meir en frá megi segja, og vogaði aungvum að fortelja drauminn, sem þó varð æ þyngra, því nú sat sá vondi andi sig ei úr færi að smeygja sér því framar inn í þankana, setti henni alt ílt fyrir sjónir og útlagði þetta fyrir henni á versta veg. Og nær sem svo hættast stóð, kom til hennar af hendingu, — eg held framar af guðs ásettu ráði, — nefndur, karlskepna, Páll Skúlason. En svo sem hún þekti hann frómlyndan og fámálugan, þá sagði hún honum upp alla þessa tilburði. Karlinn hughreysti hana strax og sagði þetta guðs bendingu, er hefði það að þýða, að það, hún geingi með, væri piltbarn. Hann mundi eyða einhverju vondu skikki, verða einn yfirmaður, svo sem hrúturinn væri sem höfuð og herra hjarðarinnar. Hann færði henni dæmi, að hún hefir sagt mér, af annari konu, sem dreymt hefði, hún geingi með geltandi hund blóðugan ásýndum, og hefði sá orðið mikilmenni etc. Veit eg nú vel, hvaðan hann hefir haft þá frásögu[1]). Við þessar útþýðingar, frásögur og hughreystingar styrktist hún aptur; lét hann svo vera hjá sér, þar til guð leysti hana frá sínum burði, og eg fæddist í heiminn, hvar þá karlinn var við. Guð fer ei í mannvirðingar, heldur lítur á það lága, og það, sem foraktanlegt er fyrir heiminum, það hefir hann sér tíðum útvalið. Svo lítið sem mér fanst til þessarar frásögu á mínum gjálífisaldri, svo hefir hún síðan allopt sárt stungið mig, síðan guð gerði mig að yfirmanni, að eg skyldi gæta að minni skyldu og sjá, hversu guð fyrirhugaði mig til þess, þá eg var enn í móðurlífi. Helga Eiríksdóttir hét sú, sem nokkra stund lá undir mér. Hún giptist Símoni Þórðarsyni. Eitt þeirra barn hét Jón. Bæði af frænd-

---

1) Hér út undan stendur á spássíu með hendi höf.: Damascenus de vita martyrum hic erat Ignatius.

semi og í þakklætisminningu við móður hans, kendi eg honum síðar til skóla. Hann varð útlærður og síðan djákni; misti geistlegheitin og býr búi sínu fyrir norðan. Tveir dreingir voru þar jafnaldrar mínir. Hét annar Bjarni Eiríksson, annar Erlendur Sigurðsson. Kemur sá fyrri ei hér framar við. Jafnöldru og skyldmenni átti eg þar, og okkur var jafnað saman, sem margir gera, hvað þó er ei svo gott ætíð, því mig má til minna, hvað ílt það ætlaði að leiða hér eptir sig. Þá eg var 4ra vetra, man eg fyrst til mín af formyrkvun, sem skeði um vorið, að sólin formyrkvaðist svo um nónbilið, að leingi var dimt sem nótt væri komin. Um þessar mundir tóku foreldrar mínir stúlkubarn af afa mínum, hálfsystur móður minnar, sem heitir Guðfinna. Hún var mér yngri, en í miklu yfirskýrari. Hjá foreldrum mínum var og móðurafasystir mín áðurnefnd, Guðný Stefánsdóttir; lá þessi stúlka á fótum hennar. Þessi mín afasystir hafði fóstrað móður mína upp, og svo síra Jón Egilsson í Laufási, eptir það þau hvort um sig mistu foreldra eður réttara mæður sínar; því tók móðir mín hana aptur. Var hún látin hafa svo mikið úr jörðunni og málnytjupeningi, sem henni, ásamt greindu stúlkubarni, nægði til góðrar forsorgunar og klæðnaðar. Eptir fráfall föður míns var hún hjá móður minni, alt til dauðadags, með sömu kjörum. Þá fór og greind stúlka til annara frænda sinna; giptist síðan, býr með manni sínum og á mörg börn.

## KAP. III.

Hér skal leiða fyrir sjónir, hversu fólki var háttað á fyrri öld, og taka mína hér greinda afasystur til sjónarspegils þar upp á. Hún var há og gildvaxin, stórskorin í andliti, sterk og stórlynd, hreinlynd og frjáls í tali, — aptur gæflynd og meðaumkvunarsöm við þurfandi og fátækar manneskjur. Hún var skrifandi og lesandi, er mikið þótti á þeim dögum. Hún kunni slátt, og var ágætur ljáasmiður, og allur fjöldi sótti sín ljásmíði til hennar, er slógu henni aptur,

að ei þurfti slíkt út að kaupa. Hún var svo ættfróð, að nálega vissi hvers manns ætt, svo sá rekstur gekk stundum langt á kvöld, er hún fékk nokkurn, sem þar í var ei framandi eður fræðast vildi af henni. Hún kunni fingrarím það gamla og rímtal eptir þeim forna móð, en af fornfræðum, kveðlingum, sálmum svo mikið, að ótrúlegt mætti sýnast; alt inntak úr Odds Gottskálkssonar Nýja Testamenti, er hún átti, vissi hún, — eg segi ei framar. Hvenær sem hún fyrir settist og var vakandi, var hún að fara með eitthvað af þessu. Eptir því sem eg vitkaðist, var eg því fúsari að spyrja hana að ýmsu, sem sumum ungmönnum er tamt, heyra og læra af henni, hvað mér síðar í Nýja Testamentinu að miklu gagni kom. Hjá henni var sem öðrum mikill átrúnaður um huldufólkið, svo bæði bygði hún heima á nýjársnótt, gerði smáelda í kringum öskustóna handa jólasveinum og markleysur fleiri, en þar hjá svo trúarsterk, að þá stórviðri upp á kom, kvæði hún nokkrum sinnum Krosskvæði eður Jesúminning eður þennan sálm: Jesú sté í þann tíma, slotaði veðrinu að óskum. Margar trölla-, drauga- og apturgaungu-frásögur kunni hún, og hverninn klukknahringingar væru þjenanlegar að fæla slíkan fans í burtu. Hún hafði og séð þá klukku, er fanst í jörðu að yfirhvolfdu kjaraldi í nokkru plássi fyrir framan Hof í Skagafjarðardölum; skyldi þar áður hafa verið eitt klaustur og eyðilagzt í stóru plágunni 1404[1]). Veit nú einginn til þessa. Á greindri klukku stóðu þessi orð:

*Vox mea est bamba, possum depellere Satan.*

Það þýðir: Mitt hljóð er bamba, burt rek eg Satan. Var klukka sú flutt að Goðdölum, en nú síðar umsteypt. Hún trúði sem aðrir á þeirri öld, að guð mundi láta klukkur við klingja á síðasta degi, til að kalla þá dauðu saman og fæla djöflana ofan í helvíti etc. Þessa stöku man eg enn eptir henni:

---

1) Það er hið svo nefnda *Hraunþúfuklaustur*. Um það þekkjast nú eingin órækari gögn en gömul munnmæli.

Fagur er saungur í himnahöll,
þar heilagir einglar syngja,
skjálfa mun þá veröldin öll,
þá dómklukkurnar hringja etc.[1]).

Þessar frásögur verkuðu það ilt hjá mér, að þá með mig var farið til kirkjunnar og klukkum var farið að hringja, ímyndaði eg mér, allir vondir andar væru komnir og ætluðu að grípa mig og fólkið, og því væri hringt, að fæla þá í burtu; ærðist eg því með miklum óhljóðum, og þótt eg væri sleginn og laminn, gat eg ei hrundið því úr þanka mínum, — og það svo mjög, nær eg kom nærri kirkjustaðnum, tók mér að heyrast klukknahljóð, og fór því að gráta og kvíða fyrir, svo rétt var komið í ráðaleysi með mig. Þó eltist þetta af mér eptir sem (eg) vitkaðist; bjó þó óttinn leingi í hjarta mínu. Svo er Satan þúsund véla smiður, svo tók hann snemma til að ráðast á mig. — Enn ein lítil, en þó gamansöm, frásaga af henni. Þá hún var heimasæta hjá föður sínum, voru fjórir drykkjurútarar í Skagafirði, sem samankölluðu sig og riðu um sveit að drekka og hræddu þar brennivínið út, þar það til var, ef þeir feingu það ei öðruvísi. Var einn af þessum lögsagnarinn sýslumannsins, er þá var, en annar galdrakuklari, og var fólk víða hrætt við þessa seggi. Þeir komu um kvöld að Silfrastöðum til föður hennar, sem þá var ekkjumaður orðinn og háaldraður. Þeir brutu upp bæinn. Kuklarinn geymdi hestanna og tók hey handa þeim. Hinir vösuðu inn. Ekki var fyrir, nema karlinn, er sat í sæti sínu, og kvenfólk, er þar hjá sat. Þeir heimtu brennivínið; en er það varð ei svo fljótt til, gripu þeir í hár og skegg karlinum og fleygðu honum niður úr sætinu. Hún og kvenfólkið tóku til handa og fóta, að ei gátu meira mein gert; réðist hún að þeim versta, og þá hún var að greiða hendur hans úr hári föður síns, snerist einn fingur hans úr liði.

---

1) Þetta er úr Sancti Jóhannes visum, og er frá katholskri tíð. Sbr. Jón Þorkelsson: Om digtningen paa Island Kh. 1888 bls. 39, 64–65.

Ei varð honum meira um en hann sagði: »Slík átök hefi eg ei fyrr reynt; finn eg nú, að ei hefir faðir þinn sparað þér feitina«. Þarf það ei að orðleingja, hún rak þá út ver en svo búna með kvenfólkinu, sigaði á hesta þeirra, sem hlupu út í myrkrið óvissa vega. Þá kuklarinn sá þetta, hverjar ófarir þeir höfðu feingið, hleypur hann út í kirkjugarðinn og læzt ætla að vekja upp draug og hleypa honum á hana og föður hennar, og legst niður á eitt leiði. Hún þrífur strax reinglu, sem við höndina var, og slær henni á bakhluta hans, og mælir þessum orðum: »Þann djöful, sem þú og þínir fylgjarar hugsa að hleypa á mig eður mína, kyrset eg hér með í ykkar hjörtum«. Hann vildi ei fleiri högga bíða, og stökk það snarasta á fætur af sinni vondu bænagerð, og bað þá að taka hana höndum og gera henni ráðning. En þeir svöruðu þá: »Sú skömm og afspurn skal aldrei eptir oss liggja, að við gerum henni nokkurt mein, heldur skulum við hafa verðugan skaða í heimgjald. Hér er af oss fundinn sá stærsti karlmannshugur í konubrjósti«. Gáfu henni ríxsdal, en hún sótti þeim brennivínskorn; skildu síðan að, og komu þeir ei þangað þanninn optar. Hér sjást þau fornu ærlegheit mitt í hryðjuverkunum, og hvílíkur kvenskörungur hún var. Eitt barn átti hún um þessar mundir, er sálaðist strax, og var síðan aldrei við karlmann kend. Hún var mér bezt af systkinum mínum, af því eg átti bezt við skap hennar að nema og læra af henni; að eg ei tali (um), hvað vænt henni þótti um mig, þá eg var í skóla kominn. Hún bað mig að láta heita eptir sér, og ber Guðný dóttir mín nafn hennar. En alt svo leingi eg var ei búinn að því og þá fyrir mér lá að reyna einhverja lukku til sjós eður lands, dreymdi mig hana opt áður. Sama var fyrir síra Sigurði föðurbróður mínum, meðan hann lét ei heita eftir Páli karli. Hverninn þessu er háttað í náttúrunni, veit guð einn.

## KAP. IV.

Faðir minn bjó á Þverá, sem fyrr er tjáð. Einginn nefndarmaður var hann, heldur góður bóndi, að ætíð var heldur veitandi en þurfandi. Og þar hann var í gestgötu, komu margir meiri háttar og minni menn til hans; var því ætíð til tilætluð gestarúm og aukahesthús. Hann var maður að meðalhæð, þrekvaxinn, rauðleitur og kringluleitur í andliti, með hrokkið hár jarpt, karlmenskumaður að burðum, gæðasláttumaður, fjárhirðir sá bezti einn, því hann hafði vanizt þar við af barnæsku, lesandi og skrifandi lítið, en um fram alt guðhræddur, siðferðisgóður, tryggur og trúfastur, svo margir góðir menn báru virðing fyrir honum í sinni röð og söknuðu hans úr vegi, er hann var burtkallaður. Móðir mín var meðalmaður á hæð, nettvaxin, kringluleit og skarpleg í andliti, með jarpt hár, sem náði í lokkum að beltisstað. Hún var hreinlát og búsýslunarsöm í sinni röð, guðhrædd og hreinlynduð. Hún kunni allar handyrðir, sem bóndafólki vel þjenar, því afasystir mín kom henni í kenslu að læra á Mælifelli, svo bæði af þvílíkum kunnleik og frændsemi stiltu þeir feðgar, síra Magnús og síra Jón, svo til að gista hjá foreldrum mínum, þá leiðir þeirra lágu þar um. Sömuleiðis Skúli Magnússon fóveti með þjenurum sínum, þá hann var sýslumaður í Skagafirði, meðan hann var á Hofi. Hér af kemur ein frásaga síðar af einum þjenara hans, er mér varð að liði í framandi plássi. Meistari Steinn biskup og hústrú hans Valgerður komu þangað ætíð, nær synodus eður það árlega prestamót var haldið 20. Septembris á Flugumýri; fór hún þangað með sínum herra til inndælis sér og að gera gott fátækum; fór þá margt kver og annað. Þáðu þau hjá foreldrum mínum mjólk að drekka, ferskan silung og þess háttar. Sá góði herra drakk og brennivín. Honum nægði hálfanker brennivíns um árið til trakteringa, sem síra Sigurður föðurbróðir minn sagði mér, sem nokkur ár var smásveinn hans. Man eg til þess, að eg var látinn koma

fyrir þau; gaf biskupinn mér þá ríxdal. Þá svaraði hústrúin: »Þú gefur þetta fyrir fylgdina, en eg ætla að gefa dreing þessum sem ættingja mínum«, og gaf mér annan, og bætti þessu við: »Ef við herra Steinn minn lifum þann dag, þú komist til aldurs, þá skal reyna að gera þig að manni«. En þar tókst þó ei til í vissan máta, þar biskupinn sálaðist fyrr; en af því má sjá frómlyndið, lítillætið og höfðingsskapinn, er einn höfðingja prýðir. Með þessum og enn fleiri dygðum voru þau miklu höfðingshjón begáfuð. Ætíð sé blessuð þeirra minning! Guð forbetri þessa öld, sem sýnilega vill snúast á annan veg! Því kvað Eggert Ó(lafs)s(on):

Hvar er höfðings þótti?
Hvar er rausnin nú?
Hvar er herrans ótti?
Hvar er dygð og trú?
Það er alt komið á ringulreið.
Ágirnd vex, en ómenskan
aungvu kemur á leið.

## KAP. V.

Eg ólst upp hjá foreldrum mínum, þar til guð kallaði burt föður minn á mínu 10. aldursári. Skal nú með lítilli yfirferð greina, hvað um mig leið á þessum tíma. Mér var kent að stafa og lesa á bók; en af því eg var látinn of fljótt taka saman, og einninn málstirður og viðtosandi, varð eg ei vel lesandi; kunni eg margt af því utan bókar, er eg var látinn stafa og lesa, og prettaði þetta hvorttveggja. Þá eg var orðinn 7 vetra og þar yfir, vandi hann mig að gefa lömbum og brynna þeim, og síðan ganga með sér til fjár, halda því til haga, brjóta ofan af fyrir því og moka, hvar til hann smíðaði mér litla gaunguog var-reku; fékk eg strax til þess stóra náttúru og eptirlangan, — en við fjósverk var eg ei hafður, — og þá einsýnt veður var, var eg sendur að hleypa fénu út og reka það á hagann. Þá albjart var,

átti féð að vera þangað komið, en ei fyrri en um sólaruppkomu, ef hrímfrost var; skyldi eg tvístra því vel í sundur í beitarplássinu, að ei legðist eður stæði saman etc. Hér yrði of lang(t) að segja frá fleiri reglum hér að lútandi. Fjárhús það hafði hann bygt á því plássi, sem kallast Þverárgerði, langt frá bæ og ofar til fjalls. Þá voraði, rak hann féð leingra í það pláss, er kallast Tungufjall og Þverá fylgdi. Þá eg var sendur um dægramótin að hleypa út, var mér fyrirlagt að lesa berhöfðaður Faðir vor, blessunarorðin og bænir svo margar sem nægði, þar til kominn væri yfir túngarðinn; þá mætti eg uppsetja, en þó fara með eitthvað gott, að ekkert vont kæmi nærri mér og alt geingi vel. Út af þessu þorði eg ei að breyta. Eg kunni þá meðal annars þennan sálm: *Einn herra eg bezt(a) ætti.* Í honum eru 10 vers. Faðir minn mælti hann, ef ei daglega, þá optsinnis, fram. Þá eg mælti hann seint fram eður raulaði og gekk léttan við, nægði hann 40 sinnum mæltur að heiman og til hagahússins, af hverju ráða má vegalengdina, og sjá hversu öllu fer hnignandi, því nú mundi slíkt vera haldið ofætlunarverk, jafnvel fullorðnum. Því fer sem fer og orðið er í landi voru. Svo varð eg fjár- og kúasmala-maður. Um sumarið fór áðurgreind stúlka Guðfinna optsinnis með mér. Í nokkrum afkima af smalaumferðarveginum í einum jarðbrúa holpytta læk höfðum við heyrt getið þar um útburð; til að skoða hann gerum við okkur ferð einn morgun, þá sækja áttum málnytuna, rákum hana fram á leið, en tvímentum rauðum hesti, traustagrip, og fórum af hestbaki að gægjast undir hverja jarðbrú. Svo kemur, að við þykjumst sjá eitthvað svart rifrildi. Með það sama kom svo skelfilegt hljóð og ámátlegt, að við kippunstum við, hesturinn fælist og fleygir okkur af sér á einn melhól. Þar liggjum við í roti svo langan tíma, þar til sent var að leita eptir okkur og komið var fram úr öllum dagverðarmálum; fundust við þá ráfandi, þó hvort frá öðru, storkin í blóði. Fáa leiðir gott af forvitninni, og sannaðist það hér. Lof sé guði, sem nú

hlífði, að Satan fékk ei meira gert oss til skaða. Þó höfðum við vit á því að segja ei af forvitni okkar, að ei fengjum fleinging þar ofan á. Annað sinn var eg að forvitnast um klett fyrir ofan bæinn við ána, er þar rennur. Áttu ókindur í honum að búa, og var okkur bannað þangað að fara. Datt eg þá ofan í ána og flaut svo fram eptir. Móðir mín var að þvo ull neðar í henni. Hagaði guðs forsjón því svo til, að mig rak þar að landi, er hún var fyrir; annars hefði eg lífi tapað. Hún gr(e)ip mig upp, hljóp með mig heim að bæ, svipti af mér vosbúðinni og strýkti mig milli hæls og hnakka. Mátti það vel svo vera, þó þá fyndist þungbært. Fleira fer eg nú ei með. Snemma fékk eg lyst til að tóna og prédika sem prestur, eður, réttara að segja, eptir því, sem eg heyrði prest minn fara að því. Þótti mér því betur fara sem betur tók undir. Útvaldi því eitt stórt ker í búrinu til þess og passaði mig þangað, þá móðir mín fór að skamta fólkinu. Þótti mér því betur fara sem meira skamtaðist úr því, að glaumurinn yrði meiri. Klifraðist eg upp á gjarðirnar, svo tónað gæti ofan í það, en stúlkan klifraðist hinumegin að taka undir. Soddan embættisgerðir leiddust móður minni; var og hrædd, við mundum steypa okkur á höfuðið ofan í kerið, og vorum því bæði strýkt við það. Þar eptir gerði eg mér kirkjur og kapellur við vissar þúfur út um tún, og framflutti þar að óskum mínar tíðagerðir með stærri makindum. Þegar eg var sem barn, gerði eg sem barn og talaði sem barn etc.

Minn ungdómsbrest og afbrot leið
álít ei, herra kæri.

Árið 1737 var mikið vorgott, svo faðir minn rak fé sitt, sem var hér um hálft annað hundrað, frá hagahúsinu í áminst Tungufjall. Það gerðu og fleiri annarsstaðar og töpuðu þar við, því eptir sumarmálin kom sterkasti fjúkbylur, sem drap og hrakti til dauðs í ána, er þar var nálægt, alt féð, fyrir utan 40 kindur, er tveir forustusauðir héldu með til hagahússins. Eptir þennan felli tók faðir minn sótt og

andaðist á síns 37da aldurs ári. Vorum við nú börn hans eptir 4 á lífi, og eitt í móðurlífi. Eg elztur, 10 vetra, Þorsteinn 6 vetra, Pálmi 3 vetra, Helga 2 vetra. Hans hægur og sáluhjálplegur viðskilnaður skeði á trinitatishátíðar morgun[1]). Er mér sá hátíðisdagur ætíð þaðan í frá minnisstæður. Hann var fram eptir nóttinni að mæla fram mörg vers úr Passíusálmum; við það sofnaði eg í rúmi, sem var fyrir framan sængurhúsdyrnar. Þar lá fjósadreingur á móts við mig, sem hét Ásmundur Einarsson. Hann vakti mig upp með þessum orðum: »Vaknaðu, Jón; faðir þinn er dauður. Guði sé lof, nú má eg lifa og láta sem eg vil«. Svo ílt var í dreing þessum. Eg vaknaði, sá og heyrði móður mína grátandi sitja yfir líkinu, og bræður mína þar á móti í rúmi. Eg fór á fætur, lét ei neitt á mér bera, en hafði þó nóg, fór út og í afvikið pláss og grét mig þar þreyttan. En svo fékk eg nýjan styrk, svo aumur sem eg var, að þaðan í frá fanst mér sem þetta ekkert væri. Má vera það megi álítast fyrir bernsku og ungdómsæði. Útför föður míns sæla var gerð í heiðarlegan máta. Síra Björn prédikaði, sem von var, yfir honum. Þar var og við prófasturinn síra Sæmundur Magnússon, sem átti föðurbróðurdóttur hans, og fleiri náungar. Hann var jarðlagður sunnanmeginn við kirkjudyr á Flugumýri hjá moldum foreldra hans, föðurbróður og sonar hans. Lof sé guði fyrir hans frelsi og allra sinna barna, sem yfirunnið hafa fyrir lambsins blóð.

## KAP. VI.

Hér eptir var af sýslumanninum sterbúið skrifað upp, og næstu náungar til kallaðir; sást nú fyrir, að vegna fellisins, sem á kom, að við börnin feingum ei fult umboð hvert um sig. Vildu nú sumir af þeim taka okkur með uppgangseyri. Ráðgjafar feingust nógir, en misjafnt heilráðir, sem ekkjur mega tíðum við varar verða. Móðir mín hlýddi á allra þeirra

---

1) Þ. e. 16. Júní (1737).

ráð, en tók af að fallast á þau ráð, er sýslumaður sjálfur, fóveti Skúli, ráðlegði henni. Hann reyndist henni og okkur þá og endrarnær sá bezti og ráðhollasti í öllum greinum. Varð það af, að búið skyldi ófargað standa næsta ár, og við vera hjá henni. Hún var og ólétt, og vissi guð einn, hverninn um hennar hagi mundi falla. En það fór alt dásamlega. Hún fæddi um veturnæturnar sveinbarn, er nefndist Steingrímur; lifði hann í 11 ár, þá guð hvíldi hann, hjá föðurbróður sínum, er Jón hét, sem hann tók og umboð hans, er fult varð með því móti, sem okkar systkinanna, að föðurbróðir minn, sem Böðvar hét, andaðist barnlaus; gaf síra Sigurður föðurbróðir minn okkur sinn erfðadeil eptir hann; tók svo sýslumaðurinn umboð Þorsteins bróður míns, og svaraði því út aptur á réttum tíma með heiður og sæmd.

Vík eg nú nokkuð til baka, að eptir fráfall föður míns vantaði móður mína fyrirvinnu. Var henni útvegaður einn lausamaður, sem hét Þorkell Ólafsson. Fyrir var vinnumaður, sem hét Ísleifur Lafranzson, — ei svo slæmur vinnumaður sem brigðlyndur, — og áður áminstur dreingur. Faðir minn safnaði moldóttum eða mönóttum hestum, að hann átti undir sitt fráfall 14 klyfbæra hesta með þeim lit. Þá fór nú dreingurinn (hann var ættaður úr Svarfaðardal) að taka til skiptis og þeysa þeim ýmsar lystireisur með fleira; varð því að reka hann í burt. Eitt sinn hafði eg áður hleypt honum úr möskva, því hann var mér aldrei slæmur. Hann tók orf og ljá föður míns, að honum fjarlægum, ætlaði að fara (að) slá, rak ljáinn í þúfu og braut hann, en bað mig ei til leggja, hvað eg ei heldur gerði, og var (eg) þess vegna hirtur sem réttilega sekur. Síðar sá eg hann á Alþingi, og þá kom eg honum til liðs, en á hann minnist eg ei framar. Guð varðveiti hann! Nú kom upp á mig öll vörn og smalamenska. Þá farið var að slá, vildi fyrirvinnunni og vinnumanninum litið á ganga; varð því móðir mín að taka sér kaupamann, sem hét Sveinn Magnússon, er giptist Guðlaugu dóttur Eiríks á Flögu. Hann var og hjá henni nokkur ár þar eptir. Enn þá

fleiri þjónuðu að heyskap móður minnar það ár, og varð hann þó að endalykt ei meiri en faðir minn sló og heyjaði með annan mann. Einginn er öðrum sjálfur. Fyrirvinnan var svo tærilátur, að á einginu, sem mestalt var vott með þýfi, tyldraði hann sér svo á þúfunum, að hann vætti sig ei í fæturnar[1]) um sumarið, enda úthlutaði sýslumaðurinn honum slétt fyrir vinnukaupið að síðustunni. Hann fékk hjá honum það þakklæti, sem hann vann til. Fleiri lausamenn finnast með sama marki brendir. Eitt sinn, er eg færði þeim mat á eingið, þá sváfu fyrirvinnan og vinnumaðurinn, — en Sveinn var að slá, — en höfðu sett peysur sínar á orfin, að sýnast skyldi af fólki þar í kring, þeir væru að slá. Eg gat þá ei orða bundizt og sagði: »Fyrirgefi guð ykkur, að þið eruð að svíkja hana móður mína«. Þeir stökkva upp reiðir. Ísleifur segir: »Kenna skal eg þér að finna að við okkur og færa fréttir móður þinni«, (hvað hann skrökvaði, því við börnin vorum svo vanin, að ef við vildum fara með nokkrar fréttir eður sögur um hjú eður aðra, vorum við jafnskjótt strýkt, sem er eitt ágætt dæmi). Hann þrífur mig svo og kastar mér í vatnsstokk, er þar var nærri. Sveinn sálugi hleypur að honum, og segir: »Hvaða etc. skelmir ert þú, að gera föðurlausu barni ílt«, tekur hann sjálfan og kastar honum út í sama stokkinn, en tekur mig upp úr, þar eg var að kafa. Svo bágt eiga munaðarleysingjar á stundum. Aldrei sagði eg móður minni frá þessu. Hann var hjá móður minni tvö ár þar eptir, giptist út í Fljót og komst þar í armóð. Þá kom hann, er eg var í skóla kominn, til mín og tjáði mér bágindi sín; las eg honum þá fyrst fyrir, hverninn hann hefði í þessu og öðru með mig farið; og þá hann fór að játa sig um það alt með auðmýkt af neyðinni, kendi eg í brjósti um hann og gaf honum hest og síðar færleik með trippi. Vel gat eg þá látið hann taka út á sér gamla væring. En guði sé lof, að hann aptraði mér, sem ætíð, að hafa heiptrækið hjarta til að gjalda illu ílt, heldur hefir hann gefið mér sinni, efni og tækifæri að gera mínum mótstöðu-

1) Svo.

mönnum gott, en þolinmæði og stöðugleika að líða, hafi það verið mér meiri háttar menn á stundum. Hefir hann sjálfur svo séð þann órétt, sem eg hefi liðið, að mér hefir orðið hann fyrir beztu. Þegar svo var aumkvunarlega ástatt fyrir okkur, lagðist móður minni til föðursysturbróðir minn, Ólafur Jónsson frá Framnesi. Hann var þá 17 vetra, en þó vel frískur og forstandugur. Framnes er næsti bær við Þverá að norðan. Kom eg opt þangað til minnar föðursystur, sem Ingibjörg hét, staklega guðhrædd kona. Hún var margfróð. Hún kunni alla Vísnabókina[1]) og mart annað gott. Hún var stórlynd og hreinlynd, en svo góðgerðasöm, að hún optsinnis leið skort þar fyrir. Miklar mætur hafði hún á mér, af því eg bar svo nett föðurnafn hennar, er aungvum auðnaðist upp að koma, og eg var svo næmur á bók. Var eg opt hjá henni til inndælis. Þetta ár, sem móðir mín var ekkja á Þverá, var mikið vorhart, svo margir mistu fé sitt í hor, en hún ekkert af því eptirlifði. Það gleymdist mér um áður áminstan sumarmálabyl, þá faðir minn tapaði fé sínu, að í honum fórust margir menn á norðurheiðum, er úti urðu. Sjófuglar drifu upp úr hafinu og frá Drangey af ofviðrinu fram um allan Skagafjörð. Strandrekið meir en frá mátti segja með sjávarströndinni. Einginn vissi þá, að slíkt hefði við borið og ei hefir það síðan skeð til þessa tíma. Þanninn geldur skepnan mannsins, honum þó til endurvitkunar.

## KAP. VII.

Næsti bær við Þverá að sunnanverðu er Yztagrund, framar og nær Héraðsvötnunum. Bær þar fyrir ofan heita Frostastaðir. Þar bjó þá lögréttumaður Þorgrímur Þorgrímsson, nefndur í stað Jóns Steingrímssonar afa míns, velmaktar maður. Einn hans sonur var þá í skóla, er Sigfús hét. Næsti bær við Frostastaði er Hjaltastaðir. Þar bjó presturinn

1) Hólum 1612.

síra Björn Skúlason. Hann átti móðurafasystur mína, Haldóru Stefánsdóttur, eitt hið mesta kvenval. Tveir þeirra synir fóru í skóla, síra Jón, er varð prestur á Auðkúlu, og Stefán, sem varð síðar skólameistari, og nú er við stjörnulist og landmælingar í Kaupinhafn.

Að Yztugrund flutti móðir mín sig svo næsta ár. Þá deyði herra Steinn[1]), en hústrú Valgerður fór að Viðvík til Mr. Einars Jónssonar, sem átti dóttur hennar, Helgu Steinsdóttur, svo nú varð taptslok[2]) um heit þeirra. Nú fór eg fyrir alvöru að læra minn kristindóm, Magister Jóns Árnasonar spurningar[3]). Átti nú móðir mín mikið bágt, eins og margir aðrir, um þau ár. Þó stilti hún svo til, að aldrei skyldi hún smjörlaus verða, þó annað undan geingi. Varð eg nú feginn að þiggja máltíð annarsstaðar. Þó fór eg hvergi til þess, sízt að Frostastöðum, — þó þar væri nóg efni, — af ábeitar ríg og kriti, sem þar var í nágrenninu. Gerði eg mér það tiðum til erindis að Hjaltastöðum að láta hlýða mér yfir, en kona prests og afasystir mín vissi máske annað, sem undir bjó, og lét mig aldrei ósaddan frá sér fara; framar gat hún ekki. Kom mér nú fyrst í hug, að gæfi guð mér einhvern tíma þau efni, að gæti eg gefið matlystugum manni næring, skyldi eg minnast þessa. Mér gekk vel að læra, svo eg var tekinn til sakramentis 10 vetra. Vandaði presturinn það verk vel, sem hvað annað. Nokkur þau orð hafði hann við mig í skriptamálunum, sem mér geingu svo í merg og bein, að eg hefi ei getað gleymt þeim, sem voru þessi: »Þú skalt nú héðan í frá bevísa þig að vera sannan Jesu Christi lærisvein og eftirfylgjara. Það er þér víst, ef þú vilt guðlega lifa, svo sem þú gera skalt, muntu ofsóknum mæta«. Þessi blessuð guðs anda orð og beztu heilræði hagnýtti Satan sér að leggja öðruvísi út í þaunkum og hjarta mínu, nefnilega, eg mundi hertakast og verða einhver píslarvottur etc. Hafði

---

1) Þ. e. 1739.

2) Svo.

3) Þ. e. hinar svo nefndu »Drottningarspurningar«. Þær komu fyrst út 1722, og opt síðan.

áðurgreind afasystir mín sagt mér margar frásagnir þær, bæði af Vestmannaeyjaráni og öðru fleira. Mig tók nú að dreyma og nokkur ár þar eptir, að eg væri að stríða við Tyrkja, ætíð í kirkjugörðum, flestum ókendum, einum eptir annan. Þóttist eg fá af þeim mikil högg og sár, og rétt í dauðann komast. Loksins komst þetta svo vítt, að eg bar það ei af, og sagði hér frá presti mínum og spurði hann að (í fávizkunni), hvort hann hefði fyrirséð þetta á mér. Féll hann fyrst í stanz og sagði síðan: »Djöfullinn er farinn að freista þín og skelfa; með betri hlut en þú nærri getur er guð að benda þér, og stunda þú að lifa sem bezt. Þetta er ráðningin: Þú átt að verða prestur og meiri en eg, þar þér þótti kirkjugarðarnir margir vera, en munt eiga að berjast við einhverja bal(l)stýruga menn«. Mikið deyfðist innkominn ótti við hughreystingar hans, en fyrirsögn hans gat eg ekki fyrir mig komið, þar eingin líkindi voru til þess, það yrði. Á þessum aldri forsómaði Satan sig ekkert að koma mér til ýmsra synda og lasta eptir sem (eg) sá og heyrði, að aðrir léku sér að og náttúran var hneigð til. En sá alvísi góði guð hagaði því svo til, að mér varð það ei til skaða, heldur til hins bezta. Af ótal dæmum framfæri eg eitt, sem er þetta: Móðir mín lét mig ætíð til kirkju fara, hvenær sem embættað var; átti eg að segja presti úr messunni, er mér hægt veitti, því eg kunni mikið af guðspjöllunum og margar historíur úr Nýja Testamentinu. Eitt sinn, sem var annan dag páska, blæs Satan mér inn, að eg skuli heima vera og hafa góða daga í órum, ærslum og spilamensku með heimaskríl eptir lesturinn, skrökvaði því að móður minni, að eg veikur væri og gæti nú ei farið til kirkjunnar. Hún trúði þessu og fór sinn veg, en eg las með skyndi, og svo var tekið til allra lystugheita, sem upp fundið og við komið varð, svo eg ásetti mér að bragða þetta optar. Móðir mín kom heim frá kirkjunni, eg tók reiðhest hennar, spretti af, reið honum berbökuðum, til að vatna honum, á sléttu og þýðu túni; hann var fýrugur, svo eg kreisti fæturnar að bógunum til

þess að halda mér á baki. Að vörmu spori dettur hann, en bógurinn að aptanverðu, þar eg krepti fótinn að, brýtur hann[1]) öldungis í sundur; það var sá vinstri. Þar lá eg fótlama og var þaðan í brekani heim borinn. Batskeri[2]) var sóttur að setja fótinn í stand og láta við hann hundsmör og spelkur. Tók eg svo mikið út, að eg neytti ei, að eg sagt gæti, svefns eður matar í 6 dægur. Þær Satans árásir, sem eg leið þann legutíma, veit guð. Hann miskunni mér! Fótleggurinn settist vel saman, svo eg komst fyrst á fætur, þó við staf, á uppstigningardag. Þessi verðuga, en þó vægðarsamlega, bending guðs, varð mér að þreföldu góðu; fyrst þjenaði hún mér að þekkja synd mína, að forsóma ei guðs hús og hans heilaga orðs kenningar, hvað eg hefi mér síðan látið sagt vera, svo sem hann sjálfur veit; þar næst lærði eg með viðgerðinni við mig að koma öðrum til liðs, er soddan slys hafa reynt og til mín hafa getað leitað; í þriðja lagi fríaði það mig frá vissum hættusömum viðgerningum, er skólapiltar í þann tíð brúkuðu við þá, sem nýir komu til þeirra.

Eitt sinn tókum við fyrir okkur allir, bræðurnir þrír, á einum hesti að hleypa á sund í einum vatnsstokk, — við heyrðum aðra hæla sér svo mjög af þeirri list, — flutum allir af hestinum, en hverninn við komunst til lands, veit guð. En af því að sá yngsti hafði þá ei vit á að þegja, sem og betur fór, vorum við allir vel hirtir. Í annað sinn var eg einsamall af mönnum til að verja eingi, datt hesturinn, sem eg reið, óforvarandi á sund; eg reið á lausum þófa; flaut eg langan veg, sem eg vissi ekkert til mín, þar til mig bar að landi í eitt sandvik; þar stóð eg á fótunum og hélt á þófanum. Mikið hafði ofan í mig farið af vatni, munnurinn og vitin full með sand. Hér mátti eg, sem optar, á þreifa, að guð vildi unna mér leingra lífs. Aldrei fæ eg í þessu lífi útgrundað hans almætti, gæzku og miskunnsemi yfir mér óverðugum.

---

1) Þ. e. fótinn.
2) Svo = bartskeri, barðskeri = læknir.

## KAP. VIII.

Hvað mínum frekari lærdómssökum viðvíkur, byrjuðust þær með mikið lítilfjörlegum hætti og eymdardóm. Þá áðurnefndur Ólafur frændi minn var orðinn fyrirvinna, sló hann sér fram fyrir alt, sem von var, og vildi eg gætti einskis annars en að vera pligtugur undir sig. Hann var allur upp á bústang, en lítið upp á bóklegar listir, — en eg var þar hneigður til, hvað hann gat ekki liðið. En eg tók þá í mig kergju, og hlýddi honum sem minst eg gat við komið, en Þorsteinn bróðir minn átti betur við hans geð. Eg fékk mér að blek og penna og fór að bera mig að skrifa. Hann ónýtti þetta alt fyrir mér sem (hann) gat, og sagði, (því hann vissi ei betur), að aldrei gæti þetta þjent mér til lífsbjargar, og svo framvegis. Eg bað móður mína í laumi að koma mér í burtu, svo eg lærði vel að lesa og skrifa, — eg hefði soddan laungun til þess. Hún hlýddist á þetta, og eptir áður umtöluðu sendi hún með mig á Góu til frænda míns síra Jóns Magnússonar, er þá var kapellan hjá föður sínum, síra Magnúsi á Mælifelli, og var með mér gefið gott 10 aura virði; átti eg að vera til krossmessu, og svo við bætast meðgjöfina. Kona hans hét Steinunn, dóttir síra Jóns Þorvaldssonar á Miklabæ, systir Einars í Viðvík. Bræður[1]) átti hún tvo, Þorvald og Sigfús, sem báðir voru þá í skóla. Sá fyrri varð eptir það bóndi á Blikalóni, hinn bókhaldari í Reykjavík. Eitt barn áttu þau, sem Magnús hét, — mikið veikur; hann varð ei heldur gamall. Þá bjuggu þau á Starastöðum í Tungusveit. Nær eg þangað kom, vildi hún varla sjá mig né heyra; þó varð það af fyrir stóra lempni prestsins. Svo fór hann að segja mér til að lesa í *Summariu* herra Guðbrands. Var það ei nema litla stund úr dögum, því prestur varð sjálfur að ganga til fjár, og var skjaldan[2]) heima við. Þá voru nýprentaðir Upprisusálmar[3]). Tók hún fyrir sig að læra þá. Varð

1) *Rétt:* bræðrunga.
2) Svo.
3) Þeir voru prentaðir á Hólum 1740.

það af öllum bóklestri mínum: að sitja fyrir framan hana og minna hana á þá, þar til hún hafði þá útlært, — hafði eg það gott af þessu, eg lærði þá undir eins, — þar fyrir utan sitja undir og glingra við litla son þeirra, sem mér þyngst veitti, því hann var svo veikur, en hún vildi ei auðveldlega missa hann, ef guð hefði svo viljað. Þjónustustúlkan, er passa átti upp á föt mín og aðra rægslu[1]), var í raun og sannleika það mesta óbermi; en á þeim aldri var eg lúsugur, að eg þurfti umhirðingu. Fór svo, að eg fékk rétt geitur í höfuðið; vargurinn át sig þar inn í hörundið, sérdeilis hnakkann. Þar hafði eg það allra mesta *óyndi*, svo *síðan* get eg hverjum einum vorkent það. Svo vildi til, einn maður kom þar, náungi móður minnar. Hann sá, hverninn eg var orðinn á mig kominn, og gerir strax orðsending móður minni að sækja mig, hvað hún að vörmu spori gerði. Það veit guð, hvað feginn eg varð þeirri stundu. Illa lagðist presti út soddan meðferð, er honum var þó ei að kenna. Hann gat ei við ráðið. Hann var mér ætíð ættrækinn og góður fyrr og síðar. Þar til mundi eg leingi, þá móðir mín var grátandi að hreinsa upp höfuð mitt, en ei beið leingi, eg komst í gott stand með þetta aptur. Var hún úr þanka að reyna til við mig framar, allra sízt að koma mér þangað aptur, né tala um þetta. En Ingibjörg föðursystir mín tekur sig upp um sumarið, fer til prests og mun hafa sagt honum hreinan sannleika. En svo samdist þeirra á milli, að eg skyldi fara til hans aptur með Góunni næsta ár. Flutti hann sig þá að Mælifelli, því faðir hans andaðist þá í millitíð[2]). Þó eg myndi til hins fyrra, dró mig lystin til að læra, að taka þetta af og fara þangað. Fór nú alt betur, mér var tilsett góð þjónusta, nú var eg settur undir skrif, og lagði hann alla alvörugefni á, að eg skyldi setta- og fljótaskript sem bezt læra; skrifaði eg á þeim fresti langar vikubænir í sett letur, en Orðskviðaklasa[3]) og Klasbarða[3])

1) Svo.
2) Talið er, að síra Magnús dæi 1738.
3) Kvæði frá 17. öld.

í fljótaskript. Kom honum nú í hug, er hann sá eg gat sjálfur þaðan í frá tekið mér fram um skriptina og lesið hana sæmilega, að vita til, hvort eg gæti ei latínu lært. Fyrst, hvað eg næmur væri, reyndi hann á þeim fyrsta Passíusálmi, er hann setti mér fyrir að læra, meðan hann geingi þar í fjárhús skamt frá, og lofaði mér vissum hlut, er hann enti, því eg var vel búinn, þá hann aptur kom. Þetta var þann vetur, sem biskup Harboe var hér fyrst í landi[1]), og kom með honum skólaforordningin, hvar í var fyrirskipaður langt um meiri lærdómur í skólunum, en áður hafði verið. Fyrir páskana komu að Mælifelli þrír skólapiltar, sem voru þar fram yfir þá. Það voru áðurnefndir tveir bræður[2]) hennar og Skapti frændi hans, er prestur varð á Hofi í Vopnafirði[3]). Nú var prestur farinn að láta mig læra nokkrar glósur og borðsálmana í latínu. Voru nú þessir teknir í ráð, hvort eg væri hæfur til skólalærdóms eður ekki. En þeir töldu þar á mikinn örðugleika. Eg væri ei vel talandi, tornæmur að læra svo mikið etc. Sérdeilis voru á þeirri grein bræður hennar, sem ætluðu, eins og fleiri í þann tíð, að gefa frá sér lærdóminn, hvað þeir og gerðu. Var þá systur þeirra lítið umgefið, að eg, auminginn, frændi hans, kæmist upp til manns, fyrst það vildi ei lukkast með bræður hennar. Soddan brest var að finna hjá henni, sem þó var mikið guðhrædd og siðavönd. Varð það svo af, að prestur gaf aldeilis tapt með mig, tók mig með sér fyrir lestadreing út á Skaga að sækja þangað trjávið, og kendi mér nú vel þá lestamensku, og svo síðar meir, því alt hið bezta vildi hann mér; fór svo með mig sjálfur til móður minnar, lagði niður fyrir henni allar sakirnar, og svo systir[4]) Ingibjörgu. Móðir mín og hún elskuðust með falslausum kærleika, og komu opt hvor til annarar, stundum af lystisemi, stundum, þá eitthvað amaði að, — svo alt skildist nú í góðum kærleika. En eg sló mér til að lesa sögur og rímur,

1) Þ. e. 1741—1742.
2) Svo.
3) Síra Skapti Árnason (d. 1782).
4) Svo.

og fá það að. Nú giptist Ólafur frá móður minni, og átti Kristínu dóttur síra Björns á Hjaltastöðum, og fór að búa á Uppsölum hjá Silfrastöðum. Sneyddist nú um aptur í heimilinu. Hver rakar eld að sinni köku, og er það ei tiltökuvert. Hann kól ekkert af mér, hvorki fyrr né síðar, enda var hann mér manna beztur þar eptir, þá til menningar komst. Svo tók móðir mín karl sextugan, er hét Guðmundur Þórðarson, stuttur og digur, — auknefndur móri af hnexli[1]), af því hann var ofur móleitur, — geðgóður, erfiðissamur og drickekarl; féll okkur vel við hann. Hann átti kerlingu öfuglynda, og vegna hennar varð karl þessi að fara frá okkur aptur. Hann var svo frískur á þeim aldri, að eitt sinn um dag risti hann 80 reiðinga og skar nærstreingina og álagsdýnurnar upp á 60; brúkaði hann mig að hjálpa sér nokkuð til, og var þessi reiðingur bunkaður í tvo háa kesti; var hann svo ólúinn síðan, að hann lék við fót sinn, og, — með leyfi að segja, — pissaði yfir annan bunkann, hló að og sagði: »Svo er sextugi karlinn frískur enn«. Svo var hann hlátursverður í fleiru.

Nú kom upp á mig aptur fjár umhirðingin, og fór eg að brúka siði föður míns, og var mér það inndæl iðja. Sömuleiðis tók eg mér fram um slátt, að ei þurfti að sjá mikið á bak annara, læra að deingja og smíða mér orf og önnur verkfæri. Lærði mig nú og mentaði þar til í bezta máta faðir jafnöldru minnar, hver eð þar með smíðaði fyrir móður mína, en fiskur lá undir steini meðfram með þetta, er eg enn ekki sá. Gamall karl fór þar um, er hélt við búhokur á Höfðabúð í Sléttuhlíð. Hann sló sér til matar, og fékk svo hýrgun til hingað og þangað í firðinum á sumrum, þá hann var búinn að slá upp kot sitt. Hann hét Guðmundur, bróðir Jóns Ólafssonar, er átti Ingibjörgu föðursystur mína. Voru þeir bræður aldrei lyndislíkir. Hann var faðir síra Friðriks á Borg í Borgarfirði[2]). Hann hafði verið í skóla

---

1) Svo.
2) D. 1812.

og síðan djákni, og gaf svo alt frá sér, mest af undarlegheitum. Eitt til dæmis er það: kona hans drukknaði í lendingu fyrir framan kot þeirra, er hún hafði með öðrum farið fram í Málmey. Hann gekk þar að, er hún látin lá, og sagði: »Opt er lítil stund til góðs, enda er hún til móðs. Hvað vildir þú fara þessa ferð? Illa fórst þú, og ógæfusamlega tókst þér nú ferð þessi hjá því sem vant var«. Leingra skal ei fram fara í þetta gaman. Hann kom til móður minnar. Hún tók hann nokkra stund, mikið fyrir mína bón, af því hann var svo fróður. Þá að var sezt á kvöldin gaf eg honum tóbak að kveikja í pípu sinni, og bað hann aptur að segja mér sögur, — sem aldrei þrutu, — svo og úr skóla, og hverninn latína væri hneigð, sem hann sagði mér. Rómverska historíu eina, (sem finst í *Svetonio)*, sagði hann mér, hverrar inntak var þetta: Jörðin sprakk þar eitt sinn sundur; úr þeirri gjá kom þvílík pest, að fjöldi fólks dó. Goðafréttin var að spurð um ráð og bót hér við, er svaraði, ef nokkur maður væri svo frígeðjaður, að hann fleygði sér í gjána, þá frelsaðist föðurlandið. Að þessu heyrðu, gaf sig einn til, er *Curtius* hét, sem með stærstu viðhöfn fór á hest og hleypti í gjána, drap sig og frelsaði föðurlandið. Hér um tala eg ei né frá segi meira fyrst um sinn.

## KAP. IX.

Þá var eg 11 vetra, er eg sá danska þjóð[1]). Var eg þá látinn fara í kaupstað að reka þangað sauði með öðrum í Hofsós. Þar var þá fyrir sá kaupmaður, sem hét Sören Pétursson og hans son, Pétur Holm, var þar eptir undirkaupmaður á Eyrarbakka. Hann var kaupmaður hér við land hér um 50 ár, og kom sér ætíð vel; var þó ei í sinni höndlun fyrir utan synd; þó svo siðferðisgóður, að hann lét lesa kvöld og morna guðs orð í kamersi sínu. Nú stóðst svo á, var töf í

1) Þ. e. 1739.

kaupstaðnum, var um helgi og lágum við tjöld. Hann sendir þangað og gerir boð, þeir skuli, sem þar séu og vilji, koma til lesturs síns inn í búð. Menn gera það, og fer eg með. Hann les sjálfur mikið seint og guðrækilega. Að því enduðu geingur hann fram fyrir oss og spyr alla, hvað þeir muni nú sér til sáluhjálpar úr lestri sínum. Á soddan áttu menn ei von, og varð því, æ, því miður, ekkert fyrir. Þeir einir áttu og í hlut í það sinn. Síðast spyr hann mig, og segir mikið blíðlega: »Þú, minn litli son, kantu segja mér nokkuð?« Eg var til reiðu af vananum, og segi: »Legg ekki þína hönd á dreinginn«. Hann fann að þessi eingils orð komu fyrir í lestrinum, og fer að spyrja mig framar, en eg leysti úr, sem þá hafði vit til, svo nú fór karlinn að gráta og biðja fyrir mér, en áminna hina um gáleysi sitt, og segir þeim, þeir skuli ætíð muna nokkuð úr guðs orði, og segir: »Þar sjáið þið þann dreing, sem verða ætlar meiri maður en þið«, og biður af öllu hjarta fyrir mér, gefur mér pening, og segir: »Kaup þér þar fyrir bók og fullan hattinn minn með brauð,« — en þeim svo mikið öl, sem drekka vildu, en ei annað. Hvar finst nú þvílíkt dæmi á þessum tímum, á hverjum lærdómurinn á að vera (að) aukast og blómgast, en manndygðir og siðir að lærast í hæsta máta? En því meira hnignar því, er sízt skyldi.

Þar næst sá eg Ludvig Harboe, þá hann var af kongi Kristjáni 6. sendur að visitera hér landið; las eg þá á Flugumýri með öðrum börnum fyrir honum. Með honum var túlkur og notarius Jón Thorkelsson, sem áður hafði verið skólameistari í Skálholti, og síðar, við sinn afgang, testamenteraði alt sitt góz fátækum börnum í Gullbringusýslu að læra að lesa og skrifa[1]). Af hræðslu og óvana gátu börn varla leyst úr fyrir honum, en guð gaf það, að mér tókst ei svo illa upp, svo eg var sérdeilis nóteraður upp hjá hon-

---

1) Sjá um þá Harboe og Jón *Æfisögu Jóns Þorkelssonar Skálholtsrektors*, útgefna á kostnað Thorkilliisjóðsins, I—II. Reykjavík 1910.

um. Jón hét föðurbróðir minn. Hann bjó þá á Þverá. Hann fór um jólin að Hólum sinna erinda, fann hérgreindan Jón Thorkelsson, telur sig í ætt við hann, hvar við hann kannaðist. Hann spyr hann að, hvort þar sé einginn í ættinni, sem geti lært í skóla. Hinn neitar því, nema ef eg sé, og sé þó búið að reyna það; segir þó, eg sé hann, sem þeim hafi líkað bezt við á Flugumýri. Hann gætir að, og finnur það er satt. Þarf það ei að orðleingja. Hann segir honum um morguninn eptir, að biskup Harboe segi, hann og móðir mín skuli koma með mig heim til stólsins á páskum, og skuli meðfylgja prestsattest um náttúrufar mitt, framferði, lærdóm og aldur. Nær þessi tíðindi berast, er í ýmsum áttum gert að þeim spott og athlátur, rangfærð orð og frásagnir karlsins á marga vegu, setið við eyru á presti, eg sé fullur af grillum, standi og slími þar og þar út um hagana. Mér er kvöl að minnast á allan þann elg. Helzt átti Frostastaða- og Brekknafólk þátt í þessu. Sigfús sonur Þorgríms, sem nú var einn búinn að gefa frá sér skólaveruna, gerir sér ferð til mín, og það optar en einu sinni, útmálar fyrir mér skólann sem það argasta fangelsishús, piltana að því skapi, lærdóminn sem stundlega kvöl, svo nú varð eg tvílráður, hvað af skyldi taka. En móðir mín, sem betur þekti þá heimsins öfundsýki en eg, sagði eg skyldi sem minst festa trú á þetta og láta eins og eg heyrði ei né sæi, hvað sem á geingi. Hún fór til prests síns, síra Björns Skúlasonar, bað hann um vitnisburð minn skriflegan, er svo var látandi, eg hefði sér og henni verið hlýðinn og mundi vera temmilega næmur. Um fleira mun hann ei hafa vogað að vitna, vegna þess sem búið var að útflæma mig í hans eyru. Nú fer velnefndur föðurbróðir minn Jón og móðir mín með mig hér eptir heim á biskupsstólinn, — var það á 4. í páskum árið 1744, — á fund við herra biskup Harboe. Tók hann móður minni sérlega vel; lætur hann herra Jón Thorkelsson spyrja mig á alla vegu út úr Mag. Jóns Árnasonar spurningum, er yfir stóð meir en eyktartíma, og varð það að leikslokum, að

þeir ályktuðu mig hæfan að takast í skólann. Hann lét kalla skólahaldarann eða *oeconomum* fyrir sig, (er þá var núverandi fóveti Skúli Magnússon), og segir honum, eg sé hæfur að takast í skóla, en sé svo fátækur og kunni ei gefa með mér, og það sannar herra Skúli satt að vera, en afsegir eg inntakist án meðgjafar. Svo brást nú krosstré sem önnur tré. Tók þá velnefndur herra Jón Thorkelsson svo tali hans: »Þó þér viljið nú ei ærlegheit sýna, sem forsvar þessarar ekkju, við þennan stakkels dreing, er eg hefi heyrt, að sé ættingi yðar, svo skal það ei í vegi standa. Þér skuluð hafa meðgjöf hans frá þessum degi til næstkomandi Jónsmessu«, — þá stóð skólinn svo leingi, — og taldi honum þar strax út peningana, hvar við sjálfur herra biskup Harboe og nokkru bætti, og þar með var eg tiltekinn tíma í skólann inntekinn. Það sama sumar fór háttnefndur herra biskup alfarinn þaðan í Skálholtsstiptið, en áður hann fór, dimitteraði hann nokkra pilta úr skólanum, og fór að regla niður aptur, hverir á ölmusuna takast skyldi eptirleiðis. Voru þar allmargir umbiðjandi, eins og vant er, en ei losnuðu nema fjórar ölmusur. Kemst nú stólshaldarinn í það viðtal og ráðslag. Er eg nú fyrst fyrir tekinn, þar eg hafði þennan litla tíma bæði vel hagað mér og mikið lært. Annað varð enn ei svo vel markað. Stólshaldarinn verður enn móti mér og segir, mér sé þarfara að læra lands- og bóndavinnu og hafa fyrir móður minni en leggjast í örbeit með þennan lærdóm upp á það óvissasta útfall, og svo framvegis. Í fljótu áliti mátti þetta illmenska hans sýnast, og nokkur(s)konar öfundsýki, en það gat eg til vits og ára kominn aldrei svo útlagt. Hann vildi móður minni og mér það bezta og ætlaði eg mundi ei afkomast; var og að koma á ölmusuna systursyni sínum, Magnúsi Ketilssyni, er þó heppnaðist ei i það sinn. Annars er það ljóst, að honum hefir verið ætíð lítið umgefið um skólalærdóma. En hverninn sem þessu var háttað, vildi guðs forsjón haga því svo til, að sér skyldi verða þetta til dýrðar, en mér föður- og forsvarslaus-

um aumingja til upphefðar, hvar til hann sendti[1]) mér nú hjálp úr framandi landi, því þessu og þvílíku tali og mótmælum stólshaldarans svaraði herra biskupinn þessum orðum: »Hann skal (nefnilega: eg) í guðs og kongsins nafni njóta einnar ölmusu í skólanum næstkomandi ár, og svo framvegis«. Stólshaldarinn uppástendur þá í tilliti skólaforordningarinnar, að svo megi einhver gefa sig fram og stilla fyrir mig kaution, ef að mér kunni mistakast eður ei geta lært út, eptir sem hún fyrirleggur, — og nú komst enn í vanda að sýnast mátti. En guð kom nú vonum bráðara með liðveizlu. Áðurnefndur Mr. Einar Jónsson í Viðvík var þá kominn á stólinn. Hann gefur sig fram og stillir mín vegna begærða kaution undir sínu nafni og hústrúarinnar Valgerðar. Svo langt mundi hún nú fram. Soddan fornaldar trygð var jafnan að finna hjá því sæla guðs barni. Hér kom eingum í hug, að leita hennar liðveizlu. Hér við varð stólshaldarinn nauðugur viljugur að þagna og láta af, og var mér[2]) svo þar eptir sá allra bezti og ráðhollasti maður, að fráteknu einu afviki laungu síðar. Þar eptir kom hann syni sínum Jóni, nú fóveta, í skóla, og fól mér hann þá framar öllum til forsvars og umgæzlu á hendur. Mart fer öðruvísi en ætlað er. Ei varð mér auðið að geta launað í neinu þeirri góðu hústrú velgerning sinn. Söm var hennar gerð, þó ei þyrfti fyrir guðs náð á því að halda. En mágur hennar Mr. Einar bað mig að lána sér í harðindunum 1753 2 rdr. til specie, en eg sendi honum 4, og gaf honum þá, og síðar 1770 hest á Alþingi, er hann varð þar svo nær gangandi, og hans fornu vinir, er hann þar hitti, gátu ei eður vildu ei verða honum hjálplegir. Þá gafst mér á að sjá, að fúll er haldinn félaus maður, en frómum og guðhræddum manni legst þó ætíð eitthvað til, þegar í vandræði er komið. Átti þetta vel heima hjá honum. Hann sálaðist í heið-

---

1) Svo.

2) Hér kemur í handritinu orðið »þar«, en því virðist fullkomlega ofaukið.

arlegri elli 1779, og lét ei börn eptir, en einn hans systursonur er Mr. Jón Grímsson þjenari herra Finns, síðar prestur, nú verandi í Görðum á Akranesi.

## KAP. X[1]).

Nær eg var 15 ára, var eg í skólann inntekinn á páskum, sem áður er sagt, árið 1744, og var þar, eptir sem míns skólameistara vitnisburður útvísar, í 6 ár, að þessum parti frá páskum til Jónsmessu og öðrum frá Mikaelsmessu til föstuinngangs meðtöldum, svo raunar var það ei meira en 5 ár. Þá eg í skólann kom, kunni eg ei svo mikið að segja sem *Bonus dies, felix nox, licet exire*, og þessháttar smáglósur, sem á þurfti að halda. Síra Skapti Jósefsson[2]), sem nú er prestur á Hofi í Voknafirði[3]), náfrændi minn, varð þar minn *tutor*, þ. e. forsvarsmaður. Hann skrifaði upp þessar glósur handa mér, og lagði mér það heilasta í öllu, er eg þurfti að vita og gera meðan saman vorum. Frí varð eg við innbyrðis skólareglur þeirra, er brúkast við nýkomna: Snorra, bál, flug og skírn, nema með vægasta máta, vegna míns áður laskaða fótar. Þeim sýndist eg og ei vera svo stífsinna, að þess þyrfti stórum við. Herra Jón Thorkelsson gaf mér *Donatinn*, og sagði mér, að koma til sín, þá eg vildi, að þiggja mjólksopa úr könnu hans. En þá skólapiltar komust að því, héldu þeir, hvað þó ei var, eg bæri honum fréttir. Varð eg þá að leggja það niður, er eg sagði honum, og grét hann þá yfir mér, og sagði: »Þó skal eg muna til þín«, hvað hann og gerði, því þá hann var aptur kominn til Kaupinhafnar og hann heyrði eg tók að mannast, sendi hann mér árlega gefins góðar latínubækur, en eg honum aptur það, sem nýtt var prentað á Hólum. Og þá eg var útskrifaður, skrifaði hann mér til að sigla sem stúdent og koma til sín, og það ætlaði eg að gera. En það féll öðruvísi, sem drottinn vildi. Eg

1) Við upphaf þessa kapitula stendur á spássíu ártalið »1744«.
2) Svo. Rétt: Árnason.
3) Svo.

settist neðstur í skólaröðinni, sem von var. Næst fyrir ofan mig var áðurnefndur jafnaldri minn, Erlendur. Hann hafði lært í heimaskóla einn vetur, en áður skólanum var sagt upp um sumarið, var eg búinn að ná honum í lærdóminum, því eg lagði svo að mér sem mest eg kunni, og lá marga nótt í fötunum. Næsta haust var eg látinn fara upp fyrir hann, sökum ástundunar og góðs siðferðis, hvar af hann lagði á mig innbyrðis sterkasta hatur, og þurfti þó opt orð og úrlausn til mín að sækja. En á aðra hönd honum settist bóndason nokkur af Langanesi, Bjarni Jónsson að nafni, sem nú er prestur á Breiðabólsstað í Vesturhópi og prófastur í Húnavatnssýslu, er síðar fór með fleirum öðrum upp fyrir hann. Þessi Bjarni Jónsson og eg bundum þá elsku og trygð saman, er hvorugur okkar hefir enn út af brugðið, og mun ei heldur verða með guðs hjálp, svo leingi lifum. Þá fyrstu nótt, sem eg var í skóla, dreymdi mig, að eg þóttist vera kominn þar í dómkirkjunni upp í prédikunarstól, en strax þar að mér koma einn þann ófrýnilegasta jötun, sem kipti mér þaðan burt og kastaði mér langt út fyrir dyr, og svaf eg þá nótt ei meira en þann dúr, því jafnsnart prédikaði sá vondi andi fyrir mér, eg mætti strax gefa frá mér eptirsókta upphefð, því mig mundi eitthvað það ílt henda, að eg félli með niðurdrepi úr henni aptur. Þó var eins og mér þar á móti sagt væri, að eg skyldi ei tapt gefa að óreyndu, því eg hagaði mér vel og guðrækilega; mundi ei þetta rætast, svo að endurminning til þessa fyrir sérlega guðs handleiðslu varð mér að fráhaldi að gera nokkuð ílt eða ósæmilegt vísvitandi, meðan eg var í skóla, þó að opt gæfist orsök til þess, — og leið heldur högg og slög en gefa mig í vondan selskap. Var eg þess vegna af keskni og gamni leingi fram eptir í skóla kallaður María, því þeir eldri gáfu þar dreingjunum ýmsa titla eptir lunderni þeirra og þess háttar. Eitt sinn var eg fleingdur í skóla vegna kunnáttuleysis, sem þó var af ofmiklum vökum, og í annað sinn vegna hláturs í kirkjunni af hneykslislegum hlut, svo mig henti þar eingin slys; réði því síð-

ar, að draumurinn hefði verið fyrir því, er harðindin fyrir norðan með fleiru ráku mig þaðan hingað í Suðurstiptið. Að fráteknum fyrsta vortímanum, var eg fyrsta ár mitt þar með þeim neðstu; annað árið eður veturinn þokaðist eg í miðjan neðra bekk; þann þriðja veturinn varð eg efstur, meira af slympulukku en verðugleika, og komst í allmikinn vanda að forsvara mitt sæti, er þanninn tilféll. *Examen* um haustið var lesið fyrir úr *Svetonio,* og verður fyrir historia sú, er karlinn Guðmundur hafði áður sagt mér, að eg trepti[1]) þar meining orðanna mörgum framar. En hvað eg kvaldist í samvizkunni að heyra þá öðrum mér langt um hyggnari var bent til, að sjá, hversu eg hefði um sumarið iðkað mínar studeringar hjá því sem þeir. En það knúði mig því fastara að studera, svo fyrir utan (þau) daglegu *agenda* og ötlunarverk, fór eg að studera *Sallustium* og *Ovidium*, sérdeilis hans *Metamorphosin*, af hverri eg mikið kunni að framanverðu, og fékk soddan lyst til þess síðara, að eg hélt það angur gæti ei að mér komið, að mér yrði ei skemtun að lesa verk hans. Svona er ungæðið. En alt annað hefir þó sannast, sem von var á. Fjórða veturinn fór eg á borð, eður efra bekk, og fór þar upp yfir 5 óreglulega, — því vissir höfðingjar létu ei börn sín í neðra bekk, — og eg man nú ei víst, hvað fleiri; þó voru þeir tveir eður þrír. Þann 5. veturinn var eg efstur, og báða þá vetur *notarius* skólans; hafði eg þá næsta litið fyrir því, eg átti að gera, og vildi þá hafa mátt leingur vera, en fékk það ei, hverja viðleitni sem hafði í frammi. Fyrir utan *Donatinn*, skrifaði eg mér sjálfur öll mín lærdómskver, og fyrir marga aðra nýkomna var eg að því um daga, en um nætur og morna lærði eg optast lectiur mínar, svo fyrir þá iðni og árvekni átti eg í bókum, þá eg útskrifaðist, (með nokkrum, mér gefnar voru), upp á 15 rdr. Sú fyrsta bók, er eg eignaðist, var Davídpsaltari á latínu. Hann á nú Mr. Jón Jónsson á Höfðabrekku, síðar prestur í Meðallandi. Flestar þær

1) Svo = hitti á.

bækur seldi eg, þá eg ætlaði að sigla, að eg á nú ei eptir af þeim nema fáeinar, svo sem *Ovidium, Colloquia Erasmi, Logicam* etc. Munu þær og eptir mig verða ófargaðar, og njóti sá vel þeirra, er njótandi verður. Mest hafði eg lyst á latínskum skáldskap, svo eg kunni að gera vers opt fríhendis. Gerði eg nokkur brúðkaups-, útfarar-, nýjárs- og sumarvers til ýmsra, er eg alt aflagði, þá eg eltist og eg sá, að slíkt var meir til eiginhrósunar og hræsnis fyrir öðrum en þeim til dýrkunar, sem gáfu þá hafði gefið mér, ásamt fleirum öðrum. Þó skal guði til lofs sýna þá gáfu með fáeinum stökum, er eg svo nær fríhendis gerði í skóla, þeim, er lesa kunna þessi blöð og skyn bera á soddan, til leyfilegs gamans og sannrar ályktunar; vers þau eru eptirfylgjandi:

Oh! studiosa cohors et pignora cara, valete!
    Vos maneant super[1]) prospera quæque, rogo.
Cernite jam matrem cupressea serta gerentem
    Imbre per indignas usque cadente genas!
Ast! referam, nati! quæ sit mihi causa doloris:
    Est quod palliolo privor adulta meo.
Sistite solliciti tantæ tamen esse ruinæ,
    Nam vos, o juvenes, si modo fata juvant,
Aura nobilium virorum induta videbo
    Tegmine magnifico pallioloque novo.

Útleggingin er þessi: Ó, þú lærandi flokkur og kæru börn, farið þér vel; eg óska vari yfir yður sérhvað farsælt; þér sjáið nú móður yðar berandi sorgartrés kranza, og að táraflóð fellur um hennar kinnar þess óverðugar. Æ, eg vil segja yður frá, mínir synir, hver að er orsök minnar hrygðar; það er sú, að eg öldruð verð svipt mínu hafnarklæði; verið þó samt eigi hugsjúkir af þvílíkri rúning, því ef það banna ei forlögin, skal eg yður, ó, yngissveinár, aptur sjá, íklædd hefðarlegu fati og nýjum búningi fyrir góðvild ypparlegra manna.

En tilefnið var þetta. Gamla skólahúsið átti að takast ofan, en nýtt uppbyggjast, sem hér sem gömul móðir kveður og síðan hughreystir börn sín með

1) semper, hdr.

sinni viðréttingu. Þetta var árið 1750, þá skólanum var uppsagt. Á því sumri var þeim gamla skóla umbreytt að öllu leyti úr því formi, sem það[1]) hafði verið frá tíð Jóns Arasonar biskups, hér um 200 ár. Þótti oss skóladreingjum mikið fyrir að missa það form, svo vel vegna rólegheitanna að vera þar einsamlir oss, sem og bitaleikjanna, sem þar með lögðust niður og út af dóu, við hverja leiki lærðust og iðkuðust áræði, nettleiki og fimleiki að hlaupa á skip, tréhest, ís og jaka í lífsháska, hvað mér nokkrum sinnum hefir með guðs hjálp til bjargar komið í sjóferðum, með stærstu forundran þeirra, sem þar upp á hafa séð. Eg var í góðu vinfeingi hjá skólameisturum mínum, vegna minnar árvekni og ástundunar; þó varð það fallvalt, eins og hvert annað veraldarlán. Biskupinn herra Haldór Brynjólfsson var mér ætíð góður herra (hann mátti kallast einn Job). *Erasmi colloqia* gaf hann mér, þá eg var enn í skóla, af því heyrt hafði, eg hefði yfirbugað tvo sunnlenzka stúdenda í disputaziu, og *Kromayeri Systema* skeinkti hann mér, þá heyrt hafði mína dimissionsprédikun, jafnvel þó Þóra húsfrú hans Björnsdóttir heimtaði hana aptur eptir fráfall hans. Hún var mér bæði í því og öðru versti maður, er síðar kann nokkuð að sjást. Hvar fyrir herra biskupinum geðjaðist svo vel mín dimissionsprédikun, var þeirrar orsakar vegna, guð hafði skapað mig með stirðu og nokkuð viðtosandi málfæri, er mikið hefir vanizt af fyrir setning og aðrar reglur, svo eg kann að segja, að vaninn er sú önnur náttúra, — en af því eg var þá í nokkri ógunst við skólameistara minn Gunnar Pálsson (síðan prófast á Hjarðarholti), setti hann mér fyrir texta, er eg út af leggja skyldi, þá eg útskrifaðist, þann er vel skyldi hlýða upp á þennan minn tunguvanmátt, nefnilega Exod 4. v. 10, sem hljóðar um Moysis þunga málfæri. En svo gaf guð mér náð að útfæra þau orð með sínum kringumstæðum upp á illa og vel talandi tungu, að allir, sem heyrðu, dáðust að, nema öfundsjúkir. Og enn meiri náð sýndi guð mér í það sama sinn, að nær eg nú fyrst prédikaði, bar upp á sama há-

1) Svo.

tíðisdag og faðir minn burtkallaðist, hvar fyrir eg í þess endurminning gerði mér bæn og *epilogum*, hvar með eg þakkaði guði, sem hefði litið sínum náðaraugum yfir mig og ent á mér föðurlausum aumingja sín blessuð fyrirheit, upphafið mig þanninn úr dustinu og sent mér í föður stað þá verandi góða herra, og svo framvegis. Að afstaðinni þessari minni fyrstu embættisgerð á trinitatishátíðiskvöld, hverja eg fram flutti með allra stærstu hjartans lyst og gleði, lét biskupinn kalla mig inn fyrir sig, lofaði guð með fögrum tárum, sem mér hefði veitt svo liðugar og góðar gáfur, gaf mér þá áðurtéða bók, bað og spáði svo fyrir mér, sem síðar hefir fram komið. Var eg svo með góðum vitnisburði útskrifaður VIII. Cal. Jun.[1]) 1750; fékk þar upp á og eptir leyfi biskups að prédika og catechisera, þar eg héldi mér uppi í hans stipti.

## KAP. XI.

Nú mætti sýnast, að mér hefði alt vel og að óskum geingið á svo blómlegri æskutíð, meðan eg var í skóla, en því var þó öðruvísi varið, að eg mátti þar ei alleinasta á blíðu, heldur og svo á stríðu, þar í bland kenna, sem eg vil í fáeinum greinum sýna. Á mínu fyrsta ári í skóla var minn tutor, sem áður er sagt, síra Skapti Jósefsson[2]), svo eg kveið þá ei neinu meðan um mína hagi sem annar unglingur. En hann og annar skólapiltur til, síra Illugi Haldórsson[3]), komust áður skólanum var uppsagt það ár, — og áttu þeir þó að dimitterast, — í svo stórt þjófnaðarmál, að þeir voru í fangajárn settir og þanninn burt fluttir, hvar með eg misti hans aðstoðar við. Var þó guðs náð, að fleiri komust ei í þá sök. Tildráttur þar til var þessi. Þar var á stólnum hestakarl, sem hét Fúsi, auknefndur flotkampur af nízkheitum, sem var sá allra mesti svíðingur, sem (eg) hér innan lands á æfi minni hefi heyrt um getið, sem of svívirðilegt er að

1) Þ. e. 25. Maí.
2) Svo. Rétt: Árnason.
3) Svo. Rétt: Sigurðsson.

upptelja, og safnaði þess vegna öllu í peninga, er hann hafði samankvalið, hér um 80 rdr. En svo sem mart ber á góma í skóla, kom það í tal, að mátulegt væri að skilja hann af með þá. En hér sannaðist, að kemur í hug þá mælir, að hérgreindir piltar og jafnvel fleiri náðu þeim, sem uppfiskaðist með kænsku og svikum Skúla *fóveta, sem þar var þá sýslumaður*, fyrir umgang einnar bannaðrar skækju þar á staðnum, bráðræði og drykkjusvalli hans, hvar fyrir hann hafði þar af lítinn hróður utan lands og innan. Ei dæmdi hann þá undir mark og húðlát, heldur að sitja upp á vatni og brauði hjá sér í hálfan mánuð; sigldu þeir svo þar eptir, feingu geistlegheit sín, urðu attestati og síðan annar kirkjuprestur á Hólum, en hinn á Hofi í Voknafirði[1]), sem áður er sagt. Svo gerir guðs forsjón gott af illu. En þá Fúsi lék glaðvær fyrir að taka aptur á móti við peningum sínum, fékk hann þetta andsvar af sýslumanni: »Þinn bölvaði fantur, þú hefir með versta hætti saman dregið þá og aldrei tíundað, og skalt nú ei njóta nokkurs af þeim, því þeir eru fallnir undir kong«. Féll þessi karl þá í víl og vesældóm, hraktur og hrjáður af hverjum manni, og dó síðast í harðrétti. Þanninn verða afdrif Mammons þrælanna á stundum. Þegar áður nefndir piltar voru í fangajárnum burt fluttir á sýslumannsgarðinn til að bíða þar síns dóms, lét skólameistari vor syngja þennan sálm: Tak af oss faðir ofþunga reiði etc., sem var af honum og oss öllum sunginn í soddan hrygð, að eg get því aldrei gleymt, og hefi þess vegna ei alleinasta sungið hann með sjálfum mér og með mínu heimilisfólki, heldur og í guðshúsum, þá einhver bágindi hafa verið á komin, og hefir sá góði guð af sinni náð ætíð þar við veitt fljóta huggun og liðsemd, sem með hefir þurft, hversu óvænlega sem á hefir horfzt. Honum sé lof! Þegar eg hafði nú þanninn mist velnefndan frænda minn og forsvarara úr skólanum, fóru illa artaðir dreingir, sem ver gekk en mér, að leggjast á

1) Svo.

mig. Sá versti af þeim var áður áminstur jafnaldri minn og sveitungi, Erlendur Sigurðsson frá Brekkum. Eitt dæmi af mörgum var það, að skriffæri og hálstrefill hvarf í skólanum. Var leitað af *notariis*. Fundust skriffærin í kistli mínum, en trefillinn í rúminu. Eg var aðspurður, hvort eg hefði þetta tekið, hverju eg neitaði, hvort nokkrum hefði lykil að kistlinum í hendur feingið, hverju og neitaði. Þá ei ávanst með þessu, var eg fleingdur, barinn og laminn til að meðganga, og þó eg neyddist til að játa, bar eg þá aptur á móti því, að þeir komust í standandi ráðaleysi með mig, en samvizka mín var hrein og frí, hvaða pintingar sem eg leið. Þá öll viðleitni varð forgefins um nokkra játun, þá eg var í frelsi kominn, hefst Bjarni sálugi Pálsson landphysicus, sem þá var einn af *notariis*, með þessi orð: »Eg sé að dreingur þessi er aldeilis saklaus; einhver annar djöfull er hér, sem vill fordjarfa hann; látum sjá, hvort einginn annar lykill geingur að kistlinum, eður hvort hann verður ei upp sleginn, þótt hann sé nýr«. Nú varð hann upp sleginn, enda fanst lykill annar hjá Erlendi, sem að gekk, og var hann þaðan í frá bæði um það og annað ílt grunsamur hafður, sem ei var fjærri. Leyfði guð honum aldrei að vinna nokkuð slys eður svig á mér, hverninn sem hann leitaðist við það. Hann varð eptir í skóla, þá eg fór þaðan; útskrifaður sigldi hann til Kaupinhafnar, kastaði þar frá sér geistlegheitum og fór að studera lög að orði kveðnu, kom þar sundurþykki meðal stúdenta, kom svo hingað aptur með lítilli virðing, giptist skækju einni, sem er illfygli sem hann, að hvort hýðir og ber annað. Svo sem allir mínir skólabræður komust til manns, og stórra embætta sumir af þeim, svo hefir ei guð unt honum til nokkurs þess embættis að komast, að yfir aðra ráðandi væri. Hann veit bezt, hvað með manninum býr og hvað hverjum einum þjenar. En Bjarni sálugi landphysicus, sem var í allri raun og veru einn sá hjartabezti maður við aumingja og nauðþreingda, komst við í hjarta, hversu með mig hafði (verið) farið, og varð mér sá allra bezti maður það-

an í frá, tryggasti og trúfastasti vinur alt til dauðadags. Ber eg hans góðar menjar í læknisdómakonstinni, hvar til hann fræddi og styrkti mig með orði og verki, mörgum til liðs. Blessuð veri hans minning! Jafnaldra mín, sem eg hefi öndverðlega um getið, var þrímenningur minn, og hét Ingibjörg Gísladóttir, í náttúru gagnskörp og álitsfríð, vel að sér til munns og handa. Lokaturinn Jón Egilsson, sem nú er prestur í Laufási, var móðurbróðir hennar. Hann kom henni af hennar og foreldra hennar undirlagi í undirráðskonudæmi á stólnum. Urðum við á ný kunnug og samrýnd, að hvort var opt hjá öðru, og gerði (hún) mér alt til vilja og þjenustu, sem megnaði, hvar af kviknaði heitari ást hennar til mín, að hún sat um mig til fylgilags og eiginorðs með öllum hætti, er eg gat ei við séð í öndverðu. En hversu nærri, er við urðum hvort öðru, stundum af tilstilli móðurbróður hennar, varðveitti guð mig af öllum líkamslosta með henni, né heldur eg veitti henni nokkurn ádrátt um eiginorð. Og þá eg fór úr skóla, fór hún einninn burt til foreldra sinna í grend við mig, og enn með sama hugarfari. En þá hagaði sú guðlega forsjón því svo til, að ríkur kaupamaður vestan undan Jökli, sem gefið hafði sig til kaupasláttar norður, beiddi hennar, hvar til eg og mín góða föðursystir Ingibjörg áttum góðan hlut. Lokatur og hún fundust þá hreinlega að tali, þá hjónabandið varð fullkomnað. Fór hún svo vestur með manni sínum, settist að búi í Barðastrandarsýslu, og bróðir hennar Sigurður giptist þar einninn, og er jarðeigandi, og eiga hvort um sig mörg börn, er þar að ættkvísl verður. Dæmið sýnir, hvað óviturlegt það er, þá foreldrar jafna ungum börnum saman. Bezt ætla eg að hafa sem minst við soddan. Aðra ættstúlku, sem hét Ingibjörg Kársdóttir, átti eg þar á stólnum, einninn allvel að sér, en hinni að öllu ríkari, svo hún skeinkti mér marga hluti, sem eg var þurfandi um. Hún var kynjuð af Höfðaströndinni nálægt kaupstaðnum, og hafði því nóg af þesskyns vörum, sem hún gaf mér; fyrst bláa sokka, sem eg mátti þó ei brúka, meðan í skólanum

var, því það var þá ei komið í brúk sem nú, að skólapiltar væru í bláum sokkum eður stígvélum, sem hver auminginn keppist nú hver við annan; brúkuðust þá fyrir mesta stáss mórauðir rauðkembingssokkar eður stálgráir. Hún varð sama sinnis við mig sem hin, og eltu þær tíðum grátt silfur saman, er eg lét sem eg sæi hvorki né heyrði. En ei heldur fékk eg nokkurn hug til hennar. Hún giptist síðar, varð um nokkur ár landseti minn á Hofseigninni, þurfti hún þá aptur minnar aðstoðar við, er hún komst í fátækt, hvað eg lét og ásannast í uppgjöf skuldanna. Af heiminum hafði eg enn ei meira að segja, svo eg hugsaði nú, að það væri sá allra versti og viðsjálasti hlutur, að komast á unga aldri í tak við kvenfólk, og láta það ei með sínu blíðlyndi og ástgjöfum yfirbuga sig og blinda, og að þar mætti koma til heit bæn til guðs og mesta varúð og kunnátta að komast frá þeim í góðri vinsemd, hvar til guð gaf mér sína náð. Þóra hústrú var upp á það í drykkjuskap sínum, að láta skólapilta spila, leika og slá á hljóðfæri fyrir sig í vissu húsi, með öðru ónefndu. En þá hún fékk mig ei til þess, gerðist hún mér sú allra versta og heiptræknasta manneskja, svo leingi sem hún lifði, hvar um nokkuð síðar.

## KAP. XII.

Ennframar skal hér sýna sérlega guðs vernd og varatekt yfir mér, meðan eg var í sama stað, og er þar þá fyrst til að taka, að enn þá elti eptir af gömlum forneskjuskap, rúnum og ristingum. Var þar til við skólann ein gömul skrifuð bók til að læra af alls slags galdur. Var hún forvöruð mann eptir mann í afviknu plássi, hvar einginn yfirboðari kunni að komast. En svo sem það illa er tamast og auðnæmast, svo gáfu sig ýmsir nasvísir dreingir að skrifa upp og prófa eitt og annað upp úr henni, og gátu með hjátrúnni þar á gert eitt og annað ólukku giegleri[1]).

---

1) Þ. e. kukl. Sbr. þjóðsagnirnar um *Gráskinnu* og *Rauðskinnu*.

Lokkaðist eg svo til þessa. En þar reglurnar stóðu upp á, að menn yrðu í því verki að kasta frá sér öllum guðlegum þaunkum með öðru fleira, sem eg gat ei gefið mig til, tókst mér ekkert, sem betur fór, og gaf svo það fljótasta þá svörtu konst frá mér. En sú bölvaða bók fór úr skólanum með vissum manni, og, — eg má segja af guðlegri tilstilli, — tapaðist, svo hún er ei framar til. Þó varði við átrúnaður um apturgaungur og uppvakninga, og þótt eg legði léttan trúnað á það skraf, varð eg þó var við hvorutveggja, frá hverju guð þó dásamlega varðveitti mig.

Gunnar skólameistari minn studeraði svo sterkt, að honum nægði ei kvöldvökur, heldur vaknaði til þess fyrir dag; og þó eg væri í neðra bekk, fékk hann mig til þess að fara inn í stað fyrir sig og kveikja sér ljós, og var að ganga yfir kirkjugarðinn og langt inn í stað til þess, — sem ei var hent fyrir myrkfælna, — og þó mér heyrðist brak og brestir og ýmisleg hljóðfæri í kirkjunni og á þeirri leið, gaf eg mig þar ekkert að. Leið svo eitt ár og leingra, sem þessu fór fram, þá fært veður var, og verður mér ekkert að meini. En eitt sinn átti leið að stólnum einn prestur, er fylgdi ein apturganga, sem kölluð var Flugumýrarskotta, og fór þessi andi á undan honum. Nú stóðst svo á, eg skyldi fara inn í staðinn, áður hann kom um daginn, sem einginn vissi þó fyrir. Þegar eg kom að þeim dyrum staðarins, sem kölluðust Studiudyr, kom að mér framar venju stuggur að ganga inn; sneri svo tvigang aptur upp i kirkjugarð. En þar mér þótti vanvirða að fara forgefinsferð, var og ei vel búinn að lesa yfir, sem eg lét opt bíða til þess tíma, herti eg upp hugann og gekk inn í staðinn. Var eg þá tekinn jafnskjótt í lopt upp; var eins og þykkir flókavindlar þrýstust alla vegna að mér, og svo fleygt inn í ganginn hér um fimm faðma leing(d), kastaðist þar svo niður og sá undir eins hvern rapt í steingaungunum og ljósberann, sem hrotið hafði úr hendi minni, hvar hann lá; tók eg hann upp, fór enn leingra í eldhúsið, kveikti þar og

færði skólameistara mínum. Ei sagði eg honum frá þessari hremmingu, en hann sá, að eg leit öðruvísi út en vant var, og sagði eg skyldi leggja mig fyrir og ei hirða um lestra þann dag, hvað eg gjarnsamlega þáði. Um daginn kemur kvittur úr staðnum, að greint óvætti hefði farið upp á hvern mann, og suma þunglega útleikið. Grunar hann þá, hvað verið muni hafa um mig, og kallar á mig og lét mig segja sér, hverninn alt hefði til geingið. Í annað sinn féll svo til, að við skólapiltar, 13 að tölu, fórum á jólum fram í fjörðinn; mældum við okkur mót til baka aptur á þeim bæ, sem heitir Viðvík; skyldi þar þá fyrir vera brennivínskútur til hressingar, áður við á 13da dags kvöldið kæmum á stólinn. Alt fór þessu fram eptir tilætlan. Er þaðan að ríða með einni á, sem liggur eptir endilaungum Hjaltadalnum. Er vegur upp hátt holt, er kallast Laufskálaholt. Er gatan rétt á brúninni þverhnípt ofan í ána, en þykkur þúfnamór að ofanverðu. Eg ríð fremstur upp á þetta holt, og einn skygn fylgdarmaður var næstur mér. Eg heyri á bak við mig, að þeir eptir mig koma, eru að segja: »Hver fjandinn kemur nú ríðandi og logandi heiman að frá stólnum? Drekkum honum til etc.« Því náunginn[1]) var milli bræðranna. Þá eg var kominn þar gatan var tæpust, kallar sá, er mér næstur reið, höstugt: »Snúðu hestínum á vinstri hlið úr götunni«, hvað eg gerði. En undir eins flýgur yfir mig svo mikil dimma, að eg sé hvorki himin né jörð, og svo sterkur hvinur eða þytur við hægra eyrað, eins og þá fuglahnappur hjá flýgur, svo maðurinn lofaði guð, og sagði: »Nú sá guð til þín, að þú fleygðist hér ei ofan fyrir til dauðs; ætlar hann þér víst leingra líf«. Eingan af oss sakaði heldur upp á. Þessi óvættur var haldin sending frá biskupi sjálfum til sýslumanns, því þá var sökótt þeirra í milli út af ýmsu. Í þriðja sinn bar svo til, að eg í sláttutíð seint um sumarið reið frá mínu heimili, Yztugrund, út í kaupstaðinn,

---

1) Þ. e. kúturinn.

sem kallast Hofsós, og annar maður til, fornspár og útséður um marga hluti, ættaður úr Kjós, og hét Guðmundur Bárðarson. Þetta var á laugardagskvöld, því sú var venja í Skagafirði, að hætta slætti snemma á þeim. Oss dagaði uppi í grashvammi einum fyrir framan Brimnes, heptum þar hesta okkar, lögðum okkur til svefns, því spakt veður var, með þeim skilmála, hvor skyldi annan vekja, sem fyrr vaknaði. Hann vaknaði fyrr, svo eg vissi ei af, fer að leita að hestunum, sem langt voru stroknir á veg til baka. Þá hann er í burt kominn, heyrist mér (hann) í gegnum svefninn kalla »Jón«, og svo í annað sinn; finst mér eg vera milli svefns og vöku, og vil eg upprísa eður gegna honum aptur í hefndar þátt, að ei lét mig af vita, þá í burt fór. Í þriðja sinn er til mín kallað sem hæst, að mér heyrist taka undir í gilinu, með einu laungu framandi orði, sem eg nú ekki stafrétt man, og með það stend eg á fætur og geing á veg að leita hans. Nær við finnustum, segi eg honum frá þessu, en hann segist ei hafa til mín kallað, heldur hafi mig guðs andi vakið og verndað mig frá loptöndum, sem að mér hafi þá sótt, og mundi eg annaðhvort hafa hálfvisnað eða dáið, hefði eg ei brugðið við seinasta kallið, og vildi hann síðar sýna mér nokkur merki til þess. Við komum í þetta sama pláss degi síðar; var þá að sjá eins og visnan á stráunum í bælinu, þar sem grænt var alt í kring. Hann svarar þá: »Klaksárt er þeim vonda við þig, og muntu honum einhvern tíma óþarfur verða, en guð mun standa með þér. En viltu (vita) hvað orðið hefir að þýða, sem til þín var kallað?« Bágt varð það að finna, þó, þegar það var loksins anagrammerað og umbylt á alla vegu, meiningin: *Góð samvizka.* Var mér dásamlega af guði bent, hvað eg skyldi stunda alla mína æfi, að halda henni hreinni; kom og líka fljótt til þess, því strax þar eptir var mér og þremur skólapiltum öðrum, er næstir voru við höndina í Skagafirði, að bera andvitni á móti biskupi vorum og skólameisturum, stefnt til Viðvíkurþingstaðar, um ólöglega viðurgerninga þeirra við

skólann á móti reglementinu, er þeir höfðu ei látið opinbera með víðara, svo þeir urðu fyrir tiltali og útlátum. Og þó við þá töluðum sannleikann, lét biskup oss ei í hinu minsta gjalda þess. En alt öðruvísi var skólameistari og lokatur við oss þar eptir sinnaðir. Þá skóli var settur á haust, var venja, að einn af skólapílltum skyldi lesa skólaforordninguna; var mér nú tilsagt það. Hafði þá skólameistari ýmisleg brögð og hrekki, til þess eg skyldi stranda og ei komast út með hana. En eg kófsvitnaði af ilsku, sem yfirbugaði alla feimu og hræðslu, svo lesturinn komst af. Og svo var í fleiru, þó ekkert úr yrði. Nú kemur til um vorið, er upp var sagt skólanum. Þá hélt hann að venju eina latneska ræðu við forma eður uppháan skáp á miðju skólagólfi. Bý eg þá svo um, er hann tekur til að perorera, að honum kemur fyrir sjónir skrifað blað, þó svo hátt, að hann, sem var lágur maður vexti, náði ei til þess. Varð hann nú sára hræddur, að á þessu blaði, sem svo fyndilega blakti fyrir hans sjónum, mundi eitthvert ólukku níð vera sér eður öðrum til blams, og kemst svo varla eður ekki út með ræðuna af höstugri innbyrlingu og þaunkum, er hann inntóku af þessu. Að endaðri ræðunni, seildist lokaturinn eptir blaðinu, því hann var hæstur yfirmanna þeirra, er þar voru viðstaddir, og fóru þeir með það fram í hús sitt; var þá ei annað á því en hér áður skrifaðar[1]) latínuvísur, sem þá gladdi aptur, og gátu til, hver gert hefði og í hverju skyni, þó með annari hönd[2]) skrifaðar væri. Meðal annara smáleika og lista, er margir þá í skóla lögðu sig eptir, voru sundfarir, sem er bæði auðvelt og gagnlegt þeim, er nema vill. Komst eg þó af hirðuleysi ei framar í þeirri list en synda hér um 4 faðma fram og til baka. Var þar til hlaðin sundtópt fyrir ofan tún staðarins af fornmönnum (annað eins form er fyrir ofan fjósið á Prestsbakka á Síðu). Varð þar að hleypa í læk þeim, sem rennur

---

1) Sjá bls. 36 að framan.
2) Svo.

í gegnum staðinn, hvar við matseljur og brytar liðu stundum baga af vatnsskorti, sem hér við varð, að oss varð vatnsveitingin í tóptina ei svo vel liðin; brúkuðum við þvi langan og hyldjúpan vatnsskurð þar til á eyrunum fyrir sunnan staðinn, sem áin hafði úr fallið. Einn mikið blíðan og heitan frídag erum við þangað komnir, og vorum að því verki svo nær allsnaktir. Kalt var í vatni, svo við urðum að hlaupa okkur til hita, hvar við hestar, sem voru þar á eyrunum, fældust, og hlupu hingað og þangað. Biskup var úti og sá í kíkir sínum þennan skrípaleik, sendi eptir oss og hótaði því og því fyrir læti þau, eður ef svo gerðum optar. Oss þótti stórum fyrir, þó svo yrði að vera. En á oss sannaðist, að náttúran stríðir á móti því, henni er bannað. Við tókum það ráð saman, að fara aptur þar í vatn og enda út með því daginn, sem hann eður aðrir sæu ei til vor. Fyrir norðan staðinn rennur á temmilega stór í gljúfri, sem heitir Víðirnesá. Þar er í foss, fyrir víst 6 faðma hár. Áin rann í stokk fyrir ofan. Í hann köstuðum við oss, hver eftir annan, fleygðunst svo ofan fyrir og fram á grynningar, hvar til ýmsir voru settir til skiptis að taka á móti þeim, er ei gátu fótað sig. Gekk þetta svo leingi dags, þar til einginn gat leingur. Eg hefi síðan, nær til þessa hugsa, fallið[1] í forundrun yfir þeirri stóru mildi guðs, að hann lét eingan af oss verðug gjöld, lífstjón eður lima líða hér fyrir. Þó var ei hér með búið. Fyrir sunnan og ofan fossinn er uppmjór klettur með skúta í að útvestan, hvar í einn hrafn varp, en bergflár með smáhellugrjóti að neðan. Hvað stóran skaða sem þessi hræfugl gerði, höfðum við heyrt, að talið var ómögulegt undan honum að steypa, hvað og raunar var. Oss kemur þá í hug að reyna til þess, klifruðunst upp fjórir, hvar af eg var einn, náðum ungunum og umturnuðum svo öllu hans verelsi, að ei ætti auðvelt að nema þar staðar aptur. En þegar við skyldum aptur ofan fara þetta lausa berg, komustum við

1) fell, hdr.

í mesta lífsháska og vandræði, svo eg enn hvorki trúi né veit annað, en guð hafi látið sína heilögu eingla bera oss og færa þaðan. Því hétum við af allri alvöru, að fara aldrei svo ógætilega í kletta og klungur optar, ef hann frelsti oss þaðan, hvað og ent höfum, eptir sem síðar endurvitkaðir höfum að samfundum samanborið oss. Það yrði alt of langt, ef fleira væri tilfært, sem við mig blítt og strítt fram kom um þennan tíma. En þó til leyfilegrar skemtunar, og að guðs verði dýrðin að öllu, skal hér eptir sýnast, hversu til gekk mín fyrsta ferð hingað á Austurlandið, þá eg var búinn að vera nærfelt 3 ár í skóla. Var eg þá 17 vetra gamall[1]).

## KAP. XIII.

Síra Sigurður Jónsson á Holti undir Eyjafjöllum var föðurbróðir minn. Hann fýsti mig að sjá og finna. Kom móðir mín mér í ferð austur með ferðakarli vænum, sem hét Snjólfur Guttormsson, sem þá var sendur austur í Fljótshlíð og Reynirshverfi að sækja þangað gjöld. Að norðan og þar til komum í Fljótshlíð, bar ekkert svo minnisvert við. Þá við þangað komum, var steypiregn, að ei gátum tjaldað. Um nótt, er þangað komum, var alt fólk í svefni; lentum (við) við kot það, sem heitir Stuðlakot, bárum þar fartau okkar inn í fjós, mötuðustum og sofnuðum síðan. Um miðsmorgunsbil vaknaði eg sárlega þyrstur; alt vatn var korgugt af regninu; sé eg hvar rýkur á bæ þar skamt frá, sem heitir Kollabær, stór álits. Þangað geing eg og inn um opnaðar bæjardyr, býð þar guð í hús. Einginn anzar. Eg heyri þó og sé, að kona er að skaka strokk í búri austur af skála. Eg fer þangað, og með kærri heilsan bið hana að gefa mér þyrstum að drekka. Ætlar hún þá að taka af strokknum. Hún spyr mig, hvaðan eg sé, er eg segi henni. Fer hún

---

1) Þetta virðist eptir þessu hafa verið 1746. En af því, sem síðar segir, er eins og þetta hafi verið 1750.

þá að bölva Norðlingum, segir þá framfúsa eins og hunda í hvers manns hús etc., og kastar mörgum illyrðum að mér; segir eg skuli sem fljótast snauta út aptur og drekka þar vatnið. Eg segi það sé nú ei í því lagi, og bið hana að selja mér þá lítinn mjólksopa fyrir tóbak, sem (eg) hafði. Hún verður því verri, hellir mjólkinni í skjólu, rekur mig út úr búrinu, slær dyrum í lás, vísar mér í bæjardyrum að skolavatnspotti, er hún sagði eg mætti úr drekka, ef vildi, hverju eg feginn varð; rak mig síðan út, því hún sagðist ekki vita, nema eg hefði þar eitthvert handæði, og vildi eg ekki fara, kæmi maður sinn nú og fleiri menn frá stekknum, er mig skyldi burt drífa. Þótti mér fótur minn fegurstur að komast þaðan frá svo vondri og miskunnarlítilli konuskepnu, og sá, að nú var eg kominn úr Norðurlandi, þar vart skal vera að fá annað eins dæmi. En þó ei sé gott að gjalda ilt með illu, þá lék eg svo á þennan geðvarg 4 árum síðar, þá eg fór þar um með stóra lest og hún var í seli á þeim sama vegi, að eg lét menn mína taka sér óbeðið að drekka hjá henni. En svo fór síðast að handleggur manns hennar gekk úr liði, er eg með guðs hjálp kom aptur í stand, að hér varð endirinn sá bezti. Frá áminstu plássi fórum við inn á Réttarba(k)ka fyrir framan Hlíðarenda, og tjölduðum þar. Fór karlinn í burtu til sinna útréttinga í Hlíðina. En þá mér leiddist að bíða hans, bað eg smaladreing frá Hlíðarenda, er þar var nærri, gæta tjalds og farangurs, og sótti mér hest til burtreiðar. Prentari Haldór Eiríksson átti konu þá, er Guðrún hét. Hún var dóttir[1]) þess nafnkenda manns Jakobs við Búðir, og var stórærleg kona. Systir átti hún, er Jóhanna hét, hverrar maður hét Ólafur Gíslason; bjuggu þau í Múlakoti þar innar í Hlíðinni. Átti eg að færa þessari Jóhönnu bréf og bækur frá systir hennar á eigin hönd, og því ályktaði eg nú að brúka feinginn tíma og tækifæri til þessa. Sagði smalamaðurinn mér til vega inn eptir. En eg ókunnugur fór götuvilt á fornar götur, sem lágu ofarlega um túnið að vestan að

1) Svo. Réti: systir.

nefndum bæ, svo, þá eg var svo langt kominn, hélt eg þar áfram í hlaðið. Þar standa úti fyrir þrír kvenmenn, ekkja, sem hét Ingunn, og tvær vinnukonur hennar. Hún spyr mig, hvar fyrir eg hafi tún sitt riðið. Eg svara: »Af ókunnugleika«, er eg biðji hana að forláta. Hún spyr, hvaðan eg sé. Þá eg henni það segi, segir hún, ei sé annars að vænta af oss en skelmeríis Norðlingunum. Og þá mig minst varði, þrífa (þær) mig af baki sem óðar og ærar, taka vönd og ætla að afhýða mig, og segjast muni kenna mér að gera slíkt (ei) optar. Eg brauzt um sem orkaði, og svaraði þessu: »Væri hér nú Jóhanna systir mín, þá munduð þið s(j)á mig í friði«. Við þetta orð hættu þær upp á tímann, og spurðu: »Ertu skyldur henni?« En eg játaði því mér til frelsis, hvað þó ekki var. Fornam eg þá, að hún væri ekki heima, heldur frammi í seli, þar á aurunum, svo þá eg slapp, varð eg alls hugar feginn að hitta hana. Hún tók í allra bezta máta á móti mér. Fortaldi eg henni alt, hverninn farið hefði um mig síðan í Hlíðina kom. Sagði hún þess hefði verið von, því þær væru verstar þar af öllum, er eg hefði fyrir hitt, en hún skyldi þakka nábúakonu sinni fyrir mig og dækjum hennar, hvað hún og svo ærlega gerði. Þaðan fór eg að Holti og heilsaði prófasti frænda mínum, tjáði honum af minni fyrirtekt og ferð, hvar með eg hefði og tvo hesta, er móðir mín hefði beðið hann að hjálpa mér og sér um fiskæti upp á, hverju hann yfrið stuttlega tók, og sagðist ei geta það af sjálfs efnum, og hlyti eg til þeirra efna að fara út í Vestmannaeyjar; skyldi hann þegar með mér skrifa þangað og biðja vin sinn, er hann þar ætti, sem hét Þorsteinn Þorkelsson, að skaffa mér fisk fyrir þær vörur, sem eg hefði; væru hjáleigumenn sínir ferðbúnir þangað, og skyldi eg strax með þeim fara. Hann skrifaði bréfið með hasti og fékk mér það. Ekkert annað gagn né gaman hafði eg af honum í það sinn, því hann var og sjálfur reisuferðugur til Alþingis, að standa þar fyrir máli, er hann átti við þann prest, er hét síra Loptur Rafnkelsson, er hann hafði dæmt frá kjóli og

kalli, og var þess vegna mikið ýrður og í öðrum þaunkum, sem von var[1]). Þar skildi eg við minn samferðakarl. Fór hann austar í Mýrdalinn, en eg gaf mig með hinum kompánunum út á svo kallaðan Eyjasand. En þá við komum út fyrir Álana, fréttu þeir og sáu, að sjór var orðinn ófær vegna brims út í Vestmannaeyjar. Skildu þar við mig, án nokkurra orða eður ráða, einsamlan, og héldu út á Eyrarbakka. Nú komst eg í standandi ráðaleysi, var þar í ókendu plássi, þekti þar eingan mann, né neina þeirra háttsemi, hafði aldrei skip séð né á sjó komið. Þegar eg hafði um stund svo sem agndofa verið, hvað af skyldi ráða, bað eg guð um hjálp að greiða fram úr vandræðum mínum, og fæ svo strax djörfung og móð að halda á leið til eyjanna, kem að einu tjaldi, sem var þar í vegi á höfðanum; þar var ráðandi fyrir sá maður, sem heitir Þorsteinn Þorsteinsson, búandi á Steinsmýri í Meðallandi. Hann spyr mig á alla vegi um mitt ferðalag, er eg hreint segi honum. Hann lætur mig fara inn í tjald með sér, gefur mér þar mat að borða, sem eg vildi, og 2 álnir tóbaks að skilnaði, og segir: »Þessa þarft þú við; far heim að bæ, sem hér er næst, sem er Bakkahjáleiga; þar býr bóndi, sem Hrólfur heitir, frómur maður; seg honum af ferð þinni, bið þú hann að taka af þér hesta þína, meðan þú fer út í eyjarnar og það, þeim fylgja má, og gef honum nú hálft tóbak þetta, en hitt síðar, þá þú aptur kemur, ef ei eru önnur efni þín; bið hann að láta fylgja þér fram í sandinn; þar sér þú tjöld og menn fyrir, sem ætla út í eyjar, og kom þér fyrir hjá einhverjum af þeim«. Eg þakka honum fyrir öll þessi heilræði og velgerðir, fer svo þaðan og geingur alt eptir því, sem hann sagði og fyrirlagði. Nú síðan gaf guð mér bæði efni og tækifæri að launa þessum ærumanni þennan velgerning.

## KAP. XIV.

Þegar eg kom á sandinn og fram að sjónum, sá eg þar mörg tjöld, smá og stór, og fjölda fólks. Voru

1) Þetta var 1750.

þar mikil drykkilæti og áflog. Gekk þar verst fram Jón Brynjólfsson Thorlacius og Jón Sigurðsson kaupi að auknefni. Í soddan flokk vogaði eg ei að gefa mig, hvar soddan ókyrleiki var og flokkadrættir; tók það til ráðs að vera utanvert við þennan soll, og fór því með trúss mín undir hlið á einum eyja teinæring, sem þar lá uppi, til að bíða þar útferðarinnar, nær félli. En stúlka, sem mér fylgdi í sandinn, fór heim aptur með hestana og reiðskapinn. Þá eg hafði þar um mig búið, gekk til mín einn maður, er hét Bótólfur Þorvaldsson, lágur vexti, stuttleitur og harðleitur, á lafakjól, vel við öl. Hann spyr mig að nafni, hvaðan eg sé og hvað eg ætli. Eg svara honum til þess með fæstu orðum. Hann segir aptur: »Þú skalt nú hér í framandi plássi njóta foreldra þinna, því þó nokkur ár séu síðan, hefi eg átt hjá þeim marga góða nótt, þá þau bjuggu á Þverá í Skagafirði; var eg þá þjenari Skúla fóveta, þá hann fór fyrst norður frá Bjarnanesi. Og viljir þú nú gefa þig á mitt vald, þá vil eg reynast þér trúr og ráðhollur í því megna«. Eg þáði hans tilboð, og fór með honum í tjald hans, þar ei sá nú betri kosti. Var þar fyrir annar lagsmaður hans, sem heitir Björn Ingjaldsson, mikið skikkanlegur og frá sneiddur drykkisvalli. Leið svo af nóttin í miklum óróa. Daginn eptir kom leiði; kom minn góði Bótólfur mér í skip með sér; brá mér til sjósóttar. En þá hann formerkti það, rak hann mig undir ár með sér og kendi mér áralagið, takandi upp á sig mitt forsvar í öllu því, sem Vestmannaeyingar voru að kalla af mér, þar umfarandi í fyrsta sinni og á sjó komandi, eptir gamansfullum sjóferðalögum þeirra. Síðan kendi eg aldrei sjósóttar. Þá eg í eyjarnar kom, var tjaldað niðri á svo kallaðri Bryggju. Spurði eg upp Þorstein, er prófastur skrifaði til með mér. Hann les bréfið og spyr mig síðan, hverjar vörur eg hafi til fyrir fiskinn. Eg segi honum 1 rdr. specie, nýtt brekan, rauða sokka og svo nýprent(að)ar góðar bækur. Hann segist peninginn skuli taka fyrir fisk, en ekkert af hinu öðru. Og þá eg gat ei á þau boð fallizt, sagðist hann ekk-

ert með mig hafa, og svo var öllu með oss skipt. Annar gaf sig þá fram, sem lofaði að kaupa að mér mínar vörur fyrir fisk, og lét mig semja við sig í einrúmi, svo þá til útsvarsins kom, fékk hann mér bæði blautan og maðkaðan fisk, svo sem á annan hestinn, en hitt í sléttri kramvöru. Og þá hann var búinn að svíkja mig þanninn, hljóp hann í burt og eitthvað upp á eyjar. Eg fortaldi mínum góða vert frá óförum mínum, og fékk ávítur, að eg hefði ei látið sig vita af þessu. En þar eg gat nákvæmlega lýst manninum, svo hafði hann hann uppi á sporum, lét hann öllu aptur skila, tók svo sjálfur vörur mínar og keypti fyrir þær svo mikinn fisk, sem til var ætlað. Þessi karl hét Árni Runólfsson, var þá lausamaður vel fjáður af peningum og öðru, en komst í armóð, varð að þiggja af mér marga hýsingar nótt, þá eg bjó á Hellum í Reynirshverfi, hvað eg gerði með frekari hjartans ánægju og gleði en að eg skyldi láta hann gjalda þess, hverninn hann útlék mig framandi einstæðing. Gott er að gera vel og hitta sjálfan sig fyrir. Þá eg var nú kominn í stand með fiskikaupin og hafði ekkert að gera, nema vakta tjald og farangur míns góða Bótólfs, átti eg eptir óseldar nokkrar íslenzkar nýprentaðar bækur, hér um 14, sem eg og aðrir mínir skólabræður áttum. Geingu þær mér ei út fyrir peninga eptir tilætlan, svo eg var kominn í ráðaleysi með þær. Einn blíðan veðurdag bið eg vert minn um leyfi að mega ganga upp á eyjar og bjóða þær, hvað hann eptirlét og setti mér fyrir góðar reglur að sjá nú betur við en næst, og láta sig þó af öllum kaupskap vita, ef nokkur yrði. Eg fór af stað, gekk bæ frá bæ forgefins, kom loksins að Kirkjubæ. Þar var prestur fyrir, síra Guðmundur Högnason, ágætur og lærður prestur, en mikið hneigður fyrir að drekka brennivín. Hitti eg hann nú fyrir í sínu húsi í þessu ástandi. Eg bið hann að kaupa þessar bækur af mér fyrir peninga. Hann neitar því, slær upp á gaman og segir: »Sér þú ei að eg á nógar bækur. Kanske þú viljir við höfum bókakaup, eptir sem tala og verð rennur til, og það vil eg gera fyrir þig«. Svo

sem eg lá nú út fyrir að fá mér latínskar bækur, hvar sem eg kunni, svo játaði eg með stærstu ánægju þessu tilboði. Hann sýnir mér svo fyrst *Nucleum*, og segir: »Þar er ríxdals bók á móti sálmabókinni«. Eg segi: »Nei, þessi glósnabók er ei nema fyrir sléttan dal, þó eins sé stór sem hin«. Hann spyr mig, hvar af eg viti það. Eg svara honum, eg hafi heyrt skólapilta á Hólum, — því eg sé þeim nálægt, — opt tala svo um þessa bók; vilji eg víst hana fá og fleiri handa þeim; þeir kaupi þær af mér aptur etc. Er það ei að orðleingja, hann rótar til mín latínubókum sínum og segir: »Tak nú hér úr eitthvað á móti bókum þínum«. Eg vel þær úr með hasti að tölu eins margar. Og svo sem eg komst verðinu næst, stakk eg fyrst upp á verði, en hann samsinti á eptir, eður og bætti nokkru við, og skildum svo í vinsemd og glaðværð að öllum þessum skiptum. Sagði eg mínum góða liðsmanni af þessu, hversu til hafði geingið, og bað hann læsa í skrínu sína bækurnar, ef ske mætti prestur vildi kippa kaupum upp aptur. Hann varð rétt sjálfheimskur, hvað eg vildi gera með soddan latínupakk, og ætlaði klerkur mundi hafa gabbað mig og spottað; vildi hafa hlaupið með bækurnar strax til baka, en eg bað hann því innilegar að láta mér þetta eina eptir, svo það varð af, að hann tókst bækurnar á hendur til geymslu og forvaringar. Um morguninn eptir, þá vínið var runnið af presti, kemur hann til tjaldsins, hittir mig þar og heimtar aptur bækur sínar; segir það hafi verið gaman sitt, en eingin alvara, að hafa þau býtti. Bótólfur minn verður fyrir svörum og segir: »Eg hefi tekið þennan dreing að mér, og skaltu aldrei hafa neitt af þeim, nema þú getir bevísað, að hann hafi svikið þig í nokkru«. Fer prestur við þetta svar svo búinn burtu aptur. Þá nokkur stund líður frá og við erum komnir á flakk, koma prestar báðir ofan á bryggju til vor og með þeim sýslumaður þar, Böðvar Jónsson, og höfuðmikill mannfjöldi að heyra og sjá, hvað verða mundi um mig. Sýslumaður hrópar upp Bótólf og segir: »Fyrir mér er andregið, að í þínu tjaldi og

undir þínu forsvari sé einn norðlenzkur strákur, sem narrað hafi bækur út af prestinum síra Guðmundi í gær. Er eg hér kominn að láta hann skila þeim aptur, eður leggja á hann makleg gjöld«. Bótólfur verður fyrir svörum og segir sem fyrr, hann fái þær ei, þar rétt kaup séu gerð; hann vilji heyra nokkrar bevísingar, að eg hafi bækurnar út svikið; prestur hafi verið fullvita, og svo framvegis. Eg segi fram söguna rétta, tek bækurnar fram og segi, hverninn verð var sett á hverja, hverju frómlyndi prests ei mótmældi[1]) í neinu, en hann segir sér sé þó mein og skaði að missa þær. Voru það þó einasta rómverskir sagnameistarar og skáld, en ei prédikunarbækur. Finst nú góður jöfnuður á bókunum á báðar síður. Segir Bótólfur, sök sú skuli leingra komast, ef þeir hætti nú ei að sléttu. Brynjólfur Brynjólfsson var þar nálægur, sem var stjúpsonur Bótólfs, hver eð varð og lögsagnari þar eptir í Vestmannaeyjum, hissaði karl upp að standa með mér af öllum kröptum og gera þeim hvað mesta vanvirðu. Var aldrei kært á milli sýslumanns og hans, svo opt kom til handa milli þeirra. Prestur segir meðal annars: »Eg ætla dreingur þessi viti eitthvað í latínu, því hann hafði svo gott vit á að verðleggja bækurnar«. Sýslumaður svarar: »Eg skal reyna það«, heilsar upp á mig á latínu og spyr mig að: »Hvað þýðir *gramen* (það er gras)? Hvað þýðist *ossa piscis* (það er fiskbein, því þau lágu þar)?« Eg svara eingu, svo hann segir: »Hann veit ekki neitt«. Eg svara hér til: »Fyrst eg veit ekki neitt, þá bið eg yður að fræða mig«. Hann játar því. Eg spyr hann þá: »Hvað margsslags grasakyn er hér? Hvað mörg eru bein í einum fiski?« Hér við brá sýslumanni svo illa, að hann sagði: »Heyrið þið, hversu fjandans strákur þessi spottar mig? Hann er hyggnari en þið ætlið, og hefi eg ekkert með hann«. Verða nú hlátur og sköll alt um kring. En Bótólfur verður því burgeislegri við þennan sigur, útheiglar þeim og segist ei mundu hafa tekið mig í sitt forsvar, ef hann vissi ei,

---

1) Svo.

af hverju bergi eg væri brotinn. Fer klerkur og sýslumaður með sneypu i burtu með mannsöfnuð sinn, en hinn annar presturinn, sem hét síra Benedikt Jónsson, verður eptir á plássinu, er að hlæja, stökkva við fót og veifa staf sínum út í veðrið, því ei veitti af, dátt væri opt milli prestanna; heyrði eg þó, að gott orð lá fólki til beggja. Hann kallar mig á eintal og spyr mig að nafni og ætt. Segi eg honum sem var. Og nær hann heyrir, eg sé bróðursonur síra Sigurðar í Holti, prófasts hans og virtavinar, segir hann mig velkominn í sín hús til allra þeirra góðgerða, er hann megni og eg með þurfi, meðan eg í eyjunum teppist, hvers eg varð allshugar feginn, því nú var eg búinn að teppast þar í hálfan mánuð, og stóð rétt á þeim sama degi, að eg var orðinn nestislaus af feitæti, þar ei kunni að búast við slíkri hindran.

## KAP. XV.

Síra Benedikt spyr mig þá um ýmsar sakir að norðan, segist hafa séð í anda, að eg hafi lært latínu, er eg hafi svo hnittilega sneypt og útleikið prest og sýslumann, að þeirra ferð hafi orðið sú hæðilegasta. Eg segi honum, eg hafi nú verið eitt ár í skóla. Vildi eg sem minst láta á bera lærdómi mínum, hvað sem að kynni koma, að eg yrði ei kennendum mínum og mér til minkunar í framandi plássi. Kom þá á land, þar við vorum, skipherra, mikið frískur maður. Þeir heilsast; var prestur ætíð í góðum virðingum og metum við skipherra, því hann vissi mikið í mælingarkonst, og var þar hjá sá umgeingilegasti maður, frómlyndur, hjartagóður við alla, sífelt glaður og lystugur, hvort sem blítt eður strítt var fyrir hendi, líkamafrískur og léttur í spori; enti og svo þar með sína æfi á áttræðisaldri[1]). Hann segir við skipherra: »Sjá hér einn lítinn Norðurlandsdreing, sem kann að tala latínu«. Hinn lifnar allur við og segir: »Litli dreingur, snakka þú nú nokkuð af latínu«. Eg var tregur fyrir, svo hann segir: »Eg skal gefa þér nokkuð, ef þú

1) d. 1781.

gerir það«. Eg gekk upp við þetta og les nú fyrir honum heilmikla latínuþulu úr *Syntaxi* minni, er honum geðjaðist mikið vel, og því framar sem klerkur sagði honum það hefði verið góð bæn fyrir honum. Lét hann okkur fara fram á skip með sér, trakteraði prest ríkmannlega, en mér gaf hann brauð og svo *mikið tóbak, sem mér nægði í smágreiða* norður aptur; fór svo með presti heim til hans að Ofanleiti. Hann sagði konu sinni, Þuríði Magnúsdóttur, alt af létta með mig; tók hún á móti mér í allra bezta máta; var nú glatt um[1]) Hjalla kvöld þetta. Son átti hann, sem hét Vigfús, er síðar varð prestur, og þjenar nú Einholtsþingum[2]); hafði hann þá verið eitt ár í skóla. Hann setur okkur saman að disputera um ein og önnur orð í latínu og þeirra kynferði. Vegnaði mér öllu betur, sem von var; vildi eg ei minni verða. Prestur fann það og einninn, og sagði: »Ei þykki eg þetta, en þú ert í lærdómi leingra kominn en þú segir. Viljir þú nú gera mér nokkuð til gamans og vilja, eður sé nokkur ærlegur blóðdropi í þér og þú sért af þeirri ætt, er þú segir þig, þá ger nú eina eður tvær latínskar vísur yfir þessi orð: »Hér liggur húfa og flaska á borðinu, og er presturinn að veita mér brennivín«. Af soddan tilmælum og storkunarorðum, og með því eg var orðinn vel hress, get eg ei leingur dulizt og reyni til að gera þar yfir fríhendis þessi vers:

Hic jacet in mensa capitis tegmenque lagena;
Vinaque dat pastor dulcia jamque mihi.

Betur hefði á farið, ef eg hefði kunnað að segja:

Et jam dat pastor dulcia vina mihi.

En svo var eg orðinn framfús, að eg vildi heldur hleypa þeim fljótt af, og þó raung hefðu verið, en láta það ekkert heita. Hér við varð hann glaðari en frá megi segja, og bað mig þá að dyljast ei leingur fyrir

1) Svo.
2) Prestur í Einholti 1775—1787.

sér. Sagði eg honum þá hreinan sannleika um öll mín efni. Hann tók þaðan í frá staðfastri trygð við mig, er hann framhélt svo lengi líf tilentist, — og eg við hann ætíð. Þá eg kom þar eptir í Vestmannaeyjar, tók eg mér gisting hjá honum, og þótti mér aldrei langar stundir hjá þeim góðu hjónum að vera, og þó eg teptist þar vikum saman á stundum. Hann kendi mér persiskan reikningsmáta með 9 baunum á 9 strengjum; vildi og kenna mér stjörnulist og landmælingarkonst. Numdi[1]) eg því miður alt of lítið í því, sem er þó í raun og veru einn hægur og lystilegur lærdómur með góðum tilsagnarmanni. Á eg eptir hann þá bók, er hann helzt iðkaði þar upp á. Meðan eg var fyrir norðan þar eptir, skrifuðustum við á og höfðum skipti saman, og síðan, þá eg flutti mig alfarinn í Mýrdalinn. Um ein okkar viðskipti, þá eg var orðinn djákni, verður síðar um getið til gamans. Við síra Guðmundur kyntustum og æ betur og betur við, og skrifustum opt á í lærdómssökum, en minnustum hvorugir á það forna. Þetta dæmi sýnir, að opt er vandfarið með framandi og ókenda menn.

Í áður sagðan tíma teptist eg hjá presti rúman vikutíma, komst svo með Bótólfi mínum með heilu og höldnu til lands, hvar fyrir var minn norðlenzki ferðakarl, sem þar eptir mér beið. Gekk okkur ferðin norður lukkusamlega. Þessi frásaga barst einhvern veginn norður til biskups herra Haldórs, hversu vel eg hefði staðið mig í lærdómssökum þar syðra, og þótti honum æra og sómi að því, að hans skóladreingur hefði ei borið lægra hluta, og skeinkti mér þá áður áminst *Colloquia Erasmi.* Við Bótólfur skildum í góðum vinskap og lögðum hann því sterkari með okkur, ef framar kynnum að hittast. Féll það svo til, að þá eg hafði flutt mig í Mýrdalinn að norðan, flutti hann sig að austan þangað að Sólheimum ytri, svo nú tókst aptur ný vinsemd milli okkar. Þá eg reið til vígslu, tók eg hann framar öðrum með mér, sem velkunnandi að vera

1) Svo.

með meiri háttar mönnum. Var hann bæði ötull og harður. Trúði eg honum og manna bezt þar á Sólheimum, er eg var prestur orðinn, og brúkaði hann heimuglega að taka eptir og sikta í smáu og stóru mín embættisverk í því áfátt kynni að finnast, mér sjálfum til forbetrunar í embættinu og viðvörunar, hvað sem upp á kynni koma, því umsátur voru nóg, — hvað hann trúlega gerði. Hann var ætíð þar fram kominn, er mér mátti betur líka. Framar venju kom það að honum eitt sinn eptir jól, að fara út í Vestmannaeyjar og róa þar um vertíðar tíma, eins og að margir gerðu þann tíð, með svo bráðum hasti og tilbúningi, að hvorki eg né kona hans gátum aflatt hann einum degi leingur frá þeirri ferð. Hann náði strax skipi frá Breiðabólsstað, sem ætlaði út í eyjarnar. Það forgekk fyrir veðri og brimi, svo hann og allir þar á voru, drukknuðu, og rak eingan upp. En um sumarið eptir um Jónsmessuleytið dreymdi eina konu á Sólheimum, að hann kæmi til sín, og segja: »Eg er hingað kominn, og skila til hans síra Jóns, að hann breiði ofan á mig«. Var farið á fjöru. Fanst þar þá mannsbeinagrind, sem eg lét láta ofan í nýtt leiði í kirkjugarðinum, og ályktaði eg þetta mundi hans bein vera.

Umhugað er einum drottni
allra sinna barna lík etc.

Hans verk og vegir eru ógrípanlegir.

## KAP. XVI.

Þá eg var útskrifaður úr skóla[1]), fór eg sem stúdent heim til móður minnar, og prédikaði fyrst á Allraheilagramessu og svo þrisvar þann vetur. Spáði þá prestur minn og enn fleiri fyrir mér, að eg mundi góður prédikari verða, og jafnvel meiri maður en hann, er eg þó ei undirstóð né heyra vildi, þó guði hafi þóknast að láta það svo framkoma. Það fyrsta

1) Þ. e. 1750.

eg catichiseraði, varð fyrir mér af ungmennunum Guðrún dóttir Skúla fóveta. Var hún svo skörp, að ei sá fyrir hvor betur mundi hafa, þá eg spurði út úr, svo eg mátti þá strax leggja að mér að studera þá iðju, að ei yrði til minkunar. Tók eg þá og fyrir mig að kenna piltum tveimur til skóla, hvað mér vel heppnaðist. Var það og ráð móður minnar, fyrst guð hefði komið mér til manns, þá skyldi eg sem flesta, eg gæti, láta hafa not af því. En hverir þessir og aðrir hafa verið, er eg til skóla kendi, vil eg síðar frá skýra. Prédikunarmáta tók eg eptir presti mínum. Þar til styrkti mig og einn lærður maður, Mr. Páll Sveinsson, kallaður djákni, því hann hafði það áður verið á Munkaþverá, og er það nú á Gufunesi[1]). Hann hafði verið þjenari herra Steins, og þá þjenari og skrifari sýslumanns Skúla á Ökrum (nú fóveta). Léði hann mér postillu *Conrads Diaterici*, er eg kostgæfilega stúderaði, og fór eg opt, til að fræðast af honum, að Ökrum, sem var nálega næsti bær við sóknina að sunnanverðu. Varð þar og fyrir þjónustustúlka, Sigríður Ólafsdóttir að nafni. Er ein ætt með okkur. Hún var mikið guðhrædd og siðsöm. Varð ei uggvænt, að hvort liti hér ástarauga til annars, þó aldrei kæmi til orða. Varð hún þar eptir þjónustustúlka á Reynistað, og þjónusta mín meðan þar var, síðan á Frostastöðum. En þá eg fór austur, fór hún suður, og er nú ektakvinna Jóns farfara í Reykjavík. Guð veit hvað hverjum er fyrir beztu. Eitt sinn, er eg að Ökrum kom, var sýslumaður, þá fóveti orðinn, mikið beskeinktur af brennivíni, að sýnast mátti ei góð ráðdeild í öllu. Hann lét kalla mig fyrir sig og segir: »Nú ertu, Jón, orðinn góðs manns efni; ætlaði eg aldrei svo mundi verða, og ekkert hjálpaði eg þar til, en hafðu nú æru og þökk fyrir það, hversu þú hefir vel forsvarað og farið með Jón litla son minn í skóla«. Því eg hafði tekið hann undir mitt forsvar sem *notarius* eptir bón hans, hvað hann og ærlega launað hafði. Lætur hann mig sitja hjá sér langt fram á nótt, er að drekka sjálfur og kenna mér ýmsar lífsreglur; rótfestust sumar, en

1) d. 1784.

sumar ekki, þar eg þeinkti þær kynnu vera nokkurn part af brennivínsrugli, en það var þó ei svo að öllu leyti. Hann sagði, eg skyldi aldrei áreita aðra að fyrra bragði, meðan ei kostaði stórt tjón, æru eður velferð, ei vera uppstökkur, hvað sem eg heyrði um mig talað, nema þá eg væri opinberlega einhverju vondu borinn, þá skyldi eg verja mig, sem eg kynni, en vera þó seint og stilt farandi að því. Eg skyldi aldrei kaupa tóbak né brennivín til að selja það, eg skyldi taka stóra gætni á slysförum fóta minna. Hafði eg þá tvisvar slasað mig á þeim, og þrisvar hefir mér það síðan til fallið, svo eitt sinn, er hann sá mig haltan við staf ganga suður í Reykjavík, svaraði hann: »Manstu ei til þess, er eg ráðlagði þér eitt sinn forðum?« Hverju eg játaði, og mátti þá sjá með forundran framsýni hans, minni og ráð, að þau voru djúpsærari en eg hafði þeinkt. Að endalykt ráðlagði hann mér að sigla, og sækja þar með eptir betri lukku og forframan, og skyldi eg anvenda af því, eg ætti, í svo mikla peninga sem eg gæti. En færi eg ei að þessum sínum ráðum, mundi erfitt til ganga um lukku mína. Skyldi eg skrifa kunningjum mínum til í Kaupenhafn og heyra ráð þeirra. Þetta féll mér vel í geð, kvaddi hann síðan, kjósandi mér hans fulltingi til þess, hverju hann og lofaði. Fáum dögum þar eptir fór hann alfarinn suður til Viðeyjar. Þetta var 1750. Eg fór til móður minnar og sagði henni af ráðum hans, er henni og vel geðjaðist, því fóveta ráð höfðu henni ætíð vel heppnazt. Skrifaði eg þá strax til Kaupenhafnar, fyrst mínum patrón herra Jóni Thorkelssyni, Skapta frænda mínum, Illuga, Davíð Scheving og Jóni Vidalín, — allir þessir mínir skólabræður voru þá sigldir og við háskólann, — og fékk andsvar frá öllum, að eg væri velkominn út, þeir skyldu aðstoða mig eptir mætti; eg þyrfti yfir alt peninga og vörur, fyrsta gang upp á 80 rdr., sem mér hefði tekizt, því 1 rdr. virði hér var þá þar upp (á) 2 eður 3. Eg treysti mér til að profitera *Sallustium*, mikið af *Ovidii Metamorphosi* og *Hypotiposin Vandalini*, er eg kunni upp á mínar tíu

fingur, en hitt annað, sem þjenaði til að deponera með, sendu þeir mér inn. Eg fór og að stúdera þýzku, þegar eg var í skóla, og nú hélt eg því áfram, þar eg fékk yfrið góðan tilsagnarmann og góðan uppfræðara til þess þar skamt frá, sem hét Gottskalk Þorvaldsson, einn sá ágætasti og frómlyndasti maður, er ei sleit trygð og dánumensku, hvorki við mig né aðra, svo leingi hann lifði. Mitt í þessu mátti eg ei vera aðkastlaus af heiminum. Foreldrar áðurnefnds Erlends sessunauts míns og skólabróðurs, ef svo má nefna, ætluðu til, hann skyldi verða prestur og kapellan hjá presti vorum (þá hann væri orðinn útskrifaður og til þess aldurs kominn, hvað þó aldrei varð), forlugu mig og móður mína herfilega við prestinn, að eg væri að sækja eptir hans æru, embætti og kalli, — sem mér kom aldrei í hug né hjarta, — svo að hann leingi vetrar gat ei litið mig réttum augum, með öðru fleira, og enn fleiri, þar til frómlyndi hans gat það ei leingur borið, og sagði móður minni frá því öllu saman. Sagðist hún aldrei hafa orðið fyrir svo kyndugri lygi og uppdiktan, sem þá var á komin. En svo fór sem von var, að sannleikur allur komst í ljós, svo prestskepnan sem við urðum fegnari en frá megi segja, að lygin rann niður aptur í sinn rétta stað. Prestur hét þá því og enti, að hann skyldi aldrei sinn kapellan verða, þó hann hefði hann til þess uppfrætt og mentað. En eg varð því fúsari þaðan í burtu að fara, og sigla eptir áðurtéðum ráðum og undirbúningi. En forsjón þess mikla guðs hagaði því alt öðruvísi, að hvorki eg né aðrir, sem ætluðu og vildu mig þar til styrkja, urðum sjálfráðir, því vorið eptir, þá áður um getin bréf komu úr Kaupenhafn, þá var þar komin á sú tálman, að þar varð ekkert af, sem reiknast má upptök míns meðlætis og mótlætis, er á mína daga hefir drifið síðan, hvar með þeim alvísa guði þóknaðist að sýna, bæði mér og öðrum, alt það gott, sem hann hafði mér gefið og hvað í mínu hjarta bjó, sér til dýrðar, en mér og öðrum til tímanlegs og eilífs gagns. Hefst sú mín raunafrásaga með þeim tildrætti, sem eptirfylgir.

## KAP. XVII.

Þá hélt Reyniness-staðarklaustur í Skagafirði Jón Vigfússon. Hans systir Guðrún, kona Hans á Möðruvöllum, var þá á lífi. Magnús amtmaður var móðurbróðurson hans. Höfðu þeir báðir mentazt til manns hjá magister biskupi Vidalín, og komust svo í Kaupenhafnar háskóla, hvar eptir klausturhaldari Jón sálugi komst í soldátastand hér um 7 ár. Var þaðan af Jens Spendrup, sem var síðari ektamaður Helgu móður hans, útleystur með stórri peningasummu. Þær sagnir, er af honum þaðan bárust, varðar ei um. En það sá eg opt, er hann tók korða sér í hönd og misjafnt lá á honum, máttu allir vara sig. Hans móðir dró saman stóra auðlegð í föstu og lausu til hans með alt of mikilli áhyggju og naumleika (að sögn); var þó annars góðkvendi. Kemur það nú fram, að þvílíkur auður kemst ógjarnan með lukku í þriðja lið, af hverju eg hefi mátt marga mæðu og sorgarskál súpa um stundir. Hann var og utan öls mikið fastheldinn maður og spakur í framgaungu. En allur annar, framar en frá segja vil, þá hann brennivín drakk, sem komst í það mátalausa óstand, að honum veitti ei af um árið þremur brennivínstunnum, er hann því nær einsamall eyddi. Drakk hann með köstum, að nokkrum dægrum skipti; hafði þá optsinnis varla nokkur frið dag né nótt á heimilinu, að eg ei frekar að kveði. Urðu menn varir við einhverra anda slæðingar, áður vondu köstin komu, að þau urðu fyrir sögð, þó ei væri annað vitanlegt. Alt þetta sá eg síðar og reyndi. Hans ektakvinna var þá Þórunn Hannesdóttir (sem nú er ektakvinna mín). Var henni aldrei ljúft að eiga hann, sem hún hefir mér sagt, heldur var það af kappi, fylgi og fortölum föðurbróður hennar, Hans á Möðruvöllum, sem átti Guðrún Vigfúsdóttir systur[1]) hans, jafnvel þó að slíkt sé virðandi í beztu meiningu fyrir þeim, sem í raun og veru voru hinir ágætustu höfðingjar, — þó hann ei síður að örlæti. Sótti Þórunn mín það í alla ætt sína, að fráteknum einum, sem höfðingjanafn bar,

1) Svo.

þ. e. Guðmundi í Brokey, að hún var og er guðhrædd kona, höfðingleg í útlátum, hreinlynd, gestrisin, hjartagóð við fátæka og nauðlíðandi, með enn fleirum mannkostum. Guð veit hér er ekkert um of skrifað, heldur honum til lofs, er þessar gáfur veitti. Nú svo sem þau voru ei lyndislík, kviknaði hér af sundurlyndi, er svo jókst, að hann tók frá henni mestöll umráð, skamtaði henni svo úr hendi, að sem naumast var til alls tillátið; náði hún stundum nokkru ríflegu hjá honum, er hann drukkinn var og gott var á honum, en það leiddi stundum ei gott eptir sig, því af því hyski, er þar var saman komið, voru nokkrir, sem báru honum þær fregnir, og svo til og frá; sá eður sú, sem var annars vinur, var hins óvinur. Þó tók ein öllum fram, sem Halla hét, er honum þjenti til sængur, hvar um ei meira tala. Einginn vissi, hvað mikið sú taus uppbar hjá honum. Tók það þó yfir, þá hún, þ. e. kona hans, var ólétt orðin að börnum þeim, er hún átti með honum, var hann henni hvað lakastur, barði hana þá og lamdi, og gekk hvað næsta lífi hennar, nær honum var ei aptrað. Sá guð þar betur til, að ei varð það, sem á horfðist. Hver maður, sem henni var þá hliðhollur eður meðmæltur, átti að hafa óleyfileg mök við hana, og svo framvegis, er hana saklausa setti opt í stórt hjartans angur. Hann setti sig í einhýsi frá henni með sinni þjónustustúlku, enda var henni allopt ei óhult hjá honum að vera. Vissi þó guð, að hann átti öll þau börn, er hún kendi honum í þeirra hjónabandi, hvað sem hann þar um sagði og hverja formæling, sem hann yfir þau lagði, sem hryllilegt er á að minnast, og svo, hversu sú formæling hefir fundið illan stað:

Ósköpum fylgir einhver pín,
ó, guð, varðveittu börnin mín.

Allir góðir menn, sem hér til vissu eður fréttu, kendu sárlega í brjóst um hana, meðal hverra og var biskupinn herra Haldór. Vildi nú svo til, að djákni, sem á klaustrinu var og Helgi hét, vígðist til prestakalls; gerir biskup henni heimugleg boð, hún

skuli af þeim stúdentum, er þar séu til, kjósa hvern hún vilji, er henni kunni að vera hliðhollur, eður ganga þar milli til góðs, og benti henni til mín, að hann jafnvel fyndi mig þar til hentugastan. Hún hafði mig og áður séð, er eg var í skóla, því síra Sveinn og síra Pétur, skólabræður mínir, sem voru um hátíðir þar á klaustrinu, lokkuðu mig um ein jól að koma þangað að sjá stað og fólk og slá þar upp á langspil, er eg með list kunni, ásamt syngja með sér, hvar af klausturhaldari hafði stóra lyst á stundum. Var mér þar í bezta máta tekið. Að skilnaði gaf hún mér 2 mörk, en eg lét aptur smíða tvo spegla úr einum, er brotnað hafði einhvern veginn, hvað hún á parti borgaði mér síðar. Féll eg þeim hjónum vel í geð, að þar kemur nú að því, án fleiri orða, að þau biðja biskup um mig, en hann án tafar kallar mig til djáknaembættis þangað. Veit eg nú ei, hvað segja skal eður afráða. Ferð fellur suður á land. Eg skrifa herra Skúla fóveta til og spyr hann, hvað eg skuli nú afráða. Hann svarar: »Fyrst þú ert þangað skikkaður og þetta frambýðst svo auðveldlega, þá á þetta fyrir sér að ganga, og skaltu taka það af«, hvað eg hefði þó ei aftekið, hefði eg vitað, hver vandi þar var, sem áður á vikið hefi. En þá var það hulið fyrir mínum sjónum.

## KAP. XVIII.

Nú sýndist mér vísast það í hendi var; fór því heim að Hólum. Yfirheyrði biskup mig með *examine theologico*, tók mig svo í eið og meðdeildi síðan eitt innsiglað djáknabréf í 9 póstum, dalerað 19...[1]) 1751, óskandi sem hans venja var allra farsælda mér í því embætti. Svo fór eg að klaustrinu, og var þar vel tekið við mér, feingið til verelsis hagkvæmt hús, og fyrir þjónustustúlku að passa upp á rúm mitt og fatnað áðurnefnd Sigríður Ólafsdóttir, er þangað kom um sama mund. Tók eg fyrir mig að geðjast þeim höfð-

---

1) Mánaðarnafnið vantar í hdr.

ingshjónum og þjóna þeim með trú og dygð í orði og verki, og gaf mig nú í fuglveiði á skip klausturhaldarans til Drangeyjar, mest þó af forlystingu að skoða þá aðferð og eyjuna, hvar upp á voru til fuglveiðar og sigamensku kunningjar mínir frá stólnum og einn skólabróðir minn, Þorvaldur Sörinsson, sem djákni varð eptir mig á klaustrinu. Tók klausturhaldari við öllum hlut mínum og sá mér sann fyrir hann, en hjáfleka-fugl minn haf(ð)i eg umkeypis mér til ágóða. Sú hræðsla, er eg hafði feingið forðum í hrafnshreiðrinu, var enn nú ei úr brjósti mér, en (eg) hafði heyrt, sá, sem færi upp á Drangey, legði sig þar fyrir, læsi með andakt Faðir vor, og sofnaði síðan, yrði laus við alla bjarghræðslu þaðan í frá. Fór eg því upp á eyjuna í handvað þeim, er þar lá á uppferðinni, 80 álnir á leingd, er fóveti Skúli, þá hann var stólshaldari, hafði þar til bestilt. Feingu ei aðrir upp að fara en góðkunningjar þeirra, er þar fyrir voru, og var mér þar vel tekið. Sá eg og lærði alla atferð þeirra um festar, net og speld, þó mér hafi það síðan lítið til nota orðið. Nú reyni eg hið annað, legg mig til svefns í afviknu plássi. Þá eg er sofnaður, dreymir mig maður koma til mín, og segja[1]): »Ei þarftu að óttast; hér er ei þitt pláss«, og eitthvað meira mælti hann. Þótti mér þá vera sunginn fyrir mér með allra lystilegasta og mjúkasta lagi þessi sálmur:

Ó, við syndum setnir
með sárlegt glæpastríð etc.

Nær eg vaknaði, undirstóð eg ei, hvað þetta átti að merkja, en sá það alt síðan, sem var mín burtför af minni fósturjörðu, og það hallæri og dauðans neyð, sem guð sendi þar eptir yfir Norðurlandið, hvar frá hann þó náðarsamlega leysti og frelsti mig og mína. Blessað sé hans heilaga nafn! Varð mér þó þetta ætíð í föstum þanka.

Þá að þeirri vertíð linti, gaf eg mig í lestaferð

---

1) Svo.

austur á land, að kaupa fisk fyrir móður mína og aðra, kom að Holti, fann föðurbróður minn, síra Sigurð prófast. Þar var þá fyrir annar prófastur, síra Einar Hálfdanarson, — einir þeir beztu vinir, — og voru þá að gera sér glatt af brennivínstári frammi í kirkju. Þar sat og í bekknum sonur síra Einars, Sigurður, þá djákni hér á Kirkjubæjarklaustri, flugskarpur og lærður maður; varð þar eptir lokatur í Skálholti, og út úr því rænuskertur og afsinna. Eg heilsa þessum körlum. Segir þá prófastur síra Sigurður síra Einari öll deili á mér. Hinn gleðst þar við. Þótti mér hann þó ófrýnn, snar í viðmóti og hastur í orði. Hann segir þá: »Hér er alt vel á skipað. Hér hittast tveir djáknar, já, einn norðlenzkur stúdent undan hendi skólameistara Gunnars, eins míns bezta vinar«, — hvað eg og vissi af fornfræðaskrifum, sem milli þeirra fóru, — og bætir þessu við: »Látum þá nú reyna sig í lærdómssökum okkur til gamans«. Þó prófasti síra Sigurði væri ei um þetta, af kvíðboga fyrir mér, varð þa(ð) þó fyrir sér ganga. Mér var og annaðhvort að gera að uppgefa mig, svo sem ódugandlegur, ellegar að reyna til, hvað eg komst, og segi því: »Láta vil eg eptir, að þessi djákni spyrji mig nokkuð úr *grammatica* minni og *syntaxi*, og eg megi spyrja hann aptur úr þeim«. Þessu var játað. Vissi eg vel, að sú *grammatica*, sem eg hafði lært og mikinn part í ljóðum er, var fljótari og auðveldari til alls en hin, sem hér fyrir sunnan er lærð, og að þær fígúrur voru í þeirri norðlenzku *syntaxi*, sem ei voru hér. En eg kunni þetta ágætlega vel og kann að mestu leyti enn, því eg hefi aldrei látið þá bók frá mér og endurnýja hana á stundum mér til gamans. Verð eg því í þessu grammatisku stríði alt fljótari og fixari, og loksins rekst hann í mútur, þá fígúrurnar fyrir koma. Prófastur segir þá: »Farið frá þessu og í annað«, yfrið bystur. Eg svaraði: »Það er fullreynt, það eg lofaði; eg ætlaði mér hér ekki nokkurt examen að standa«, (þó mér væri hugur að reyna mig við hann framar, hvað vel hefði gert, ef tveir einir hefðum verið, — vildi eg nú ei gera sigur minn að

ósigri), og stökk því í burtu. En prófastur rétt flýgur um gólfið til og frá af reiði, að sonur hans bar lægri hlut, en hinn verður agndofa. Vildi þá svo til, að Þórður Brynjólfsson Thorlacius, sem þá var klausturhaldari að Þykkvabæjarklaustri, kemur í kirkjuna, hjá hverjum hann átti óbetöluð visitazíulaun. Úteys hann þar sinni bræði yfir hann, og hættir ei fyrri en hann hefir þau út hjá honum, og *var bæði gaman og ekki að sjá og heyra til þeirra.* Hér við sefaðist svo hans bræði, sem kastaðist á annan stað, að hann lét kalla mig fyrir sig aptur, og var mér þá hverju barni betri; spurði mig þá á marga vegu að norðan, sérdeilis lærdómssökum, bað mig þá bera kveðju sína Gunnari skólameistara, og hann þakkaði honum, hverninn hann hefði uppfrætt mig; gaf mér svo að skilnaði tvö mörk, en prófastur síra Sigurður Brochmanns postillu, skrifaði og biskupi herra Halldóri þakklætisbréf fyrir mig og mun hafa getið um þennan samfund, því biskupinn frétti hann og gaf mér *Systema Kromayerii,* segjandi, eg mundi ei mikið fletja fyrir sléttum stúdentum, ef eg studeraði það vel; tók þó Þóra hústrú hans af mér aptur eptir hans dag, þar eg gat ei votta að leitt, að mér hefði það gefið. Svo var hún mér fjöndsk í öllu. Til gamans set eg hér til nokkuð fleira um ferðalag mitt á Austurland um þær mundir.

## KAP. XIX.

Árið þar eptir[1]), þá eg var á Reynistað, fór eg enn austur á land til fiskikaupa. Varð eg enn kunnugur góðum og misjöfnum mönnum, og þó eg feingi nógan fisk keyptan undir Eyjafjöllum, var hann hjá flestum þeim svo húsrakur, með öðru fleira, að ei gat staðið sína vikt, þá norður kom, og varð (eg) því heldur að fara út í Vestmannaeyjar og eiga undir von með teppur. Þá komst eg í kunningsskap við þær góðu konur Guðbjörgu Pálsdóttur á Keldum, — og hélzt

1) Þ. e. 1752.

síðan sá góði kunningsskapur milli mín og barna hennar, auðnaðist mér svo eitt sinn á ferð í Breiðabólstaðarsókn, að skíra dótturbarn hennar, sem heitir eptir henni, og læt eg hana nafns njóta, — önnur var Guðný Þorsteinsdóttir í Skógum, höfðingi að allri raun og veru. Áður sálaðist bað hún mig fyrir börn sín, að láta þau ei sín gjalda, því eitthvað af þeim mundi nærri mér verða, hvað og svo var, þá sonur hennar síra Þorsteinn varð mér samtíða í Mýrdalnum. Gaf og guð mér þá nóg efni til þess að bjarga honum, þeim fróma guðsmanni, þá honum á lá. Sakna eg hans enn í dag að mörgu góðu. Betri eru hót en gjafir. Einlægan vin er skjaldfeingið að fá. Hin þriðja höfðingskona, er eg komst í viðskipti við og kunningsskap, var sú stórgöfuga kvinna madame Jórunn Skúladóttir á H(l)íðarenda, hústrú Sr. Brynjólfs Þórðarsonar Thorlacius. Eg var til hans sendur með bréf og reikninga að norðan, því klausturhaldari Sr. Jón Vigfússon og hann höfðu jarða-afgjaldaskipti. Tjaldaði eg að kvöldi á Réttarbakkanum fyrir framan bæinn og ána. Um sólaruppkomu morguninn eptir var eg kominn á flakk, sé eg að rýkur heima, sæki hest minn, tek með mér bréfin og varningspoka minn og ríð heim. Eldhús var austast af staðnum. Þaðan sé eg að kemur til mín vestur fyrir kirkjuna á hlaðið öldruð kona, augnafögur, en ófríð að öðru, með óhreint skuplukorn á höfði, bláþryktan smádropaklút á höfði og trefil eins litan um háls, í sortaðri, gamalli og skörnugri hempu með dökkum kraga, sem brettist með geiflum upp með hálsinum. Skófatnaður var að þessu skapi. Hvort heilsar öðru. Hún spyr, hvaðan eg sé og hvert mitt erindi sé þangað. Eg segist eiga að færa húsbóndanum bréf, og spyr, hvort hann sé á fætur kominn. Hún neitar því, og segir það verði ei fyrri en um dagmál, »en fá þú mér bréfin; eg skal koma þeim til hans fyrir þig«. Eg neita því, og segi: »Mér var upp á lagt að fá honum þau í eigin hönd, og breyti eg ei út af því að forfallalausu, enda sýnist mér þú vera svo skörnug eldabuska, (slæ nú

upp á gaman), að eg vil ei né voga að fá þér þau í hendur, að klikka þau, því eg heyri, hann sé hreinlætismaður«. Hún hlær við og segir: »Ekki lízt þér hreinlega á mig; svona eru eldhúskerlingarnar hér, en trúa mátt þú mér fyrir bréfunum, því trúað hefði hann mér fyrir þeim«. Eg segi það megi vel vera, og spyr hana, hvað leingi hún hafi hjá þeim góðu hjónum verið. Hún svarar: »Hér um 50 ár«. »Auðséð er það«, segi eg, »að stórærlega húsbændur átt þú, að þú ert svo leingi búin að vera hjá þeim í soddan sýsli, sem hér kvað vera, enda er einhver nýtileg taug í þér, að þú skulir þola hér svo leingi«. Hún svarar: »Þó eg eigi hér erfitt annað veifið, á eg annað veifið mikið gott. Eg verð nú að fara og glæða eldinn aptur og vekja upp hyskið á bænum; kem eg svo aptur til þín, en þú bíður mín hér á meðan«. Eg segi, hún skuli ganga í guðs friði. Þá stund líður frá, kemur hún út aptur og með brennivínsglas innan undir hempu sinni, og segir: »Hýrga þig á þessu, meðan húsbændurnir eru að klæða sig«, og segist hún hafa feingið þennan dropa hjá þeim. Fer hún þá að spyrja mig á ýmsa vegu, meðal annars, hvað(a) orð liggi á Hlíðarendahjónum fyrir norðan. Eg segi henni ágætt; þau séu haldnir höfðingjar í heilmörgu, og tel það upp, sem vissi. Einasta komi það orð fyrir, að húsmóðirin sé mikið upp á kaupprang, vilji alt eiga, en litlu launa á stundum. Hún hlær við, og segir raun sé ólýgnust, hvort eg geti nú ei reynt á það, og spyr mig, hverjar vörur eg hafi. Eg segi henni það, og meðal annars 20 hrútshyrningsspæni, hver á 4 fiska. Hún segist halda hún kaupi þá alla, því þar sé opt brotið og skemt þess háttar, og svo fer um annað. Finn eg, að hún er svo kunnug sökum, að hún veit verð á hverju einu, og er sniðug og skörp í öllu viðtali. Fer eg þá að renna grun í, hver hún muni vera, og spyr hana að heiti og föðurnafni og hvar hún hafi verið, er hún segir mér rétt og satt. Sé eg þá, að þetta er og hefir verið húsmóðirin sjálf. Eg upp á tímann tek ofan, heilsa henni virðulega og bið hana forláts á óhöpplegheit-

um mínum og mælgi, og segi, hún hafi svo heimild og stand sitt vilt með búningi sínum, að mér hafi ei til hugar komið, að hún sjálf hafi það verið. Hún svarar: »Það erfi eg ekkert við þig, heldur skalt(u) nú kaupslaga og ætíð héðan í frá mér velkominn vera, og far aldrei hér svo um, að þú komir ekki til mín og látir mig vita, hvað þú hefir þá til sölu«, hvað eg og enti. Og þó hún harðkeypin væri, lét eg hana þó ráða, en vita það; bætti hún það þó ætíð með einhverri gjöf að síðustunni, eður eptir því, sem eg beiddi hana, og hélt því áfram til dauðadags með sama hreinlyndi og ærlegheitum. Nú er að segja til frekara gamans og að sýna aldarmóðinn, er þá var, hverninn framar fór, þá eg fann húsbóndann sjálfan. Þá við húsmóðirin höfðum að fullu kaupslagað og dagmál voru komin, fór hún frá mér inn í stað aptur. Nú er sent út eptir mér, og (eg) leiddur inn í eitt kamers. Þar sat hann fyrir á dönskum langbríkastól, á hverjum klútar og salvetti lágu til beggja handa. Hann var yfrið stórskorinn maður í andliti og að öllu öldungslegur. Hann hafði hvítt lokkaparryk á höfði, sem náði á axlir og herðar niður, í bláum kjól með stórum kúluhnöppum af silfri og studdi sig fram á silfurbúinn reyrstaf við yfirdekt borð. Mátti eg nú brúka öll sniðugheit, er eg kunni, í orði og viðmóti, því hann var stórum upp á það, og afhenti honum bréfin með stóru bugti. Svo var eg til borðs settur og fyrst tevatn borið, síðan einn annar dúkur á borð látinn, og þar á fat með fraukosti: brauði, osti, kjöti, sírópi, smjöri og eg man ei hvað. Í tintalerkinum, er eg skyldi af snæða, var tréplata látin á botninn, að knífseggin skyldi ei snerta hið minsta eður rispa tinið. Þar var og líka við höndina hvítt salvet og tannstaungull, ef með hefði þurft. Var mér hér minkun búin, ef ei hefði áður til manna heyrt og séð. Að þessu búnu var upp á bréfin svarað, og gekkst hún mest fyrir því, — nokkuð betur búin en áður. Að skilnaði buðu þau mér, hvað mig vanhagaði um, hvort það væri nesti, reiðingur, járn eður þesskyns, en eg afþakkaði. Þó mátti eg endilega þiggja brenni-

vínsmörk, brauð og tóbak að því skapi. Svo var þá höfðingja sniður[1]) og lund.

Árið eptir[2]) fór eg enn austur á land til fiskikaupa. Pantaði eg hjá síra Benedikt mínum í Vestmannaeyjum fisk upp á 8 hesta, og tilsetti vissan dag eptir Jónsmessuna, er eg vildi þar kominn vera. En það eg meira þurfti, pantaði eg undir Fjöllunum. Rak eg að norðan í áfanga að svo kallaðri Biskupsþúfu, þaðan að Sandá, — því þar er góður áfangi, — ofarlega í Hreppamannaafrétt; mætast þar vegir úr Skaga- og Eyjafirði. Nær eg er þar lagstur um morguninn, — því vegna hita verða lestamenn á fjöllum að vera á ferð um nætur, þá veðráttu hagar svo. — koma þar Eyfirðingar að tjaldinu og spyrja, hver fyrir ráði, hvaðan við séum og hvað langan áfanga við höfum haft. Þeim er af dreing svarað til þess í einfeldni. Var nú síðari áfanginn ei full þingmannaleið, en hinn, sem farið höfðum, var tvær. Nú er það tíðum metnaður lestamanna, að fara sem mesta áfanga fram hjá öðrum, og var nú hér sú metnaðargirnd og heimska. Þeir riðu frá tjaldinu aptur með hlátri og spotti, segjandi: »Miklir bannsettir og etc. ferðaslókar og skarnbassar eru þessir Skagfirðingar, að þeir fóru nú ekki leingra«, með öðru fleira. Eg heyri þetta, safna móð, sofna um stund, vakna síðan og segi að taka hesta, svipta tjaldi og fara af stað. Nær eg kem ofan í afréttinn, sé eg, hvar Eyfirðingar hafa tekið trúss sín ofan, en sofa hingað og þangað undir viðarrunnum vegna sólbaksturs, sem var. Verða þeir ei varir við mig. Eg kem að Hamarsholti, þeim efsta bæ og næsta á þeirri leið, bið þar að skila til þeirra, að Skagfirðingar hafi séð lestaskíti úr Eyjafirði þar í afréttunum, með enn fleiri níðs- og móðsyrðum. Held eg svo strykinu að Þjórsá á Hrosshyl. En þá eg er að mestu yfir um kominn, reka þeir þar fram að. Þó aldrei hefðum fyrr sézt, heilsuðustum við sem góðir vinir og sem ekkert hefði á milli borið

1) Svo.
2) Þ. e. 1753.

og drukkum saman kátir og lystugir. Sá hét Sveinn á Leyningi, sem fyrir þeim var. Hann spurði mig, hvar eg fisk hefði tilætlaðan. Eg sagði honum: »Hjá síra Benedikt á 8 hesta fyrir pening og vaðmál«. Skildum við í Hlíðinni. Eg fór inn eptir henni og austur undir Fjöll, en þeir daginn eptir út í eyjar, og í einu orði náðu með kænsku og lagi mínum pantsetta fiski hjá síra Benedikt; sögðu og sóru, eg hefði undir Jökul farið til fiskikaupa, er þeir útlögðu honum síðar Eyjafjallajökul. Eg kom út einum degi síðar en til var ætlað. Vildi þá svo til, þá eg landfestist, að síra Benedikt og þeir voru þar á bryggjunni. Þá við höfðum heilsazt, segir hann til þeirra: »Hvílíkir skelmirar hafið þið verið, að ljúga út þanninn fiskinn, er eg ætlaði honum! Látið hann nú allan til aptur«. Þeir gera að honum sköll og spyrja, hvar fyrir hann hafi verið svo trúgjarn og lauslyndur; hann hafi verið svo til vits og ára kominn, kaupin hafi verið fríviljug og hljóti þau að standa, með langt um fleiri storkunarorðum. En til mín segja þeir, það sé lítil þjenusta fyrir orðsendinguna frá Hamarsholti; hafi sér þetta í skapi búið, þá þeir hafi verið að spyrja mig um fiskikaupin. Prestur varð rétt sjálfheimskur og hafði varla ráðdeild á sjálfum sér. En eg lét sem ekkert á mér festi. Mitt í þessu talar einn þeirra til mín og segir: »Far þú nú með klerki kaupanaut þínum og tak þér hvíld og svefn hjá honum, því þú hefir þess þörf, en fáðu okkur í hendur peninga þína og vörur, er þú ætlaðir honum. Við skulum geyma það á meðan«. Eg tek þessu vel, en prestur spyr, hvort eg sé með öllu ráði, að trúa framar soddan föntum. Eg segist þó þar að ráðast, vottfast sé, hverju þeir við taki, — og fæ þeim peningana; fer svo með presti að Ofanleiti og sef þar af með ró, þar til daginn eptir, því svefn hafði ei á mín augu komið þá í 4 dægur eða þar um bil. Nær eg kem ofan á bryggju aptur til þeirra og finn þá, eru þeir búnir að kaupa fiskinn svo mikinn sem til stóð, að ei þurfti annað en binda, og segja nú til mín: »Taktu nú hvorn fiskinn þú vilt, og skulum

við binda hann fyrir þig«, og þáði eg þennan heldur, því hann var eingu síðri. Gladdist þá brún á presti, og sagði: »Nú sé eg hreinlyndi og ærlegheit Norðlenzkra; öðru vísi hefði þetta hér sunnanlands útfallið«. Varð svo gaman og hlátur að öllu saman; fórum svo til lands allir samskipa, og tókum oss góðar hvíldir í Landeyjum, og fór svo hver sína leið. Er þessi frásaga einasta sett til að sýna náttúrulag og ærlegheit Norðlenzkra.

## KAP. XX.

Hið síðasta ár, sem eg var á Reynistað og var búinn að taka þar við nokkurri umsjón, (hvar um síðar kann sagt verða)[1]), fór eg enn austur í sömu pláss til fiskikaupa, og að taka út af Reynirshverfi. Voru þá harðindi á dottin í Norðurlandi, að eg hlaut nú að kaupa bæði kýr og hesta. Hafði eg nú til áburðar tuttugu hesta, en alls voru með 6 kúm og 2 nautum gripirnir 40, en við mennirnir 3 og einn dreingur. Tók eg mér einn mann til aðstoðar alt yfir Þjórsá úr Reynirshverfi, er heitir[2]) Einar Oddsson. Gekk sú ferð af með guðs hjálp slysalaust, þótt á ýmsu kendi, sem oflangt yrði til frásagna. Þó hlýt eg á eitt að minnast, er sýnir, hversu forsjón guðs sá fram í veg fyrir mig og aðra, sem er þetta. Eg skildi eptir tjald mitt og hesta í Holtsoddum undir Eyjafjöllum, og lét þar dreing minn eptir til vöktunar því, sendi annan manninn, sem með mér var, austur í Mýrdalinn, en annar fór með mér út í Vestmannaeyjar. Meðallandsmenn voru og á ferð í Vestmannaeyjum og höfðu þeir að tjaldinu komið, og séð þar meðal annars brúnskjóttan hest, ungan og vænlegan, er eg átti. Einn velmegandi hreppstjóri þaðan var einn í liði þeirra; sá maðar, — sem hét Magnús Guðmundsson, frá Staðarholti í Meðallandi, — hann kom að tjaldi mínu og sá greindan hest.

1) Þ. e. 1754.
2) heiten, hdr.

Svo fór hann út í eyjar, hvar við í mannfjölda hittustum, (og) falar hestinn af mér. Eg lét vel yfir því og spyr, hverninn hestur sá sé, er hann bjóði mér fyrir hann. Hann svarar mjög rembilega: »Þú skalt fá fyrir hann eitthvað bölvað truntuveski, sem hefi«. Eg segi, hann fái ei hestinn fyrir það, heldur einhvern annan jafnboðinn, þó annan lit hafi. Hér við verður hann enn móðugur og segir: »Þú veizt ei, við hvern mann þú átt; eg er einn hreppstjóri og velmegandi nefndarmaður úr Meðallandi«. Eg segi það megi vel vera, en hvorki hræðist eg hans orð né persónu, og muni eg halda öllu mínu fyrir þessu. Tók hann þá til illyrða, sem eg í hæfi gegndi, og meðal annars sagðist hann hafa séð einn afglapa, er vaktaði tjald mitt. Eg bað hann að gæta að, hvað hann kostaði að tala þessi orð til síns bróðurs, og svo sýndist mér hann vera fávís og vesæll að öllu, að ei væri hæfur að fara á góðra manna fundi með fleiru, og svo litla virðing bæri eg fyrir honum, að eg vildi nú fá greindan hest (heldur) einhverjum fátæklingnum en honum; var(ð) hann fyrir því meiri sneypu sem hann var leingur í þeim flokk. Skildum við svo í þeim stað mátulegir vinir, en urðum góðir vinir eptir það er hingað kom. Þó bjó sneypa þessi niðri í honum, því að eitt sinn ætlaði hann að gera mig, og þá prest orðinn, ærulausan fyrir aðtekt á tré í Meðallandi, er eg hafði fullkomna heimild fyrír, og hann sjálfur hafði hjálpað mér til að vinna. En svo fór, að hann ætlaði að verða sjálfur ærulaus fyrir framburð sinn og angefningu, ef eg hefði ei vægt til, og fyrir sýslumannsins milligaungu plátaði hann svo fyrir þá ferð, að hann fór ei til mín aðra eins aptur. Þó var það og er um hann að segja, að þó hann sé svo fávís sem sýnt er, var í honum ærlegheit og mannsart, hverrar hann hefir bæði í þessu og fleiru aðnotið jafnan hjá öðrum mönnum, sem við hann hafa kynzt. Var eg mesti frumkvöðull að siglingu sonar hans Sæmundar[1]), bæði að útvega honum vör-

1) Það er sá nafnkendi prestur Sæmundur Hólm (d. 1821).

ur til siglingar og koma honum undir vernd og tilsögn herra Hannesar biskups, er þá var stúdent utan lands, að hverri lukku sem verður.

Vík eg þar aptur til máls, er eg komst til lands aptur úr eyjunum og í Holtsodda; er þar fyrir ein Meðallandslest. Frá henni kemur til mín einn maður, sem hét Einar Jónsson. Hann falar að mér skjótta hestinn og hefir ei annað til eður í boði, nema útlifaðan jarpan hest, og segist vera á næsta bæ við einn nefndarmann, sem heiti Magnús Guðmundsson, — sem eg kannaðist við. Þessum manni fæ eg hestinn, bið hann að segja frá því velnefndum Magnúsi, og[1]) eg hafi bannað honum að fá honum hestinn, en segi Einari, hann skuli sjálfur hestinn eiga og vel njóta. Geti hann nokkru borgað mér hann, ef nokkurn tíma þaðan í frá sjáustum, þá sé það vel. Annars heiti það ekkert framar, og svo skildum við að þessu. En þegar Kötlugjá spjó 1755, misti þessi maður alt sitt, nema þennan hest, flutti á honum konuna og 2 börn vestur í Fljótshlíð, hvar hann fékk sér aðsetur í koti nærri Teigi, og var þar til dauðadags. Eg kom og um þær sömu mundir að norðan til búskapar á Hellum í Reynirshverfi. Þessi maður spyr þetta, finnur mig nú og tilsegir mér hús til eignar, er hann varð eptir að skilja, og honum varð einginn peningur úr, en mér til stærstu þarfar og hagnaðar, í því húsaleysi, sem að kom. En ei kunni hvorugum til hugar að koma, að beggja vor þörf mundi með þessu bætast, sem þó fyrst orsakaðist af hvefsyrðum Magnúsar, og honum til verðugrar storkunar. Úr greindum tjaldstað Holtsoddum fór eg á svo kallaða Prestsfit fyrir neðan Teig í Fljótshlíð; fór eg upp að Bytru til frænda míns, síra Magnúsar Einarssonar, til að fá mér þar reiðing, er mig vanhagaði um. Hann var nýgiptur og vel við öl. Segir hann við mig: »Þér er krókur að fara út fyrir Kokkslæk af fitinni upp á hálsinn; þegar þú í dag tekur lest þína upp, þá far hér beina stefnu rétt yfir tún mitt, og láttu lestina aldrei við standa; skaðar það ekkert, því nú er veður þurt og reisir grasið sig

1) Svo.

strax við aptur«. Eg hlýddist á þessi ráð og eptirlátsemi, — það tók af heilmikinn krók, — og rak svo lestina rétt upp eptir með gilsbarminum. En þá upp eptir túninu færðist og nær bænum, miklaðist mér að reka yfir svo mikið og gott gras, sem þar var fyrir, og læt hestana fara ofan í gilið, er eg sá að eingan veginn var svo skaðvænt, því eg sá, að fyrir vestan lækinn var mýri með dýjum og stóru þýfi, sem heyrði til þeim bæ, er Grjótá heitir, og er næst fyrir vestan Bytru (Butrildarstaðir réttu nafni). Liggur þaðan frá greindri mýri þýft tún vestur að bænum. Þar bjó þá sá bóndi, er Páll hét, kominn til aldurs, en þó mikið illmenni. Hann sér til ferða minna, og eg muni ætla að reka yfir mýrarhvamm hans, hleypur að heiman með kaðal í hendi og alt hyski hans með hunda og hrossabresti á móti lestinni. Nær eg sé til ferða hans, segi eg mönnum mínum að reka fljótt lestina norður fyrir túngarðinn, en eg ætli að mæta karli. Kemst eg snart á hans fund og bið, hann vilji vera svo góður og hjálpa oss með lestina norður fyrir garðinn, svo einginn verði skaði að, en eg skuli bitala honum strax í hönd, sem hann vilji og billegt sé átroðninginn. En hann blásvartur af reiði svarar hér til illu einu, og með hyski sínu hleypur á móti lestinni í ásetningi að drífa hana austur í fenaugun og lækjargljúfrið, sem þar er, hvað því ólukkuhyski tókst, svo að þar ofan í steyptist af 2 hestum, svo einn minn maður hindraðist þar við. Nú þá eg sá, ei var til góðs að gera, ræðst eg á bónda, bregð honum hælkrók, svo hann fellur á milli þúfna niður og átti bágt með að rétta sig við, því eg þjappaði að honum, og svo hljóp eg reit af reit til kvenskrattanna, er þar voru, og bylti hverri niður eptir aðra, og í einu flugi til hans aptur og galt honum í sömu mynt, sem fyrr, og þótt ei hefði afl við hann, var eg þann tíma fótfimari, sem nú kom vel til liðs. Komst eg þar í mestu herkjur við þetta illþýði. Á meðan þetta yfirstóð, tvístraðist lestin heim um alt tún hans, og gerði langtum stærri skaða en þurfti að vera, ef hann hefði látið sér ærlega fara. Stóðst

þá svo á, að þá okkar áflog voru farin að þverra, var lestin komin norður fyrir garðinn. Komu þá fylgjarar mínir til baka og vildu gera því enn betri ráðningu, er eg aptraði þeim, svo sem betur fór. Sá austanmaður Einar, sem með oss var, varð svo frá sér numinn af hræðslu, að honum varð varla að vegi að reka hestana áfram, auk heldur annað, og sagði að endalykt: »Óttalegt er að vera með Norðlingum; þeir eru hræðilegir víkingar; aldrei hefi (eg) upp á þvílíkt séð«. Hlógum við stutt að þessu. Meðan þessi sameign yfir stóð, var prestur austur á gilsbarminum, og sá, hversu leikar fóru, var að hljóða eitthvað og banda hendinni, að hverju [ekkert gaum var gefið[1]); mátti og ei heldur af vorri hálfu. Bóndi lézt ætla að klaga mig, en eg lofaði honum þá því sama, og skyldi þá betur sjást, hver þræll hann væri. Þessi karl var þó einn meðhjálpari og formaður föðurbróður míns, síra Sigurðar í Holti, en þar fékk hann átta árum síðar soddan sneypu fyrir þennan viðurgerning, að hann fór þar úr stærstu metum. Seinna koma sumir dagar, og koma þó, og hvað einn niður sáir, sker hann tvíllaust upp. En nú skal bæta í munni með öðrum betri. Sá hét Helgi Erlendsson og var á Vindási við Nautavað á Þjórsá. Hann fékk eg opt að fylgja mér yfir vaðið, þá austan kom með lest mína. Geðjaðist honum svo vel mín háttsemi í því, að hann bað, guð vildi gera mig að æfilegum[2]) lestamanni. Opt fundust[2]) við eptir það, eg var hér orðinn innlendur og prestvígður. Spurði eg hann eitt sinn að, hvort hann myndi nú, hvers hann hafði eitt sinn óskað, en hann svaraði: »Já, eg man, en sá vissi betur en eg, er eg bað til, til hvers þú varst hæfur«. Eitt sinn var eg á Íragerði á Eyrarbakka að taka blóð. Var mér gefin brennivínsmörk, er eg hafði ei lyst að drekka, fór því út, ef eg kynni nokkurn að sjá, er eg gæti þjenað með henni. Það var að morni dags, og var kalt veður. Vildi þá svo til, að

---

1) [Svo.
2) Svo.

Helgi reið um götuna, sem þar er allskamt frá bænum, og var að berja sér af kulda. Þá við höfðum heilsazt, gef eg honum það, í flöskunni var, er hann saup af, og fór svo sinn veg glaður út að búðum. Þá eg kom um daginn inn í krambúðina, var hann þar og fjöldi fólks fyrir, hélt á brennivínspott og segir: »Vertu velkominn, síra Jón, gamli kunningi; þú lífgaðir mig í morgun, taktu þér nú hressingu aptur hjá mér«. Eg sagðist hennar ei með þurfa. En hann svaraði: »Brúka einurð þína og ærlegheit, hvar þú ert, og forsmá ei gamlan vin; óttastu ekkert litklæddu karlana, sem hér eru; þeir eru ekkert ærlegri eður meiri en vær«. Að þessu varð gaman mikið. Eg sýndist við að gera að vilja karlsins, að stilla sinni hans. Annars hafði eg einsett mér, sem eg og ent hefi, að drekka aldrei brennivín í kaupstað eður nokkrum mannamótum, að á bæri. Í annað sinn misti eg þar hest, (var hann þá búandi á Hæringsstöðum, hvaðan hann aptur fór að Vindási[1]) og dó þar). Eg segi honum mark og lit á hestinum; tók hann hest sinn og hætti ei fyrr en hann fann hann upp á Skálholtshamri undir böggum. Hafði hann þá leitað samfelt í 3 daga og nætur og ei lagt sig til hvíldar; vildi þó slétt ekkert af mér fyrir það ómak þiggja, nema ef eg vildi gefa sér einn melþófa. Mart[2]) fleira, sem milli okkar fór, tala eg nú ei um. Þetta sýnir, hversu hreinir og ærlegir menn lýsa sér og reynast, þá á liggur.

## KAP. XXI.

Nú víkur sögu til Norðurlands aptur, og tek þar til, sem eg var orðinn djákni á Reynistað. Þjenaði eg þar djáknaembætti í þrjú ár: 1751, 1752 og 1753. Kunni einn stúdent aldrei að fá betra tækifæri að iðka sig í lærdómum en í því embætti, ef hann var hneigður til þess, ásamt að græða ýmsa hluti, ef hann var vinnusamur með. Lagði eg hér á ástundan eptir

1) Vinale, hdr.
2) Mörgu, hdr.

gáfum mínum. Þjónaði eg um slátt hjá klausturhaldara á sumrum og fékk þar fyrir ríflegt kaup upp á 8 rd. og meira, í hverju eg vildi. Tók eg mér fyrir lagsmann til sláttar einn frískan kaupamann, er þar var, og hét Eiríkur Árnason, undan Eyjafjöllum. Af 8 sláttumönnum, er þar voru, voru tveir og tveir settir saman, og útmælt daglega, hvað slá skyldu. Og þá eg og lagsmaður minn vildum léttan á leggja, vorum við búnir með mælir vorn um miðmunda og nónbil, og hvíldum oss það, sem eptir var, þar til aptur kastaði, hvar af vor húsbóndi skipti sér ei, nema þá hey þurfti að hirða. Þar var sú venja, þá ei voru heyhirðingar, var hætt slætti og útivinnu aflíðandi miðaptani á hverju laugardagskvöldi, og haldinn söngur í kirkjunni af öllu heimilisfólki, sem ei var við búverk, og eins á sunnudagskvöldum frá Maríumessu á langaföstu til Michaelismessu, sem nú er aflagt, og því fer svo sem fer, að guðsdýrkan hnignar hjá flestum.

Í slíku velstandi gleymdi eg ráðum Skúla fóveta; keypti nú fyrsta árið mikið tóbak og brennivín, seldi það út aptur með tíðkanlegu okri, en allur sá gróði gekk vonum bráðara og með öllum hætti úr hendi mér, og hét (eg) fyrir mér að gera slíkt ei optar, eins og ent hefi. Bækur mínar og aðsetur hafði eg í kirkjulopti; svaf og þar tíðum fram á vöku, og þótti þar ekkert að, nema eitt sinn réðist á mig sá vondi andi með þeim hætti, sem eptir fylgir. Venja hafði verið, að djáknar fyrir mig höfðu offrað klausturhaldara nýjársvers, og hann þeim svo sléttan dal aptur. En eg fékk ei þann móð að vita fyrri en um kvöldið áður. Vildi eg ei verða eptirbátur með það, því síður sem eg treysti mér til þess og ábatavon var í hendi, og tók með mér einn vinnumann eptir vöku, að vera þar hjá mér um nóttina, meðan aflyki því verki. En hann sigraði svo svefn, að eg sagði honum að fara fram í stað, hvað hann gerði. Að honum burtviknum, heyrði eg mikið braml í kirkjunni. Kirkjan var opin, því logn var úti. Jókst þessi ófögnuður svo, að hurðinni var slegið í lás.

Ætlaði eg þetta glettingar vinnumannsins, þar til mórauður og síðan ljósblár bugur færðist um ljósið og slökti það. En hvað eptir það á gekk, læt eg ótalað. Eg sat sem agndofa um stund af þessum býsnum; saup svo á brennivínsglasi, er þar var hjá mér, tók kertið, fór ofan með hægð, lauk upp kirkjunni, síðan inn í stað, kveikti þar aptur og gekk upp í kirkju, og lauk þar af verki mínu, og varð ekkert að meini. Svo lítið megnar Satan, þá hann er forsmáður, og honum treyst, sem hann og alt hefir í sinni hendi. Tveir prestar þénuðu þar, einn eptir annan, í minni tíð. Hafði eg af báðum gott, þó með misjöfnum hætti. Sá fyrri hét sira Eyjólfur Bjarnason[1]), einn með þeim beztu saungmönnum og prédikurum, brúkaði tóbak upp í sig, en þá hann brast það um embættisgerð, gat hann ei pronuncierað eður tónað fyrir ólundargeispum, og þar eptir fór prédikunin. Eg kvaldist hér af optlega, og sór guði eið með sjálfum mér, að ef mér auðnaðist nokkurn tíma að verða prestur, þá skyldi eg aldrei brúka tóbak um embættisgerð, því ske mætti, eg yrði svo fátækur sem prestur þessi, og sæi eg þá mín afdrif, svo þó mér veitti örðugt að vera tóbaks án í tvo eður þrjá helgidaga míns prestskapar fyrst, þá yfirvanst sú holdsgirnd með því illa þolandi stríði greinda daga, að eg hefi aldrei síðan brúkað það og einga laungun í það feingið meðan eg hefi staðið að þeim embættisverkum. Svo er vaninn sú önnur náttúra. Um hinn prestinn talast síðar. Svo sem mér lék það í lyndi, sem] áður er sagt, svo lærði eg hér að þekkja, hvað friðurinn er dýr, sem alls einginn veit, nema sá, sem hitt þar á móti reynir, því þá drykkjuköstin voru á klausturhaldara, mátti einginn vera óhultur um sig og varla neyta matar síns. Þó var hann lakastur við konu sína, því hann tók fyrir kverkar hennar, barði hana og lamdi, og ei annað sýnilegra en hann sæti um líf hennar, sérdeilis þá hún var ei einsömul. Og hver karlmaður, sem bar þá blak af henni, átti að hafa

---

1) Dó sem prestur í Grímsey áttræður 1778.

með henni óskikkanlegt framferði, og mátti eg einn sem fleiri fá það ámæli hans, sem eg bar því léttara sem eg vissi mig fyrir guði og hreinni samvizku vera þar af óflekkaðan. En þa(r) á milli var hann góður og spakferðugur. Af þessum ósköpum kom það, að bæði eg og aðrir óskuðum, að hann væri dauður; margir betri hefðu verið deyddir fyrir minni sakir, og svo framvegis. En þessi óþolinmæðis og gáleysis orð gerðu mér síðar nógu þunga þanka. Þó hann þanninn gæfi mér þær verstu sakargiptir og gru(n)-semdir um óleyfilega umgeingni með konu sinni, þá trúði hann þó eingum betur fyrir henni en mér, — hvað hann og mátti, — þá hann fór í kaupstað eður aðrar ferðir, og sjálfur brúkaði hann mig til margra út-réttinga annara, því hann fann ei réttgáður nokkur svik hjá mér. Síðasta sumarið, þá hann lifði, fór eg með honum í kaupstað. Þá var þar kaupmaður Tomas Windekilde, er síðar varð einn ráðherra. Þá hann vildi ei taka prjónles hans, rykti hann korða, óð að kaupmanni og ætlaði að reka hann í gegn. Eg hljóp þá á milli og náði af honum korðanum, en kaupmaður féll í ómegin niður af hræðslu; og síðan kom eg á soddan friðstillingu milli beggja, að hér varð ekki meira af talað. Af þessum hans óhæfilega drykkjuskap, hljóp svartur bjúgur í hold hans með spítelsku-kláða, sem hans síðasta sumar hljóp inn að honum með streing yfir brjóstið, svo hann framar venju varð dögum saman að halda við rúm. Svo bar til um haust þess sama sumars, að systir hans, madame Guðrún Vigfúsdóttir, besótti hann, og var þar viku, til alls góðs milli hjónanna. Hélt hann sér frá drykkjuskap svo leingi. Þá hún burtreisti, lét hann mig fylgja henni austur yfir Vötnin, alt (að) biskupsstólnum Hólum, því síra Jón Magnússon þar átti Þórunni dóttur hennar. Þá hún var burt farin, tók hann ákaft að drekka, þar svo leingi hafði frá haldið sér. Og þá eg heimkom að kvöldi dags, voru hjá honum í húsi, er hann hafði sitt mest aðsetur í, nokkrir landsetar hans, er honum höfðu fært leigur um daginn, og smiður hans, er Björn hét, ættaður úr

Eyjafirði, ágjarn og illa lyntur. Honum hafði þangað verið skotið undan böðulshöndum, vegna þjófnaðar og margra annara óknytta, af náungum klausturhaldara, því hann hafði átt góða foreldra. En vegna þeirra manna, er í hlut áttu, skipti sýslumaður Skúli sér eigi af að drífa hann til baka undir það, hann hafði verðskuldað. *Nær eg heyri kít og háreysti í þessu húsi,* gef eg mig ekkert á þann fund í það sinn; fer því í rúm mitt og legg mig til svefns. Alt fólk var og til hvílu komið, nema greindur Björn og áminzt Halla, sem honum fylgdi til sængur. Eg sofna skjótt, og vakna við, þá á nótt líður, er sem til mín sé hátt kallað: »Vaknaðu, Jón, og vara þig, því hann Guðbrandur á Brimnesi er kafnaður í Fúlutjörn«. Þessi maður var til, frændi minn og eitt drykkjusvín, item bærinn og tjörnin. Varð mér svo bilt við þetta, að eg sofnaði ei framar. En þá dagur var kominn, kemur Halla inn til mín með þessi tíðindi, að klausturhaldari liggi dauður í sæng sinni, — og brá öllum við[1]). Fór eg þá að Hólum aptur og sótti systur hans, sem, þó með fleirum náungum, stóð fyrir útfararkostnaði hans. Er hér alt satt og nóg sagt um sinn um þetta efni.

## KAP. XXII.

Að þessu afstöðnu og uppskript sterbús hans, biðja hlutaðeigendur mig, þó eg djákni væri, að taka að mér alt búið til vorsins, eður þar til skipti í því fram færi, því húsmóðirin var þá þunguð að barni og mátti litlum umsvifum mæta, hvað eg gerði sem eg kunni, enda fékk eg það ærlega borgað sem skiptaaktinn sýnir. Nú vildu bændur og aðrir út í frá halda sama vana að færa þangað brennivín, fá fyrir 5 potta 3 fjórðunga smjörs, og drekka sig fulla af því ofan í kaupið, áður viðskildu. En eg betalaði þeim sem vert var eður lét þá fara burt með sama. Þá aðrir heyrðu þetta, hættu þeir með sínar fórnir, sem betur fór, hvar fyrir eg komst í stóran óþokka

1) Jón klausturhaldari andaðist 28. Sept. 1752, enda stendur það ártal hér á spássíu.

hjá þeim, og sögðu, köttur væri kominn í Bjarnarstaði[1]), lögðu mér alt til lýta og skammar, sem djöfullinn gat sem frekast uppdiktað í þeim; sumir lýstu eptir skuldum, er eg vissi, þeir lugu upp á klausturhaldara, af því eg var svo kunnugur hans sökum. Illgirnin og öfundin gat ei þolað, að eg svo umkomulítill, sem eg þá var, skyldi komast til þvílíkra umráða; fóru því að flimtra í pukri, að eg ætti barnið, sem húsmóðirin geingi með, sem guð veit, að var og er argasta lýgi, — sem hún (Karítas) sýnir og sjálf, að hún á í eingu ættarmót við mig eður mín eigin börn, — að eg hefði séð fyrir lífi klausturhaldara. Þetta bölvað kvis hagnýtti þrællinn Björn sér, og lét til mín með falskheitum berast, að fyrir mig og húsmóðirina mundi hann vita um afdrif klausturhaldara. En eg lét honum aptur berast, og sagði honum með berum orðum síðar, hann skyldi sjálfur gæta að lífi sínu, því annars feingi hann ei til launa, nema missa það, ef hann hætti ei sinni uppdiktan, því hann vissi, við hefðum aldrei beðið hann þess, og lét hann þá af. Þó grófu um sig alt of mjög í hjarta mínu áður áminst ummæli mín og annara, að skeð hefði getað, hann hefði um kvöldið eitthvað harðhnjakað honum, sem hann hefði til dauða leitt, hvar um eg vildi þó ekkert spyrja hann. Þetta vonzkubullt[2]) gekk mér svo nærri, að eg fór til sýslumanns herra Björns Markússonar, sem þar eptir varð og er nú lögmaður, og sagði honum frá þessu kvisi, er væri í muddi[3]) þar og þar, og bað hann um aðstoð að koma því svo á lopt, að þeir seku feingi makleg málagjöld. En hann sagði, eg skyldi forsmá soddan þvætting, því það væri ei, nema að mæða mig þess meira, nema ef einhver fyndist sá, sem mig vildi því opinberlega bera, og mundi það einginn vera; héti það þá ei annað en berikta sjálfan sig. Sá eg þetta voru beztu heilræði og sannindi, og

---

1) Svo hdr. Sbr. vísu Hallgríms Péturssonar:
Kalla má að komi þar
köttur í *Bjarna* staði.

2) Svo, hdr.; líklega misskript fyrir: vonzkubull.

3) Svo.

lét þá svo mæða sig forgefins. Kom og einninn að því, sem lögmaður til gat, að hvar eg fór að leitast eptir nokkru því, er eg gæti kl(e)mt slaðrara þá með, varð ekkert fyrir, sem von varð á. Guð er sannleikurinn.

Sá siðari klausturpresturinn hét síra Halldór Jónsson[1]), frændi minn, og skólabróðir tvö ár. Hann átti eptir þann lærða mann síra Eyjólf Jónsson á Völlum[2]) miklar ágætar bækur, hvar af eg hafði mikið lærdómsgagn og vísindi. En sú hans góðvild og kærleiki varði ekki leingi, því hann varð minn skæður mótpartur og sá viðsjálasti um nokkurn tíma. En áður hann burtkallaðist, vorum við or(ð)nir aptur vinir sem fyrri. Orsök til þess ágreinings og sundurlyndis voru skammarlegar nafnagiptir, sem helzt komu upp í Reynistaðarsókninni og færðust svo út yfir tvö þinglög, að skikkanlegir menn voru uppnefndir með ljótum og blygðunarlausum auknöfnum, hvar eg, húsmóðir mín og hver skikkanlegur maður á klaustrinu voru hvað smánarlegast uppnefnd. Þá eg talaði um þetta við prest, að soddan væri ei líðandi, eyddi hann því sem hann kunni, ei án orsakar, er síðar varð raun á. Fór eg eingu síður á sýslumanns fund og 3 aðrir, sem slíkt fjandans spil þótti ósæmandi. Hann gaf oss út stefnudaga. Við fjórir angefarar sakarinnar tókum aptur einn góðan lagamann, sem hét Þorkell Þórðarson, sem komst suður á Seltjarnarnes síðar, varð þar lögréttumaður og deyði þar[3]). Hann sótti þetta mál. Voru 3 þinghöldin, og sóru hér um 70 manns, og lá víð sjálft, að skikkanlegir menn feingi hneysu af, sem ei mundu að bera rétt af sér illmæli þau, er þeir höfðu heyrt og eptir haft. Rakst þó þar að, að heimilishyski prests og kotungar þar urðu upphafsfinnarar þess athæfis, hvað þá prestur fornam, fékk hann til liðs með þeim og varnar einn þann ferðugasta lagamann og kuklara, bróður sinn,

1) Síðar kirkjuprestur á Hólum og prófastur í Hegranessþingi, dáinn 1769.

2) d. 1745.

3) stúdent, d. 1778 í Hólakoti við Reykjavík.

er Hallgrímur hét, sem varði þetta bannaða lið með öllum uppþeinkjanlegum hætti, sem guð lét honum þó ekki heppnast, fyrir grundaða og réttvísasta framgang sýslumanns og vors fullmegtugs, svo þar kom að loksins, að 12 urðu sannir að sökinni, 10 af þeim fleingdir á einum degi, en 2 keyptu af sér húðlátið, og feingu sþo makleg málagjöld. Sefaðist hér við margir þeir þvættingar, sem áður geingu þar, að hver tók betur vara á orðræðum sínum, bæði um mig og aðra. En sú tíð kendi mér mikið réttargangssakir og aðferð.

## KAP. XXIII.

Um þetta bil var mín góða húsmóðir orðin ekkja, sem áður er sagt; fékk hún soddan langsemi og svefnleysi, að hún mátti ei einsömul vera, og vildi það ei af fara eptir það hún ól barnið, er hún gekk með, eptir jólin. En þessi hennar neyð og barátta varð að tildrætti okkar hjónabands. Eg og þjónusta mín Sigríður Ólafsdóttir urðum helzt fyrir því að vaka hjá henni með ljósi um nætur. Gekk svo þetta nokkra tíð fram, þar til greind Sigríður finnur upp á eitt ráð, sem sýna skal eina þá rörustu dygð og mannkosti, er hún hafði að bera. Við höfðum þanka hvort á öðru til ektaskapar, þá guð gæfi efni og gott tækifæri til þess, og vorum þó aldeilis óflekkuð hvort af öðru. Hún segir eitt sinn við mig: »Legðu þig í fötunum fyrir framan hana í rúminu, og vitum, hverninn fer«, sem eg og gerði. Fékk hún hér af fljóta værð. Hún segir framar: »Nú sjáum við, hvað henni má verða til líknar: Hún hefur huga á þér«. En eg segi henni, það sé jafnnært, hún viti minn annan þanka; hvorki muni eg fá hana, og þar með reisi eg mér hurðarás um öxl, og mart þesshátter. En hún svarar: »Hún er þó sú ein hreinlyndasta og bezta kona, en orðin sára angruð og mædd, af því hún hefur liðið, og þarf sérdeilis góðan og lempinn mann, sem fari hér eptir vel með hana, og veit eg þar til eingann betur fallinn en þig, og verður þú nú að hafa guð og þitt gott geð fyrir

augum, og hjálpa upp á hana, og muntu sanna það, að guð mun hjálpa þér fram úr öllu, og hún mun verða þér góð, þó hún sé þér ríkari; skulum við bæði vinna það til að slá frá okkur öllum okkar innbyrðis þaunkum, og aldrei skal eg misvirða slíkt fyrir þér. Guð sér einhvern veginn fyrir mér«. Hvað ogso varð sem áður er sagt; hefur þó síðan haldið fram sömu ærlegheitum við mig og börn mín, og opt gefið þeim peninga, þá til hennar hafa komið. Svo er dygðin sín eigin laun. Orðleingi eg það ei framar. Eg féllst á þessi ráð hennar. Hún þar eptir sviptir af mér utanhafnarklæðum og drífur mig upp í rúmið, og byrjuðust svo okkar fyrstu þess háttar samfundir með heitri bæn og sárum trega á báðar síður; bundum svo í guðs nafni ástir saman, sem þó of bráðar urðu í þeim óyndisúrræðum, að undir kom fyrir tíma barnfuglinn Sigríður dóttir mín. Þá eg varð var við þetta, sagði eg móður minni alt af létta, sem alt lagði til það heilasta, og tók barnið til sín frá móðurhnjám þar eptir. En hún skrifaði bróður sínum Laurusi á Urðum í Svar(fað)ardal til heimulegt bréf, og sagði honum, hverninn ástatt var, og að hún vildi taka mig til ekta, og bað hann um liðsinni þar til. Hann, sem var einn sá hreinlyndasti og bezti maður, tók þessu vel og lagði út ráð, eg skyldi það bráðasta útvelja einhvern náunga minn eður veltalandi skikkanlegan mann og senda til móður sinnar madame Jórunnar Steinsdóttur í þá giptumálaleitan; skyldi hann og með þeim sama skrifa. Þá til þeirra efna kom, feingum við eingann, því þeim sýndist þetta væri ofur hátt fyrir mig, en niðurdrep fyrir hana, og mundi því verða forgefins ferð til móður hennar. Tók eg mig því upp sjálfur og með mér Þorsteinn bróðir minn, komum við að Urðum, hvar Mr. Laurus tók vel á móti mér, skrifaði með mér, kom fyrir hestum mínum, útvegaði mér bát yfir sjóinn upp á sinn kostnað og lagði mér orð í munn að tala við móður sína. Okkur var sagt, að lending væri vestan undir Höfðanum, einn bás, er við yrðum að hitta, því við vorum ókunnugir. En svo var liðið á dag, að

við komunst þangað ei að fyrri en dimt var orðið af nótt, og hittum ei lendingarbásinn; komunst við þar í urð, og var stór hlífð guðs, að við skyldum ei deyða okkur og molbrjóta bátinn; þó vísaði mildi guðs okkur á eitt vik, er við komunst að landi, og brýndum þar bátnum upp með skautaburði, að honum var óhætt fyrir sjó. Féllu kunnugir menn í forundran, að við skyldum þar hafa lífs af komizt. Dagar voru ei enn uppi. Geingum við svo heim að Höfða. Þar var og er kirkjustaður, en síra Jón Gunnlaugsson hét sá prestur, er þar var þá. Hann var gagntryggur og trúfastur maður, ættaður úr Skagafirði, einn sá bezti vinur móður minnar og mér kunnugur; tók hann vel við okkur, léði mér hesta og fór svo með mér sjálfur upp að Laufási. Var þá prófastur síra Stephán Einarsson ei heima, ektamaður madame Jórunnar. En svo sem hún var ein höfðingskvinna og mesti kvenskörungur að allri raun, sjón og veru, svo lét hún ei vora yfirsjón á sér festa, heldur tók á móti mér sem góð móðir, sem hún og reyndist mér þaðan í frá meðan hún lifði í öllu því, hún megnaði, skrifaði Mr. Laurusi til og gaf honum fullmagt að vera fyrir sína hönd, þá kæmi að okkar hjónabandsdegi. Síra Jón, sem fór og með mig til baka, hélt og trygð við mig til dauðadags. Eptir þetta voru afgerð erfðaskipti á Reynistað. Varð hennar máli 90 hundr. í fasteign, en lausaféð upp á 303 ríxdali, tveggja piltanna hvors um sig, fyrir utan fasteignina, uppá 166 ríxdali, en stúlkunnar upp á 83 ríxdali. Fyrir barnanna hönd var eptir fullmagt síra Jón Magnússon á Hólum, sem þann tíð var stiptprófastur og í biskups stað, en hennar vegna bróðir hennar Lauritz. Varð þá barnafénu ekkert aflétt, því allir þeirra formyndarar afsökuðu sig að taka þeirra umboð. Stóð svo alt saman í þessari þynku. Þá var og úttekið klaustrið með öllu sínu til heyrandi handa Þóru Björnsdóttur, hústrú herra Halldórs sáluga Brynjólfssonar, sem því náði með svikum og prettum, ásamt fylgi Skúla fóveta, undan Þórunni minni, sem ætlaði að bjóða upp á það. En hún naut þess með litilli

farsæld, eins og hún aflaði þess. Um vorið var klaustrið yfirskoðað, og var þá ofan á það lagt 60 rd. Hélt eg um sumarið starfsaman, stuttan og digran böðul, er Árni hét, sem hlóð og þakti svo hús, að álagið varð um haustið 20 rd., sem skiptaaktinn sýnir. Til að taka út klausturafgiptina 95 rd. specie, betala kaupstaðarrestance 10 hundr. og taka út til búsins lét eg inn í kaupstað í sömu tið 900 fjár og nokkuð betur á einum degi. Þurfti þetta harðfylgni og aðgæzlu. Fyrir hönd frú Þóru var sá mektugi Bjarni Halldórsson á Þingeyrum, og var þar við ekkert barn að eiga. Hún gerði oss alt til ills og örðugleika, sem hún kunni. Hún sendi þangað ráðsmann sinn um sumarið, þá sláttur var kominn, og hyski með honum, og lét taka af oss hálfan eldivið, hálf tún og eingjar, og lá við um heyið sjálft, er búið var að hirða. Bauð sýslumaður okkur að dæma þennan umgang af. En þar hún hafði svo mektuga menn til fylgis, vildum við heldur líða en stríða, því fyrir sást, að þeir mundu hrekja það rétt frá rétti, enda var og upp á hana rekið og sett alt kvikt klausturins inventarium, sem voru helzt 24 hestar og hryssur, sem alt drapst aptur um veturinn. Svo hagaði forsjón guðs þessu sem fleiru okkur til lukku á móti tilstilli þeirra. Kúnum var og útsvarað. Eptir stóð einasta 70 álnir, er eg hélt eptir af ásettu ráði, því eg þóttist eiga hjá frúnni mitt djáknasalarium þá 8 mánuði, er eg þénti því embætti frá því hún fékk klaustrið, en hún svaraði þar til ei nema illu einu, og kreisti útaf mér téðar 70 álnir að síðustunni.

Nær þetta klausturstapp og skipti voru afstaðin og í endalykt þess, trúlofaði presturinn síra Halldór okkur saman. En í hjónabandið vorum við gefin þrem dögum síðar, því svo var lýsingum hagað, og var ei samkoma herranna sundurslitin. Var í því samkvæmi borðsitjandi 90 manns, og hvað þar upp gekk af mat og ölfaungum þann hálfan mánuð, sem alt það yfirstóð, get eg ei frásagt; en svo varð uppgangssamt, að í vandræði sýndist og vanefni mundi komast, þá mest skyldi hófa og við hafa. En svo

sem hún, hvað sem um mig má segjast, setti ávalt sína von til guðs í allri þraut, lagði hann þetta á borð fyrir oss, að af viðaráði[1]) var dregið í ána rétt fyrir framan bæinn. Þar gáfust þá 60 laxar; vó hinn minsti fjórðung, en hinn mesti rúma 3 fjórðunga, og svo hver þar á milli, svo ei alleinasta varð alt þar með yfirfljótanlegt i það sinni, heldur til góðs vetrarforða. Vissi einginn þar hefði fyr þvílík veiði gefizt.

## Kap. XXIV.

Við komum svo saman í heilagt hjónaband á Michelsmessu, 29. Septembris 1753. Var madame Anna Dorothea, frú herra Björns Markússonar, þar forgangskona að tilbúa rétti og þvílíkt, sem alt fór í ypparlegu og bezta lagi. Hún hafði með sér eldpott og þar í logandi járntein til að ótta skríl frá búri, og að hún skyldi með alt það hafa liðugan gang; og var það mikið vel til fallið, þó það líkaði eigi öllum. Hún kom því og so til leiðar, að höfðingjar og nefndarmenn offruðu presti á altari eptir afstaðna hjónavígslu. Varð það að samtöldu 10 ríxdalir. Fékk hún fyrir þetta alt hrós og geðþekkni. Við launuðum og henni sína fyrirhöfn ærlega, enda hefur hvorki hann né hún slitið trygð og trúfesti við okkur. Fyrir mína hönd fékk eg officialem áminstan síra Jón Magnússon, en fyrir hönd Þórunnar minnar var bróðir hennar Lauritz. Við drykkju daginn eptir talaði síra Jón til mín, hvers náfrændi eg þó er, og sagði: »Aldrei varstu, Jón, verðugur þess að eiga hana Þórunni Hannesdóttur, þó það verði nú svo að vera«. Þar til svaraði Lauritz: »Stendur þú ei betur með honum frænda þínum? Sá er fuglinn verstur, er í sjálfs síns hreiður drítur. Haf þú nú skarpa skömm og vanþökk fyrir heimsku framhleypni þína. Fyrst guð vildi svo hafa það, þá mega allir þar um þegja, og þú ei sízt. En máttugur er guð að gera hann að miklum manni, og þar til skal eg héðan af styrkja með ráð og dáð«, — eins og hann enti. Allir aðrir gáfu hér að góðan

1) Svo.

róm og sefuðu frekara upphlaup, sem hér af ætlaði að verða, svo sneypan lenti mest á prófasti sjálfum. Höfðu og fleiri horn í síðu hans vegna fávizku hans og stoltheita. Tveim vetrum síðar héldu skólapiltar honum gildan Snorra, og með þann rassskell með öðru sléttu mannorði komst hann úr Norðurlandi vestur að Staðastað. Eptir lifir mannorð mætt, þó maðurinn deyi. Það var og munur bræðranna, að Skúli fóveti sagði, þá hann burt fór: »Fari nú Skagafjörður ætíð vel«. En hinn: »Fari hann í h(elvítis) h(unds)rass«. Orða er hver ráðandi. Strax eptir sama haust lagði(st) yfir mikill snjór, sem aldrei tókst upp, heldur óx æ meir, og tók ei fyrr upp en sólbráð kom vorið eptir, hvar af mesti gripafellir orsakaðist, síðan hungursneyð og mikill manndauði, sem viðhélzt í tvö ár þar eptir. Mistum við þá nærfelt allan sauð- og hrosspening, en kúnum héldum við eptir; hér með lenti á okkur barnaféð af vankunnáttu minni og góðmensku, sem mér hefur optar að mæðu komið. Urðum (við) þá að selja Öðulstaði[1]), 60 hundruð, fyrír 200 rd., þar jörðin var bæði orðin niðurnídd og bygðist ei nema með litlu afgjaldi, en hin 30 hundruðin seldi Jón stjúpsonur minn í sínu rasi síðar meir. Þanninn fór sú fasteign.

Um veturinn 1754 sálaðist síra Stephán í Laufási. Kaus hann mig eptir sig, og enn fleiri studdu þar að; fór eg að sækja þar um, sendi að Hólum eptir erklæring til stiptprófasts síra Jóns. Hann hélt manni mínum svo leingi hjá sér, þar til búin voru leynibréf, er hann sendi með honum fyrir mág sinn síra Jón Vídalín, hver eð fékk það kall, en naut þess ei leingur en 4[2]) ár, þá þau dóu þar bæði. En eg fékk (það) andsvar, að vegna þess (eg) of snemma hefði komið í sæng kodu minnar, kynni mér ei brauð veitast án konglegrar uppreisningar, og hér af kom sú forordning hér inn soleiðis hljóðandi.

Þennan vetur flutti eg mig á vagni frá Reynistað yfir að Frostastöðum. Tók eg hann til leigu hjá

1) Þ. e. Auðólfsstaði.
2) rétt: 12.

Þóru húsfrú. Það voru þau einu góð not, er eg hafði af henni.

Nær ei varð af eg feingi Laufásinn, skrifaði teingdamóðir mín mér til, að eg skyldi til sín koma og útvelja mér bækur, — var hún þá komin að Grund í Höfðahverfi, — hvað eg og gerði, og valdi mér þær upp á 20 ríxdali. Eg fékk henni aptur það henni bezt hugnaðist. Hún gat þá ei betur við mig gert en hún gerði. Meðal annars nefni eg eitt af fornaldarmóð til gamans. Nær eg skyldi hvílast og búið var að draga af mér stígvélin, dregur hún af mér sokkana sjálf. Þar er við höndina mundlaug með volgu vatni. Þar úr þvær hún [allar mínar fætur[1]) og fram á milli hverrar táar, og þurkar svo nákvæmlega vel aptur og signdi svo yfir. En þá kvöl, sem eg hafði, að bera af kitlum, sem eg hafði í iljum og tám, verður ei af mér útmálað. Eg komst allur í svita af þeirri ofraun, því eg mátti ei láta bera á þeirri meinsemd. Hún hafði ein þau dægilegustu kvenmannssaunghljóð, sem eg hef heyrt, sem hún og haft hafði óskert til dauða, er hún burtkallaðist á áttræðisaldri. Blessuð veri minning hennar!

Á Frostastöðum var eg með bú mitt frá fardögum 1754 til fardaga 1756, þá eg fór þaðan alfarið austur. Þaðan sigldi frá mér áðurnefndur Björn, því hann vildi forframast með sínu smíði, og kemur hans ærulausa minning síðar fram. Þar bygði eg mér stofu, 4 stafgólf með lopti, þiljaða í hvolf og gólf, er eg skeinkti aptur Lauritzi mági mínum, er eg burt fór. Hann tók af mér umboð yfir Hofseign stjúpsona minna, sem hart nær lagðist í eyði. Kom hann á hana aptur byggingu og kúgildum móti líkindum, því hann var gagndrífinn maður í allri búshöndlan. Hin önnur hús, er eg að keypti og upp bygði þar, fóru aptur í hestaleigur með litlu verði, er eg flutti mig þaðan. Þar mun leingst af sjást eptir mig rennslustokkur 500 faðmar á leingd. Í hann hleypti eg kvísl úr svo kallaðri Þverá, sem rennur þar fyrir

1) [Svo.

norðan milli bæja, og veitti svo vatni yfir alt túnið. Voru þar fyrir þess háttar stokkar, er eg upp gróf og endurbætti. Eg gerði þar langskurð í eina mýri fyrir ofan bæinn undan holti þar, náði þar um síðir vatnsæð undan einum steini, og gerði þá eitt það bezta vatnsból, á hverju áður var skortur á þeim bæ; brúkaði eg helzt til þessa starfs áður nefndan Árna.

Nú þar sem þau dauðlegu harðindi héldust við í Norðurlandi, en Reynir og Dyrhólar hér eystra, sem stjúpbörn mín áttu, voru komin í ýmislegt ó-stand, svo gjöld af þessum eignum voru bæði lítil orðin og enn gagnsminni börnunum til uppheldis, en eg sá hér var í mörgu bjargvænlegra en fyrir norðan, setti eg mér í þanka að flytja mig hingað, hvað minni góðu konu var og ljúft. Talaði eg um þetta við ýmsa náunga mína og góða vini, hverjum og leizt, að mér væri þetta bezta ráð, og létust vilja fylgja mér og styrkja mig þar til í öllu og jafnvel færa sig þangað búferlum með mér. En þetta um-breyttist alt, þá þeir sá[1]) mér var alvara. Þá gerðu að því sumir spott og háð, að(r)ir (sögðu), eg mætti vel vera kjur[1]) á minni fósturjörðu og meðal frænda minna, og fleira þvílíkt. En hverninn sem þeir létu gat eg ei um breytt minni fyrirætlan, sérdeilis, þar bæði kona mín og móðir mín, sem voru bæði guðhræddar og greindar konur, voru ekkert á móti því, né held-ur teingdabróðir minn Laurits, og fór kona mín á hans fund til þeirrar ráðagerðar með fleiru. Bæti eg hér í einni frásögu, þó ei komi við þetta efni, heldur útmálar hún, hversu sterk guðs varðveizla er yfir manninum, og svo, hversu Satan sé kröptugur í börn-um vantrúarinnar. Þá kona mín fór til fundar við bróður sinn, segir hún við Sigríði Ólafsdóttur, sem okkur var ætíð handgeingnust: »Guði og þér afhendi eg nú hann Jón minn, því manna bezt trúi eg þér fyrir honum. En mér segir svo hugur um, hon-um liggur eitthvað á þínu liði meðan eg er í burtu«.

---

1) Svo.

Hvað hún sem eg tókum fyrir gaman og alvöru. Greind Sigríður, sem alt mitt heimilisfólk, svaf í skála langt frá baðstofu, en þar svaf eg í einu húsi, sem var við annan hennar enda. Nær eg eina nótt um haustið var til svefns kominn, þykist eg sjá, að kvenmaður komi[1]) til mín inn í húsið, og það vera madame Anna, kærasta Björns lögmanns, sezt í bekkinn við borðið og segir: »Mér er kalt«. Eg þykist segja: »Eg skal strax á fætur fara og skaffa Madammen suchen[2]) og tee«, og rís upp til þess; en hún aptur stendur upp og leggur ískalda hönd á brjóst mitt. Eg þykist segja: »Víst er henni kalt«. Hún færir hendur neðar, en eg segi: »Veri maddaman góð. Þetta er ei skikkanlegt«. Og ætla eg að hrinda henni frá mér, sem mér ei tókst, heldur fleygir hún sér allri ofan á mig með soddan kulda-þunga og ónáttúrlegheitum, að mér lá við lífstjóni, og leitast þó við að færa hendina fyrir brjóst mitt, að gera þar kross, því nálega var eg nú milli svefns og vöku. Þá eg var að þessum umbrotum og viðleitni, þykir mér hún segja: »Bliv stillen[2]), Sigríður kemur«. Og með það kemur hún með ljós í baðstofuna, en þessi óvættur hverfur samstundis. En eg lá eptir í dái sem lurkum laminn og gat varla talað, og vakti svo Sigríður yfir mér máttförnum og uppþrútnum alla þá nótt til enda. Hún var rammskygn og varð eitthvað var[2]) við þennan óvætt, þá inn hjá fór, og því klæddi hún sig og kveikti ljósið, að vita, hvað um mig liði. Sannaðist hér, að ein nótt er ei til enda trygg.

Saga til þessa óvættis er þessi. Prestur var á Völlum í Svar(fað)ardal. Hann eignaðist dóttur prests síra Jóns Sveinssonar á Barði í Fljótum. Annar maður vildi og eiga sömu stúlku, sem af mannvonzku uppvakti draug, sem drap bæði hjónin, en Barðspresturinn náði barninu, sem stúlka var, hvar af mikill ættleggur er kominn, en kom svo fyrir þessum uppvakning, að einginn vissi, hvað af honum varð. Leið

1) koma, hdr.
2) Svo.

svo hér frá hér um mannsaldur eður 80 ár, að einn vetur var tekin gröf að barni fyrir framan kórdyr, sem prestur átti á Barði. Nær hún var fulltekin, kemur þar upp einasta einn langleggur úr hesti, og var tappi settur í annan endann. Sumir vildu, en sumir ei, af þeim, sem gröfina tóku, taka úr tappann, og vita, hvað í leggnum væri. Varð það af, að þeir fyrru[1]) réðu. En þá þeir tóku úr tappann, flaug þar út úr ógnarleg fluga. En strax þar á eptir sást, þá húmaði, um ganga stelpa í dönskum búnaði, sem sama kvöld drap hestinn prestsins, og þar eptir, að sagt var, 13 manns, hvar með voru þeir, sem losuðu um tappann; item ýmsan kvikfénað þar í Fljótunum. Þó deyfist[1]) þessi andi svo að ári liðnu eður nokkuð meira, að hann kunni eingum svo stórt grand að gera; kom þó undan hverjum þeim, sem fór fram í Skagafjörðinn úr þeirri kirkjusókn, og gerði ýmsar skráveifur. Skeði svo og einninn þá þessi fjandi sókti að mér, (að) kom til mín maður úr Fljótum. Að nokkrum árum fráliðnum hvarf hún að öllu leyti.

Guð varðveiti öll sín börn!

## KAP. XXV.

Þann 20. Septembris 1755 fór eg að búa mig aðheiman til austurferðar og veru. Voru þar um þá daga miklir jarðskjálftar, sem komu af landsuðri. Var það auðráðið, að einhver eldsumbrot voru þá eður í hönd á Austurlandinu, sem og síðar kom fram, því Kötlugjá spjó þar eptir laugardaginn seinastan í sumri eldi, ösku og vatni. Tilbjó eg klif á 4 hesta af öllu tagi, að eg skyldi vel byrgur vera, hvað sem yfir mig kæmi á fjöllunum, eður hvar eg lenti. Með mér fékk eg til fylgdar Þorstein bróður minn og vinnumann minn, er hét Jón Þorgeirsson. Var eg albúinn þann 26. Þar eptir kvaddi (eg) svo mína góðu konu, sem þá var eptir ólétt að Jórunni dóttur minni, hélt svo undir fjöllin fram að Mælifelli til náfrænda míns,

---

1) Svo.

síra Jóns Magnússonar. Var þá komið frost og lítill snjór. Daginn eptir útvegaði hann okkur ötulan mann til fylgdar, því honum leizt ei tryggilega á veður, eins og fram kom; fór þegar á daginn leið að drífa snjó; komu(n)st við vel fram á Mælifellsdalinn, að svo kölluðum fremri Kálfadölum, og tjölduðum þar. Í farang(ri) mínum úti hafði eg meðal annars hálftunnu af söltuðu og niðurkæfðu kjöti. Um alla nóttina var logndrífa. Sváfum við ei mikið um nóttina, sízt fylgjari minn, sem alt var úr að telja að fara leingra. Eg sofnaði um síðir. Þykir mér þá þessi staka vera kveðin hátt yfir mér:

Hér læt eg skóg af skógi
skreiðast lítils heiðar, —
hverr veit nema eg verði
víða frægr um síðir.

Kunni eg hana áður úr sögu Ólafs kongs Haraldssonar. Mér þykir og til mín sagt: »Hafðu æ þér fyrir reglu versin hans Anshelmi«. Þau hafði eg ei áður heyrt og vissi ei, hver þau voru. Síðar þá (eg) að var seztur, fann eg þau í [sjálfs míns bókum mínum[1]), og þanninn hljóða sem eptir fylgir:

Non ego te jubeo cædem vitare minantis,
Quos tibi conjunctos spes erat esse care.

Það er: Eg skipa þér ei að forðast bana af þeim, er þér hótar honum, en varastu þá, sem þú vonaðir, að væru trúir vinir þínir. En svo hefur farið fyrir mér, þó eg sæi þetta væri einn höfuðsannleiki og beztu heilræði, þá hefur einfeldnin svo blindað mig, að eg hefi alt (of) mjög trúað þeim, eg ætlaði vini mína og þóttist eiga alt gott af, og ratað svo þar fyrir í flestalla mína mæðu, sem liðið hefi. Varastu þess vegna, barn mitt og þú góður maður, sem heyrir þetta, þessi mín víti. Af þessum bendingum ályktaði eg með hughreysti, að af fjöllunum mundi eg lifandi komast. Ei bætti enn um. Þá birta fór af degi safn-

1) [Svo.

aðist mikill hrafnaflokkur yfir tjald mitt og farangur og létu þar öllum látum, nema góðum. Þetta gerði minn fylgjara enn þá istöðuminni, og sagði (hann), þessir fuglar vissu og sæi á okkur feigð, og skyldum við ei leingra fara. En eg barði slíkt niður, og sagði, þeir fyndu kjötlyktina úr tunnu minni og vildu ná þeirri krás. Nú lézt eg alráðinn að snúa til baka, átum með flýti, sviptum tjaldi og lögðum á, hvar til fylgjari minn var hvað fljótastur. Að því gerðu bauð eg honum ríxdal, að fara nú leingra áfram með oss þann dag, hverju hann þverneitaði, skildi þar við oss með ótta, og vildi hafa ært prest, þá hann þangað[1]) kom. Við héldum fram dalinn og upp á svo kallaða Haukagilsheiði. Var þar kominn snjór í klyfberafjöl, svo hestarnir komust ei áfram, en frost og skafrenningur var. Brutum við bræðurnir snjóinn á undan til skiptis, og komunst undir nóttina á einn melhól þar hjá Þrígiljum. Þar tók eg af og batt hestana á streing og tjaldaði á fönn. Þar fékk Þorsteinn bróðir minn svo mikið þreytutak, að hann namdi[2]) ei af hljóði alla nóttina; sofnaði undir daginn og varð þá skárri. Eg fór, þá birti, upp undir fellið, og sá, að snjólaust var sunnar um fjöllin, sem hughreysti mig að fara leingra, fór aptur til hans, sagði honum snjóminna, þá ofan af heiðinni kæmi, og spurði, hvort hann treysti sér leingra, eður (ei). Hann segir: »Eg vil við höldum enn áfram, því lifandi vil eg ei nú koma aptur í bygðina, því þú getur nærri, hvert spott og ævarandi aðkast við fáum, ef við nú gefum tapt og snúum aptur, og þoli eg það ei«. Þar með fór eg til ferða og setti hann á bak. Batnaði honum smásaman, því veður var blítt og snjólaust, eptir því sem suður á dró. Höfðum við nú farið hálfa aðra þingmannaleið úr bygð, en fórum nú aptur hálfa aðra um daginn, og lentum um kvöldið við Biskupsþúfu; tjölduðum þar undir einni hlíð, hvar áður höfðum nokkrum sinnum verið til grasa, og var okkur þar

1) Þ. e. að Mælifelli.
2) Svo.

kunnugt um alt. Þá við vorum sofnaðir um nóttina, datt á með það mesta útnyrðingsfjúk, sem setti tjaldið í kaf; en að snjórinn skyldi ei sliga tjaldið og kæfa oss, fórum við á fætur og þrúguðum snjónum alla vega frá því, sem okkur varð að mesta svitaerfiði; af soddan verki og hita, sem út lagði, varð eitt hulstur og ból yfir tjaldinu og alt í kring um það, mokuðum oss svo gaung fram frá því og upp úr snjónum og létum þar yfir reiðingstorfu. Gekk þetta snjókast í dagstæða viku; tókum við höptin af hestunum og settum þá á þann bezta haga og afdrep, sem þar var að fá. Blanda og öll vatnsföll, sem yfir höfðum farið, urðu svo ófær og uppstífluð, að nú var einginn vegur aptur að snúa. Við höfðum lestrarbækur og annað nóg oss til dægrastyttingar, kerti og mat svo nægan, að við héldum við mundum þar vel af komast fram á Þorra, og ætluðum þá að ganga í bygð suður af, ef hestar væru þá dauðir, og vorum svo þar með glöðu sinni. Seinustu nótt, er við þar vorum, dreymdi Jón vinnumann minn, hann þóttist kominn í einn fagran dal, ganga þar inn í kirkju, en ei komast út úr henni, sem var fyrir því, eg gerði hann út í Vestmannaeyjar um veturinn, hvar hann dó á Þorranum. Mig dreymdi og, eg væri kominn austur að Sólheimum, sem varð fyrir mínum prestskap þar; og Þorstein bróður minn og so á þá leið, hvar af eg ályktaði, að guð vildi nú leiða oss þaðan. Fórum því á fætur, lásum, mötuðustum, tókum upp farangur vorn og bundum hann saman. Eg klæddi mig í sjöfaldan klæðnað, en þeir fimmfaldan; létum brauð í vasa okkar, en starfhníf í einn smjördall, svo við skyldum hafa þennan mat uppi við, ef ei til annars næðum, hvað og so upp á kom. Vorum við búnir að öllu þessu áður dagur rann upp. Var þá frostvindur hreinn á landnorðan. Við sóttum hesta og lögðum á þá, héldum í sækjandi veðri undir Kjalhraun. Þá þangað kom, datt enn á með fjúk svo mikið, að varla sá einn annan, nema í grilling. Fór eg af baki og gekk alt hraunið af á undan, teymandi hest minn, að ei skyldi villast, því eg var í því svo

kunnugur áður á réttum vegi, að eg þekti þar nálega hvern klimp og hæð; lét eg þá halda eptir mér. Lukkaðist þetta allvel. Þá við úr hrauninu komunstum[1]), var snjólitið, því landvari af Hofsjöklinum hafði sett snjóinn vestur með Kjalfelli. Ætluðum við nú að komast í áfangastað undir Skúta, en það tókst ei, því þá við komum að Svartá, var hún svo uppbólgin, að hvergi komunst yfir hana. Bundum við þar hesta á streing á harðangrinu, og vorum þar um nóttina. Gerði þá það sterkasta austan-landnorðan ísingar- og frostveður, að oss fanst í þeim klæðnaði, sem við vorum, að við stæðum sem naktir, og hefðum þar lífið mist, ef við hefðum ei verið að tuskast alla nóttina og gera oss alt til hita. Pikkuðum við nú smjörið upp úr dallinum við brauðinu. Um morguninn var áin harðrend, sem von var á, svo við komunst vel yfir hana. En þá við komum að jökulfallinu, rann það á millum skara; höfðum við mikið fyrir að pikka og höggva þar ísinn, að við kæmunst yfir, sem þó loksins tókst; lentum svo um kvöldið á bakkanum við Sandá. Var nú þingmannaleið í bygð. Tjölduðum þar. En um nóttina gerði eitt það mesta hvolfiregn á austan, svo undir oss rann á alla vegu; hestana hrakti undan í einn hvamm hjá Hvítá. Lögðum við svo upp í þessum ókjörum, sem á geingu, því við óttuðustum[1]) fyrir ánni, sem enn var fær og brúkandi; héldum svo ofan eptir afréttinum, máttum og gátum varla á bak farið, því eptir því sem reipin blotnuðu, losaðist um hnúta, og baggar vorir að detta niður, en við hvað eptir annað að bera sand og mosa i hnútana, að síður skyldu renna; urðum við nú aptur gagndrepa í gegnum allan áðursagðan klæðnað, sem mikið kostaði nú að bera.

Um háttamál komunst við að Hamarsholti, efsta bæ í Vestur-Hreppnum, og þökkuðum guði við komunstum þanninn lifandi og á okkur komnir til mannabygða.

---

1) Svo.

KAP. XXVI.

Við börðum þar á dyr, því hús voru lokuð aptur. Einhver kemur til dyra, en lýkur ei upp, og spyr, hverir við séum. Við biðjum um hús og (fyrir) farangur vorn. Sá fer í burt, sem fyrir innan var, og kemur aptur með þessi an(d)svör, við megum fara í hesthús þar fyrir austan bæinn og berast þar fyrir. Við biðjum um ljós, og það er að oss rétt um gátt milli stafs og veggjar. Þá við fórum að skoða húsið, rennur þar alt út af vatni. Þar var hrísköstur á hlaðinu. Af honum tökum við og berum inn í húsið, gerum okkur úr honum dyngju og köstum okkur þar ofan á, tökum okkur næring og góða brennivíns hressing, nú i fyrsta sinni, af hálankeri[1]), sem höfðum, og lögðum oss svo þreytta til svefns. Sannaðist hér, að það er lakur skúti, sem ei er betri en úti. Daginn eptir vorum við svo lerkaðir, votir og slæptir, að ei treystum oss burt að leggja; var þó sækjandi veður. Þegar ólukku hyskið í bænum var komið á fætur, fer Þorsteinn bróðir minn til bónda, gerir sig við hann næsta vingjarnlegan, segir oss vanti skaflajárn undir 4 hesta, er við höfum stærstu þörf fyrir að kaupa að honum, við viljum og fá ferskt kjöt keypt handa oss[1]) til endurlífgunar, sýnir honum væna peningabuddu, sem við ætlum til hann skuli fá mikið úr. Bóndi varð léttb(r)ýndur við þetta, lætur reka járn um daginn og smíðar skeifurnar í ákefð, lætur sækja fé og skera einn sauðinn, og átti að sjóða hann að morni. Nær eldurinn var á kominn, tekur Þorsteinn öll hafnarföt okkar og heldur þeim svo við elda um daginn, að öll verða þur, tekur hjá oss grjón, og lætur graut gera úr þeim að fríska oss. Morguninn eptir í dögun búum við oss til ferðar, og erum búnir þá hyskið fer á fætur, þökkum bónda fyrir alt vel gert, en ei hitt, og segist eg þá ei þurfa járna né kjöts við, þar gott sé veður, og þóttist hann meira en sneypt-

---

1) Svo.

ur, því ei var þetta til annars gert en þurka fötin, er annars mundi ei auðveldlega hafa feingizt.

Í fjárpestinni síðar missir bóndi sá alt sitt fé. Þorleifur landskrifari fer austur í Mýrdal að kaupa fé, og bóndi þessi með honum. Þeir koma að Felli, hvar eg þá bjó. Bóndi hafði þá einga kind feingið, því hann hafði ei útgeingilegt fyrir að bjóða. Nær eg fæ landskrifara það honum hafði lofað, stendur hann hjá þegjandi. Eg spyr hann, hvort hann vilji eg selji honum á, er hann játaði með fögnuði. Eg segi: »Nú er svo komið fyrir þér, — manstu ei þá varstu fullríkur, þegar eg kom þurfandi, hrakinn og slæptur, og þú manst hverjar viðtektir eg fékk þá. Nú sýnir guð þér til betrunar þann hlut, er þá þeink(t)ir þú ei til, að nú ertu orðinn mín þurfandi. Sést nú, að ei veit þar, fyrir hverjum gert er, og að ilt verk sé að úthýsa þurfandi ferðamanni. Skal nú ei framar á það minnast«. Sel eg honum þá eina á með hægu verði, og gaf honum lamb til, því hann blygðaðist mjög, en eg kendi í brjóst um hann í raunum sínum og fátækdóm. Höfum við ei síðan sést.

Frá Hamarsholti héldum við að Núpi. Þar bjó þá á sinni eign Jón Magnússon; brast (hann) ekkert, nema efni, að vera réttur höfðingi. Hann var frændi síra Þórðar, síra Guðmundar og þeirra bræðra. Var það á laugardaginn seinastan í sumri, er Katla spjó; sáust þangað þá eldglæringar úr henni. Eptir tveggja daga hressing fórum við austur á leið, og þó kröggótt geingi, komunst við að Holti undir Eyjafjöllum á föstudaginn fyrstan í vetri.

Þann tíma, sem við vorum á fjöllunum stytti aldrei upp mesta stórviðri og fjúki fyrir norðan, svo mín góða kona og allir, sem vissu til okkar ferða, töldu oss af og hestana. En svo vildi lukkulega til, (að) maður var fyrir austan úr Skagafirði, með hverjum eg skrifaði til baka, og sýndi, að við hefðum lifandi af komizt. Þó af hennar stóra dygðaríki til mín var hún ei óhrædd um mig fyrir eldganginum, sem þar eptir upp kom og merkin sáust til um Norðurland,

ásamt til [ýmsra ráðagerðir[1]) upp á eptirkomandi tíð sendi hún gagngert til mín mann um veturinn með vermönnum, er aptur norður gekk. Eptir lifir mannorð mætt etc.

Nú er að segja frá, hversu mér var tekið af föðurbróður mínum síra Sigurði í Holti. Honum brá við, er hann sá okkur frændur sína, því hann ætlaði við mundum setjast upp á sig. Hann var mjög aðsjáll maður í útlátum, framar af vana og auðlegðarmóð en hann væri svo af náttúrunni, en guðhræddur maður, tryggvasti, ráðhollasti og meðaumkvunarsamasti við nauðlíðandi skepnur var hann í allri raun og veru. Hann segir, þá honum höfðum heilsað: »Þessir menn munu ætla sér til róðra í Vestmannaeyjar í vetur; eru nú þangað nógar ferðir á komnar, því úr Mýrdalnum heyrist þar sé aska komin yfir alt«. Eg storka hann aptur upp og segi: »Við höfðum þó hvorki[1]) annarstaðar ætlað okkur að vera en hjá yður, og hingað hétum við ferðinni«. Sér hann skjótt við þessum leik, og segir: »Jarðarkúgildi munu nú drepast í Mýrdalnum, er þér koma við, og hafið þið bezt af því að éta þau, því ei mun verða af þeim betra, og skal eg skrifa til Mr. Jóni Sigurðssyni í Holti, að hann ljái ykkur hús. Hann hefur þau nóg. Honum skal eg og tilskrifa, að hann aðstoði þig í öllum lagaferlum, því hann er lögskýr, en þú óreyndur og átt að sækja til slægvitra manna«. Og þetta gerði hann, og í öllu öðru en útlátum var hann mér sá bezti og ráðhollasti maður, svo varla varð sú ferð á milli, að ei kæmi bréf frá honum. Því kvað Þorsteinn bróðir í bréf(i), er hann skrifaði Þórunni minni til um veturinn:

Ei tímir annað úti að láta en orðin bláber,
og seðlana smáa sjáum opt hér.

Bréfið færði eg síðar Mr. Jóni Sigurðssyni; tók hann því öllu vel, en hús þáði eg ei hjá honum, heldur alt annað gott. Urðum við síðar nágrannar; hélt

1) [Svo.

hann trygð og trúfesti við mig til dauðadags, og mentaði mig í lögum, eptir sem (eg) þá nenti af honum að læra.

Í Holti vorum við einasta nóttina. Þaðan fórum við að Skógum, til þeirrar góðu höfðingskvinnu madame Guðnýjar Þorsteinsdóttur. Var eg þar í þrjár nætur. *Var þar þá í tvo dagana þreifandi myrkur* af öskufallinu. Skildi eg fyrst um sinn eptir hjá henni mikið af farangur mínum. Tók eg mér af brennivínskvartili mínu einn kút, því eg vildi og ætlaði mér að vera hjá henni til veturvistar, ef eg hefði ei getað komið mér fyrir í Reynirshverfinu. Þaðan fórum við í köldu landnyrðings fjúkveðri að Sólheimum. Voru þar fyrir fimm bændur heima; sá helzti af þeim sá uppgefni sýslumaður Bjarni Nikulásson. Nóg voru þar húsakynni. Við beiddum um hús og hey, en feingum hjá eingum. Hver bar af sér, þar til sýslumaður leyfir oss kirkjuna og sendir oss lykilinn. Við sprettum af við sáluhlið og bárum af kappi trússin inn í kirkjuna, en heptum hestana. Bændurnir stóðu hjá, en hjálpuðu þó ekkert upp á oss. Við fórum inn í kirkjuna, en þeir gægðust inn, að sjá hentisemi okkar. Við tókum upp hjá oss kerti, slógum eld og kveiktum á því, settum það í hjálminn, tókum upp brennivínskútinn og hrestum oss úr honum, og so brauð með, en buðum þeim ekkert, né töluðum við þá. Og svo fórum við að leysa til sængurfata. Þeir tala þá við sjálfa sig í hálfum hljóðum: »Svona eru Norðlingarnir; harðir og frískir eru þessir menn og alvanir ferðalagi og vel útbúnir«. Ganga svo í burt og taka ráð sín saman, að betur sómi að bjóða oss inn í bæ (þegar þeir sáu að við vorum ei upp á þá komnir). Kemur einn þeirra út aptur, sem hét Bjarni Erlendsson. Hann var guðhræddur maður og hinn siðprúðasti einn, en þarmeð kænn og undirsettur að sjá sitt gagn. Hann býður Þorsteini bróður mínum til sín, en annar mér til sín. Sá hét Hávarður Einarsson, virðingamaður mikill. Báðir voru þeir síðar mínir meðhjálparar, og áttum við hjá þeim góðan viðgjörning allan, feingum og nóg

hey handa hestum okkar, — fyrir betaling þó. Bjarni taldi svo um fyrir Þorsteini, að hann var alfallinn á það að við skyldum nema hjá honum staðar um veturinn, en eg aftók það, og sagði bróður mínum minn þanka um það, sem og síðar fram kom. Eg kom þar fyrir tveimur hestum til lífs, en hvað dýrt mig kostaði þeirra meðgjöf, vil eg ei um tala, og mundi fleira hafa farið eptir því. Daginn eptir héldum við austur eptir. Voru vötn orðin skemd. Sæng mín datt ofan í Klifand(i) af hestinum, og vöknaði þó ei til skaða, því eg gerði fljótt að því. Mátti það boða, eg mundi síðar einhvern tíma í því plássi væta mitt legurúm í tárum. Að Pétursey komum við. Þar voru fyrir 8 bændur. Við beiddum um að drekka, og feingum hvergi. Einn stóð síðast hjá mér, kallaður Jón bóndi. Þorbjörg hét kona hans, er þar var nær stödd. Eg segi við hann: »Mikið ógestrisið eður sára vesælt fólk er hér, að ei fæst að drekka; er eingin blöndukannan til?« Hann svarar: »Jú víst, en við dirfustum ei að bjóða bláklæddum mönnum úr þeim«. Eg segi: »Komdu nú með þína (könnu) og sjá, hverninn fer«. Drukkum við eptir þörfum, og gaf eg honum tóbak aptur, og segi: »Mér lízt ei síður á konu þína, og skal hún þess njóta«, — og gef henni tóbak. Hún tekur við og segir: »Fyrst þér lízt á mig, so lízt mér á þig, og hefi eg síðan áðan verið að virða þig fyrir mér, og kondu[1]) nú inn til mín«. Gefur hún mér þar brennivín, en eg bætti einhverju við hana. Sendi hún mér sýrukvartil um veturinn, og sleit aldrei trygð við mig þaðan í frá. Við komunst[1]) svo með harðfylgni um kvöldið að Hellum. Þar var fyrir Mr. Einar Eiríksson, umboðsmaður minn yfir Reinirshverfi. Tók hann vel við mér og hans ágæta kona. Var í honum góð mannstaug, en þó hinn viðsjálasti maður, kænn og undirsettur, á hverju eg kendi leingi síðan, því honum þótti mikið að missa sín völd og laun. Varð eg hjá honum um veturinn og gerðu þau við mig sem bezt þau kunnu.

1) Svo.

## KAP. XXVII.

*Þá eg nú eptir veturnætur 1755 settist að á Hellum*, fékk Einar mér til íveru skemmustofu fyrir vestan bæjardyrnar. Hún var höggvin inn i bergið, en eg hjó hana svo stóra inn leingra í bergið, að eg kom þar fyrir rúmi mínu, borðkorni og bekk og öllu því, er þar meðferðis hafði, og vorum við þar bræður báðir um veturinn, og áttum þar það bezta og rólegasta líf. Aska hafði svo mikil fallið yfir Austur-Mýrdalinn, að vetrarhagar voru því nær aungvir, og mátti ætla öllum skepnum hey. Af mínum 7 hestum lifðu 4 eptir. Gjaldfé var nokkuð ráðstöfunarlaust. Yngdi eg upp með því gamlar ær í kúgildum, og lagði mér þær til fæðis. Eg fékk að 8 ær, keypti handa þeim hey, gróf upp handa þeim eitt ból, er Pína var kallað sunnan til í fjallinu, og hélt þeim svo lifandi. Keypti og að um vorið 4 kýr; 2 voru kúgildiskýrnar og 1 í ásauð, svo eg settist að með 6 kýr og 14 ær. En fljótt yfir að fara, blessaði guð mig svo á þeirri jörðu í 5 ár, að eg skildi þar eptir, þá burt fór, 4 kúgildi, en rak í burtu 6 kýr, 1 hndr. og 5 af sauðfé. Kom eg því til gaungu fyrir austan heiði, því jörðin ber ei meir en 50. Misti eg þó á hverju ári kúgildi, hest, kú eður fé til kúgildis, er hrapaði; og þá það var afstaðið, einga skepnu. Eg keypti að og bygði þar 6 skipparta og bát, fyrir utan einn hálfan hlut, — voru tveir af þeim fyrir utan ósinn[1]), — og svo selabát, hvern eg brúkaði til fuglveiðar. Var hann þar raunar mín þarfasta eign. Sú kvöð hélzt enn við með skipsáróður, svo minn umboðsmaður hafði[2]) bæði þennan skipa- og annan ágóða fyrir ekki neitt, og svo ýmsir aðrir. Þegar hann misti þessi völd, og hann með þeim hlunnindi þau, sem eg notaði mér, safnaðist hvað af hverju hatur og öfundsýki til mín, sem gægðist út hjá þeim, hvenær sem þeir meintu sig fá klófesti eða tækifæri til

---

1) þ. e. Dyrhólaós.
2) höfðu, hdr.

þess. Var Einar sá einn undirsettasti og lögflóknasti maður, þó skjaldan[1]) ynni mál. Af hrekkjum þeim og krókum, sem hann þar í brúkaði, skemdi sá óhreinleiki fyrir honum eins og öllum, sem svo brúka sína vitsmuni. Hann fór og með kukl, sem honum og börnum hans var ekkert hamingjuefni. Það fyrsta, hann lék mér, var það, hann hafði lánað Mr. Jóni Sigurðssyni í Holti 10 fjórðunga smjörs, ráðlagði mér að heimta þá hið bráðasta, og þá eg dró það í væng, gerði hann launboð undir mínu nafni, en hann vissi ei, við vorum um þá forlíktir, svo hinn sá við leka þeim. Það annað var, hann begerði af mér þá jörð, sem hann vissi, þverlyndastir menn voru fyrir, og eptir þessu fór annað, sem of langt er að telja. Loksins, þá hann sá, að hann bar jafnan lægra hlut af viðskiptum okkar, og mér leiddist þóf þetta, gerðum við skriflegan kontrakt með höndum og signetum, að áreita hvorugur annan þaðan í frá, hvað hann og enti.

Hans samlags- og meðbróðir að gera mér alt til miska og hnotkærings[1]) hét Hjörtur Hjaltason. Hann bjó í Holti í Reynirshverfi, sterkríkur af peningum, fé og öðrum aurum. Hann sýndi og bauð 80 speciur fyrir jörð sína eitt sinn. Mikið græddi hann á tóbaks- og brennivínssölu. Þá eg kom, átti hann 4 skipparta og bát, sem smásaman varð af honum þokast, þar til ei átti, nema 2 eptir. Hann vildi eg hafa trygt, en gat það aldrei, svo trútt yrði. Son átti hann, sem Hjörtur hét. Honum kendi eg sinn kristindóm og að lesa og skrifa. Eru það yfir 20, sem eg hefi það kent, og 8 til skóla. Svo sem sýslumaður Lýður Guðmundsson kom nærfelt undir eins og eg hingað í sýslu og var þá peninga þurfi[2]), kom hann sér fljótt inn hjá þessum bónda, fékk hjá honum peningalán og mart fleira, svo lagðist hann á alla sveif með bónda á móti mér, — þó ætíð forgefins, — og það var sú fyrsta sundurlyndiskveikja milli okkar, enda sat eg svo í mínum sessi, að hann náði ei inn með

1) Svo.

2) þyrfti, hdr.

nokkurn skippart í Reynirshverfi meðan eg hafði nokkur umráð yfir jörðum þeim. Anshelmi heilræði hafa mér mest gleymst við hann, sem eg sleppi nú fyrst að umtala. Hjörtur dó, og fundust ei eptir hann meir en hér um 30 ríxdalir. Ekkja hans komst til sýslumanns, og dó þar í vesöld. Sonurinn hlaut að *éta hrossakjöt og dó í hor. Þanninn fór sá auður.*

Fyrir utan Jón Sigurðsson valdi eg mér til vinar síra Daða Guðmundsson. Var hann ei búsæll maður, og var því opt hjá mér í Hellum; tók eg svo opt af honum börn hans til skiptis. Hann var gleðimaður og saungmaður mikill, sem átti vel við geð mitt, fyndinn og lögskýr, en veitti ei af, hjá honum fyndist ei vanþakklæti, þá honum líkaði ei allar viðgerðir. Lét eg það aldrei á mér festa, því hann var prestur minn, þar breyzkleika presta eiga sóknarbörn gjarnan að yfirstíga, vegna embættis þeirra. Stóð hann með mér, sem kunni, móti vondum mönnum, og so í embættisverkum mínum, og eg svo einninn sérdeilis, þá hann var orðinn blindur, og héldum vinskap til dauðadags. Þriðji var Jón Runólfsson á Höfðabrekku. Hann var tryggur maður og trúfastur, og gerði mér alt til vilja, sem hann gat, og enti þann vinskap til dauðadags. Sonum hans, síra Jóni og síra Runólfi, kendi eg til skóla, þeim síðara að öllu leyti. Sá fyrri á Guðnýju dóttur mína. Eru það báðir ágætir menn. Sá fjórði hét Sigurður Magnússon; ól hann upp Guðnýju dóttur mína, en eg Jón son hans. Hann hélt og vinskap við mig meðan til entist.

Fleiri get eg svo sérdeilislega nefnt úr heila Mýrdalnum. Þó hafði Lýður alt í frammi að komast upp á milli okkar tveggja síðstnefndra, og honum tókst það um stund.

Fyrir austan Mýrdalssand var einginn sá, eg gæti í þann tíð tekið vinskap við, nema einn, nefnilega síra Jón Bergsson prófastur á Kálfafelli og madame Katrín Jónsdóttir, kona hans. Var Þórunn mín og hún einnrar ættar. Okkar fyrstu fundir urðu soleiðis. Það fyrsta ár, eg var í Hellum, fór eg að hitta föðurbróður minn í Holti, og fékk til reiðar gagn-

gefinn hest, sem Hjörtur í Holtinu léði mér. Var þar fyrir aðkominn síra Jón prófastur. Frændi minn bað hann fyrir mig, er hann lofaði, og sagði við skyldum verða samferða til baka, er eg játaði, en vildi það þó ei í raun réttri, þar eg heyrði svo af honum sagt, að hann væri drykkimaður[1]) og reiðmaður mikill, en eg reið lánshesti. Lofaði hann að bíða eptir mér til hádegis daginn eptir. Eg dró tímann að koma þangað, þar til komið var af miðaptani. Sat hann þar fyrir við vínflösku, og lézt hafa beðið eptir mér. Fórum við til ferða, og höfðum brennivín hvor um sig nóg á oss. Vil eg nú ríða nokkuð við hóf, en hann vildi það ei. Hann storkaði mig þá upp og sagði: »Þú trúir á þessi merarbein, er þú ríður, og ef heldur er í þér ærlegt blóð en merar, so ríddu nú á við mig«. Eg þoldi ei þessi bleyðiyrði, og sagði: »Reyndu þá, í hvorum merarblóðið (er) heldur«, og tek þar til að ríða, og setti ei fyrir mig, þó hestinn hefði mátt betala tvennum bótum. Dró nú hvergi sundur eður saman með oss alt að Jökulsá. Þar tókum við upp flöskur, þó á þverspori yfir um ána, en hvorugur vildi hjá öðrum drekka. Svo tókum við annan sprettinn og alt austur í völlinn fyrir utan Hvol. Þar datt hestur hans niður, og fram úr honum blóðgusa, og drapst (hann) þar af nokkru síðar. Eg fór af baki og sagði: »Sjáðu nú, í hvorum heldur merarblóðið er«. Komst eg með naumindum með hann heim að Hvoli, en eg hélt austur í Hverfi. Hestur minn varð sligsa eptir, þó jafngóður. Sagði bóndi þá: »Eitthvað hefur þú mikið riðið, því aldrei hefur hestur minn svo orðið eptir sig«. Sagði eg honum þá upp alla söguna og betalaði honum hestlánið vel. Svo var prófastur ærlegur, að ekkert erfði hann við mig þessi viðskipti.

Þennan minn fyrsta vetur kendi Einar mér formensku og alla háttsemi við sjó. Var hann bæði upp á veður, brim og lendingar einn sá skýrasti og varygðarsamasti maður, sem þá var til. Eg fékk mér og góðan bitamann, sem Sveinn hét, og þar með reri

1) Svo.

eg margan róður og ýtti margan sjó, sem engir[1]) þar, ýmist að[2]) dugnaðarleysi og hræðslu, þorðu[3]), og voru því að spá fyrir mér, eg hætti ei fyrr, en eg dræpi mig í sjónum. En guð hagaði því svo til, að þann 5 ára tíma, sem eg var formaður, varð ei að einni ár auk heldur meira. Fór eg þó margan brattan og stóran sjó á boðanum við Reynirsdranga, hvar menn duttu undan árum. Og eitt sinn, sem mig rekur minni til, lenti eg svo stóran sjó í Eiðisbótum, að eg sá ós[4]) upp fyrir fjöru. Setti sjórinn oss í efsta flóðfar og geingum við þurrum fótum út úr skipi. Lof sé guði fyrir lukku og velferð! Ei var eg fiskiheppnari en aðrir, að eg kæmist fram yfir þá stórum, nema hvað róðrar unnu, sem eg hafði fram yfir þá.

## KAP. XXVIII.

Vorið 1756 bjó eg Þorstein bróður minn út og annan mann til með svo marga hesta, eg fékk, að sækja Þórunni mína norður og annan farangur minn. Komu og 6 menn með henni að norðan, sem eg léði hesta, og kostaði mig þá[5]) ferð og fyrirhöfn 80 dali slétta. En allan þann kostnað var eg búinn að uppvinna, og betur til, á 4 árum þar eptir. Átti eg og að panta handa þeim öllum fisk undir Eyjafjöllum upp á burðarhesta þeirra, sem mér alt gekk. Varð eg að því stórfeginn, þá þeir komu að norðan, og urðu hjá okkur Þórunni stærri fagnaðarfundir [en frá megi segja[6]), er við, leyst af stórri mæðu á báðar síður, fundu(n)st þar aptur. Og hvað mun þá ei gleðilegt í öðru lífi, nær útvaldir finnast þar aptur! Meðan norðurferðin yfir stóð, lagði eg mig eptir veiðiskap í Heiðarvatni, svo fyrir utan það, eg og

1) einginn, hdr.
2) Svo.
3) »ei« stendur hér í handritinu; er ofaukið.
4) þ. e. Dyrhólaós.
5) Svo.
6) [bætt við af útg.; vantar í hndr.

hjú mín 3, sem tekið hafði, neyttum, var afgangs hálftunna og kvartil af söltuðum silungi. En sá góði veiðiskapur fór síðar af, þá síra Daði tók fyrir sig að setja landhluti upp á vatnið, sem ei gekk af orðalaust. Svo var þá vorhart og grasalaust á fjöllum, að ei voguðu að fara með þær, og vurðu þær því eptir að skilja. Safnaði móðir[1]) mín undan þeim mat, sem henni og barni mínu Jórunni, bróður og systur og [fleirum kom að gagni og lífs eptirkomandi eru[2]). Þá gekk mestur mannfellir á í Norðurlandi það ár. Um haustið fór eg norður að sækja kýr mínar. Hafði þar svo illa sprottið úteingi um sumarið, að ljáför mátti telja á sléttlendi sumstaðar síðan árið áður. Var þá svo mikil ótíð og ófærð á fjöllum, að eg varð að láta þær þar allar burt fyrir lítið verð, sem guð snéri til þeirrar lukku, að eg gat fyrir það austur hjá sjálfum mér haldið við nokkrum kúgildum í Reynirshverfinu og lagt af við aðra nauðlíðandi. Geingu þá vorhörkur með langvarandi hafís fyrir landi fram fyrir fardaga.

Í þessari ferð kom eg að Reyniness-stað. Þóra hústrú tekur mér í versta máta, jagar mig og særir um ýmsan viðskilnað á klaustrinu af stakri mannvonzku, heimtar nú 70 álnirnar, sem eg eptir hélt, sem eg hefi áður um getið, og leið heldur afdrátt og skaða sjálfur á því, eg átti hjá henni. Var mér svo þungt innanbrjósts, er eg gekk síðast út frá henni, að mér verða að munnhlaupi þessi orð: »Þér, góða frú, sem nú hafið heitt mér fyrir brjósti í síðasta sinni, yður kann einhvern tíma og so að hitna, því að guð veit, hverninn þér leikið mig nú út«. En veturinn eptir brann alt klaustrið til kaldra kola, sem var af praktugri húsabyggingu, 50 stafgólf að samtöldu, svo hún og fólk hennar komst tæplega út í nærklæðum sínum. Lýkur svo okkar viðskiptum. Til þess eru vond dæmi að varast, en það, réttvíst

1) móður, hdr.
2) [Svo.

er, á ætíð að stunda, svo mann kunni deyja sáttur við guð og alla menn.

Vorið eptir lét eg sækja móður mína, barn og systkin. Pálmi bróðir minn var hjá mér í tvö ár, kunni hér ei við sig, fór norður aptur (og) giptist þar góðri konu, Sigríði Björnsdóttur ekkju, sem átti Breið, hvar þau bjuggu síðan.

Þetta vor 1757 kom síra Jón Bergsson að vísitera kirkjur í Mýrdalnum. Fundunst við nú aptur i sæmilegri vináttu. Hann reið frá Reynir yfir Þverar mýrar, en þá hann var kominn út fyrir Háskjól, þar sló hestur mannsins, sem undan honum reið, hann svo framan á fótlegginn, að hann brotnaði. Var að vörmu spori sent eptir mér, sem þó var til sjós kominn. Batt eg þar spilkur við fótinn, setti prófast á bak, gekk svo með hesti hans og hélt undir fótinn yfir allar þær torfærur og flutti hann heim til min og lagði hann þar upp í stofurúm, hvar hann var í sex vikur. Kom þangað hans mæta kona Katrín ei alleinasta að vitja um hann, heldur fór hún vestur til allra þeirra útréttinga, sem hann og þeirra heimili með þurfti. Beið hann þar svo leingi, þar til hún aptur kom, því fyrr var hann heill orðinn. Við Þórunn mín fylgdum þeim þaðan bæði heim til sín. Var það sú yndislegasta ferð og heimboð, því hér var nú stiptaður og á kominn falslaus kærleiki á allar síður, því hjón þau voru mannvöl, og prýddi alt, hvað góðan mann á að prýða, og slitu þau aldrei það kærleikans band við okkur, meðan til entust.

Nú líður eitt ár, sem ei ber til tíðinda. Prófastur visiterar árlega og tók sér jafnan góða hvíld hjá oss. Nú vildi svo til eitt sinn, er hann kom vestan undan Fjöllum litt gáður, að hann tók sér náttstað á Hvoli hjá einni ekkju, sem hét Steinunn Runólfsdóttir, prófasti áður kunnug, því foreldrar hennar höfðu búið á Þverá á Síðu, hvar prófastur fyrr meir, þá hann var í skóla, hafði opt gist með öðrum skólapiltum. Var þessi ekkja haldin lauslát. En þá stundir liðu frá, fæddi hún stúlkubarn i heiminn, og kendi það að fyrstu sögn prófasti, sem prestur hennar þáverandi,

og hét Jón Guðmundsson, bar út með stórum fagnaði, því honum var stórilla við prófast, er hafði orðið áður fyrr að dæma á hann sektir tvisvar sinnum fyrir grófar yfirsjónir. Jón Sigurðsson í Holti kemur samdægris austur að Hellum til mín með þessi ólukkutíðindi, og sendi að vörmu spori til sýslumanns Lýðs og síra Daða. Komu þeir án tafar. Þykir oss öllum þetta mikið og erum óttablendnir um sannleika, þar nærri fór um gisting prófasts og meðgaungutímann. Var það afráðið, að eg fór með sýslumanni til hennar að vita algerlega, hvort þar væri einginn annar í tygi en prófastur. Kemur þá upp hjá henni, að prófastur muni ei vera frí frá sér, en síra Jón prestur sinn og Þorsteinn sonur hans[1]), sem þá var stúdent, hafi með sig um þann tíma haft, og verður það að lykt, að hún kennir Þorsteini barnið; segir, að prestur hafi komið sér til að kenna prófasti það. Hann hafði og sjálfur annarstaðar fleiprað, að hann hefði komið upp á það að fyrra bragði. Að svo vöxnu máli skrifaði eg prófasti til. Hann kemur og finnur prest, sem hann biður vottanlega og skriflega fyrirgefningar fyrir sitt útborið og uppdiktað lygabull og slaður, og skilja þeir við það um stund. Mr. Þorsteinn neitar barninu, og sver einhvern veginn fyrir það. En þar sem vottaðist, hann hefði margopt sængað hjá henni, misti hann geistlegheitin og fékk síðar konglega uppreisn. Að þessu búnu tekur prestur sig upp aptur með sama skraf, segist hafa verið hræddur til kontraktarinnar, gerir mörg níðkvæði um prófast og mótparta sina. Með það varð rofin fyrirgefningarbónin og sá samningur og tekið málið upp að nýju og stefnt mörgum vitnum upp á orð, verk og ýmislegt þessa sök áhrærandi. En þar eg einasta stefndi í þessu og prófastur var optast um þann tíma til veru hjá mér, flæmdi prestur mig út og hans áhangendur, og sögðu, eg vildi ná kallinu undan sér, með öðru fleira. Var síra Daði skikkaður að dæma í því máli, er svo féll út, að klerkur var dæmdur frá

---

1) Þ. e. Þorsteinn skáld, síðar prestur á Dvergasteini (d. 1800).

kalli og kjól. En hann appelleraði fyrir synodalsrétt, og þó hann sæi sig um hönd að framfylgja því, hlaut þar prestur að setjast yfir sóknirnar alt svo leingi málið var ei útkljáð. Þessi síra Jón var einn sá bezti prédikari, þá svo upptókst, góður saungmaður, ágætt skáld, spakur í framgaungu, aptur þar á móti lausmáll og skreytinn, hvar fyrir, að hann hafði prestakall mist, drykkjumaður og lauslátur, lét mikið yfir lærdómi sínum og leitaðist því við að niðra öðrum, bæði yfirboðnum og lærðum mönnum, og sá hann mig ei hlutlausan af þesshátttar aðkasti að sverta mig með öllum hætti, er eg í þann tíð létt bar, ásamt gal(d)raheitinga og kveðskap hans. Síra Daði var þá settur til kennimannsverka yfir heila Mýrdalinn. En af því hann var orðinn heilsulasinn hlaut hann[1]) að taka sér kapellan, og þess vegna nefnir hann það við mig, hvað eg og kona mín aftókum, því við vorum nú sérdeilis ánægð orðin með okkar ástand og viðréttingu í öllu. Þar með vildi eg ei vera klerki undirgefinn, vegna hissugra geðsmuna hans. Hann fær prófast heimuglega í fylgi með sér, sem mig kallar austur að Kirkjubæarklaustri að standa examen og Eyjólf djákna[2]). Vorum við að því verki fram í kirkju. Þá mig minst vonum varði, kemur síra Daði þar, en sem fór annan veg en eg austur, og kallar mig þar fyrir sinn kapellan í prófasts og presta þeirra heyrn, sem sátu yfir oss. Hafði eg aungvar afbatanir, þær er þeir gildar antóku, og bað um umþeinking til morguns, því þessa mína vini mátti eg ei auðveldlega styggja. Sýslumaður Lýður var þar og að halda einslags þing. Eg sagði honum af bobba þessum, er eg var í kominn, og voldgaf honum mín vegna að inngang kontrakta og skilmála við þessa mína yfirmenn í þessu efni, er þeir antóku. Var það hans gerð og uppástand, eptir sem heimuglega höfðum samið okkar á milli, að eg skyldi kallast til prestskapar og setjast

1) »því«, hdr.
2) Þ. e. Eyjólfur Teitsson síðast prestur á Hofi í Álptafirði (d. 1804).

yfir útsóknirnar, svo hvor væri útaf með sitt. Var(ð) hér af stór ágreiningur, þar ei gekk eptir þeirra vild. En sú mæta kona Katrín sáluga stilti með viturleik sínum þau hissugheit, að alt sefaðist. Bleif þar við, sem sýslumaður uppástóð, að prófastur ályktaði mig prest yfir Út-Mýrdalinn og skrifaði biskupi til. Var þetta þau beztu ærlegheit og meðstand, sem sýslumaður sýndi mér, er eg hefi síðan munað honum. Afgerðist þetta á Kálfafelli. Skal nú ei framar segjast, hvað gerðist í þeirri ferð.

## Kap. XXIX.

Prófastur, sýslumaður og eg með fylgjurum okkar fórum áðursagðan dag frá klaustrinu austur að Kálfafelli, en síra Daði fór á undan um daginn austur til frændkonu sinnar madme Katrínar. Þar átti og alt að afganga um mig. Nær við komum að Hverfisfljótinu, sem var stórt vatnsfall með álum og sandbleytum, var þá orðið dimt af nótt, og átti að ríða langt brot á móti straum á snið austur yfir; riðu fyrst þeir þénarar okkar, svo prófastur, eg og síðast sýslumaður. Prófasti, af því hann var misgáður, leiddist vaðall sá, keyrði á hestinn og ætlaði að ríða yfir um nokkuð framar; þar með hvarf hann og hesturinn ofan í eitt bleytuhvarf. Sá eg ekkert til hans, nema eitthvað flaut fram eptir álnum. Fleygði eg mér strax af baki, svo mikið eg klæddur var, að elta þetta. Var það þá hattur hans, um hvern eg ekkert gaf. Sé eg þá, að hesturinn kemur að ofan fljótandi, og eru fætur á móti straumi. Fleygðist taumurinn til mín, í hvern eg náði, og var það harður rykkur að halda við, meðan hesturinn gat rétt sig við. Stóð eg nú vatn og bleytu vel svo í hendur. Strax á eptir kemur prófastur fljótandi. Næ eg í fatnað hans, að eg gat dregið hann til mín, og upp úr álnum, á hvers brún eg hafði staðar numið, því hefði eg einnri alin nær honum komizt í því vetfangi, var útgert um mitt líf, item prófasts og hests, ef eg hefði ei haft það áræði. En hér átti oss leingra lífs auðið að verða, og

sá guð hér dásamlega fyrir því. Sýslumaður situr hljóðandi og hræddur á baki, því hann ætlaði oss drukknaða. Komu fylgjarar okkar til okkar, þar við vorum nær í kaf komnir, og komu oss til lands og svo yfir um. Var nú tekin af öllum góð brennivíns hressing. Hennar þurfti og við. Svo voru þá fráskheit mikil, að sýslumaður fleygði sér í eitt síki þar á aurunum og alvætti sig, því hann sagði: »Mér þykir skömm að því, að eg komi heim að bæ með ykkur alþur, en þið allir votir frá hvirfli til ilja«.

Frá Kálfafelli héldum við þrír vestur aptur. Skiptust prestur og sýslumaður ómjúkum orðum saman. Kom stundum til keyra viðskipta. Prestur var í hvítum skinnbuxum. Hinn var tíðum að spauga með þann klæðnað, lypta upp hempu og skoða þær segjandi: »Til hverrar nytsemdar eru þessar buxur?« En kýmni sú kom þó að liði. Þá við komunst undir jökulinn fyrir austan Hafursey, var orðið dimt af regni og nótt. Við viltunst upp í hann, fórum yfir hvern melhól og gjá eptir aðra. Þá við riðum hver eptir öðrum utanvert í einum melhól, hvar djúp bleytugjá var undir, valt prestur af baki og á höfuðið ofan í gjána. Við sýslumaður hlupum jafnskjótt af baki að hjálpa honum, og hefðum ei svo fljótt rammað á hann, ef ei hefðum séð, hvar lærin voru að sprikla í hvítu skinnbuxunum. Segi eg nú við sýslumann: »Sjáðu nú, til hverrar nytsemi skinnbuxur þessar eru«. Tókum við í sinn fót hvor á presti og drógum hann upp úr gjánni á melhólinn. Var hann svo léttur fyrir okkur, af ótta um líf hans, eins og lítill dreingur væri, þar hann var 24 fjórðungar að vikt, digur og ístrumikill. Við settum hann á fætur. Sýslumaður fór með fingur upp í hann og var að krassa sandinn út, því hann var að deila við sýslumann áður, og hafði því opinn munn, en eg sleikti upp augun og tók frá vitum. Þá við sáum, hann ætlaði að lifna við, gátum við ei gert að okkur fyrir hlátri að þessu okkar starfi. En hann, það fyrsta hann náði að mæla, segir: »Skammist þið ykkar báðir. Þið hafið mína lausn frá dauðanum,

það guðs dásemdarverk, að háði og spotti«, með fleirum orðum. Við héldum þaðan undir eyna[1]). Var þá komið í fang okkar útsynnings krapi, og ætluðum (við) að komast í Mýrdalinn. Prestur gerir oss það þá til spitu[2]) og heldur upp undir eyna að einum hellir, þar er vestan í henni, og segir: »Gerið boð konu minni, að hún láti sækja mig hingað liðið lík á morgun«. Sáum við víst, upp á hvað hann gerði þetta, og þótti skömm að skilja við hann. Fórum og upp í hellir, sem er tvístúkaður; fer hann í aðra, en við í aðra, og kveljumst þar af um nóttina; höfðum ekkert að næra oss af, tveggja dægra matþola, fyrir utan hákall og brennivín. Vindur og regn stóð upp á oss alla vega. Hefi eg aldrei átt daufari nótt. Komunst svo um morguninn eptir í Mýrdalinn.

Þegar eg heim kom, var þar fyrir bréf frá nærfelt helming sóknarbændanna úr útsóknunum, sem begierðu mig framar öllum öðrum fyrir sinn prest, sem þeir þektu. Fóru öll þau skjöl til biskups, sem mér aptur tilskrifaði, og sagði, ef eg vildi standa upp á geistleg embætti, svo skyldi eg koma í Skálholt það bráðasta og taka þar vígslu. En þar eg hafði á ölmususkóla verið, þorði eg ei annað en hlýða þeirri kallan. Var þó búinn svo að forbetra og byggja jörðina Hellur, að ei ætlaði þaðan auðveldlega að fara. Sjást nú enn þau merki eptir mig, langgarður sá og þvergarðar, sem þar eru fyrir austan Sandskarð. Á því plássi fékkst þá eg til jarðarinnar kom hér um á átta hesta. En eg hreinsaði þar svo alt til, að þá eg burt fór, fékkst þar taða á 30 hesta. Úr mínu fjárhúsi og hesthúsi, er eg bygði þar, var síðar bygður bær, sem kallast nú Garðar. Svo má níða sem prýða.

Áður en eg skil við það efni, hversu guð með öllum dásamlegum hætti blessaði mig á Hellum, vil eg ei gleymt[3]) sé, hversu hann og so kröptuglega

---

1) Þ. e. Hafursey.
2) Svo.
3) ógleymt(!), hdr.

verndaði mig þar frá vofeiglegu skaðræði. Eitt sinn á vortíma gekk eg og Jón stjúpsonur minn út yfir ós. Var á honum ís, sem var þó orðinn laus við lönd, nema á einstöku stöðum. Var frostvindur, þá eg fór út á hann, en gerði logn og bráðan hita með austankælu. Þá vel svo var út á hann miðjan kominn, tók þá þessi sjóís svo að bráðna, þó þykkur væri, að einhöggt var altstaðar[1]) ofan úr. Sá eg mér nú ei annað fyrir hendi en detta þar kvikur ofan um og drukkna. Hlupum við, í þankaleysi um nokkurt líf framar, sem við kunnum norðan undir eyjarhornið[2]), því þar var forsæla á og samanreknir jakar, þó allir lausir; hlupum við hvern af öðrum, því á aungvum mátti við standa, þar til að landi komunstum. Varð eg framar en frá megi segja feginn þeirri lausn.

Svo bar til í annað sinn, að komið var um sumarmál; hafði þangað til ekkert fiskazt, en verfólk upp á mig komið, en eg orðinn fisklaus eins og aðrir, en mjólk var lítil; fór eg út undir Fjöll til prófasts frænda míns og segi honum af efnum mínum. Eg fékk hjá honum hálfvætt fiska, því hann gat ei meira. Fer eg til baka með þennan feing. Með mér var bóndi sá, er hét Jón Gíslason, og reiddi þessa kimbla. Þá við komum að Hafursá, var hún ófær, nema á fjöruvaði, og þurfti þó að taka sér lag milli sjóa, sem eg tók; reið svo með hasti yfir og skipaði Jóni að ríða djarflega á eptir. En hann varð hræddur og hikaði við; þar með féll sjórinn yfir hann og hestinn og dró hvorutveggja út í lykkju, og skildi þá þar að; flaut hvort í sínu lagi til sama lands. Eg reið yfir um aptur, hljóp í ofboði fram í löðrið og náði manni og hesti lifandi aptur. Kimblana rak og upp annarsstaðar. Féll eg í forundran á eptir, að eg hefði ei farið þar guði á vald. Brúkaði eg nú betri vara á honum og rak hann undan mér yfir um. Svo komst eg heim til mín. Söfnuðust þá þeir aumustu Hverfingar til mín að fá hjá mér fisk, sem svo féll

1) Svo.

2) Þ. e. Dyrhólaeyjarhorni

út, að eg skipti honum upp milli þeirra, og hélt seinast eptir þremur, því mín góða kona þoldi ei að heyra kveinan þeirra. En smjör áttum við þá nóg og bein við þeim. Var þetta í það eina sinn, sem þar nokkurn skort liðum, að þá var kallaður. En um morguninn var komið gott sjóveður, þó ei nema á Oddsfjöru[1]). Fiskaði eg vel um daginn, og svo hvern af öðrum, að eg fékk þá á hálfsmánaðar fresti 1400 fiska í alla mína hluti. Meiri hlutir gáfust þar þó síðar. Venja var í Mýrdalnum, að bændur gáfu konum sínum hlut sinn á sumardaginn fyrsta, og þær, sem svo voru sinnaðar, kölluðu eptir honum sem vitafé, en þær máttu aptur hafa til reiðu í sumargjöf tóbakspund og brennivínspott. Máttu þær af hlutnum, hvort hann var mikill eður lítill, gera hvað þær vildu. Nú fékk eg á sumardaginn fyrsta í minn eiginn hlut 70 fiska. Þá gekk hún í fjöru og gaf hann allan upp fátækum, sem lítið eður ekkert höfðu þá feingið af sjó. Var henni þetta yfirið[2]) tamt, að gera nauðlíðandi gott eptir efnum, því það var hennar viðkvæði: »Meðan eg lifi, gefur guð mér nóg, svo og vona eg, að börn mín komist ei á vonarvöl þar fyrir«. Það fyrra er fram komið; hið síðara mun og ei bregðast eptir guðs óbrigðanlegum fyrirheitum.

Víkur svo frá þessu efni til annara umskipta og frásagna.

## KAP. XXX.

Svo sem eg var kallaður af æðri og lægri til kennimannlegs embættis, sem áður er sagt, fer eg af stað í míns herra nafni að taka prestsvigslu í Skálholti, hverja mér veitti Dr. herra Finnur Jónsson 1. sunnudag í adventu 1760, með merkilega góðri yfirsögn. Síra Jón Hannesson færði mig fyrst í prestshempu. Hann var þá biskupssveinn. Hann segir þá: »Guð hjálpi þér, maður«. Þessi fáu og hugheilu

---

1) Oddsfjara er undir Reynisfjalli.
2) Svo = yfrið.

orð geingu mér svo til hjarta, að eg gat ei gleymt þeim, með sterkum eptirþanka og sinnisumbreytingu allan þann dag, og leingur, nær eg til þeirra þeinki. Biskupi líkaði svo vel mín katekisation við börn, að hann sagði yfir borði um kvöldið: »Jafnvel þó þér hefðuð ei getað prédikað svo vel, þá hefði eg vígt yður vegna hennar«, því sagt var eg hefði hitt upp á hans eigin máta. Hann spyr mig að meðal annars: »Kvíðir þú ei fyrir að fara í útsóknirnar, því, ef eg get rétt til, mun prestur og hans áhangendur sikta þig og umsitja á alla vegu?« Hvað og svo kom fram. Eg svara: »Eg stefni þeim, nær eg þoli ei, eður fæ tækifæri þar til«. »Viltu hafa ráð mín, þá ger það ei. Þér skuluð forsmá þá, og svo hætta þeir«. Voru þetta ein þau beztu heilræði. Var hann mér í því og öllu góður og ráðhollur herra og trúfastur í öllu leynt og ljóst. Hjá landþingsskrifara Sigurði Sigurðssyni var eg til lossamentis meðan eg var þar, og betalaði honum það ei kvikindislega. Hann var þar þá staðarhaldari, og frá þeim tíma komst eg í vinfeingi hans, er hann ei sleit meðan hann lifði, og trega eg jafnan þau góðu hjón. Eg átti og meira saman við hann að saldra[1]), sem var meðgjafir með stjúpsonum mínum og fleira.

2. sunnudag í adventu stóð eg fyrst fyrir altari og bergði fólki á Holtsstað; fór svo í Mýrdalinn og kom að Sólheimum. Þar kom einn bóndi til mín, er Sigurður hét, og bað mig strax að skíra barn sitt. Eg sagði til reynslu, eg væri ei undirbúinn. Hann svarar: »Skal einn prestur (ei) hafa til taks, hvað sem með þarf til prestsverka?« Eg sagði, hann hlyti að vorkenna óvönum: »En ei er sem þú hyggur og tilætlar; lát barn þitt koma strax til skírnar með sínum guðfeðginum«. Varð hann þá að biðja mig að bíða, því sýslumaður Bjarni Nikulásson, faðir Sigurðar, átti með öðrum að halda því undir skírn, því það ber hans nafn. Síra Daði hafði sóktur verið að skíra svein þennan. Hittustum[1]) við í miðri Haf-

---

1) Svo.

ursá og komunst þar mjög votir upp á eina eyri til samans, er merkja mátti, við mundum í embættinu saman sveitast og vökna þar eptir, eins og tíðum skeði. Við komum að Dyrhólum. Bað eg þar kirkjuvaktarann um kirkjulykilinn. Hann taldi öll tormerki á því. Þá tók síra Daði svo til orða við hann og fleiri, er til heyrðu: »Þið viljið heita ærlegir menn, en eruð óforskammaðir þrælar, að þið haldið lyklinum fyrir presti, þeim er guð sendir ykkur og vill biðja nú fyrir sér og ykkur«, með fleirum ei fegri orðum. Þar með var lykillinn til, en hann dugði ei, því kirkjan var full með snjó inn að prédikunarstól. Var hurðin þá sett upp af járnum með járni, og fékk sá, er þar upp á vakta skyldi, sléttar þakkir fyrir vanhirðing sína. Þetta var mín fyrsta koma til þeirra og viðtektir. Þriðja í adventu embættaði eg á Reynir. Var síra Daði sá fyrsti, er eg tók til heilagrar aflausnar og sakramentis. Þann 4. embættaði eg fyrst á Dyrhólum. Tók eg þar fyrst til heimuglegrar aflausnar Ísleif Guðmundsson og konu hans Helgu Sigurðardóttur. En það var og eptirtektarvert, að hún, þá orðin ekkja, var sú fyrsta, er kom til mín í heilagan skriptarstól með 5 föðurlausum börnum, er eg embættaði fyrst í Ásum þar eptir, er mig knúði að minnast á sorg og gleði og hugsvala henni, sem eg kunni. Þennan sunnudag tók eg einasta fyrir mig að útmála þessi orð af guðspjallinu: Eg er ein hrópandi rödd í eyðimörku. Á jólunum átti eg að embætta á Sólheimum. Aðfangadaginn tók eg mig heiman til þess. Var mikill krapi á jörðu og vötn uppstífluð, svo eg varð meira að ganga en ríða út yfir mýrarnar. Þar lét eg mann, mér fylgdi, aptur snúa, og ætlaði að fá mér annan hvorn bóndann í Steig yfir Hafursá, sem lá á löndum með krapa. Þá eg þangað kom, var hvorugur heima, utan faðir annars, sem Erlendur hét. Nær eg heilsaði honum, setur hann hönd fyrir auga, og segir: »Er þetta presturinn og guðsverkfærið, sem kemur nú til okkar aumingjanna? Já, komið þér alla tíma sælir og blessaðir!« Eg bið hann að ljá mér eður finna staung, er eg kunni

brúka yfir ána. Hann fer inn, er þar stundarkorn, kemur út aptur og segir: »Eg er búinn að leita um alt, og er hér eingin staung«. En hann fór inn að fela hana fyrir ofan eina kistu. Fer eg svo burt, en hann segir, þá eg er burt farinn: »Sá armi óvin ljái þér staung! Þú mátt tumba og ofan í ána og drepast þar etc.« Þetta vissi alt og heyrði stúlka, sem var í bænum og síðar varð vinnukona mín, sem hljóp eptir mér með pál, er hún fann, þá karlskarnið var kominn inn. Þar með komst eg yfir ána. En karlinn sneypti eg hér fyrir verðuglega síðar í opinberu samkvæmi dóttur hans. Eg komst svo að Sólheimum, hélt þar aptansaung og prédikun, eptir sem þá var venja, fékk mér svo rúm í miðbæjardyralopti. Þá eg hafði sofnað um stund, vaknaði eg við mikinn verk í fótunum. Voru þeir stokkbláSnir upp með hitavellubjúg. Fór eg jafnsnart á fætur, með stóru hugarangri af þessu tilfelli, er eg hafði feingið af því striti og vöðli, er eg óð um daginn. En af sterkri hræringu tvístraðíst blóðið aptur. Komst eg svo út í kirkjuna. Voru þar þá nokkrir menn komnir til morgunmessunnar og ljós kveikt. Eg fell fram og geri bæn mína í kórnum, og stend á fætur með þessum orðum, svo aðrir heyrðu: »Jesús hjálpi mér«. Strax tekur einhver undir frammi í kirkjunni: »Þú átt, karlinn minn, að biðja fyrir fleirum en þér einum«. Eg svara: »Forgefins er að biðja fyrir þeim, sem ei biðja fyrir sér sjálfum, nema guð snúi þeim óumventu á réttan veg, eins og þú opinberar þig, hver helzt þú ert«. Svo komust af með guðs hjálp báðar embættisgerðirnar.[1] Síra Jón tók sér sæti fremst í dyrabekk, og vildi ei í kór fara, þó boðið væri, nema þá eg katekiseraði í kór, stóð hann þar upp yfir mér við dyr, eins og biskup. En svo fór guð dásamlega að því, að allan þann vetur og þangað til hann burt fór um sumarið eptir, gat hvorki hann né nokkur fiskað upp á mig í mínum embættisverkum utan stóls né innan.

## Kap. XXXI.

Hér vil eg ei með þögn fram hjá ganga, hversu guð kröptuglega stóð með mér í mínu kennimannlega embætti þann 17 ára tíma, sem eg var þar í Mýrdalnum, hversu sem Satan í sínum verkfærum vildi fyrirkoma mér. Tel eg þó fátt eitt af mörgu, og er þar fyrst til að taka, sem var áður nefndur prestur, síra Jón Guðmundsson, sem sat um mig með sínum fylgjendum með öllum uppþeinkjanlegum hætti. Hann var lærður maður og hafði mikið saman tekið, sem þénti þann tíð til kennimanns embættis. Bauð hann mér það, en eg þáði ekkert af því, svo ei þyrfti að mæta brigzlyrðum á bak eptir, sem von var á, að eg hefði vegna fávizku orðið að fara í smiðju hans til liðveizlu, og framar en frá segi. Eitt sinn á laugardaginn (fyrir) hvítasunnu gefur hann sig út austur að Hellum, mest til að fordjarfa fyrir mér mínar prédikunarstúderingar. Kom þar þá annar maður, sem eg setti til að hindra með öðrum hætti fyrir honum, meðan eg uppnæði inntaki úr prédikun þeirri, er eg átti að framflytja sjálfan hátíðisdaginn, en eg átti prédikanir, sem áður hafði brúkað hina dagana. Stóðst á, að eg var búinn með prédikunina og maðurinn gat ei leingur tafið fyrir honum, og stakk eg henni í kjólvasa minn morguninn eptir, áður eg fór að heiman að Dyrhólum, hvar mér bar að vera. Fletti eg upp bibliunni og sagði: »Hvað helzt mér nú vill til, skal eg með guðs hjálp brúka fyrir inntak«. Verða þá fyrir mér þessi Davíðs orð, Ps. 45. v. 4: »Gyrð þitt sverð við þína síðu etc.« Hann svarar: »Vondur er þessi texti fyrir þig, og við einhverju örðugu mátt þú nú búast í dag«. Eg sagði, það mundi og rætast, og fékk enn meiri eptirþanka af þessu en nokkur kunni merkja, en brúkaði þó orðin upp á mína skyldu og von, guð mundi hjálpa mér, sem og skeði. Nær eg kraup niður fyrir altari um credo að biðjast fyrir og ætlaði að taka minn minnismiða upp úr kjólvasanum, var hann þar ei fyrir, því eg hafði haft kjólaskipti, og munað þá ei

til miðans. Bregður mér nú í brún, þar eg vissi af vanmætti mínum, að ei var svo leikinn orðinn í því verki, að eg gæti fríhendis prédikað, bið meðhjálpara minn, sem Finnur hét, að sækja Vídalínspostillu og láta hana á bitann hjá prédikunarstól, því eg ásetti mér nú að lesa prédikunina úr henni, sem tilhlýddi þeim hátíðisdegi, hvað hann gerði. Verð eg þá var við, að síra Jón geingur út; kemur mér í hug, að hann ætli að setja til stráka að skyggja svo á gluggann, að eg geti ei lesið, hvað og so reyndist. Flýgur mér í sinni, hvað eg skuli nú afráða. Er þá eins sem mér svarað sé, eg skuli taka fyrir mig að tala útaf þessum orðum: »Minn frið gef eg yður«, og brúka mér fyrir form jóladagsprédikun, sem eg kunni, sama efni áhrærandi. Hét eg þá guði, ef hann nú hjálpaði mér, skyldi eg vanda hans þjónustu ætíð þann dag þar eptir. Nú lagði hann mér svo minni til og orð í munn, að eg komst merkilega vel af. Þessu mínu loforði við hans guððómlegu hátign gleymdi eg, æ því miður, hvar fyrir einn fagran hvítasunnu hátíðisdag á Sólheimum, þá þar var fjöldi, fyrir utan sóknarfólkið, samankominn, tók guð svo frá mér alt minni í prédikunarstólnum, þá eg var búinn með exordíum, að eg mundi ei nokkurt orð af því framflytja ætlaði og eg gagnkunni, og varð svo að fara jafnnær ofan úr stólnum aptur. Svo vandur er guð við þjóna sína og (að) loforðum þeirra. Hver guðs maður, er þetta les eður heyrir, hyggi þar að og varist þetta mitt vonda dæmi. Þessi tilburður barst í sömu viku til biskups míns herra Finns, og að eg hefði þanninn fráfallið af drykkjuskap, svo eg fékk hjá honum sterka áminning. En eg sagði það mætti minn og margra eið kosta, að hvorki eg eður nokkur annar þar hefði haft nokkuð brennivínstár. Sagði eg honum þá í frómleika upp alla söguna, hverninn drottinn hefði bent mér, sem hann ei alleinasta vel trúði, heldur og sagði mér fleiri dæmi þar upp á, einninn af sjálfum sér tvisvar sinnum.

Fyrgreindan hátíðisdag á Dyrhólum varð eg svo frá mér numinn af því, sem þá við bar, að eg mundi

ei að tóna bænina eptir præfatiuna. Hafði og ei vitað það allstaðar venju. Nær eg fór út úr kirkjunni, varð síra Jón eptir, talar til kórdjáknanna, sem inni voru, með stórum dæsum og brjóstslætti, og segir: »Guð náði, hversu hér ætlar að ganga til. Illa fór, að eg varð hér í dag, og þurfa að vitna um það sorglega tilfelli og yfirsjón, er hér skeði«. Þeir spyrja, hvað það sé. Hann segir: »Presturinn er fallinn. Honum gleymdist að tóna bæn þá, sem til er skikkuð«, og útmálar það svo saknæmt, sem hann kunni. Falla þar fáeinir á hans sveif, en aðrir halda það ei svo skaðlegt, segjast og ei hafa tekið eptir því. Berst þetta snögt til mín, þar eg var í einni skemmu í vestasta bænum. Þangað kemur prestur, og segir mér, hversu menn nú hafi hneykslazt á mér og séu að taka ráð sín saman. Eg læt sem eg hirði lítt hér um, og gaf honum brennivín, kalla þá alla saman og spyr þá um þetta efni. Verður það helzt andsvar flestra, að prestur hafi ollað þessari kveikju, en hann ber af sér. Verður það úr, að hver skammar annan út og lesa hvers annars lýti og biðja hann aldrei framar þangað að koma til soddan óróa og slaðurs, og reið hann svo í burt með stórri sneypu og vanvirðing, og hætti svo við svo búið.

Þó var ei hér með búið. Þar í sókn var sá maður, er hét Einar Erlendsson, kórdjákni, af góðri ætt kominn, skýr maður, sérvitur, falskur og undirförull. Hann varð eitt djöfulsverkfæri og útsendari að fordjarfa mig með öllum uppþeinkjanlegum hætti. Hann siktaði hvert mitt orð og verk, utankirkju sem innan, sá blíðasti þó í öllum viðræðum, kænn og kyndugur að venda sig, þá upp komu óheilindi hans. Þessi ólyfjan, sem hann bjó yfir, dreifði sér mikið út milli einfaldra og uppvaxandi illa artaðra unglinga, svo eg var nálega aldrei, að segja, óhultur að prédika þar guðs orð, því út úr minni ræðu var spunnið á ýmsa vega, sem mér varð þó fyrir því bezta, þar eg grundvallaði mín prestsverk því betur, og féll því í þann þanka, að einn prestur gæti trautt orðið í góðu standi, nema að hann hefði þvílíka siktara í sókn

sinni. Strax fyrsta vorið komst eg í lagadeilur við hann út af kyrsetu, er hann ætlaði að brúka á koti, er eg hafði bygt honum, sem á hann féll, svo hann varð að snauta burt með óvirðing. Hann átti ágæta konu, sem Guðrún hét, en fram hjá henni hélt hann við vonda taus, er heitir Jódís, lygin og stelvís. Hún átti þar tvisvar börn hjá honum, er þó urðu föðurlaus. Hún varð svo loksins hans síðari kvinna, og áttu þau yfrið vel geð saman. En svo féllu hlutir síðast, að fyrir það þjófstolið, sem hún dró að honum, voru þau bæði fleingd og dæmd ærulaus. Dó hann svo þanninn í hungri og vesaldóm, en hún enn flæmist manna á milli. Þanninn straffaði sá alvísi guð þennan hans orðs og presta hatara. En hún var sett í tugthús. Guðrún hét ekkja þar, sem sagt var hann hefði ofmikinn kunningskap af áður. Hún var mjög stórlynd og munnhvöt. Son átti hún, sem Haldór hét. Greind Jódís kendi honum barn. Héldu allir hann sannan að sök, en hann frambauð sinn eið á móti hennar áburði, sem eg og allir, sem á því þingi voru, vildi aptra honum. En það kom til forgefins, svo hann sór. Móðir hans fann mig eptir þingið og sagði: »Allir vildu, eptir sem heyrt hefi, leiða þar barn mitt til helvítis, og þú varst verstur þar í, sem eg ætlaði sem bezt«. En eg svaraði: »Guð mun innan skamms sýna þér á mér eða honum, hvort eg sótti eptir hans velferð eður ei, ef eg má prestur heita«. En svo fór: Dreingurinn lagðist strax veikur með svo kvalafullum meinsemdum, að af honum fúnaði maginn, að milti og lifur geingu út. En nær eg síðast þjónustaði hann, var eg viss um hans sanna umvendan og sáluhjálp. Ó, hvað þungt er að falla undir reiði guðs, hvar frá hann öll sín börn varðveiti. Hennar endalykt varð og með skelfing. Eitt sinn var eg einsamall að húsvitja. Voru þar bændur tveir, sem voru að deila í heygarði, sem þeir áttu saman. Fer eg þangað til að forlíka þá, sem ei hafði að segja, því þeir ei alleinasta héldu á að skammast og reka heygogga sína hvor í annan, heldur og réðust á mig, að mér þótti fótur minn fegurstur að kom-

ast frá þeim. Sunnudagur var að morni; ætluðu þeir þá og að vera til sakramentis; tek eg þá afsíðis og segi þeim, þeir skuli nú biðja hvor annan fyrirgefningar á sínum orðum og verkum í gær, ef þeir hafi ei gert það. Þeir svara: »Höfum við verið nokkuð ósáttir? Við munum það ei, eða vill presturinn vekja milli okkar nokkurn óróa etc.?« Var nú áðurnefndur Einar kominn í lið með þeim. Begera svo af mér skriptamál og sakramenti, er eg varð að veita þrælum þessum, mót samvizku minni, þar ei hafði nokkuð bevísanlegt upp á þá. Soddan mega opt prestar þola.

Mr. Gunnar Jónsson á Dyrhólum var guðhræddur maður og vel að sér um marga hluti, bæði í andlegu og verðslegu, fullur af grillum og heilabrotum. Hann statúeraði og framfylgdi með mesta kappi, að lögmálið ætti ei að kennast, heldur einasta evangelíum, að einu gilti, hvað menn hefðust að, ef þeir hefðu trúna, að menn ættu ei að biðja guð nokkru sinni með fororði og þessháttar. Má nú nærri geta, hvílíka mæðu þetta hans rugl gerði mér, svo vel í guðs orða réttri kenning og útlegging í kirkjunni sem og sérhverju samkvæmi, hvar ætíð var viss von á einhverjum þessháttar mælgi- og kappræðum af honum. Og svo sem hann var málskapsmikill, féllu margir á hans meiningar og villuútleggingar. Kom svo loksins í skrif og pennastríð milli okkar, sem sjá má eptir mig, og skildum við svo að í þessari trúarbragðabaráttu. Þó var svo góð art í honum, að hann talaði aldrei nema vel um mig á bak, og leið það ei öðrum að hallmæla mér, þá eg var ei við. Svo voru og illa artaðir menn í hinni sókninni, að þeir á síðustu tímum minnar þarveru rökuðu alt tagl af reiðhesti mínum, skáru alla hnappana af minni prestshempu, fyrir utan þann efsta og neðsta. Fleira nefni eg ei. Svo hefir Mýrdalsfólk verið kartið við presta sína, að það hefir þá flesta stórum mætt, og ei vel útleikið. Mun það og leingstum viðhaldast. Þó finnast þar góðir og guðhræddir menn í bland, sérdeilis kvenfólk, sem mér var ætíð þægilegt og gott gerandi. Tók eg góðum kunningsskap við fjórar af húsfreyj-

um. Ein var á Brekkum, önnur á Hvoli, þriðja í Pétursey, fjórða á Sólheimum. Keypti hver þeirra handa mér brennivínspott, er eg vel borgaði þeim. Af þessum tók eg mér hressing, þá eg var á ferð þar um, eptir þörfum, sem mér nægði frá einni kauptíð[1]) til annarar vel svo. Ein var svo fyndin, þá hún gat ei flöskuna svo geymt fyrir manni sínum, sem var drykkjumaður, lét hún hana ofan í skyrkjarald sitt. Þar kom honum ei til hugar að leita. — Mikið má, þá vel vill.

## KAP. XXXII.

Um alla þá markverðugustu viðburði, sem skeðu meðan eg var í Mýrdalnum, hefir síra Jón Hjaltalín orkt einn sálm að forlagi mínu, hver og finst í einni bók, er eg hefi samantekið og skrifað. Á eitt sérlegt guðs dásemdarverk, er hann og um getur, vil eg áminnast, sem var, þá 5 skip með 90 manns náðu ei landi undir Dyrhólaey, hröktu því undan í sterku austanveðri með regni, hafróti og mestu ókjörum, að ei sást fyrir, nokkurt þeirra mundi afkomast, hvað þó skeði fyrir forundranlegan guðs almættiskrapt, að þeir eptir þá dimmu og mæðusömu nótt náðu með heilu og höldnu Vestmannaeyjum[2]), og voru þar vegna brims og leiðisleysis í 11 daga. Eg var þá ei heima, og var það ein sú daufasta aðkoma, þá sóknir mínar voru svo eyðilagðar að mestöllu mannfólki, að ei varð embættisfært. Lögðust margar konur af harmi. Var eg allan þann tíma á reið til og frá að telja um fyrir þeim og hugga þær. Tvisvar og optar varð eg að koma til þess á suma bæi. Forsómaði sig þá ei sá vondi andi að innbyrla það og það, en guðs náð og kraptur í breyzkleikanum yfirvann þó svo undarlega, þó minni fyndist, að ánægjanlegleikinn komst á hjá flestum. Var það tilfelli eitt það þyngsta og örðugasta, sem eg leið þar í plássi. En hvílíkir fagnaðarfundir þar urðu, þá hver heimti apt-

---

1) kauptíðar, hdr.
2) Vestaneyjum, hdr.

ur sinn ektamaka og náunga, má nærri geta. Lofaður sé guð um aldur og eilífð fyrir slíkt almættisverk.

Frá því fyrsta, eg var kominn til vits og menningarára, hafði eg af guði inngefna sterka lyst til læknisdómakonstar, sem eg í leynd stúderaði þó upp á, og byrjaðist það með litlu tilefni, þá eg var í Hellum. En þar mér tók strax að farsælast það verk, fékk eg stóra aðsókn af nauðlíðandi, sjúkum og vanheilum mönnum. Nú þá eg var prestur orðinn og kominn að Felli, var sjaldan sjúklingalaust á mínu heimili, stundum tveir og þrír. Opt var eg sóktur til veikra, bæði héðan úr sýslu og Rangárvallasýslu. Vor og haust, þá eg fór til minna búsútréttinga, safnaðist að mér mikill fjöldi, ei alleinasta úr Rangárvalla, heldur Árnes- og Gullbringusýslu, að [ei mun[1]), í þau 17, ár sem eg iðkaði þetta helzt, [verið hafa minna[2]) en 50 til 60 manns, er eg læknaði í hverri ferð, í hverju verki guð gaf mér þá heppni, að flestir höfðu þar af með guðs hjálp heilsubót, en slétt einginn skaða, svo eg kann án allrar sjálfhælnis og sem fyrir guðs augliti að saman reikna yfir 2000 manns, já, enn frekara, sem lækningar og léttir feingu fyrir mín verk og ráð, hvar til sá hálærði landphysicus Bjarni sálugi Pálsson, sem aldrei sleit trygð við mig, lagði mér til verkfæri, meðöl öll, ráð og dáð, því hann var útgefinn til þess, að sem flestir hefðu gagn af sér og hans kunnáttu. Blessuð veri sú hans minning! Eg fann og upp af hugviti mart, sem í vanefnum varð að lukku þar í. Þó eg væri stundum fyrir vestan, stundum hér eystra vikum saman að því verki, passaði eg þó svo upp á mín embættisverk, að þau skyldu ei forsómast þar við, og lagði á mig harðar reiðir til þess og fleira, að einginn gat þar um klagað. Guð fór og svo að því, að ekkert féll til í sóknum mínum, meðan eg var þanninn í burtu, skaðlegt, sem mér gat orðið að hneysu. Sumir af þeim, er eg læknaði, borguðu mér ærlega; aðrir þar á móti vildu ei, og flestir af aum-

1) [leiðr.; eg mun ei(!) hdr.
2) [leiðr.; væru minni(!) hdr.

ingjum gátu það ekki. Nú svo sem guð, sem rannsakar hjartalag og verk allra manna, vissi, að eg gerði mér ei þetta til hróss eður ávinnings, heldur af frómu hjartalagi honum til dýrðar og gagns mínum nauðlíðandi náunga, hvar til eg ætíð ákallaði hann og bað hann að hjálpa mér til þess, svo hagaði hann því svo vísdómslega til, án alls míns undirlags við nokkurn mann, að fregn þessi barst út í Kaupenhöfn, svo hans kongleg majestet Kristján 7. sendi mér 20 rdr. madallíu[1]) með sínu eigin aftrekki, 20 þá nýslegnar danskar speciur með náðugu bréfi og befalning, að eg skyldi fá ríkara prestakall en það, eg við væri. Þanninn álítur guð kærleikans verk, sem gerð eru í hans nafni af hreinu hjarta. Þanninn heyrir hann bænir sinna nauðlíðandi barna og launar það, sem þeim er gert.

Nú féll liðugt eitt gott prestakall, Saurbær á Hvalfjarðarströnd, sem mér mátti nú strax í hendi verða. Orsök, hvar fyrir eg sókti ei um það, var þessi. Eg var í stóru vinfeingi í þann tíð við sýslumann signor Brynjólf Sigurðsson í Hjálmholti. Meðal annara hans barna var sú jómfrú, er Helga heitir, guðhrædd stúlka, frómlynd og mannverusöm. Hún var í þjónustu léð Thorláki sáluga á Þykkvabæjarklaustri[2]). Hún var haldin af því krankdæmi, að hún misti ei eðlisblóð. Var þar af orðin svo brjóstveik, að blóð gekk opt upp frá brjósti hennar, en holdið komst í kláða og sár, að naumlega gat geingið. Dóttir mín Jórunn var og þann tíð á Mýrum, hverri þessi stúlka var sérlega góðsöm. Alt þetta knúði mig til að leitast við að lækna og svía svo hennar meinsemdum sem eg hafði bezt vit og efni til, sem þó vildi ei til fullnustu ávinnast, hvar fyrir eg sagði henni eitt sinn: »Þú hlýtur endilega að giptast, ef að þetta krankdæmi þitt skal komast í lagfæring, og það ráðlegg eg þér«. Hún svarar með angri: »Sýnist þér eg vera giptingaleg? Það sé langt frá mér, eg hugsi nokkuð til þeirra efna«.

1) Svo.
2) Þ. e. Þorlákur Þórðarson Thorlacius (d. 1776).

Eg segi, guð verði að ráða því. Eptir langar umtölur mínar og útmálanir með rökum og dæmum þar upp á, segir hún: »Geti það svo ólíklega upp á komið, svo læt eg þig vita af því, og hefi þig þá í heimuglegu ráði með mér«, er eg velkomið sagði. Svo fór hún aptur til föður síns. Biður hennar þá einn prestur, sem heitir síra Björn Þorgrímsson, sem þá var kapellan hjá síra Þorvarði Auðunarsyni í Saurbæ. Hann fékk hana ei auðveldlega. Henni var ei og um að taka honum, því hann sýndist ei hafa hraust hold, með öðru fleira. Hún fer austur að klaustri, gistir hjá mér til og frá og segir mér frá þessu ráði. Eg framfylgi því það kröptugasta, og sver við skynsemi mína, að hún þurfi ei að óttast fyrir spítelsku á presti. Hann sé mörgum gæðum gæddur, stöðuglyndi og sparsemi að passa upp á heilsu sína, og svo framvegis. Fylgi eg henni svo út að Drangshlíðarnúp, og þar að skilnaði hétum við hvort öðru svo staðföstum vinskap og trygðum, að hvort skyldi öðru til liðs og hjálpar koma í öllu því, við gætum og hvort kynni til annars leitandi að verða. Skildum við svo eptir þessa heitstreinging. Hún giptist svo þessum presti. Eg átti þar eptir ferð að Hlíðarenda. Segir landsþingsskrifari, föðurbróðir madame Helgu, að Saurbær sé tilfallinn, en standi það í vegi, að síra Birni sé ei veitt það kall af stiptamtmanni, hjá hverjum hann hafði eitt ár eða þar um bil þénari verið, að þeir[1] vissu af kongsbréfi því, er innkomið væri, að eg skyldi hafa það fyrsta prestakall, sem tilfélli. Eg svara: »Þó eg sé þeim presti lítið kunnugur, svo skal hann nú njóta madame Helgu kærustu sinnar, því eg hefi lofað henni öllu því, mér væri mögulegt að gera henni til liðs, og skal eg ei um það sækja, og látið þér þessi mín orð sem fljótast berast til þeirra«. Hann segir: »Ærlega og vel er þetta gert, og fyrir þau vel munandi«, með enn fleirum orðum. Fékk svo síra Björn án tafar greint prestakall. Fann eg þau síðar á Þingvöllum. Voru þau þá í rúmi sínu einn morg-

1) þier, hdr.

un í velhressu standi. Minnustum við á fornar viðræður. Prestur slær upp á gaman og segir: »Nú hefir kona þessi feingið þá lækning er þú sást og sagðir, hún þyrfti við«. Eg óska henni langgæðrar lukku með þann læknisdóm. Bjóða þau mér til sín þá eða einhvern tíma, eg væri á ferð til lystisemis. En eg kvaðst mundu heimsækja þau, ef mér lægi á þeirra liðveizlu, og þau gæti úr ráðið, hverju þau vel tóku. Meðan við áttum þessar viðræður, þá sat þjónustustúlka þeirra andspænis móti mér, sem hafði mjög hreint og þægilegt yfirbragð, svo eg fékk góðan geðþokka til hennar, því mér sýndist hún búa yfir góðu geðslagi. Vissi eg ei fyrr en síðar, að þetta var ættingi minn, og hét Kristín Sigurðardóttir. Hver endalykt varð á þessu vinfeingi, varð síðar sú raun á, að fallvalt er að reiða sig upp á höfðingjana á stundum, og velgerðir launast opt ei eptir verðugleikum.

## KAP. XXXIII.

Áður en eg öðlaðist áðurnefnda kóngsnáð og æruskeink, hlaut eg mart og mikið að líða af vondum og öfundsjúkum mönnum, því þess framar sem guð blessaði mig og stóð með mér í öllu, þess meir ólmuðust þeir að sverta mig og gera mér alt til meins, svo segjast mætti, eg yrði þar í Mýrdalnum fyrir þeim verstu og fólskustu mönnum, er þar voru til á þeirri tíð. Get eg þó ei nema þeirra, er eg komst í opinberar lagadeilur við. Einn hét Árni Jónsson; hann var landseti í Reynirshverfi. Eg fór svo vel með hann sem eg kunni, og um leið hann optsinnis og gaf honum upp skuldir. Eitt sinn, er eg kom til hans að heimta þær, og eg vissi hann hafði efni, snýst hann svo illa við, að hann segir: »Þínar umlíðanir hafa hleyp(t) mér nú í þær«[1]), tekur upp staur og drífur mig í burtu. Komst svo til laga og réttargangs okkar í milli, sem þó niðurslógst fyrir milligaungu annara og gæflyndi mitt, að ei var við hann gert

1) Þ. e. skuldirnar.

eptir verðugleikum. Fór hann svo á eina klausturjörð, flosnaði þaðan upp og dó í vesöld vestur í Gullbringusýslu.

Annar heitir Árni Oddsson, fullur af hrekkjum, falsi og vélum. Hann var og þar landseti minn. Hann lýsti mörgum ósannindum upp á mig í okkar viðskiptum, og þá hann opinberlega fyrir rétti hafði étið ofan í sig sínar lygar og þvætting og beðið mig fyrirgefningar, slepti eg fríum þessu þrælmenni. Þó var hann síðar sá fyrsti höfundur til minnar burtferðar úr Mýrdalnum, sem hér verður of langt í frásögu að færa. Hann hafði verið áður vinnumaður sýslumanns Lýðs, hver eð hinum og öðrum veitti jafnan fylgi á móti mér, svo heïmuglega sem mögulegt var.

Þriðji hét Árni Þorgeirsson, gáfumaður, en falskur og undirförull, hafði fyrst verið landseti minn, síðan ráðsmaður hjá sýslumanni með konu sinni. Þar um talast ei, hversu þeir voru lyndislíkir í lauslæti og fleira. Hann varð búandi þar eptir á Hrífunesi. Kemur sýslumaður honum til, sem Árni sagði síðar frá, að lögfesta sjónhending austur úr svo kölluðu Fauskalækjargljúfri yfir þverar Flögueingjar, móti hefð og öllum réttindum, útvegaði sér þar til lygavitni, sem varla nokkuð til vissu, hvar til áðurnefndur Einar Eiríksson var forgaungumaður með þeim. Voru þar haldin um tvö þing. Dæmdi svo sýslumaður, eptir sjálfs síns og þeirra vild, eingið undan Flögu. Eg, sem þá var umboðsmaður yfir Flögujörðum, var ei ánægður með þann dóm, stefndi honum til Alþingis, er svo féll, að sýslumaður var dæmdur að láta úti 1 rd. til jústizkassans, 3 rdr. til mín, og dæma svo á ný aptur í héraði, þar þessi hans dómur var álitinn sem ódæmdur, hvar til þó ekki kom, því að fóveti Skúli, sem það sama haust 1769 var hér á ferð, skipaði Flögubóndanum að brúka land jarðarinnar, sem ætíð hefði brúkað verið, en sýslumaður og fylgjarar hans skyldu hætta, ef þeir vildu ei verr færi. Fyltust nú enn framar af fjandskap mínir mótstöðumenn við mig, nema Einar Eiríksson lét af með kontrakt við mig,

hvar um áður er á vikið. Eitt er til dæmis um umsátur þeirra þá við mig, meðan málgrey þetta yfir stóð. Eg gisti þá um nætur í Ásum hjá síra Sigurði Högnasyni, er þar var þá prestur; svaf eg í rúmi fyrir framan svefnhús hans með rólegheitum, því eg vissi, guð mundi gefa sönnu máli sigur. Mér heyrðist um morgun einn, þá eg svaf, vera sungið þetta vers: Heiptarmenn herrans vaka etc. Við það vakna eg og segi til prests: »Nú þyki þér eg hafa nógu leingi sofið, að þú fórst að vekja mig þanninn«. En hann svarar: »Annar vakti þig nú, og sýnir þér, hvað þú átt að gera og búast við í dag«. Það kom og fyrir dag, sem þeir höfðu tilbúið um nóttina, er guð gerði þó að eingu. Eg hélt Flögujarðir í 17 ár. Fékk eg þær um nokkur ár til ágóðanota Sigurði Magnússyni, fóstra Guðnýjar dóttur minnar. Fyrir einfeldni mína að trúa fóveta Skúla fyrir uppboði á þeim í eitt skipti, og annan hans umgang með þá nýju jarðabók, hleypti hann upp á mig fyrir þær 45 rdr. restance. Stóð það jag yfir í nokkur ár, að eg vildi ei betala þá skuld. Var sú sök yfirskoðuð utanlands og innan, og féll loksins af sjálfu sér. Eg var mitt í þessu vastri að segja jarðirnar af mér, en fékk mig ei lausan, þar til mér lagðist það til liðs, að Jón Eiríksson etatsráð utanlands gat ei komið þar Jóni bróður sínum til nokkurrar menningar, fann því upp á þetta ráð að veita og útvega honum þetta lén. Leysti eg vel af hendi við hann jarðir og kúgildi, og varð svo laus við þær, sem mér var stór lukka, áður en upp komu ógnanir þær, sem hér síðar yfir geingu.

Um þessi ár fór að heimsækja mig brjóstveiki svo þung, að eitt sinn hlaut eg að taka fjögur andartök að þessum orðum »Drottinn sé með yður«. Þó styrkti guð mig svo kröptuglega, að aldrei féll eg frá í embættisverkum mínum. Sú brjóstmæði batnaði mér þó mikið, er eg komst hingað á Síðuna undir hreinna lopt. Öllum mínum líkamaburðum hélt eg og óskertum alt fram á mitt 52. ár. Mín góða kona varð og um þær mundir mjög heilsuveik, svo við

rúmið hélt nærri heilt ár af vatnssótt og uppþembing, um þann tíma opt nær dauða en lífi, sem henni þó batnaði fyrir sérlegan guðs krapt og nákvæmustu viðleitni og ráð landphysici herra Bjarna, sem ekkert taldi eptir sér að koma þá til mín, er eg var í þeim bágindum staddur. Eg hafði og vilja og góð efni til að launa honum þá ferð, því á Felli græddi eg svo peninga, að eg keypti 20 hundruð í Óslandi fyrir norðan fyrir 80 rdr. Átti þá og fyrirliggjandi 60 ríxdali; mátti þó rúmlega 40 rdr árlega útgefa í skólakost stjúpsona minna. Það jók og mikið á meinsemdir konu minnar, að dóttir hennar Karítas lét fallerast, og hlaut því að giptast manni þeim, er hún nú á, er heitir Þorsteinn Eyjólfsson, af góðu bóndaslekti kominn, hann sjálfur góður smiður, verkmaður og prýðismaður í allri framgeingni, svo sú gipting fór að öllu betur en Mr. Vigfúsar bróður hennar, er öllum sýndist horfa til mikillar farsældar. Mr. Jón Scheving bróðir hans var þá og búinn að gefa sig í soldáta stétt, svo hér bættist eitt á annað. Mátti eg nú kenna á blíðu og stríðu, en guð veitti mér styrk og léttlyndi að bera það alt. Tók eg þá og helzt fyrir mig að stunda guðlega hluti, samansafna kvæðum, sálmum og bænum, er gamalt fólk kunni og eg sá, með því vildi undir lok líða, að börnum mínum kynni að verða slíkt til nota og öðrum, er það nema vildu, eptir mig fráfallinn. Mitt í þessu an(d)streymi blessaði guð mig svo með lands- og sjávar gagni, að eg þurfti eingan fisk til að kaupa til búsins, heldur seldi hann vissum skiptavinum mínum hér í austurpartinum í nokkur ár, því eg fékk opt í skipparta og mannshluti mína á milli 10 og 20 fjórðunga fiska, þar til afli sá lagðist frá, undir eins og guðsdýrkun var minkuð með helgidaga aftekningum; hafði þó 17 til 20 manns í heimili, að óreiknuðum sjúklingum, er optast voru þar hjá mér tveir og þrír. Eitt áþreifanlegt dæmi, hversu guði var umhugað að blessa mig af sjónum, var þetta: Eg átti að mestu leyti eitt skip, er eg varð að flytja með mér út undir Dyrhólaey. Þá (eg) úr hverfinu

fór með búferli mín, hafði eg feingið á það ánægjanlega menn til að láta það ganga um vertíðina með öðrum skipum, hverja sýslumaður tældi aptur frá mér, brúkaði þá svo á sitt skip, sem fékk 60 fiska hlut í 14 róðrum, sem þá var minsti hlutur í þeirri veiðistöðu þá vertíð. Þá eptir af henni voru tveir dagar, komu Meðallendingar vestur, sem áður höfðu verið hásetar mínir. Biðja þeir mig nú að taka skipið upp og fara með sér út á sjó, því þá var gott færi. Fékk eg svo marga, að eg komst á eitt mitt ókunnugt fiskimið. Er það ei að orðleingja, að guð gaf oss þar af enum bezta fiski og flyðri[1]) 60 fiska á þessum tveimur dögum. En það mesta af öðrum skipum hafði þá daga 7 fiska hlut. Dæmið sýnir,

að einginn dregur, þó ætli sér,
annars fisk úr sjónum.

## KAP. XXXIV.

Stjúpsynir mínir Jón og Vigfús Schevingar, sem er móðurættar bínafn þeirra, voru báðir að líkamans skapnaði mannborulegir[1]) og ásjálegir menn, náttúruskarpir og skýrir, og feingu því eina þá ágætustu vitnisburði úr skóla upp á skarpleika sinn og lærdóm, ásamt lifnað; voru þeir þó ei lyndislíkir. Sá eldri var, framar en frá verður sagt, óstöðuglyndur, sló sér út við alla, lét ganga á hverju, sem vildi, lofaði ofmiklu, og varð því að brúka pretti. Hann greip og tók þankalaust, hvað fyrir hendi var. Stundum kom ei til skila, það með honum var sent, og í mörgu sást fyrir hans sterka ólán og lauslyndi. Hinn (var) þar á móti sérlega guðhræddur og það bezta prestsefni, stöðuglyndur í hverju, hann tók fyrir sig, góðgjarn við alla og örlátur í máta, staðfastur í trygð, þar hann tók henni, og lofaði ei framar en enti, en ofurþver og næsta óvikjanlegur, þar hann vildi ei, nema lempni væri brúkuð, og því fór svo illa milli

1) Svo.

hans og konu hans, að hún var sérgóð, uppstökk og ólempin. Svo sem nú að Jón stjúpsonur minn var laus í öllu sínu ráði, ráðfærði eg mig við hans helzta og mesta formyndara, nær hann var úr skóla kominn, hverninn eg skyldi mér með hann haga. Þessi hans formyndari var amtmaður sálugi herra Magnús Gíslason, hávitur og ráðhollur höfðingi. Var eg ætíð í stórri gúnst og metum hjá honum, og kom hann mér tvisvar áður til góðs liðs með þennan minn stjúpson, að leysa hann úr vanda. Hann svaraði mér skriflega, að eg skyldi láta hann sigla, hann kynni þar sjá að sér og setjast, því þar væri náungar hans fyrir, eptir hverjum hann kynni taka sig. Lét eg hann svo sigla og fékk honum þá mestallan föðurarf sinn upp á 166 rd., og mikið af öðru, sem ei verður upp talið. Hann komst lukkulega út af landi, deponeraði og fékk hrós fyrir það, og í hasti hafðist þar upp. Hleypti sér í stáz og pragtugheit, varð strax vel bekendur, tók sér fyrir stallbræður, þá sem honum voru lyndislíkir, eyddi svo með þeim og spanderaði, því hann átti þar, og þar þraut, tók hann til láns, sendi inn ýmsum foræringar, en fékk litið út aptur. Árið eptir gerði hann inn lystireisu að yfirskini, en var þó raunar að fá sér peninga. Vildi eg þá láta hann ei aptur út fara, en réði þar ekkert við. Seldi hann þar fyrir norðan 30 hundruð í jörðu, sem kona mín átti, með enn fleiri sóan, sem hann lét okkur þó ekkert af vita. Svo sigldi hann aptur þar fyrir norðan, en hér sunnanlands sigldi það sama haust sýslumaður signor Brynjólfur Sigurðsson, sem með aldrinum varð sárlega ágjarn. Jón kemur snart í vinskap við hann, selur honum allan Reynirinn, svo vel það, hann sjálfur átti, sem var helmingur við bróður hans, sem og það, sem þessi hans bróðir átti, með soddan lögleysu, sem sorg er á að minnast. Sýslumaður sparaði honum ekkert peninga til að ná þessu höfuðbóli, og fékk honum fyrst út í hönd 300 ríxdali, og eitt hundrað þar eptir; kemur svo inn til lands aptur á Eyrarbakka, aðspurður þar af vissum mönnum, hverja lukku hann hefði út sókt; svarar aptur og segir: »Eg

eignaðist allan Reynir í Mýrdal, því bevísingar eru þar til í vasa mínum«. Þeir, við hann áttu tal, svara: »Mun honum síra Jóni Steingrímssyni ei falla þetta þungt?« Hann svarar: »Hvað megnar hann á móti mér, þar hann verður nú að útleggja 600 rd. til Jóns stjúpsonar síns, og óttast eg hann slétt ekkert; jörð sú er orðin mín«. Litlu eptir þetta ríður hann austur að H(l)íðarenda, skrifar mér þaðan til að finna sig hið snarasta, því þar liggi mikið á. Eg var þá að taka ofan Reynirskirkju, og mátti því ekki í það sinni finna hann, sem eg skrifaði til baka, hvað mér varð að allri lukku, sem von var. Fékk eg að vörmu spori bréf frá honum til baka, fult af stórmensku og hótyrðum, hvar í hann yfirlýsir skuldinni, heimtar af mér þar á ofan allar leigur og landsskuldir af eigninni, heimtar hana í standi með öllu tilheyrandi, og fyrirbýður mér framar með þann eigindóm að sýsla sem sína eign. Eigi kom mér þessi fregn vel né hentuglega; hélt þó fram verki mínu við kirkjuna; fer síðan, þá alþingistími var kominn, á sýslumanns fund. Hann tekur mér fyrst vel, og spyr mig, hvort eg sé kominn vegna Jóns stjúpsonar míns með þá reikninga og rigtugheit, sem hann hafi begiært af mér. Eg neita því, þar Jón hafi tekið feil að selja honum eign bróður síns, og þar hann sé óðalborinn til eignarinnar ætli eg að leitast við að fá peninga að innleysa jörðina honum til nota, áður en þessu flasi Jóns verði opinberlega þinglýst. Bið hann láta mig nú vita, hve nær hann sé til þings væntanlegur, eg vilji þá vera þar til staðar. Hann segir: »Að vikufresti, og vertu þar þá til staðar«. Fór nú að dessast öll gúnst hans og vinfeingi. Eg beið hans svo þar í viku, en hann kom aldrei sjálfur, en hafði þar njósnara, hvað þingi liði. Og þá ei formerktist, að meir væri eptir en einn laugardagur, sendir hann Guðna son sinn, sem var orðinn hans adjunctus, með sína sýslureikninga, og lætur þar með lesa upp í lögréttu, á móti loforði sínu við mig, allar skuldir og samninga milli Jóns og hans, yfirlýsir eign sína á Reynir og forboði til mín að handla framar nokkuð með hann. Var

nú varla nokkur á þingi, er ei vorkendi mér og kendi í brjósti um mig, fyrir utan vissa öfundarmenn. Eg fór í eitt mitt víst afvikið bænarpláss, og bað þar guð um hjálp. Að því gerðu gekk eg um þing og falaði peningalán, bæði hjá frændum hans og öðrum, en svo sneri guð hjörtum manna að hjálpa mér, að eg hafði feingið um kvöldið til láns 400 rdr. Vildi enn það til lukku, að upp vantaði að segja einn dóm, að lögréttunnar sökum var ekki lokið, hvar fyrir eg á mánudaginn fór í lögréttu, hrópaði þar upp sýslumann, bauð fram peningana, bauð þá Guðna með vottum, svo vildi hann ei taka við þeim síns föðurs vegna, afsakaði eg mig framar að betala þá skuld. Og þá hann hafði við peningunum tekið, gerði eg sama forboð til sýslumanns, sem hann hafði áður gert til mín, svo hann átti ei Reynir, nema tvær nætur. Glöddust nú allir góðviljaðir yfir því, hversu guð setti niður hroka og ágirnd hans og stóð með mér móti hans þanka. Svo yfirlýsti eg í lögréttu, að eytt væri alt góz Jóns, sem undir minni hendi var, og annað proclama sendi eg út að birta fyrir hæstarétti, að einginn forgripi sig á því að lána honum framar, því svo var eg búinn að yfirleggja eigur hans, að eg sá hann varð mér skuldugur yfir 200 rdr., er eg kunni ekkert fyrir að uppbera.

## KAP. XXXV.

Þegar Jón stjúpsonur minn heyrði út þessi tíðindi og sýslumaður Brynjólfur flæmdi mig út við hann í mesta máta, eins og síðar frétti, og hann gat eingri útsóan upp á mig eður fé sitt hér í landi við komið framar, og þó eg sendi honum bréf og obligation upp á peninga að koma sem snarast inn í landið og skyldi eg taka móti honum, — það gerðu og fleiri náungar hans, — þá vildi hann ei þau ráð þiggja, heldur gaf sig í soldáta stétt, fyltist af hatri til mín og móður sinnar, og setti sig út til þess með hrösun sinni að hafa og einninn af okkur líf, æru og alla tímanlega velferð, hverju hann kom svo í verk. Hann fór til

áðurnefnds Björns Árnasonar, sem þar var við smájárnsmiðishandverk í staðnum, bar undir hann peninga, þar hann vissi þræll sá var fram úr máta peningaágjarn, og kom honum svo (til) að yfirlýsa sem frægðarverki, að hann hefði drepið klausturhaldara föður hans, fyrir bón okkar og tillögur. Hér af fékk Jón sér fljótt tækifæri að úthrópa mig og móður sína sem vanörtuðustu og verstu manneskjur, svo ei gæti betalað skuldir sínar með ótal fleira. Var Björn fullsnögt tekinn og hafður upp á ráðstofu til frekari rannsóknar. Hann stóð þar við sama, en gat slétt eingar bevísingar eður annarra manna meðvitund tilfært, og ei það við hefðum í nokkru hýrgað hann eður betalað það verk, sem ei var von. Var þessi sök nokkurn tíma í byltingum og ráðslagi fyrir ráðstofunni, og loksins vildi það ályktan verða, sem var til dóms uppsett til nokk(ur)ra vikna tíma, að hann skyldi í járnum flytjast inn í landið á Alþing. Þangað skyldum við færast og heyra á framburð hans, sverja fyrir, ef gætum, annars verða í æfinlegu fangelsi. Þetta flaug innan um alla Kaupinhafn. Varla vissi eg þann stúdent eða líðilegt knegt, sem ei skrifaði það hér inn í landið, en eingir af mínum vinum og náungum, er eg átti þar, létu mig hið minsta af því vita. Þó heyrði eg þessar vondu fregnir alstaðar að á skotspónum, og svo við bætt og aukið í versta máta, sem þvættingar eru vanir, þá þeir flytjast mann frá manni. Eg átti nú eingan þann vin eður veraldarmann að, sem eg eiginlega þorði eður vildi spyrja að fréttum þessum. Kona mín lá fyrir dauðanum, veik af vatnssóttinni og hugarsturlan af Jóni syni hennar, er hún heyrði, soldáti var orðinn, en hvort henni barst þessi frásaga, vissi eg ei og vogaði ei heldur við hana að tala neitt um það. En Vigfús stjúpsonur minn frétti það sem eg, og áttum við opt tal saman um þetta, en hans stöðuglyndi og gott hugboð, að guð mundi sýna sakleysi vort, umbreytti ekkert hans sinni við mig, enn síður annað meira. Vildu þó hatursmenn mínir hleypa okkur í hár saman, sem þeim hvorki þá né síðar meir tekizt hefir. Þegar eg stóð þanninn uppi

einsamall að allri mannlegri hjálp, tók eg fyrir mig það bezta ráð, að (eg) flýði til guðs, og bað hann um hjálp og styrk að umlíða þetta eptir hans vild og gefa sönnu máli sigur. Var nú hjá mér innvortis stríðandi andans von við holdsins breyzkleika. Eg fann dæmin, að af guðs þjónum hafði verið logið líf og velferð, við hverja eg kunni mig ekkert að reikna, og ótal með og mót var nú á ferð í þaunkunum, að eg nokkra daga neytti ei matar né svefns. Minn líkami svitnaði. Það var líkt sem brakaði í hverju rifi og bringuteini, og sem einn liður væri laus við annan. Þó misti eg aldrei bænarinnar anda. Og svo sem eg var einn í rúmi, en kona mín veik í öðru, átti eg því hægra að væta það í tárum. Eina nótt, er lítill svefnhöfgi féll á mig, þykir mér yfir mig skína svo fögur sól, að þvílíka birtu auðnast mér aldrei að sjá í þessu lífi. Hennar ljómi og varmi breiddist svo yfir mig, að mér fanst sem legði ilmur, ljómi og styrkur yfir og í allan líkamann, er gagntæki mig innvortis og útvortis með léttleika og glaðværð í hjarta og sönsum, hvað og reyndist, er eg vaknaði. Þar með þótti mér til mín vera talað: »Óttastu ei. Eg stend með þér. Málið er fallið eptir Malachiæ 3. kap., er þú skalt hitta upp á á morgun frá 13. versi til enda«, sem og einninn í fyrsta augnakasti varð fyrir mér, þá eg fletti bibliunni upp, svo frá þeim tíma varð eg aptur svo frískrar náttúru, að eg kærði mig hvorki um líf né dauða, heldur gekk glaður að öllum mínum verkum og útréttingum, sem ekkert að væri, að menn blíndu á mig. Móðir mín og systir mín í Álptaveri, sem heyrt höfðu þessi ókjör, héldu spurnum fyrir mér, hverninn á mér lægi, heyrðu af hverjum einum, eg væri í öllu eptir venju lystugur, er þær og aðra stórlega glöddu, og þó með forundran. Eg fékk og nokkur bréf frá vinum og náungum mínum að norðan, sem voru það kröptuglegasta að biðja fyrir mér sem föllnum manni etc. En eg skrifaði hverjum til aptur, og bað þá að biðja svo fyrir mér, að sem guð vissi eg hefði gert og tilunnið, svo vildi hann láta sjást og opinbert

verða og við mig framkoma. Skip komu með þessar fregnir um fardaga tíma, hver(t) þanninn með hæsta veraldar aðkasti og dagdómum afgekk alt fram á alþingistíma. Hlaut eg til þings að ríða, bæði upp á nokkrar geistlegar sakir, sem og að kvitta enn 134 rd. til sýslumanns Brynjólfs, til vicelögmanns Magnúsar Ólafssonar og annara fleiri vegna Jóns eptir loforði mínu, sem alt sést í skrifum þar að lútandi. Og þó eg vissi nú ekkert annað fyrir, eptir almennings vondra manna rómi, en eg mundi þar handtekinn verða og færður í bönd og fjötur, hafði eg sérlega eptirlaungun að komast þangað sem fyrst og að taka á móti því, sem guð vildi láta við mig og konu mína fram koma, sem nú lá dauðlega sjúk, sem djöfullinn uppdiktaði í vondum mönnum, að væri uppgerðarveikindi, og það væri yfirvarp mitt að láta sækja herra Bjarna landphysicum til hennar. Hér sást enn og framkom, það Jakob postuli segir um vondar tungur. Guð vissi hér var alt öðru vísi, svo af ótta þeim, er eg hafði, eg mundi hana ei aptur lifandi sjá, gerðum við með okkur vottanlega helmingafélag, sem eg lét lesa og innfæra á Alþingi, því eg óttaðist, því að ef máli hennar kæmi ofan á annað, mundi eg meir en berslyppur frá ganga, ef hart væri að mér geingið af Jóns áhangendum, sem vissust var von. Með hvílíkum hrygðarþaunkum eg kvaddi hana og heiman fór, veit guð bezt. Vigfús minn fór og með mér til þings. Þá eg þangað kom, lagði einginn meiri háttar né minni ilt né gott til mín. Þó höfðu flestir svo sem nokkurs konar meðaumkvunar viðmót við mig. Eg lét sem eg vissi ei né sæi neitt annað, heldur gekk með allri djörfung meðal þeirra og afgerði allar mínar sakir. Þá eg hafði nú nokkra daga á þingi verið, leiddist mér þóf það, og hitti því lögmann Björn Markússon að tali, og færi alt kvis þetta í tal við hann. Hann segir: »Fyrir mig hefir sama flogið, og skaltu ekkert akt gefa því, eins og eg hefi þér fyrr sagt, fyrr en þú verður því af einhverjum borinn eður áreittur, að ei þurfi að segjast, að þú beriktir þig sjálfur. Eg þykist vita ykkur saklaus af því eins og sjálfan mig,

og mun guð gefa sönnu máli sigur, hvar til eg skal styrkja, ef til frekari efna kemur. En eg vil þú dveljir hér til þingloka, þar til skýrar fréttist að framan, því enn er ókomið skip það, sem fóveti Skúli er á væntanlegur, og commissarii eru enn ókomnir«. Hlýddi eg þessum ráðum, þar til allir þessir komu, því með þeim var helzt frétta von, bæði um það og annað. Eg fór á fund fóveta Skúla og bið hann einlæglega segja mér, hverninn háttað sé og framgangi um illmæli það, er eg heyri þaðan úr Kaupinhafn um mig, því sitt segi hver. Hann svarar: »Fyrst þú spyr mig svo einlæglega, skal eg greinilega segja þér frá öllu því«. Byrjaði hann frásöguna, sem eg hefi áður innfært, og segir: »Eg lét Guðmund Helgason Ísfold, þénara minn, [njósna á hverjum degi, hvað um það gerðist fyrir ráðstofunni; lét ei merkja mig, en lét hann gefa þeim inn, að eg og kanske fleiri kynnum einhverja upplýsing gera um greindan mann og mál þetta, hvað ráðherrarnir vel antóku«. Gefur þá fóveti út vitnisburð og fleiri, sem þar um var gagnkunnugt, að greindur Björn var frá barndómi lyginn og stelvís, með fleirum ódygðum, og var skotið undan straffi vestur í Skagafjörð að Reynistað úr Eyjafirði, sem áður er sagt, og til skírteinis og frekari lukku var frá Jóni sáluga í Grenivík, þann tíð sýslumanni í Vaðlasýslu, sendibréf með þekkjanlegri hendi og signeti hjá fóveta, honum tilskrifað þann tíð, hann var sýslumaður í Hegranessýslu, er þetta auglýsti. Meðal fleiri, sem vildu álykta okkur saklaus af áburði Björns, var Thomas Windekilde, sem nú var einn af innkomnum commissariis, hvern eg nú einninn fann. Hann, sem handgeinginn ráðherrunum og því nær þann tíð einn af þeim, segir og framber opinberlega, að hann kunni ei betur þeinkja né kunna að segja, en við séum saklaus af áburði þrælsins, þar hann gagnþekki okkur bæði, og segir, það kunni ei rímilegt að vera, að eg sé valdur að klausturhaldarans drápi, þar eg hafði nokkrum vikum áður lagt mitt líf svo nær í veð fyrir hans líf, og varið hann við öllum slysum, sem hann og fleiri séu

að lifandi vitni, og megi því sökin vera einhvern veginn öðruvísi vaxin. Hér eptir er farið betur að rannsaka Björn. Segir hann nú, að klausturhaldara hafi mátt leiða til bana ryskingar þær, er þeir hafi haft um kvöldið áður en hann dó. Hann hafi ímyndað sér, að bæði við og aðrir hafi viljað hann dauðan af ófriði hans, og afsakar okkur nú, sérdeilis mig, um alla beiðni og meðvitund um afgang hans, en segir, hvað hann hafi[1]) ógætilega frekara hér um talað, hafi verið að kenna Jóni, sem sér hafi gefið peninga til þess, og með slóttugheitum véfeingt sig í orðum og lagt sér ógætnum orð í munn. Slík eru börnin óþarflig! Varð það svo endalykt, að greindur Björn, fyrir sína lýsingu og skammflekk, er hann hafði sett upp á okkur, var dæmdur að erfiða þar í strangasta fangelsi í járnum alla sína lífstíð. En Jón, þá hann sá og heyrði, hversu alt þetta snerist honum, á móti hans tilætlan, til skammar og vanæru, hleypti hann sér úr Kaupinhafn út í Julland, undir eitt soldáta regiment. Varð þar að sögn undirofficeri um lítinn tíma, féll þar í svo stóra ólukku, sem mig ógar við að nefna, að hann mátti vera fangi sína lífstíð eður gera sig torkendan og vera í burtu úr kongsins ríkjum á 24 stundum. Síðan hefi eg ei til hans frétt. Þanninn sést áþreifanlega, hversu guð endurgeldur sérhverjum eptir sínum verkum. Honum sé eilíf æra! Svo fór eg heim af þingi, glaðvær í mínum guði, er svo stóð með mér, að einginn kunni mér nokkurt mein að gera.

Samvizkan sæla sigurinn ber.

Þó mikill fjöldi góðra og guðhræddra manna fyndist, sem glöddust af þessari hjástoð hans og lofuðu hann þar fyrir, þá létu þó ekki mínir haturs og öfundarmenn af að pukra með þetta ámæli, að sverta mig, og þó þeir hafi ótal sinnum optar rekið sig sjálfa á, hversu guð hafi leitt mig fram úr öllum vandræðum, þá hefir vonzka þeirra snúið því við og

1) hafa, hdr.

sagt: »Einginn vinnur á honum, því hann er svo göldróttur«.

Þessa sorg og gleðiblandaða frásögn hefi eg sagt í öllum sínum atriðum, eins og eg veit hana sannasta fyrir guði og góðri samvizku til þess, mín kæru börn, að haldi öfundsjúkir og illgjarnir menn því áfram að lasta mig dauðan og brigzla ykkur hér um með foreldrum ykkar, að þið þá vitið, hversu á þessu hefir staðið verulega og að þið því heldur kunnið án blygðunar með góðri samvizku og djörfung að svara þeim eptir verðugleikum og lýsa þá hvern í annara orða stað opinberlega lygara og hatursmenn vora lífs og framliðna.

## KAP. XXXVI.

Jafnvel þó eg liði þvílíkt hatur, aðkast og ofsóknir af vondum mönnum, þá var eg þó samvizku- og líkamlega glaður í öllu mínu handverki, og lærði nú ætíð meir og betur að forsmá heiminn og láta ei hans vanþakklæti og vondar umræður[1]) á mér festa, hvar fyrir eg tók mér fyrir hendur að viðhressa og forbetra mína ábýlisjörð Fellið, þá eg fékk þar til tómstund og tækifæri, svo sem eg hafði þar til sérlega lyst og fрískleika. Færi eg hér inn orðrétt tveggja Mýrdalshreppstjóra skrif um þau mín verk, er sýslumaður síðar samþykti. Skrif þeirra og frásaga hljóðar þanninn:

»Anno 1776, þann 19. Augusti, vorum við undirskrifaðir fyrrum hreppstjórar Mýrdalssveitar (því þá hreppstjóra, er þá voru, fékk eg mér ei til nokkurs liðs vegna þess haturs, sem í þeim var við mig þann tíð, sem síðar sést) til staðar á Þykkvabæjarklaustursjörðinni Felli í Mýrdal, eptir befalning eðla herra sýslumannsins herra Lýðs Guðmundssonar og begiæring prófastsins síra Jóns Steingrímssonar, til að besikta, skoða og mæling á leggja þá garða og griptir með öðru fleira, sem velnefndur prófastur hefir

1) Hér stendur »ei« í hdr. (ofaukið).

greindri jörð gert til gagns og forbetrunar, sem þanninn er af oss yfirskoðað og mælt með víðara, sem eptir fylgir:

1° Hefir hann fyrir sunnan og austan brekkurnar og stekkjartúnið (hvert pláss er það bezta og mesta slægjupláss, sem jörðinni fylgir) hlaðið 400 og 40 faðma langan garð, snidduhlaðinn, að ei skuli uppblása, vel undir hendur, en víðast mannshæð eður 3 ál. að framanverðu, með tilhlýðilegum vindaugum fyrir vatnsrensli úr brekkunum, hvar um í einum stað, sem mest var von á vatnsmegninu að ofan, er mikið vel umbúið með stóreflis björgum á allar síður, að vatnið feingi nóg svigrúm.

2° Fyrir norðan og ofan brekkurnar hefir hann hlaðið 24 faðma langan garð, sem orðinn er nær því mannshæð að framanverðu, til þess að varna grjóti og aur ofan á slægjurnar, og hlýtur þessi garður árlega að hækkast, eptir því sem aurinn safnast að ofanverðu; annars eru beztu slægjur jarðarinnar og stekkjartúnið í voða, þar sem þetta nær til.

3° Í bæjargilinu, þar sem bezt náði til hagbeitarinnar, hefir hann undir einni bjargbrík höggvið og stækkað eitt vænt fjárból, og það svo upp grafið, að þar sem áður var einn skúti, hvar 30 kindur gátu naumlega inni varizt hrakningslaust, geta þar nú inni verið 200 fjár í mátulegum yl, og til þessa hefir hann hlaðið grjótvegg fyrir framan, og er opið upp úr milli hans og bergsins. Þessi grjótveggur, með breiðum grundvelli, er 7 faðma langur til dyra, 5 ál. hár að innanverðu, en 12 ál. hár að utan, því hann er bygður á brekku. Öllu því grjóti, sem í greindan garð hefir geingið, hefir hann sjálfur ekið á sleða ofan úr fjallinu. Og svo sem þetta ból er það mesta þrekvirki, sem við höfum heyrt um getið eður hér nærlendis séð, svo er það sú bezta bæjarbót, þessari jörðu ómissandi meðan hún byggist, ei alleinasta fyrir sauðfé á vetrardag, heldur og so fyrir aðrar útigangsskepnur, sem þar geta haft skjól vor og haust.

4° Hefir hann einn húsagarð mestpartinn af grjóti gert og það bæði uppgrafið með járnum, en

mestalt á sleða að dregið, 60 faðma langan, allvíðast mannshæð og þar um bil, alt í kringum bæinn; fjós, hlöðu, heygarð og kálgarð. Heygarðinn hefir hann og allan innan hlaðið með aðdregnu grjóti, og stækkað hann um eitt des. Áður hann kom til þessarar jarðar, 1761, var lítil og lág girðingarmynd í kringum bæinn af torfi og kökkum.

a) Öll jarðarinnar hús, sem voru að falli komin, hefir hann ofan tekið með stórri fyrirhöfn, og upp á sinn eiginn kostnað með trjávið og helluþaki endurbætt.

b) Frá fjósdyrum til haugsins hefir hann gert stórgrýtisbryggju, og aðra vel samanklemda tíu faðma langa yfir damm og foræði, sem þaðan var til lækjarins.

c) Fyrir framan alla bæjarröðina og svo kallað bænhús hefir hann með aðeknum stórum steinum gert eina samfelda og vel breiða stétt, 20 faðma langa. Áður var þar for með bleytu og fáum steinklípum að stikla á, sem bæði gerði skaða skæðum og klæðnaði.

d) Fyrir framan hlaðið hefir hann gert 18 faðma langan varnargarð, að hestar, sem kæmi eður væri reknir á hlaðið, hlypi ei fram í túnið að skemma það.

e) Fiskigarða úr grjóti lét hann hlaða á aurunum fyrir framan túnið, til að þurka þar á fisk, og að graslendið skyldi aukast og betrast með því, sem niður fleygt var af honum, hvað og so skeði, meðan sú tíð yfir stóð.

5° Vegna hagaþreingsla og að gera hestana hagspakari bygði hann, þá hann var nýkominn til þessarar jarðar, eina hestatröð fyrir austan fjallið í úthaga. En nær hann sá, hann gat ekki viðkomið að nota sér þaðan áburð til túnsins, þá ók hann heim stóreflis hellum og útvöldu sléttu grjóti og gerði með því flór í sauðaréttina, sem hér er fyrir norðan og ofan bæinn og tekur hér um 40 hesta, sem settir eru inn um sláttutímann á næturnar, svo túnið nýtur

nú alls þess áburðar, sem þar tilfellst, því til forbetrunar.

6° Einn lækur rennur fyrir austan bæinn. Fyrir garð og gröpt hefir hann hleypt honum upp á túnið, bæði því til forbetrunar, en þó sérdeilis til að drepa grasmaðka, nær þeir hafa þar í komið. Fyrir framan túnið rann greindur lækur í landsuður á svæðar, og gerði þar nokkur hundruð faðma blágrýtisaur og griptir. Honum hefir hann þaðan í burtu veitt með 60 faðma laungum skurði til útsuðurs í annan læk, sem rennur fyrir vestan bæinn, og haft svo í þeim báðum góða silungsveiði, nær áin hefir runnið við þeirra útfall. Kvíar bygði hann skamt frá greindum aur, að fé skyldi bæla sig á honum, hvar með hann smám saman upp greri, og er nú orðinn slétt og fagurt beitiland. Áminstum læk fyrir vestan bæinn hefir hann í þremur stöðum upp hleypt, og sett í tilgerða vatnsrenslustokka, svo að óberjur þær, sem honum var á hleypt, eru nú orðnar að góðri og vel slægri jörðu; til dæmis er bæjarmýrin, sem áður varð ekki slegin, en nú fást á henni 12 hestar heys. Svo sem greind jörð var í öllu svo að segja komin í stærstu forrotnan, svo er hún nú aptur komin í beztu forbetran, sem að gert verður, og auðsjáanlegt er. Þessar og þvílíkar athafnir hafa nokkrir bændur hér í kring tekið eptir prófastinum á sínum leiguhúsum og jörðum, hvar til hann hefir upp hvatt þá, kent þeim aðferðina, léð þeim þar til sleða, járn og önnur verkfæri, þeirra húsum og jörðum til stórs ábata og forbetrunar. Til staðfestu eru vor nöfn með eigin höndum og signetum, sama stað, ár og dag, sem upphaflega greinir.

Hávarður Einarsson (L. S.) — Björn Jónsson (L. S.)

Þetta sama sumar 1776 kom inn forordningin um garða hleðslu. Sendi eg því þetta skrif til Kaupinhafnar, hvar til sýslumaður Jón Jónsson, þá á Stórólfshvoli, var mig styrkjandi. Eg hafði upp skorið og grætt brjóstmein á kærustu hans, sem hann mér

sanngjarnlega borgaði, og þar með skriflega sagt, hvað mögulegt væri í sínu valdi, skyldi hann mér til þénustu gera. Það heit hélzt svo leingi við, meðan mér leið alt vel. En að því kom, þá eg varð fátækur og nauðlíðandi, vildi hann hvorki heyra mig né sjá. Svo blindar auðlegð og velmakt opt þá hina beztu menn, í hverra tölu hann má þó maklega reiknast. Þetta ávann það þó, að eg fékk frá einum ráðherra kongsins, er Georg Stemann heitir, eitt bréf af 4. Apr. 1777, í hverju hann yfir lýsir, eg sé í sérlegri kongsins náð fyrir verk mín og mannskap, hvar með og fylgdi medallia á 20 rdr. og 20 ríxdalir frá kammerherrunum. Þessa medalliu og peninga, ásamt þá fyrnefndu og þá peninga, er þar um getur, afhenti stiptamtmaður Lauritz Andreas Thodal mér, [ásamt biskup herra Hannes Finnsson, mér[1]) á einum samfundi á Alþingi, hvar flest landsins yfirvöld voru til samans, með lukkuóskum og hrósan minnar verðugrar forþénustu, ásamt upphvatning til þeirra verðslegu, að þeir skyldu taka sér þvílíka konglega náð og launan, sem eg hefði fyrir minn mannskap áunnið, til umþeinkingar með öðru fleira. Þótti þetta, sem og var, ein sú mesta æra, því þessar medalliur og skeinkingar voru þær fyrstu, sem hingað voru gefnar, því þar eptir fóru margir að vinna sér þvílíkt inn með ýmsu móti. Urðu nú þau fljótustu umskipti á högum mínum, að svo sem eg var í niðurlæging þar fyrra árið, svo var eg nú metinn aptur í hárri æru og virðingu af öllum góðum mönnum þetta ár. Gat þó öfundsýkin og öfundarhatrið ei leingi leynt sér í sumra brjóstum. Af hérgreindum heiðri safnaði eg þó eingri drambsemi, heldur af auðmjúku hjarta tileinkaði og þakkaði hann mínum góða guði, er svo náðarsamlega leit á lægingu og niðurdrep það, sem (eg) liðið hafði saklaus fyrir honum, og að hann er sá, sem deyðir og lífgar, færir til helvítis og þaðan aptur, og uppörvaðist (eg) ennframar að gera nauðlíðandi gott, sem eg megnaði, item enn betur að forbetra mína ábýlis-

---

1) [ Svo.

jörð, sem var þetta sérdeilislega: Eg jók nú frá stekknum garðinn heim eptir mýrinni fyrir austan bæinn og kúastöðulinn, hvar eg gerði krossgarð að mjólka þær undir í hvössum veðrum, ók ofan úr fjalli enn grjóti til að gera girðing yfir flötinn fyrir vestan svo kallaðan Smiðjuhól, því hann lagði svo yfir með svelli á vetrardag, að þar mátti ei annars slags garð leggja. Svo tók eg til að hlaða innan frá fjárbóli og nærfelt fram að Maríulæk, því eg ætlaði að girða af alt Fellið að framanverðu, til að forvara því betur slægjurnar og láta því framar fé og kýr njóta þar hagbeitarinnar, en ei hesta. Vantaði ei meira upp á það en hér um 200 faðma, og þá var kominn í fallegt og hagkvæmasta stand bezti hluti jarðarinnar. Eg ók og grjóti ofan að svo kölluðum Lambhellir. Þar hafði einhver ábúandi gert sér inn undir berginu byrgi fyrir hér um 10 lömb. Hlóð eg þar fyrir langvegg af grjóti að innanverðu, og ætlaði þar skyldi inni gefast útigangshestum á vetrardag, nær þess þyrfti við. Hjó eg bergið að ofanverðu og gerði þar gript, að láta vatnið, sem ofan kæmi, í víst pláss í hellirinn renna. En þetta verk varð þó ei fullgert. Tvö lambhús hlóð eg af grjóti öll að innanverðu, það efra með garða upp á norðlenzkan móð, á útskæklum túnsins til töðuauka. Áður voru þar litlir moldarkofar með alllitlu grjóti. Hafði eg þar fyrir á efra hól þeim 12 hesta töðu, en 8 á hinum. Ásamt bygða eg hesthús vestur á þúfnareitnum í túninu, svo á honum varð kafgras, sem áður var lítið eður ekkert sleginn af mosa og grasleysi. Hvað helzt af framan og ofantöldu bjó eg sérdeilislega til þess, að eg ætlaði mér staðfastlega þar við að búa mína lífstíð, og svo fyrir sjá, að börn mín nytu þar handtaka þeirra, eptir minn dag, því jörðin reyndist mér farsæl og notagóð, fallega setin. Fékk eg á henni með þessari umhirðingu optast um 20 faðma töðu, tvisvar 27 faðma, og sá svo vildi af komast skal vera búinn að slá og hirða af túni, heiði og bæjargili á mánaðartíma, og svo kemst hann vel af með alt fyrir austan lækinn, og séu þrír gildir menn til sláttar. Og þó minn

ásetningur félli í þessu alt á annan veg, þá kann þó guðs forsjón að haga því svo til, að einhver minn afkomandi njóti jarðarinnar síðar, og þá kynni honum að verða þetta að leiðarvísir og (til) vareygðar, og fleira, sem (eg) hér eptir vil á víkja.

Þó mér þetta og fleira léki í lyndi á greindri jörðu, var eg þar þó ei án margbrotins angurs, sem á hefi vikið, en hjá ótal mörgu er sneitt. Spáði og síra Benedikt í Vestmannaeyjum, sem þar, og fleiri forfeður hans, höfðu þar áður verið, að eg mundi þar ei hlutlaus af heimsins mæðu verða, og tíðum sagði hann: »Jörðin og sveitin er góð, en fólkið nefni eg ei. Haf ráð mín, vertu þar ei leingur en 20 ár. Annars muntu þar ei vel afkomast«, og sagði mér dæmi á 5 prestum, er hann þekti og mundi til, að þar hefðu verið og feingið sitt aðkastið hver, sem of ljótt og langsamlegt er upp að telja. Þessum hans heilræðum sló eg leingi í vind, en þar kom að, að eg reyndi það satt, er hann mældi[1]). Hann sagði mér eina skrítna, en þó eptirtektarverða, frásögu, sem og tveir aðrir, nefnilega madame Kristín í Hólum og Eyjólfur Einarsson á Sólheimum, sem hann hafði uppalið velnefnd madame Kristín, sem var ektakvinna Jóns sál. Þorsteinssonar sýslumanns hér nokkra tíð. Hún átti móður[2]), sem hét Guðrún Hákonardóttir, ættuð af Vesturlandi. Hún var fornemme kona og fornspá, að henni komu fáir hlutir á óvart. Frásagan er þessi: Hún var á Sólheimum hjá dóttur[3]) sinni. Eitt sinn, er hún kom út um nótt, sýndist henni kirkjan opin og prestur kom í hlaðið og vildi ganga inn i kirkjuna; móti honum kom þar fjöldi dauðra manna, sem með kistufjölum sínum lömdu hann (svo) og börðu, að þeir gátu felt hann; og svo sýndist henni annar koma, og með hann fóru þeir eins. Svo kom hinn þriðji, og var í blárri kápu; kom hann vestan traðir, steypti af sér kápunni og vildi ganga sem hinir inn í kirkjuna, en hann fékk sömu viðtektir sem hinir, svo hann komst inn eptir langa baráttu við flokkinn, fór svo út úr kirkj-

1) Svo.

2) [*rétt:* föðursystur. 3) *rétt:* bróðurdóttur.

unni aptur austur fyrir garð. Svo sofnaði hún eptir þessa skuggsjá. Dreymdi hana nú, að þetta væru alt prestar, sem þar mundu síðar verða, og þar mundu falla tveir, en sá þriðji væri norðlenzkur, þá verðsligur fyrst af klæðaburði hans (hvorutveggja var sanndreymi); mundi hann þar prestur verða, en þó mundi honum þar hætt verða, þó af komast, og eitthvað austur fara. Þóttist hún þá og sjá stórt tré vera upp vaxið á Felli, hvers lim og blöð breiddust austur yfir allan Mýrdal með fagri blómgan. Svo sem sjón og draumur þessarar konu kom fram á þeim tveimur prestum, er þar voru fyrir mig, og mér ætlaði að verða þar skeinuhætt af vondum mönnum, svo veitti guð, að rættist, að systkin mín og börn með sínum afkomendum verði eptir minn dag, sem alt hingað til, blómlegur aldinkvistur i guðs akri hér, og hvar helzt þeirra lífsstundir eyðast.

## Kap. XXXVII.

Eg hafði ætlað mér að búa alla mína lífstíð á Felli, og var mér farið að þykja alt of vænt um líf mitt og velgeingni þar. En guðs forsjón að halda mér í taumi leið vissum haturs og öfundarmönnum mínum að drífa mig frá minni velgeingni þar, hvar til þeir brúkuðu einn toll, sem prestar höfðu greitt fátækum í Mýrdalssveit, fyrir utan tíund sína, nefnilega þeir, sem á Felli höfðu búið fyrir mig. Þessi tollur átti að vera fergi-skyrtunna eður 30 álnir eður 60 fiskar, en var upp stiginn til 100 fiska af slóttugheitum hreppstjóra, en hirðuleysi prestanna, með öðru fleiru á báðar síður. Einn hreppstjóri, sem áður fyrr hafði úttekið skrif af einnri jarðabók, er hann fanst í, hafði skrifað 60 álnir fyrir 60 fiska; skrifaði svo hver rangt eptir öðrum, þar til allir tóku þetta fyrir rétt, því það er einn vanalegur hlutur að ein villa fæðir aðrar villur af sér í fjöldatali, ef ei eru því frekari skorður við reistar, og þanninn fór hér fram. Þessi tollur kom þanninn til: Sagt er, ein valva hafi búið í páfadómi á Felli, og jafnvel átt þá

jörð. Leiði hennar er sagt þar sé austur í brekkunum, þar sól skín fyrst á og fer síðast af. Hún skyldi hafa heitið á fátæka á einum pestartíma að gefa þeim árlega þennan 30 álna toll, ef pestin dræpi eingan á sínum bæ af ungfólki, hvað og svo við borið hafði. Og svo varð mikill átrúnaður á þessum tolli, að alt svo leingi hann væri goldinn mundi þar ei ungbarn deyja og einginn vissi eður mundi nú á dögum, að þar hefði nokkur unglingur dáið, meðan honum var út svarað. Þar að auki áttu Fells ábúendur að vera framar öðrum búsældarmenn fyrir útsvar hans, en það vildi misjafnt til ganga. Þó festist og sami átrúnaður á tollinum, nær ábúandinn komst ei af síður en aðrir og ei var uggvænt, eg féllist ei á sömu kreddu leingi vel fram eptir, þar til eg sá, hvílík villa slíkt var. Galt eg hann fyrst til 100 fiska, þar til eg sá af einni original-jarðabók hjá landþingskrifara Sigurði sáluga Sigurðssyni á Hlíðarenda, að hann átti ei meiri að vera en 30 álnir, sem (eg) lét hreppstjóra vita, en galt hann þó árlega í 10 ár með 6 fjórðungum smjörs optast, er þá möttust ei meir en 90 fiskar, af því þá voru nóg efni, og kæri eg mig ei um, þó eg gef(i) þetta út fyrir utan tíund mína. Veitti þó ei af, að illkvitnir væru að knurra og murra um, að af væri dregnir 30 fiskar, er eg lét sem ei heyrði. Eg fór að hafa spurnir um Fellsafgjald og toll þenna hjá vitugum og minnugum mönnum. Sérdeilis upplýsingu gáfu mér sýslumaður Bjarni Nikulásson og Jón Sigurðsson í Holti, sem báðir voru minnugir, höfðu allan sinn aldur verið hér við lagavesen, og höfðu því mart af því. Þeir sögðu mér, hvað hér að framan skrifað hefi, um uppruna þessa Fellstolls. Þeir sýndu mér og gáfu Vilchinsmáldaga, sem sýndi, að jörðin þá lá undir klaustrið með öllu sínu afgjaldi. Þeir sögðu mér frá, að 1634 hljóp jökulvatn og leir fram úr Kleifarárgljúfri, og tók af 12 faðma miklar slægjur fyrir framan Fell, og setti yfir ævarandi aur; reið þá herra Árni Oddsson hér á jarðir og setti þá niður landskyld af Felli fyrir greint áfall um 60 álnir, svo þær þaðan í frá brustu upp á gjaldsupphæð á öðrum 12 hundraða

jörðum. Þó var kúgildi þar fram yfir aptur. Þá var búandi á Felli sýslumaður og klausturhaldari Einar Þorsteinsson, og langa tíð þar eptir. Svo varð jörðin prestsetursjörð, en alt gjald átti þó að greiðast af henni til klausturhaldara. Jón Ísleifsson, sonarsonur Einars, vildi koma aptur upp á Fellið sínu fyrra gjaldi. En þar stóð prestur, sem þá bjó á Felli, og hreppstjórar honum á móti og fram báru nú, viðvarandi tollur væri jarðargjald, og yfir hann og hans hús kæmi öll ólukka, ef hann nú gerði hann að jarðargjaldi til kongs á móti venju forfeðra hans. Svo þar hann var góðmenni og vildi ei leggja sig í svínastrit á móti náungum sínum, sem þá áttu mest að hlut, þá lét hann tilleiðast og hrærði ei við því framar. Svo bygði hver klausturhaldari eptir annan Fellið með 1 hundrað og 30 álna landskyld og 4um kúgildum, en kærðu sig ekkert um tollinn, hvort hann var goldinn eður ei.

1769 kom Skúli Magnússon fóveti til að regla niður afgjald af kongsins jörðum hér í Skaptafellssýslu. Byrjaði hann þá forréttingu á Felli, og kallaði þangað saman alla klaustursins landseta og hreppstjóra þar í Mýrdalnum. Þegar hann spurði mig að gjaldi jarðarinnar, sagði eg honum, hversu mikið eg svaraði af því til klausturhaldara, og þar hjá hefði eg útsvarað til fátækra 60 álnum þar i sveit, hver tollur væri að sögn frá pápiskri tíð, og haldinn nú jarðargjald. Bað eg hann úrskurð á gefa, hvort eg skyldi hann þar eptir gjalda eður ei. En hann svaraði, að svo sem hann fyndi hann í eingum jarðabókum, sem hann undir hendi hefði, nema í einnri einasta nefndan, þó ei meir en 30 álnir, þá fyndi hann eingan rétt til þess, að hann skyldi á jörðunni gjaldast. Bætti hann 20 álnum við jarðargjaldið, og fyrirbauð nokkuð frekara af henni að gjalda. Hér við risu hreppstjórar og begiærðu til fátækra venjulegan toll af jörðunni. En hann svaraði: »Eg er hingað sendur til að sækja eptir kongsins gagni með réttu, en ekki að stela frá honum, og fær mig einginn yfirtalaðan til þess. Þó vil eg innfæra um hann til og frá, hvað um

hann segist, og láta kong sjálfan ráða, hvað hann vill gera«. Var hann svo innfærður, og eins í síðara sinni, þá fóveti og lögmaður Björn riðu báðir hér á jarðir. Eg hélt ennþá áfram að útgjalda þennan toll, þar til eitthvað yrði útgert um hann, svo þar sem bráðlega lá á einhverri sveitarhjálp, þá lét eg hann úti eður nokkuð af honum, þó með einhvers hreppstjóra ráði, og átti enn að heita, að geingi til í kærleika um hann vor á meðal. En nú bar svo til, að einn barnamaður, sem bjó á Sólheimum, er hét Bjarni Jónsson, hann lagðist veikur, þá sláttur byrjaðist, og hlaut að taka kaupamann, en gat honum þó ei goldið vegna fátæktar, nema hann flosnaði upp árið eptir með konu og börnum. En að koma í veg fyrir þau þyngsli, lét eg úti þennan toll, nú 6 fjórðunga smjörs, til þess, er eg fékk að slá upp tún hans, sem eg gerði með vitund og samþykki þeirra hreppstjóra, sem voru í Út-Mýrdalnum, sem austurkjálka hreppstjórum misþóknaðist. Þá að hausti leið, kallaði eg til mín landseta mína úr Reinirshverfi með gjöld sín, meðal hverra var áðurnefnt höfuðþrælmenni Arni Oddsson, sem þá var í Starakoti. Hann kemur einasta með opið skjal fult með skens og glúffur, segist ei geta goldið jarðargjaldið, en óskar, eg hjálpi sér um Fellstollinn upp í gjaldið, svo sem fátækum, heldur en eg af eigin myndugleika fái hann fullríkum þar út í sveitinni, hvað hann þó berlega laug. Vænist hann hér til ráðstöfunar austari hreppstjóra sveitarinnar, hvað þó siðar reyndist ósannindi, því skjal það var saman tekið af sýslumanni sjálfum, en skrifað af Einari Eiríkssyni á Hellum. En þar eg sá, hvaðan sú alda rann, að sýslumaður brúkaði einasta þetta Satans verkfæri til að hefna sín á mér fyrir það, að hann hafði orðið svo smánarlega undir í máli á móti mér árið áður í Tungumálinu, að honum lá við embættistöpun, ef eg hefði ekki fyrir góðra höfðingja milligaungu svíað til, Einar og orðinn sér til skammar fyrir alla sína frammistöðu og krókalög, hvar fyrir eg segi áðurnefndum Arna: »Eigi verður þér bjargað með Fellstollinum í þetta sinn, en seg

þú fjandmönnum mínum, sem þig hafn útbúið, að þeir hafi nú brúkað þig fyrir það meðal og Satans erindsreka sveitinni til skaða, að eg ætli mér nú ekki að svara greindum tolli út án laga eða réttar eður að kongur sjálfur skipi það«. Fer hann með þetta til baka til sinna útsendara, en þeir fyllast enn af grimd og bræði; sýslumaður ríður út, setur af tvo hreppstjóra, en fær aptur aðra tvo, Mr. Gunnar Jónsson á Dyrhólum, einn þann kappsamasta mann, og og Einar Erlendsson, einn þann slóttugasta þræl. Og þá þeir eru búnir að undirgangast hreppstjórnarembættið, upp á leggur hann þeim að sækja eptir Fellstollinum með harðasta kappi og fylgi af mér, og að þeir skyldu vera framfúsir til þess. Bar hann undir þá svo mikið tóbak og brennivín, sem þeir vildu. Þóttist hann nú eiga happi að hrósa. Hinir hreppstjórarnir hétu Jón Sigurðsson, illhrissingsmaður og drambsamur fram úr máta. Jón Guðmundsson á Ketilsstöðum og Mr. Jón Runólfsson á Höfðabrekku hétu hinir.

Þar eptir kom eg á hreppastefnu þeirra. Var nú geymt að tala um tollinn, þar til síðast. Hefur þá Gunnar upp orð fyrir alla og begiærer af mér tollinn. Eg segi honum, að eg sé búinn að svara honum út til annara, og þar með finni eg ei skyldu mína honum að svara, meðan ei sé útgert um hann, með viðara. Hér við hleypur hann upp með stórum organdi hljóðum, og segir: »Þér skuluð vera búnir innan hálfs mánaðar að svara honum út til okkar hreppstjóra að þakkarlausu, eptir því sem í okkur finst mannæra og ærlegt blóð«. Nefndur Einar og Jón Sigurðsson eru í sömu hljóðum og ofsa með honum, en Jón Guðmundsson og Jón Runólfsson geingu frá, og feingu svo hjá hinum ámæli fyrir dugnaðarleysi, er þeir létu enn ekki á sér festa. Eg svara þeim aptur og segi: »Eg hræðist ei ykkar hótyrði. Þið haldið áfram sem þið kunnið, en eg bíð átektanna«. Sleit svo þessum samfundi.

## Kap. XXXVIII.

Hvílíkur órói, rógburður, flokkadrættir nú upp komu af þessu, vil eg ei um tala, því síður sem góðir vinir mínir innflæktust hér í með ýmsum hætti. Mr. Jón á Höfðabrekku, þegar hann formerkti, að eg vildi ei tollinum góðviljuglega svara og eg hafði mikið til míns máls um það, hafði hann alla alvöru á því að gefa sig úr minna mótstandara flokki. Og þá sýslumaður formerkti að honum var alvara orðin, gerði hann sér reisu til hans, skammaði hann út og svívirti með mestu storkunar- og blygðunarorðum, ef hann gæfi frá sér sína embættisskyldu, því að Gunnar hafði heitið að gefa frá sér alt klatur móti mér, ef að Mr. Jón geingi úr liði og flokki þeirra. Þeir voru og annars ágætir vinir sín á milli; og þó Mr. Jón, að sögn, legðist fyrir sjúkur í þaunkum um nokkra daga, hvað afráða skyldi, og þó hann leingi vel danzaði nauðugur, mæddu hann svo þeirra langvarandi nudd, umtölur og brigzlyrði, að hann varð í fullu áhlaupi móti mér með þeim, og svo var mikil sinnissterkja komin í hann við mig, að hann ætlaði að taka í burtu frá mér Runólf son sinn, sem þá var að læra hjá mér, og svipta hann svo öllum manndómi og frama. En dreingurinn, í hverjum að var ágætt mannsefni, sem nú er fram komið, setti sig allan á móti því, með þeim orðum og hætti, sem eg nefni ei. Fór og einninn betur, að það rasandi ráð varð að eingu. Þar eptir urðum við og einninn nærfelt eins góðir vinir eins og áður höfðum verið. Jón Guðmundsson hélt við mig sömu trygð og trúskap í gegnum alt þetta vastur, og lét mig opt vita ráðabrugg þeirra heimuglega fyrir fram, svo mér var opt því auðveldara að slá þá á sjálfs sín brögðum. Þetta stapp stóð yfir í 4 ár, og geingu skrif á báðar síður á milli vor, svo ljót og skensfull frá þeim, að eg hirði ei um, þó enn séu óförguð, að þau sjáist eptir minn dag, þar þessir tveir góðir vinir mínir áttu í hlut, hverra æru, en eingri vanvirðingu, eg er ætíð skyldugur upp að halda, og tek þar einasta til, að þeir

sleptu að jágast við mig í orði og verki. Þeir gátu ei annað en yfirbevísast um sannleika í skrifum mínum til þeirra. En tvöfalt, og jafnvel meir en tollinum svaraði, gerði eg fátækum gott í sveitinni. Þó vildu þeir ei þar fyrir láta kapp sitt. Taka það nú loksins fyrir sig 1774 um veturinn, að þeir samansafna höfuðmannfjölda í Mýrdalnum, af þeim, sem verið höfðu hreppstjórar, vinnustrákar eða stelpur á Felli, ásamt nokkrum kjöptugum kerlingum, sem höfðu blygðunarlausan munn að tala ýmsa hluti. En vissum, skýrum mönnum, sem ei sízt vissu, hverninn til hafði geingið um greindan töll, geingu þeir fyrir bí af ásettu ráði. En hinum flokknum stefndu þeir að vitna undir eið og falsmálsbætur[1]), að greindur tollur væri virkilegt jarðargjald af Fellinu, og hefði verið af því árlega goldinn með skyldu mann eptir mann, og hvað hér hann ætti að vera, með öðru fleira. Þegar nú þessi þeirra umgangur komst á lopt, voru hæglega teljandi þeir, sem að nokkuð líknar, liðs eða sannindamæli vildu unna mér, heldur var eg lagður út af alþýðunni fyrir einn ókristilegan klerk, og ei væri von á öðru, en eg kollsteyptist í alla óhamingju í svo vöxnu máli.

Upp úr þessum ófjötrum blanda eg hér í til gamans einni lítilli frásögu. Einn fagran sunnudag bar mér að embætta á Sólheimum, en hreppstjóranna vitnaleiðsla átti að vera daginn eptir. Að aflokinni embættisgerð tekur sig saman bændaflokkur, þar saman kominn, í einn hnapp fyrir framan kirkjudyr, og er að ráðslaga um þetta tollsmál og sína vitnisburði, sem hljóti að falla mér á móti. En eg er inni í kirkju og fátt af kvenfólki, [er fór[2]) út til þeirra. Og mitt í þeirra flokk geingur ein guðhrædd og fróm kerling, sem hét Þorbjörg Björnsdóttir. Hún réttir sig upp af staf sínum, bendir honum upp í veðrið til þeirra, og segir: »Þið þykist sækja eptir réttu máli og eruð farnir að gefa ykkur í flokk að vitna um prest ykkar með þeim, sem vilja hafa hann af hempunni. En takið

1) »að vitna« stendur hér aptur í hdr. (ofaukið).
2) [b. v.; vantar í hdr.

þið nú eptir því, svo stendur guð með honum, að hvorki auðnast ykkur né öðrum að ná henni af honum. Ofsótt geta Mýrdælingar hann, eins og aðra sína presta, svo hann neyðist að fara í burtu frá ykkur, eins og verða mun«, — geingur svo frá þeim og kveður þá með þessu versi:

Öll svikráð manna og atvik ill
ónýtir drottinn, þá hann vill etc.

Hér við sneyptust þeir svo, því kerlingin talaði með fullum áhuga og djörfung til þeirra, að þeir snautuðu í burtu þegjandi og töluðu ekkert orð, hvorki til kerlingar, mín né annara, og þeir feingu þar af soddan eptirþanka, að þeir létust vera veikir og fóru ei á þingið daginn eptir.

Þann dag féll yfir eitt það sterkasta moldviðri af snjó. Fór þar hvert eptir öðru, veðráttan og vitnatektin. Þar heyrði hver til annars og þar bar hver eptir öðrum, að tollurinn væri jarðargjald. Þar var eingum viðkomandi til stefnt, sem átti að vera forsvar jarðarinnar, hvers afgjaldshluta þeir vildu þó ná. Einasta buðu þeir mér, ef eg vildi, vera við og heyra á þeirra vitnanir, en ei óskuðu þeir eptir nokkrum skjölum eða rigtugheitum frá mér. Eg sendi þó þangað mann, sem ekkert var sint né aktað fyrir, því orð og afsökun gilti eingin í þessum stað etc. Auðveldlega sést, hverninn eiðum og vitnisburðum þeirra manna var þar háttað, sem nú tóku tollinn, bæði 60 álnir og jarðargjald, en vissu þó ekkert til um grundvöll hans. Einasta skrifa eg hér útkast af bréfum okkar sýslumannsins, sem hver skrifaði öðrum til, sem sýna með aðgætni, hversu reglulega að framgeingu lagasakir á þeirri tíð í Mýrdalnum. Ásamt sýna þessi bréf gáfur okkar beggja sinnishátt *og kærleika*[1]), *sem átti að vera milli* þessara æðstu yfirvalda í sýslunni. Eptir það hann hafði á Dyrhólum haldið hérnefnt vitnaleiðsluþing, fékk eg frá honum svo látandi skrif sem eptir fylgir:

---

1) [sinnishattur og kærleiki, hdr.

Velæruverðugi og mjög vellærði domine præposite.
Salutem, amorem & officia paratissima.

Tvisvar hafði eg á undanfarinni tíð ásett mér að hafa þá æru að gera mína opvartning hjá prófastinum, sem þó hefir mislinget. Fyrra sinn komst eg að Kaldranesi, frétti það, að hann var riðinn út í Hlíð, sneri því aptur. Seinna sinn þeinkti eg, við mundum finnast á Dyrhólum, hver von einninn brást, því miður. Þaðan varð eg feginn að komast sem fyrst heim. Nú er ei hægt að ríða, ef hesturinn á að lifa með mjög litlu heyi. Er og heima heimskum bezt. Merki eg nú og, að svo fyrnast ástir sem fundir, þar venju leingur milli verður. Máske annars sumir hlutir væru betur grundaðir hjá oss en merki, að skeð er, for exempel meðal annars borðsögur um Út-Mýrdal af sendlferð minni í Skálholt með Ólafi Ingvarssyni að sækja um Hörgsland, með víðara þar að lútandi. Ei munu bréf mín með honum undir Eyjafjöllum á hans vesturleið bevísa það, sem einasta var í Skálholt eitt bréf til sýslumanns herra Steindórs, hvers innihald ei mun verið hafa þess slags, en hefði mér þetta hugþóknast, var mér ekkert blam og ei þurfti eg klausturhaldara Sigurð fyrir skýlu að breiða yfir það, sem sendi Ólaf að Snóksdal vestur (dikturinn lofar skáldið); því miður of fáir fundnir; annars væri eg ekki útlagður autor 1., 2. og þriðja skrifs hreppstjóranna til prófastsins af 4. og 19. Nóv. og 23. Dec., hver eg sá fyrst öll í einu, þá Mr. Gunnar sendi þau til mín, hvar til mín lyst í sannleika stóð þó ekki. Viltur er sá, sem geta skal, einkum í Út-Mýrdalnum. Því verr, að lítið seðilskarn, er eg þó skrifaði pro lubitu, kom ei fyrir dag, hvar til eg þó ætlaði. Máske þar af hefði sést þanki minn, hjörtum þeim til upplýsingar, er vaða í myrkrunum. Er það ei talandi, að sá reiði verði afsinna meðan hún yfir stendur? En hvílík ofsinna að senda Jón í Gr(öf)[1]) á Dyrhólaþingið, líkt sem þá Oddkell sendi Skamkel, líka menn, já, gefa honum fullmakt með hönd og signeti? Betri var Gunnsteinn í Holti. Hann var vand-

1) Í handritinu stendur að eins »Gr.«.

aður. Eg hefði gjarnan antekið ungbarn, sem fram kunni leggja, það til sagt var, en hefði þó helzt antekið sjálfan prófastinn. Það var eíngin óvirðing, þó persónan væri nýlega forhækkuð, því þá hefði alt betur farið, sem eg tilætlaði. Eg vildi óska sú sendiför hefði verið af mér einfaldlegri en hún fyrir manna sjónum var. Raun gaf vitni, hvað maðurinn utan og innan réttar útrétti, hvers fólk að beðið var að minnast; einninn hvað útrétt mun hafa, þá sinn principal fundið hefir ölfullur, hvar á hann gerði begyndelsi á þinginu, hvar með hann gaf til kynna, að hann vildi smíða sér þar með munn þann, er hann brúka kynni í réttinum, og hefði haft framgang, hefði ei viss maður hindrað það. Hver mun æra hér, ef betri menn voru til? Ei sparaði eg að gera prófastsins innlegg anhængig við réttinn og upplesa það, sem mér var þó of þungskilið, ásamt kvittun klausturhaldara, hvers eg þó iðrast. Hann átti ekki ilt að mér. Þá reiði neyddist eg þó upp á mig að taka, sem orsakast af minni vitnaleiðslu, þar ei annað þorði eptir sterku paastandi hreppstjóranna og stefnunni, þar eg skildi ei protest þess mikla innleggs mót fullmaktarinnar begiæring. Þar innfærðar þungskilnar skósur, mér eða öðrum til drukknar, kæri eg mig ei um. Ei veit eg, hvort mínar gerðir hér í verða gerðar beinke[1]) eður ei. En hitt þykist eg vita, að þessi Fellstollur og þau grófheit, sem þar í er búið að brúka, verða ekki beinke[1]), ef svo er framhaldið sem byrjað er. Furðar mig að fólk tekur svo höstugt upp þessa viðleitni hreppstjóra, hvar með þeir vilja vita, hvort þessi langvarandi goldinn tollur til fátækra skal svo umtalslaust stanza eður ei, hvað eg held þeirra skyldu og embætti, en enn ekki tutum að þegja, hefði nokkur viljað þeim illa. En spakara mátti það afganga, og svo með tímaleingdinni úr deyja. En fátt er of varlega hugað. Þó er minn einfaldur þanki sá, að falli úr Fellstollur, missi sá annað eins, sem þar er orsök í. En þegar kongur eða yfirvöld skipa það, er ábú-

---

1) Svo.

andi sýkn saka. En þetta hefi eg ei enn séð, en mig uggir landfógeti hafi ei kunngert þetta, og þó klausturhaldari kvitteri 1000 gang fyrir það uppsetta gjald og hleypi sér soleiðis í extraskatt og extrapaabud með víðara, hvar frá hann komst ei næstliðið sumar, nema með einslags polítisser, kemur alt í sama stað niður, so leingi hann er ei expresse afskaffaður af æðri mönnum, eður hér með lempni niðurtalaður, hvað þau mjög svo ólempin og óviðfel(d)in milligangandi skrif fyrirbjóða. Mig furðar aldeilis, hverninn fólk ber sig að, og hverninn rógburður vondra manna hefir svo samlogið sig trúgirninni, að orðin eru eitt í því að innvikla mig í þessu tollveseni, að merkja má, eg sé hafður fyrir forgaungumann um stundir, jafnvel þó þau þar í tekin examina hafi lítið styrkt þar til. Þó grunar mig stjörnukíkirinn í Gröf hafi ei lítið contríbuerað við sína retourreisu, hvað ei lítið gleður suma landa vora, er þeir kynnu að um bylta vorri vináttu í óvináttu, hvað ef nú tekst í þriðja sinn, meinast, að af því kunni að gerast eitt benke, nærveröndum til minkunar, fjærveröndum til aðhláturs, guði til stygðar, djöflinum til þjónustu og mörgum til ills. Aptur geingur lýgi, þá sönnu mætir. Nú mun nokkuð djarft fram í farið. Ei þarf hyggnum ráð að kenna, en þó er mitt ráð þetta, að sérhver giptur láti ei konu stjórna sér eður ráða svo, að ei rannsaki áður, hvað til hlýðir, því köld eru opt kvenna ráð, og of fljótt grunduð; hafa því þar fyrir opt að óþægil(egheitum) komið. Eg bið forláts á feilum mínum. Mér lízt bezt, menn tali saman, en ala ei hatur innbyrðis. Að síðustu næst hverskyns velstandsóskum og ástarheilsan til herr præposito etc.

Vík d. 4. Martii 1774.

L. Guðmundsson.

## KAP. XXXIX.

Eðla velvísi herr præses.

Exoptata & officiosa salus!

Hans eðla göfugheita nýmeðtekið tilskrif þakka eg kærlega. Það er alt þar innfært, sem til góðs vegar og forlíkunar má horfa. Eg er ei maður fyrir ófrið, og ei sæki eg eptir honum. Þó fær hann[1] einginn leingur en hans nábúi vill, og vill það máltæki hér sannast. Sannmæli eru það, að svo fyrnast ástir sem fundir. Hefi eg nú frá honum í umliðin 17 ár ei feingið soleiðis stílaðan seðil, að eg voga ei annað en gjalda í sömu mynt og svara honum aptur með þriðju persónu stíleringu. Víst hefir mér í þanka verið að ávarpa hann með fáum línum, en eg hefi gefið þeim þaunkum svigrúm, meðan nokkuð doðnaði bráðasta uppstökk skarnbassa alþýðunnar, sem ætíð eru uppvægir og rasandi, þá þeir hafa fyrir stafni að sverta sína yfirboðara. Hverninn slæðir hann að mér sendiför Ólafs Ingv(ar)ssonar? Sé hún höfð hér í Mýrdalnum fyrir borðsögu, þá uggir mig, hún sé höfð víðar. En hvað kemur hún þessu máli við? Því vík eg þar frá til sjálfs efnisins. Án allrar hræsni að segja féll mér bæði þungt og illa, að hann skyldi nú bregðast mér og komast í lið með mótpörtum mínum í þessu Fellstollsveseni, af því, sem undan var farið, og von mín stóð upp á. Höfðum við ei kontraherað enn í sumar til ævarandi trúskapar og samlyndis í öllu gjöranlegu alt til dauðans? Guð sé mitt dýrasta vitni, að eg hefi ei viljað, eins og hann hefir á þreifað, og skal aldrei vilja, stunda til nokk(ur)ra áreitinga við hann að fyrra bragði, og vonaði eg því sama einfaldlega til hans. Þó djöfullinn með sínum verkfærum hafi smeygt sér upp á milli okkar, þá hefir það þó hingað til, fyrir guðs náð, samizt niður vingjarnlega okkar í milli, og er svo trú mín að enn fari. Svo sem hann hrærir við yfirsjónum þeim, er honum sýnist af minni hálfu, svo hræri eg

---

1) Þ. e. frið.

nú við hans aptur án allrar flatteringar. Er þar þá á að minnast í þessu tollsveseni, að í haust fyrir hreppastefnuna nefnda eg við hann í einrúmi, hvort eg ætti að gjalda þennan toll eður ei, þar til sú nýja jarðarbók inn kæmi, samþykt af kammerherrunum, sem nú útilukti hann frá jarðargjaldi, er hann ei einasta sagði mér óhætt, heldur áfýsti mig það að gera alt so leingi. Nú þegar kom á hreppastefnuna, var hann af mér heimtaður með soddan rembilátum og hótyrðum, sem eg veit hann sjálfur man, að (eg) varla kom nokkrum orðum eða forsvari fyrir mig; hefði eg þó kannske látið leiðast til, ef mér hefði ekki verið í fersku minni okkar fyrra samtal. Þar var og einginn sá, sem mig vildi vingjarnlega lagfæra, ef eg rangt fór; hvað meira var, ei virða mig viðtals, heldur fæ eg frá hreppstjórum eitt opið bréf eptir annað, greindan toll áhrærandi, hverjum eg svaraði sem vit á hafði og við lá, sem þeir færðu út meir og meir á verra veg, gáfu greindum skyrtolli kristfjár nafn mér til storkunar, og svo framvegis. Nú fékk eg bréf frá honum, í hverju hann sagði, að hreppstjórar ætti að hefja process við mig um tollinn. En að eg skyldi ei vera einráður og láta skap mitt ráða of mjög fyrir mig, gerði eg mér ferð til herra fautorem, og frambauð honum peninga svo mikla sem tollinum svaraði til fátækra, ef hann sæi, eg hefði rangt fyrir mér, hvað honum enn þá eingan veginn sýndist, og fór eg því til baka aptur með peningana, svo eg vonaði ekkert annað en hann væri mér sérlega trúr. Skamma stund skiptist þó um þá von, því strax á bak eptir heyri eg af 2 hreppstjórunum, að sjálfur sýslumaðurinn hafi gefið þeim og sent forskript, að krefja af mér tollinn, þó með soddan stóryrðum, að þá hefði ógað við að brúka það, og sendu það því til baka, en bjuggu sér annað til, er þeir sendu mér. Veitir mér hægt að færa vitni til upp á þennan framburð. Hvað var nú að svíkja mann í trygð, ef ei þetta? Hvort kunni eg nú nokkuð að reiða mig upp á hann, þegar hann var svo kominn í lið með þeim á móti mér? Betur hefði farið, að hann hefði sjálfur mér

tilskrifað, og skyldi eg svo vel hafa meðtekið það svo sem hann eitt barn eða Gunnsteinn frá mér. Þegar eg og heyrði, að hann framar venju hafði farið kvöldið áður heiman til að undirbúa með hreppstjórum, það mér mátti vera mótfallið, og veðrið varð svo slæmt á þingdaginn, að þvílíkt hefur hér ekki að nýjungu komið, svo eg aptraði mér að fara á þann fund, sem og betur fór, því befalast mátti mér að þegja, eins og þeim, sem eg sendi. Það sýnir og líka apaspil það, sem gert hefur verið úr innleggi mínu, hvilíkum vinum eg átti þar að mæta, en það innlegg treysti eg mér þó að forsvara orð fyrir orð á réttvísari stað, ef þörf krefur. Því var eg afsinna að senda Jón í Gröf. Hverjum skal eg nú trúa? Þeir af þingvitnunum, sem eg talaði við, segja mér, hann hafi ekkert óskikkanlegt aðhafzt til orða eður verka þann dag fyrir rétti, og ólíkan held eg hann Skamkeli, og ólíkt vildi eg yrði útfall af ráðagerð þeirra. Aldrei ætlaði eg, að herr præses mundi gefa sig út til þess að hæðast að minni nýforhækkaðri persónu, því það hefi eg honum aldrei gert. Sjálfþökkuð er innfærsla blaðanna, því skyldugur er hver að framfylgja kongsins gagni til hins bezta. Eg trúi vel, hann hafi ekki þorað annað vegna hreppstjóranna en að yfirheyra vitnin, að þar yrði ekki meira upphlaup af; annar hafði og fyrr ratað í þá hræðslu og feingið litla virðingu þar af. Hann þykist ei skilja innlegg mitt, en eg ítreka hans sömu orð, og segi: »Ó, að þeim hjörtum, sem hann segir í myrkrunum vaði, mætti upplýsing veitast, hver lög að útbefali að útleggja eiða í einnri gjaldsök af kongsins eign, að ófyrirkölluðum þeim, er því áttu að útsvara eður verja. Spakara mátti þetta afganga, ef metnaður hreppstjóranna hefði ei komið í milli. *Hvað fiskaðist nú upp um tollsins uppruna og við*hald, sem ei var búið að innfæra í bókina hjá herr fógetanum 1769? Hver skaði var við dvölina, þar eg var búinn að stilla kaution, þar til endilegt kæmi að framan um tollinn? Hver er meiri skuld í þeim grófheitum, sem hann segir, hér sé búið að

brúka, en hann sjálfur, er eg meina, að átt hefði að koma í veg fyrir þau, það fyrsta hann varð var við soddan, og ei gefa forskriptir til þess sundurlyndis, sem hér er ákomin[1])? Præsagium herr præsidis um eptirkomandi ólukku af tollsins afskaffan ætla eg heldur inn hlaupið hafi hjá honum af einhverra skrafkerlinga bulli, en hann hafi sökina rétt grundað. Þó eingin orð né afsakanir gildi hér fyrir rangsnúnum samkomum, þá veit guð, að fátækir eiga ekkert hjá mér, og óttast eg því ekkert fyrir þessari spá. Fóvetans orð eru uggandi, þegar hann geingur á móti þeim. Stór illmenska er það að láta klausturhaldara gjalda þess, er hann gerði eptir sinni embættisskyldu. Hverninn kunna einar 20 álnir að hleypa honum í stórar útgiptir? Eg held að fleiri verði að brúka politesser en hann. Vitanlegt er, að svo kallaðar kvaðir og tollur þessi eru úti luktar í fóvetans nýstiptaðri jarðabók. Allir taka það fyrir gilt, að þær séu afteknar, og gjalda þær nú ei framar. En tollur þessi má ei vera undir sama áliti. Hvers vegna, nema þess, að hér á einn prestur í hlut. Hefur fyrr Mýrdalsmönnum verið klaksárt við þá orðu en nú, og þó þeim takist að steypa mér héðan, mun öllu ekki illu verða burtrýmt. Og nærfelt er að því komið af þeim djöfladóm, sem hér daglega á geingur í prestaumsátri, að eg megi undirtaka með honum síra Jóni Guðmundssyni, er hann kvað:

Angri spent um hyggjuhöf  
hjartað gleðja skyldi,  
mín ef styttast mætti töf  
Mýrdalsins úr ljónagröf.

Ef eptir hreinu máli var að sækja, því geingu þeir þá ei betur og hreinlega til verks, létu stefna viðkomendum og heimtu út endilegan dóm? At því hér bjó undir meiri heipt og leynandi hatur en réttvisi. Að því hlýtur að koma fyrir svo áþreifanlegan umgang og vitnarugl í óheyrilegri lögleysu, að

1) Svo.

greindur tollur mun ei komast í sveitarlima hendur fyrst um sinn, alt vegna hreppstjóranna bannaðra hissugheita, og þess, sem þá hefur upphvatt til þess. Þyki honum nóg grófheit komin, sjái hann til, þau verði ei meiri. Sannleikurinn er tíðum sterkur pipar í nösum. Satt er, að Ögmundur biskup sagði: köld eru kvennaráð. En hefði einn dómari gegnt góðrar konu ráðum, þá hefði hann ei svo illa forséð sig, og eru til þess vond dæmi að varast. Eg vildi og ráða þeim yfirboðnu að láta ei heimska, kappgjarna undirsáta danza svo á höfði sér og við sigraða, að þeir haldi ei sinni virðingu eður hljóti að brigða orð sín og svíkja vini sína í trygðum. Eg bið, sem hann, forláts á yfirsjónum mínum og tek við því, sem að höndum kemur. Guð sér og prófar vor hjörtu, hvað sem illgjarnir meina etc.

Felli d. 18. Martii 1774.

Jón Steingrímsson.

Tvenn önnur viðlík bréf fóru milli okkar, þar til við fundustum í einum tilteknum stað, hvar um ei framar tala né frásegi. Hér eptir tóku hreppstjórar vitnaleiðslurugl sitt hjá sýslumanni, til bjuggu grófan memorial uppá mig með innihald og þvermóðsku að svara tollinum út. Fór svo einn fyrir alla með þetta til stiptamtmanns Thodals, og anklöguðu mig fyrir honum, sem mér mætti, er eg og á þingi fann hann. Sýndi eg honum máldaga jarðarinnar og önnur skjöl og skírteini, er eg hafði um það, að tollurinn var ei jarðargjald, begierði af honum setudómara til að kanna og dæma um þau skjöl í héraði og svo láta vitni þeirra á ný erklera sinn vitnisburð, hvað eg þó ei fékk, því hann sagði: »Það kann varla annars ske en þar verði meinsærismenn af soddan vitnan, er brúkuð hefur verið; og kunni eg ei trúa fyrr, að soddan órímilegur laga umgangur væri í Mýrdalnum, og sýnist mér bezt að slá þessu niður. Kongurinn má gefa og eptirláta, hvað hann vill.« Og það sama sagði hann Mr. Gunnari, og enn framar, eg mætti sem eg vildi

láta úti tollinn eður ei, þar til sú nýja jarðabók kæmi enn að nýju inn. Fór hreppstjórinn aptur heim, meir enn fýldur af sínu erindisleysi. Þá nú hreppstjórar sáu, að alt þeirra fyrirtæki varð að eingu, nema þeim til mestu mæðu og óhróðurs, sögðu þeir allir af sér sín embætti. Feingu þeir nú aptur stór ámæli og lastyrði hjá alþýðunni fyrir umgang sinn, en eg aptur var nú hafður í metum með hóli og lofgerðarorðum. Þanninn má heiminum lýsa. Hann lofar aðra stundina, en lastar hina, og hvort um sig úr máta. Sá hrokafulli Jón Sigurðsson, sem hinir brúkuðu sem útsendara til mín, varð mitt í því sjálfsagður úr hreppstjórninni, því hann átti barn í hórdómi og flosnaði svo upp. Einar dó ærulaus, sem áður er sagt.

1777 voru tilskipaðir Magnús Ólafsson vicelögmaður og Jón Jónsson sýslumaður að regla niður gjald á klausturgózinu, því fóveta og lögmanni kom ei saman um það. Áttu þeir að afgera það með tveimur óviðkomandi mönnum. Varð Mr. Gunnar annar þeirra; hinn hét Jón Filippusson. Hann fann nú upp á þann hnykk með sínum stallbróður, er hann fékk í lið með sér, að þeir afsögðu að skrifa undir lögmanns og sýslumanns verk, nema Fellstollurinn væri innfærður og ályktaður af þeim sem jarðargjald, sem þó var enn til kongs sett. Sá eg mér nú ævarandi niðurdrep og lastyrði búin, ef eg hefði orðið að gjalda greindan toll að nýju, þar svo mikil órósemi hafði af honum risið. Þar með var eg farinn að mæðast að vera að stríða þar leingur við kartið og illa artað fólk, er allir munu reyna, sem verða leingi prestar þar, nema önnur betri verðsleg yfirdrottnan verði þar heldur en nú er og var í minni tíð. Og því setti eg mér fast í hug að komast þaðan í burtu meðan næði og friðarstund væri til þess. Einginn óreyndur veit, hvað friðurinn er dýr.

1773 sálaðist út á Eyrarbakka minn trygðfasti vin prófastur síra Jón Bergsson. Veitti eg honum þar sakramenti, og vakti yfir honum þá nótt, er

hans dauðastríð yfirstóð. Hann fól mér á hendur Berg litla son sinn, að eg kæmi honum til manns. Áður var hann búinn að leggja það fyrir, að hann með tíð ætti Katrínu dóttur mína, — um hennar nafn beðið, þá hún var enn í móðurlífi. Og þótt bræðrum hans og náungum væri ekkert um þær ráðstafanir, þá urðu þær þó að hafa framgang og fullkomnan á sinni tíð, því þær voru stiptaðar af guðhræddu og einföldu hjartalagi. Að eg því betur gæti barninu gott gert og haft þar af not sjálfur, setti eg mér í hug að sækja um Kálfafell og setjast þar í sauðríkt bú. En það varð mér til allrar lukku, að ei varð af því, sem síðar sást og fram kom. Eg var strax skikkaður og kosinn fyrir prófast í hans stað, svo eg fór austur að Kálfafelli um sumarið eptir fráfall hans að skrifa upp sterbúið etc. Leizt mér á alt vel utanstokks sem innan, hús, tún og haga, svo eg ásetti mér að sækja um það kall, hvar til allir svo að segja voru mig átýsandi. Var sunnudagur að morni, og ætlaði eg því fram að fara, sem guð blési mér í brjóst, er eg var þar í guðshús til embættisverka kominn áður fólk kom til kirkju. Fór eg út í kór að lesa yfir predikun mína. Kvenfólk kom að og settist í hnapp í framkirkjunni og sá mig ei, né vissi þar væri nokkur. Eptir stutta bænagerð fara þær að tala um mig, og eg muni þangað vís verða, en taka til að lasta prófastinn sáluga og segja hann hafi mátt fara, og svo konur hans. Þó hafi sú síðari verið öllu verri en hin fyrri; telja nú upp ýmsar yfirsjónir og feil, en sn(e)iða hjá öllum dygðum og mannkostum, sem þau ágætu hjón höfðu auðvitanlega til að bera, eins og lastara siður er til. Því kærari sem mér voru þau góðu hjón, þess framar stiknaði eg innvortis að heyra þennan bölvaða umlestur og kjaptamælgi, og er sem undir eins að til mín sé sagt: »Sjá nú og heyrðu, hversu hér er háttað. Svona yrði með þig farið.« Og með það sama snerist alt í einu allur minn hugur frá því að sækja um það kall. Undarlegir eru vegir drottins! Eg stend því upp,

geing fram í kórdyrnar og segi: »Áttuð þið þetta erindi til kirkjunnar? Mikil skömm er að ykkur og ykkar tali.« Með það geing eg út, en þær sitja eptir með skömm og sneypu, hver blygðan yfir þeim var allan daginn.

Á þeirri ferð var eg nærfelt búinn að missa lifið í Eyjará. Eg hitti fyrir í henni jökulhlaup, svo hestur og dreingur, sem með mér var, fóru á kaf í sandbleytu. Sem eg fór að hjálpa þeim, henti mig það sama. Í annað sinn hitti eg það sama fyrir á efra veginum, mest af hávöðum þeim, sem komu að framan og geingu upp á móti straumnum, hverir að geingu yfir mig og hestinn, en vatnið, sem heita átti, var þó ei meira en í kvið. Þessu geta ei ókunnugir nærri og halda kanske ýkjur, hvað þó eingan veginn er.[1])

## KAP. XL.

1778 féll til þetta Kirkjubæjarklausturprestakall. Eptir langa umþeinking og bæn til guðs réði eg það af að sækja um það. Þó mér þætti mikið við jörðina að skilja og enn fleira, yfirvann þó laungun eptir betri rólegheitum, sem eg að nokkru leyti fékk. Mundi eg þó ei hafa hér um sótt, ef vitað hefði, hverninn hér var háttað í sumu, og það, sem hér síðar upp á féll. En nú hefi eg séð, að hönd þess alvísa guðs hefur þar í verið kröptuglega verkandi. Hér var fólk langt um hreinlyndara og umgeingilegra en þar í Mýrdalnum, greiðviknara við prest sinn og riktugt í öllum skyldum, að fráteknum fáeinum. Fékk eg þá aldrei að sjá ærlegheit þess fyrr en hér (var) um fækkað og það var út af með prest sinn. Annars var hér á komið ýmislegt vanskikk utan kirkju og innan, sem mig kostaði mikið að lagfæra, vegna klausturhaldarans, sem tamt var að taka í forsvar þess háttar óreglur, því hann (var) þess sama sinnis. Hér var mikil auðlegð af lifandi

---

1) Þetta er nú kallað eystra, að sandvötnin »drýli«.

fé og skepnum, svo sumir vissu varla, hvað mikið þeir áttu. Vildi hér eiga heima:

Luxuriant animi rebus plerumque secundis.

Tók eg hér vinskap við marga ágæta menn, en einginn hefur þó af þeim verið mér svo staðfastur í trygð, útláti og gjöfum án betalings sem einn, er heitir Pétur Sveinsson, sem nú er hospítalshaldari á Hörgslandi. Honum næst kann eg telja Pál Jónsson hospítalshaldara á Gufunesi, sem góður vinur er í orði og ráði, en í útlátum tekur hann ei öðrum fram. Eg komst í misþokka við hann og fleiri af fylgi og ráðleggingu, er þeir meintu eg brúkaði við einn mann, er þeir vildu hafa burt af einni jörðu. Var eg og að öllu leyti ei frí við þá meining. Þó var miklu á mig skrökvað í því. Eg misti að mestu leyti alt það sauðfé, sem eg kom hingað með úr Mýrdalnum, vegna skjólleysis mestan part. En þó græddi eg aptur lífsskepnur á tá og fingri um þann 5 ára tíma, er eg hafði hér verið, áður eldsins eyðilegging gekk hér yfir, að eg átti þá lifandi pening, er eg allan misti (að fráteknum einum, þó aðkeyptum, hesti og tveimur kúm), hver skaði og verð á honum hljóp upp á þann gamla landsprís á 225 ríxdali kroner. Svo var eg þá efnugur, að í brúðkaupum Sigríðar dóttur minnar og Guðnýjar var hér í hverju fyrir sig 90 manns borðsitjandi, en með því, sem þeir tillögðu, sá ei högg á vatni hjá mér, er eg þar til kostaði, og taldi þeim hvorri fyrir sig til heimanmundar upp á 100 ríxdali kroner, og hefði með hin börn mín eins vel afkomizt, ef sama hefði viðhaldizt. Drottinn gaf, drottinn burttók. Hans nafn sé blessað! Hér kom eg á fjallagrasatekju, sem lítið var í brúki, áður en eg hingað kom, því þá þeir sáu, hversu eg hafði gagn af þeim, lokkuðust þeir til að breyta þar eptir. Það sama ár 1778, sem eg fyrst hingað kom, varð eg og prófastur yfir austara parti sýslu þessarar. Þar þénaði eg í því embætti í 8 ár, til 1786, þá eg sagði það af mér aptur. Vísiteraði eg þar 4 sinnum, og féll mér þar svo

vel við alla, að eg vildi þar heldur vera þar yfir en hér. Prestar og aðrir untu mér þar vel. Fjögur mál komu þar fyrir mig, er eg átti að gera úr, sem féllu til beztu endalyktar. Ei hafði eg minni mæðu þar að lækna fólk, er þar safnaðist til mín, en sjálf embættisverkin, svo í hverri umferð urðu það frá 20 til 40 manns, er eg gerði eitthvað við, og var líkt sem eg hefði þangað til þess hvorutveggja sendur verið. Svo góða heilbrigði gaf guð mér, að tvö vorin visiteraði eg báða partana. Er þó Skaptafellssýsla 9 þingmannaleiðir á leingd. Alt á mitt 56. aldurs ár fann eg ei stórum á neinum mínum líkamans kröptum. Það eg varð brjóstveikur í Mýrdalnum, batnaði mikið, þá eg hingað kom undir opnara og frískara lopt.

Eg kvaddi síðast kirkjur og söfnuði í Mýrdalnum á Höfðabrekku þar í guðs húsi á trinitatis hátíð. Hafa mér ýmsir hlutir geingið með og mót þann hátíðisdag. Mín sóknarbörn í Út-Mýrdals sóknum, er eg við skildi, voru 310, en hér, sem eg viðtók, 450 eður lítið fleiri. Þá fyrstu nótt, er eg svaf hér til veru kominn, dreymir mig, eg þóttist vera fyrir norðan og klifra þar upp hátt fjall og var að kasta þar af mér öllum fötunum, þar til eg var orðinn ber og nakinn. Komst eg þá í langan dal, sem lá til útnorðurs. Sá eg úr honum á sjó. Þar þóttist eg koma að einu húsi, í hvert eg vildi inn fara, svo nakinn sem eg var. Á móti mér kemur þar ein tröllskessa, er segir: »Vel ertu nú kominn í mínar hendur. Hefur þú tvisvar sloppið úr þeim, en nú skaltu ekki sleppa, því eg skal drepa þig og éta síðan.« Þyki mér hún kalla á tvo stráka, er undir eins komu með hvatta hnífa að skera mig á háls, hvar til þeir gáfu sig. Eg þykist segja við tröllið: »Ekkert kvíði eg fyrir dauða, né að færa mig undan honum, en leyfðu mér áður að leggja mig hér á jörð fyrir fótum þér, því eg sem kristinn maður vil gera mína bæn til guðs og biðja hann taka á móti sálu minni.« Hún lætur það eptir. Að minni bæn endaðri stend eg upp aptur, en þeir taka til mín að drepa mig. En í því kemur á bak við þá frískur

maður grænklæddur, sem undir eins slær hnífinn úr hendi þeirra og segir: »Þið skuluð ei fá að drepa hann,« og hrindir þeim til baka. En kerlingin segir: »Þó þið séuð náteingdir, hefur ykkur aldrei saman komið, og svo fer enn.« Þyki mér þessi maður fá mér allan fatnað að færa mig í. Utanhafnarfötin voru öll sauðsvört. Þar er við hendina[1]) jarpur hestur með öllum reiðtygjum. Þar upp á setur hann mig og snotran hatt á höfuð mér, og segir: »Ríð þú nú burt,« hvað eg þóttist í fullu frelsi gera í útnorður eptir dalnum, og í því vaknaði eg. Sagði eg konu minni þennan draum, þar hún var hjá mér. En hún strax réði hann á þann hátt, eg mundi hér bæði sig og alt missa. Mundu þá mitt í því að mér sækja einhverir tveir öfundarmenn. Mitt i því mundi mér til liðs koma einhver einn góður maður, í teingdum við þá. Eg mundi aptur viðrétta af sauðfé. Sá sami mundi og hjálpa mér til giptinga(r) aptur, og mundi það úr útnorðursátt að koma. Kom alt þetta fram síðar, sem sýnt mun verða.

Liðu svo fram 5 ár, frá 1778 til 1783, að eg lifði hér sem aðrir góðu og farsælu lífi, svo vor bein voru ei svo sterk að geta þolað þá daga. Bentu margir hlutir til þess, að sú velgeingni og eptirlæti gæti ei leingi staðið og mundi fá rýrnan.

1783 tók sá alvísi guð, bæði í vöku og svefni, að benda mér og öðrum, að vér skyldum taka vara á oss og búa oss við yfirhangandi og ókomnu straffi. Eldroði sást á lopti og teikn, ormar og pestarflugur á jörðu, skrímsli í vötnum og eldmaurildi á jörðu, item hljóð og veinan í hennar iðrum, vanskapan á nokkrum lömbum. Drambsemin sté upp, sem ávalt er fallinu næst. Marga skikkanlega menn dreymdi það, sem eptir kom. Tvo drauma dreymdi mig, sem voru þessir: Mér þótti, að stórt hús væri komið hér út undir Klausturfjalli, þar sem eldurinn stanzaði síðar. Þar inni þótti mér saman komnir allir

---

1) Svo.

bændur úr þessu þinglagi, sem áttu að syngja gleðivers hver yfir sinni skál. Mitt í því er sagt, ókendur maður sé úti að kominn, grár af hærum, sem inn var leiddur og settur á miðjan bekk, feingin skál að syngja gleðivers fyrir. En hann tekur við, upphrópar og segir: »Sól, sól, sól! Dómsdagur er snart kominn«. Mér þyki menn kasta að honum orðum, að hann hafi gert sig fráleitan öðrum með svo óviðfel(d)inni og fjarstæðri fyrirsögn. En eg svara: »Skimpið ei að ókendum. Hann hefir sína þanka fyrir sig. Eg skal eiga tal við hann«. Spyr eg hann að heiti. Hann segist heita Eldriðagrímur, og hafa komið hér austur-landnorðan ofan af fjöllum. Eg spyr hann, hvo(r)t honum hafi verið sá vegur kunnugur, hverju hann játar, og segir: »Eg kom hingað áður sama veg í tíð Sæmundar fróða«. Eg spyr, hvort hann muni það ár, hverju hann játar, og segir: »Það var 1112«. Finn eg síðar í annálabók einni, að það ár var hér eldgangur mikill, sem skemdi land og bygðir. Annan draum dreymdi mig sama vetur, áður eldurinn fram kom. Í röð féllu úr 9 helgir dagar, sem eg gat ei embættað á vegna illviðris á þá, þó bezta veður væri alla vikuna, hvar af eg fékk þunga þanka, þar eg þóttist sjá, að guð var farinn að byrja dóminn á sínu húsi. Eina sunnudags aðfaranótt þyki mér maður koma til mín tignarlega búinn og segja: »Eg veit þú liggur í þaunkum, og þeir eru allir réttir. En orsökin er, að þú ert fólkinu ónýtur prédikari«. Og þá mér kom sú aðfinning undarlega fyrir, spyr eg hann að, hvað eg eigi þá að kenna. En hann segir: »Esaiæ spádómsbókar 30. kapítula, og haf það til merkis, nú verður gott veður á morgun, og þú fær að embætta«. Þaðan í frá duldist eg ei við, hvað fyrir hendi lá, og sneri opt mínu ræðuformi, eins og fyrir var lagt. Því var þó miður, að mín og annara augu voru svo blind og haldin, að ei þektum né vissum, hvað til vors friðar heyrði réttilega.

## KAP. XLI.

Svo byrjast upphaf drottins tiptunar og nýrra hörmunga, er komu yfir mig og aðra, þó með stærri biðlund og vægð en verðskuldað höfðum, sem eptir fylgir.

1783 þann 8. Junii á hvítasunnuhátíð gaus hér eldur upp úr afréttarfjöllum, sem eyðilagði land, menn og skepnur með sínum verkunum nær og fjær, hvar um eg ei framar skrifa, þar bæði eg og aðrir höfum þar um skrifað á parti. Svo fljótur skaði og töpun kom þá yfir skepnur þær guð hafði lánað mér, að laugardaginn áður en pestin kom á, var frá kvíum og stekk heim bornar 8 fjórðungsskjólur af mjólk, en næsta laugardag þar eptir 13 merkur. Og eptir því fóru af hold og líf. Sauðfé og lömb foreyddust strax, en kýr mínar og hesta lét eg færa út að Leiðvelli, og fólk til að heyja þar fyrir þeim, þó til lítils kæmi, því öll ráð, útréttingar og höndlanir, er menn tóku sér fyrir, urðu að ráðleysu, fordjörfun, mæðu og kostnaði, og flest að aldeilis eingu.

Frá 12. Aug. 1783 til 24. Junii árið eptir átti eg slétt eingvan mjólkurmat í mínu heimili. Var það einasta að þakka allra stærsta almætti guðs, að eg og mínir skyldum lífi halda. Pestin í loptinu var svo þykk, að eg vogaði aldrei að draga til mín andann til fulls, og varla vera úti, þá sól var ei á lopti, alt það ár og það eptirkomandi. Kjötið, sem etið var af skepnum, var fult af pest, item vatnið, er menn hlutu nú að drekka, og það fór nú fyrst að svekkja mína krapta, þar svo mikið varð af því að drekka, af því sífelda ónæði, er eg hlaut um allan þann tíma í að vera.

Eg fór um haustið vestur í Skálholt til biskupa minna, fékk hjá þeim 20 rd. af fátækra peninga kössum. Þeir gáfu mér ei einn skilding, auk heldur meir, en 7 fjórðunga smjörs seldu þeir mér. Þá eg kvaddi herra Finn, segir hann: »Verið þér nú harður og látið ekkert á yður bíta«. Kom mér þessi upphvatning ei síður en lítil gáfa, því þetta átti svo vel við

mitt geð sem þá var. Var það og víst, að í öllum þeim býsnum, sem á geingu, varð eg ei hið allra minsta hræddur, hverninn sem jörðin og húsin hristust og skulfu, skruggur dunuðu, (þó) eldblossarnir flygi um mig, á allar síður myrk(r)ið áþreifanlegt. Var eg í mínum guði svo hughraustur, því eg vonaði og trúði, að hann mundi hjálpa mér, bæði í því, og fram úr því öllu, ef eg geingi á hans vegum, og gerði mín embættisverk með trú og dygð, hvað og so skeði. Á þeirri minni haustferð í Skálholt fann eg marga mína vini, sem nú kendu í brjóst um mig, og gáfu mér smjörfjórðung nokkrir, en sumir minna, og þáðu þá ei betaling. En þar eptir sannaðist, að æ veit gjöf til gjalda. Fóru þeir þá að biðja mig um ýmsa hluti, þar til við urðum skildir að öllum skiptum og vináttu, undir eins eptir því sem eg tók efnaminni að verða. Sannaðist enn, að

margur er vinur vel þá geingur,
víst að nauð, en ekki leingur.

Frátakast börn mín og náungar og einn vandalaus, sem var Magnús Ólafsson vicelögmaður, sem þá var enn oeconomus í Skálholti. Hann átti hjá mér 4 rd.; þá gaf hann mér upp, og þar til 5 fjórðunga smjörs, og hefir þar fyrir eingan betaling þegið. Hann hefir og langt um fleiri þénustur síðan gert mér í verki, viðgerningum, ráðum og útréttingum, sem hann hefir að eingu reiknað, né viljað betaling fyrir, þó eg hafi hann fram boðið. Fundið hefi eg og einstaka mann af fátæku bóndafólki, sem ei hafa slitið sína trygð við mig. Við sjó átti eg, þá eldurinn kom yfir, rúman 1 hundraðshlut, svo nú varð eg alt að kaupa, sem eg með 14 mönnum áttum[1]) af að lifa, og ótal, er að kom til og frá, hvað mig víst kostaði 140 rdr., sem eg hefði ei fyrr né annars kunnað að trúa, nema reynt hefði. Um haustið sendi eg 2 vinnumenn mína út á Eyrarbakka með 7 hesta undir mat, er eg þar út tók og lagði þar upp í hendur þeirra. Þeir voru 9 vikur á þeirri leið. Einginn kom hesturinn lifandi aptur af

1) Svo.

þeim, er þeir með fóru, heldur aðrir til láns eður kaups, hverir 9 hestar allir aptur drápust um veturinn. Miklu höfðu strákar þeir eytt af matnum, og það heim komst, skemt og fordjarfað. Svo varð þá alt að óhamingju og mannsins heimamenn þeir verstu. Eg tók þræla þessa aptur í sátt, þó þanninn léki mig út, hvað aldrei skyldi þó verið hafa, gerði þá til sjós, en sagði þeim að vista sig eptirleiðis annarsstaðar, hvað þeir gerðu, þó ei yrði til langgæðrar lukku, sem ei varð von. Þeir dóu í hungri og vesöld síðast. Maddame Málmfríður Brynjólfsdóttir, ekkja prófasts síra Jóns Bergssonar, míns forna vinar, kom upp á mig þetta haust, og sálaðist hjá mér um Jónsmessuleytið árið eptir. Rægðu öfundsjúkir mig og bræður hennar saman um eigur þær og fatnað, sem hún hefði til mín flutt, en urðu að renna niður þeirri lygi, þá skilagreinin á öllu var með órækum vitnum og bevísingum sýnd. Umferð fólksins var svo mikil, að aldrei kom sú nótt, að ei væri aðkomandi 7 menn og þar yfir. Það var stór kraptur guðs, að eg skyldi við hús og búskap haldast. Svo var matvælum niðurraðað, að 1 mörk smjörs skyldi vera handa hverjum manni í viku, sem nægði, þá af öðru var nóg. Ef við feingum að mjólk, þá létum við 4, kona mín, Málmfríður, Helga dóttir mín og eg okkur mörkina nægja í 4 mál saman við tevatnið, er við hlutum að drekka. Svo komst vani á að drekka vatnið að það fanst sem sætur drukkur[1]). En það leiddi þó meiri ólyfjan eptir sig en eg frá vilji segja. Eg heyjaði um sumarið hér af túninu hér um 30 hesta, sem eg ætlaði einni kú, en hún drapst út frá því. En einum hesti, er eg að keypti um haustið, hélt eg við á því. Var hey þetta svo vont, að væri því kastað á eld var lík(t) reykur og logi af því svo sem af sjálfum brennisteininum. Þó lifði þessi hestur á því, því hann var sá eini hestur, sem hér á Síðunni var lifandi eptir og í burðum að bera lík til kirkjunnar.

Níels Hjaltalín og Þórunn Jónsdóttir kona hans buðu mér að taka af mér Katrínu dóttur mína, hvað

1) Svo.

eg þáði. Velnefnd Þórunn hafði verið hjá mér til lækninga áður. Svo fór, að Jórunn dóttir mín varð og á þeim sama bæ, hvar þau bjuggu, sem var í Hlíðarhúsum á Seltjarnarnesi. Hafði þar hvor skemtun af annari á þeirri sorglegu tíð.

Áður áminst sumar, haust og vetur, sem eldsins ógn mest yfir geysaði, gekk hér soddan umbreyting á í öllu, að eg get þar ei orðum að komið. Hér var flótti fólks til og frá. Þar einn þorði ei vera óhultur vegna eldsyfirgangsins, þangað flýði hinn annar, og svo burt hingað og þangað, alt vestur um Gullbringusýslu. Mátti eg vakinn og sofinn vera að hjálpa þeim með ýmislegt, gefa þeim attest, geyma fyrir þá etc., en allra helzt telja þeim trú og hughreysta þá, og þá aðrir prestarnir flýðu, beiddu margir mig í guðs nafni að skilja ei við sig, því þeir hefðu þá trú, að ef eg væri hér kjur, biðjandi guð fyrir þeim, þá mundi hér eldurinn eingum bæ né manni granda, og það skeði svo.

Eg fór svipsinnis vestur í Mýrdal. Á meðan tók eldurinn af einn bæ af sókn minni og fordjarfaði mikið hinn annan. En helzta orsök mun þó hafa verið sundurlyndiseldur, er framar var áður og undir það á þeim bæjum en öðrum í minni sókn. Þá tók eldurinn að færa sig fram eptir árfarveginn, að ei sá annað fyrir en hann ætlaði kirkjuna og so að eyðileggja. En þar hann var á fullri framrás í afhallandi farveg, stefndi á klaustrið og kirkjuna, sérdeilislega einn sunnudag, þ. e. þann 4. eptir trinitatis, embættaði eg í kirkjunni, sem öll var í hristingu og skjálfta af ógnum þeim, er að ofan komu. En svo var eg óskelfdur, og eg ætla allir þeir, er í kirkjunni voru, að vær vorum ljúfir og reiðubúnir að taka á móti því, sem guð vildi. Var þá guð heitt og í alvöru ákallaður, enda hagaði hans náð því svo til, að eldurinn komst ei þverfótar leingra en hann var fyrir embættið, heldur hrúgaðist hvað ofan á annað í einum bunka. Þar með komu ofan á hann öll bygðarvötn eður ár, sem kæfðu hann í mestu ákefð. Einum guði sé æra! Og enn fleiri dásemdarverk veitti guð sínum börnum

fyrir andaktuga bæn. Eg hlaut öllum mínum ræðum og prédikunum svo að haga sem tíminn nú útheimti. Helzt hlaut eg að kenna, að guð gerði alla hluti vel, og ei óréttvíslega, að mönnum byrjaði að ákalla hann og líða þolinmóðlega, það hann á legði. Hann vissi betur en menn, hvað þeim væri gagnlegt, að hann gæfi þeim eilíft líf, er hann vissi tilreiddir væru etc. etc., svo hversu sumir voru gramir og illa, já, óguðlega, talandi, fyrst þeir ríku, æddu og létu verst, svo auðmjúkir og þolgóðir urðu flestallir síðast. Agirnd og þjófnaður rýmdist næsta torveldlega í burt hjá fleirum en menn áður þeinktu. Var það ein ólukka í landinu, að þjófar voru frómir sagðir. Eptir því sem kom að jólum og á veturinn leið, tók fólk að deyja í pest og hungri, svo það ár dóu í sókn minni hér 76 manneskjur af hungri og eldsins verkunum, blóðsótt og þess kyns. Hlaut eg nú alla tíðina af að ganga og ljá eina hest minn að bera líkin til kirkjunnar, því akfæri gafst ei. Þá varð að safna líkum saman, þar til á sunnudaga, og grafa þá 8 og 10, stundum fleiri, í einu, því mannfólk var ei fleira, en því varð öllu að safna til í eitt í hvert sinn, að taka grafir og berja klaka, og varð því af máttleysi þess að láta marga í eina gröf, og út undir jarðveginn á báðar síður. Á útmánuðum voru dagstæðar 6 vikur, sem eg stóð ei við né fór úr fötunum, nærfellst að segja nótt og dag, til að þjónusta fólkið, bæði það, sem burtkallaðist og hitt, sem af hjarði, er ei komst til kirkjunnar. Þá sögðu margir: »Nú má segja, prestur hafi mikið fyrir sínu brauði«. Varð þá síðast eptir í sókninni, með Steinsmýrarbæjum, 93 menn, svo þá að sumarmálum leið, fóru bændur, sem geingið gátu, að skreiðast vestur eptir til sjós, að halda lífinu og útvega sér lífsskepnur, svo hér varð ei embættisfært af fólkleysi og lasleika þess. Þar með tók eg mig að heiman með dreing mínum, sem heitir Jón Sigurðsson, og gekk fyrst í Skálholt, og síðan suður á Álptanes til herra stiptamtmanns Thodals. Fékk eg hjá honum af innsend-

um gefnum peningum 60 ríxdali. Hann fékk mér og í hendur 600 rd. í einum kassa.

## KAP. XLII.

Þessir 600 ríxdalir áttu að flytjast til sýslumanns Lýðs, sem þeim átti að útbýta milli þeirra bænda, sem mest höfðu liðið af eldsins yfirgangi, til að kaupa þeim gripi og kyrsetja þá svo við jarðirnar. Áttu þessir gripir að sækjast austur í Múlasýslu, því stiptamtmanni hafði borizt, að þar væri góð peningahöld, sem alt saman reyndist síðan ósannindi. Átti Sigurður klausturhaldari að vera sýslumanni hjálplegur með útdeilingu greindra peninga. Flyt eg og bréf alt þetta áhrærandi til þeirra. Segi eg ei af ferðum mínum, þótt kröggótt geingi, fyrr en eg kem aptur til baka að Stórólfshvoli til Jóns sýslumanns. Þar er þá að austan kominn Sigurður klausturhaldari. Færir hann bréf og aðrar bevísingar, að pestin hafði og komið í Múlasýslu, og þar var eingin lífsbjargarskepna fáanleg. Núpsvötn hér og aldeilis ófær til yfirferðar. Við sváfum saman um nóttina. Um morguninn fór eg burt að skera æksli af manni. Á meðan tók hann upp peningapokann, og af honum handa sjálfum sér 20 rd., og 8 til handa bónda héðan, að kaupa sér kú, og fór svo suður sinn veg, en skrifaði herra Lýð til að láta sem mest bíða, þar til hann kæmi, er standa mátti á margra manna lífi. Meiningin var að hagnýta sér úr honum nokkuð með sýslumanni, eins og þeir höfðu áður leikið.

Þegar eg kom aptur og heyri þessa fregn, og þar er annar maður kominn, sem lá á peningum að kaupa sér skepnu til lífs, tek eg sýslumann Jón í ráð með mér, hvað eg skuli nú aftaka, kassinn sé upptekinn, nú mæti nauðlíðandi bændur mér, hér séu peningarnir, sem þeir eigi að meðtaka, hér fái þeir skepnur keyptar, en eingar úr Múlasýslu. Hann segir: »Þetta er það hagkvæmasta. Almúginn fær aldrei betri not af því, þó hann komist í þeirra hendur«. Tók eg svo upp kassann aptur, og fór svo hans ráðum fram.

En síðar kannaðist hann þar ekkert við, enn síður að leggja mér nokkurt liðsyrði, þá eg var kominn í ónáð við stiptamtmann fyrir greindra peninga meðhöndlan, sem hér eptir fylgir.

Þá eg fór frá Stórólfshvoli og kom austur undir Fjöllin, mættu mér flestallir sóknarmenn mínir, sumir að útvega sér jarðir þar, sumir að kaupa sér lífsgripi, og feingu þá ei, nema fyrir betaling út í hönd. En þeir höfðu heyrt, hjálparmeðal það væri undir minni hendi, leituðu mig því uppi og sátu alla vega í vegi fyrir mér og beiddu mig í guðs nafni að hjálpa upp á sig. En eg, sem flesta vildi til baka, og eg sá neyð þá, þeir liðu, hrærðist af meðaumkvun yfir þeim, og tók til að fá þeim af kassanum til að kaupa gripi, sem nú feingust enn með þolanlegu verði, 245 ríxdali, flestum að kaupa einn eða tvo gripi. Þá eg kom með bréfin og kassann með því, sem eptir var í honum að Vík til sýslumanns, fékk eg hjá honum einar þær verstu viðtektir, að eg hefði ei fært sér hann óskertan etc.; fann mér nú alt til blams, skammar og lýta með peninganna meðferð og útdeiling, anklagaði mig nú með grófasta máta við stiptamtmann, hvar til klausturhaldari Sigurður lagði og til alla sína kunnáttu og kyndugskap, svo nú kom fram draumur minn um strákana til forna, er vildu drepa mig. Þeir flæmdu mig og so út við bændur, að nær nokkur bað um peningahjálp, var fyrsta an(d)svarið: »Far þú til prófasts. Hann lék þig svo út, að eg get ei aðstoðað þig«. Stiptamtmaður, sem var trúgjarn maður og þunglyndur, varð hér af uppvægur við mig og anklagaði mig upp á æru mína og embætti fyrir cancellie kongsins, að eg hefði ei hlýtt sinni skipan, gefið mig í verðslegar sakir, með enn fleiri upplognum sakargiptum, sem mínir hatursmenn höfðu honum inn gefið. Eg kemst að þessu, en lét það þó ei á mér festa, því eg vissi, guð mundi ei láta mig fyrir þann gjörning falla né kollvarpast. Fór eg nú með hesta mína að sækja hlut minn í Selvog, og ætlaði undir eins að finna stiptamtmann. Hitti eg nú fyrst stiptamtmann Levetzow, sem þó var

ei orðinn það, á Sólheimum í tjaldi sínu. Hann tekur mér með mesta ofsa og æði, rífur í hárið á sér, klípur í kinnarnar á sér, snýr fingurnar, lemur sig utan, orgar og hljóðar segjandi: »Þú hefir gert eitt óforskammað verk, sem þú kant aldrei að forsvara, að þú hefir upp tekið stiptamtmanns forsigling etc.« Eg svara: »Alt kann forsvarast, nema crimen læsæ majestatis«. Hann hváar eptir því, hvar af eg sá lærdóm hans. Svo segi eg meðal annars: »Þó eg kunni ei forsvara það fyrir mönnum, veit eg þó, að eg kann það fyrir guði og samvizkunni«. Hann svarar: »Guð og samvizkan dugar þér ekkert«, og þar með hló eg upp úr, og sagði: »Eg læt mér það nægja eingu að síður«. Þar eptir varð hann allur vægari og talaði vingjarnlega við mig. Hann fór svo austur að yfirskoða hér jarðir og herra Magnús Ólafsson Stephanius[1]). Opt anklagaði sýslumaður mig fyrir honum, þar til hann sá það var hatur, og frá þeim tíma vildi hann lítið heyra hann. En af mér er það að segja, eg komst alt yfir Ölversá[2]). Hljóp þá yfir mig bjúgur, svo eg komst ei yfir fjallið að finna stiptamtmann, og varð nauðugur viljugur að halda til baka. Skrifaði honum þó til forlátsbréf á minni yfirsjón. En svo var sterk hans bræði orðin, að það vann fyrir ekkert; heldur setti hann forboð á, að eg skyldi nokkurt lán fá hér í kaupstöðum, sem öllum öðrum var þó þann tíð eptirlátið.

Leið svo þetta sumar 1784 þanninn. Eg leið ofsókn og aðkast á allar síður. Kona mín lagðist upp á sængina mjög þunglega haldin, sem hana leiddi til dauða, því hún sofnaði í guði sætlega þann 4. Octobris á hennar 66. aldursári, þá við höfðum í hjónabandi saman verið 31 ár 4 daga betur. Þá var mín heimilisstaða svo bág, að eg varð daginn eptir að gera mér ilt í skapi og reka burt úr minni þénustu tvo vinnumenn mína, sem legið höfðu í matarhúsi mínu um sumarið, með fleirum, og frá mér stolið til

1) Þ. e. Stephensen.
2) Svo.

stórs skaða. Þá átti eg einga sauðarskepnu og ei eptirkomandi ár. Hjálpaði Pétur minn Sveinsson um sauð til útfararkostnaðar hennar. Eg hugsaði þá til guðs, hvort eg mundi nú vera í sömu náð hjá honum og þá við komum saman; bað því einn mann að fara hér fram í kvíslina og reyna, hvort guð gæfi mér ei silung eins og fyrr. En þó honum og öllum öðrum þætti það ólíklegt, að hann gæfist, fór hann og hitti í einum ál 16 silunga, hvern hér um 8 merkur, svo hér varð enn nóg og yfirfljótanlegt af honum til þess, er eg nú með þurfti. Þanninn er guð óendanlega góður. Síra Jón á Mýrum gerði alla prestlega þénustu við hennar greptran. Að sefa mína hrygð lét guð þessi orð vera vakandi í mínu hjarta, sem til mín væru töluð hvað eptir annað: »Þú hefir fundið náð fyrir mínu augliti«. Nú var eg í mannanna ónáð. Að hennar begravelse afstöðnu fór eg yfir allan Mýrdal og Eyjafjöll til allra vina minna, og bað þá selja mér eina skeppu af rúgi eður byggi, og fékk það hvergi. Og svo var aftækt um, að hjá br(óður) síra Páli í Holti fékk eg ei einn málsverð af mat handa manni þeim, sem með mér var. Þó seldi Jón Vigfússon, sem hér var á Fossi, mér eina skeppu af rúgi, og mátti ei mágur hans síra Páll af því vita. Í Landeyjakrambúð keypti eg eina mjöltunnu, sem þá var ei fyrir hendi. Eg fékk hana ei fyrr en seint um veturinn, og þó ei alla. Aðra keypti eg að austan úr Djúpavog, sem mig kostaði og yfrið mikið. Menn vinna flest til lífs. Það sótti eg vestur til vinanna, að einhver stal þá frá mér spánýjum dökkvum silkiklút, sem eg hafði með mér. Eg þóttist enn eiga eptir marga óreynda vini vestur eptir sveitunum, og þá eg var eitt sinn að þeinkja um það, var sem til mín væri talað[1]) þessi orð:

Allir munu þig yfirgefa,
en einum skaltu halda samt,
eg læt hann þínar sorgir sefa,
að særa og græða er mér tamt.

---

1) Svo.

Að þessu kom og so. Hélt eg, að þessi minn eini vinur mundi vera madame Helga mín Brynjólfsdóttir, því henni ætlaði eg bezt, og hana ætlaði eg að geyma mér, þar til mér lægi mest á. En þetta var þó ekki hún, heldur herra Magnús vicelögmaður, sem af ótalmörgu sást og fram kom hér eptir.

Frá þessum haustnóttum 1784 til vorsins 1785 átti eg eina þá allra daufustu æfi, sem eg hefi aflifað. Þá eg misti mína ágætu konu, féll mér svo að segja allur ketill í eld. Eg fékk það allra sterkasta óyndi og svefnleysi, sem verkaði hjá mér skaðlega þanka og alls kyns handa freistingar. Eg var ljósfeitislaus, og varð því að rorra uppi í sífeldu myrkri. Varð fólk mitt að vera í fjósi vegna mjólkurpenings og þjófaumferðar, og þar varð eg að liggja og sitja í kreppu. Í dyralopti svaf eg þó um nætur og Helga dóttir mín. Í bænum, sem nú var auður, var herfilegur kuldi. Þó hafði eg skemtun að sitja þar laungum hjá rúmi mínu til forna og lesa guðs orð. Hljóp þá frostbólga í hendur mínar og fætur, að ei gat tekið mér penna í hönd til afþreyingar. Eg slasaði mig á handlegg á jólunum, að varla gat fötum fylgt eður klætt mig í 5 vikur. Þó féllu ei úr embættisgerðir, því það var og er enn mitt stærsta eptirlæti að dýrka guð í hans húsi. Embættaði eg opt ei yfir fleirum en 8 eður 14 manneskjum, og varð eg hér með svo ánægður, eins og þá kirkjan var full af fólki. Hrósa kann eg svo stórri guðs náð við mig, aumasta þjón hans, að þó hann tefldi mér sem næst í aðskiljanlegri reynslu, lét hann mig aldrei til langframa vera huggunarlausan. Þar var til reiðu einhver huggunargrein úr ritningunni, einninn eptir aðra góðir sálmar og vers, ljóðmæli í samhendum, að eg skyldi því betur muna og rótfesta eitt og annað. Af öllum bókum var mér Davíðs psaltari hugljúfastur. Eg fæ eingum orðum svo að því komið, hversu guð hefir í þessu og öllu farið vel og aðgætnislega með mig, að leiða mig í helvíti og þaðan aptur. Eitt sinn um miðjan veturinn, er eg einmana sat í þeim þaunkum að gefa alt frá mér, er sem guð segi til mín:

Eg skal gefa þér ektakvinnu.
Ættingi þinn verður það.
Aptur fær þú alla sinnu.
Eg hefi þig þá fullprófað.

Eg féll í stans út af þessu an(d)svari, og hvar þessi mín ættstúlka eður kona gæti verið, því eg gat hana enn þá einga uppþeinkt. Þóttist þó mega ráða, að ei mundi eg burtkallast fyrri en eg aptur giptur væri. Svo sló eg þessu í veður og vind og þeinkti þetta væri holdleg innbyrling, og þá eg féll enn í einslags þunga sorg, var sem aptur væri til mín sagt:

Hjarta þitt skal friðað fagna,
fræga skaltu hljóta mey,
harma klögun þín skal þagna,
þó þú þessu trúir ei.

Þetta sefaði enn að nýju mitt mótlæti og angursemi, en (eg) kunni þó ei að skilja né undirstanda það. Á þessu og fleira þreifaði eg á, að guð ætlaði ei að burtkalla mig svo snarlega í minni eymd, er mér var þó kærast, og svo fanst mér eg vera orðinn heiminum frá horfinn, en guði innlífaður, að eg hefði þolað, þó eg hefði mátt deyja sem píslarvottur. Vissi og ei, hvað við mig væri gert af stiptamtmanni etc.

Leið svo af veturinn og vorið, sem var mjög hart, og hjálpaði eg enn upp á nauðlíðandi skepnur, sem eg kunni, því mitt sigt var ei annað en að standa vel á mínum pósti, með trú og dygð fyrir guði, hverninn sem veröldin léki mig út. Sá eg nú af öllu, að guð hafði útvalið mig og ráðstafað mér hingað, að þéna hér hans kristni, því hvergi gat eg nærlendis uppþeinkt þann, sem hér hefði annað eins afborið eins og eg, sem ei gat þó skilið, að með mér gæti búið sá styrkur, er sig auglýsti í soddan stríði. Fékk eg mér vitnisburði, sem mitt ástand sýndu á þeirri tíð. Fór eg suður á Nes að kaupa mér fisk, er mínir fornu vinir trektu nú harðlega upp við mig. Besókti (eg) nú stiptamtmann Thodal og ætlaði að taka út, það hann vildi á leggja, en það urðu ei annað en góð orð og kaffidrykkja. En þar bjó annað

verra í hjarta hans, sem síðar kom fram. Eg bað hann með memorial annaðhvort að hjálpa mér til að vera við mitt brauð með styrk með peninga og mat, eður veita mér eitt autt prestakall á Vestfjörðum, er Rafnseyri heitir. Fékk eg það fyrra ánægjanlega. Guð hefir alt í sinni hendi.

Nú tók Levetzow við stiptamtmannsembætti. Eg fór heim til mín aptur og vissi mér ei ills von af þessu, þó annað fram kæmi. Tók eg nú að mér Katrínu dóttur (mína) frá Hlíðarhúsum. Nær eg hafði nokkra stund heima verið, sótti mig enn heim svefnleysið með þaunkum og iðjugleysi[1]), svo Katrínu gaf á að horfa. Segir hún þá við mig, eg hljóti að gipta mig, því svo komist eg ei af fram, og ráðleggur mér að leita til þeirrar stúlku, er heiti Kristín á Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, segist svo af henni hafa heyrt, að hún mundi mér þénug. Áður hafði eg heyrt hennar að góðu getið í Skildinganesi. Um haustið fór eg upp í Skálholt til ýmsra efna. Kvaldi mig þar enn svefnleysi og enn fleira. Segir þá vicelögmaður Magnús við mig: »Þér hrekkur ei annað en gipta þig, og ef eg get nokkuð þér þar í þénað, þá er það velkomið«, og spyr mig, hvar eg kynni til að þeinkja. Eg segi honum, að það sé þá þessi Kristín. Hann segir það vel til fallið; hafi hann og kona sín upp á hana fallið með sjálfum sér, og því muni guðs forsjón benda hér til. Segist hann skuli skrifa síra Birni til, húsbónda hennar, en eg skuli skrifa madame Helgu kærustu hans til, svo sem eg sé henni kunnugur, og biðja þau um liðsinni, að eg mætti öðlast greinda stúlku til ekta, og fá svo andsvar aptur, hvort hún tæki mér eður ei.

Víkur nú hér frá sögunni, og þar til að herra biskup Hannes fær skrif frá cancellíenu af 25. Junii, í hverju stiptamtmanni Levetzow og honum er uppálagt að straffa mig fyrir upptekning og útdeiling úr pakkanum. Gerir biskup þar skrif til mín af 21. Septembris 1785, að eg gefi honum skriflega til kynna, fyndi eg mér nokkuð til forsvars eður málsbóta móti svo harðri

1) Svo.

áklögun. Nú þar sem vicelögmaður var við hendina[1]), ráðfærði eg mig við hann, hvað afráða skyldi, hvort að verja mig með processum og kaupa réttarganga í þremur sýslum, þar sem þeir voru, er eg hafði peningana feingið, og láta þá segja, hver nauðsyn bar til etc., — en þetta vildi verða mér alt of kostnaðarsamt, og því var því afslegið, — eður að gefa þeim á vald sökina og láta þá ráða, svo, ef þeirra straff yrði of þungt, að skrifa þá fram fyrir kong, og var svo þetta síðara afráðið sem kostnaðarminst, hvar fyrir eg lagði inn fyrir þá eptirfylgjandi skrif:

Pro memoria.

Til undirdánugast an(d)svars upp á hans háæruverðugheita herra Hannesar Finnssonar háttvirðandi tilskrif af 21. Septembris mætti eptirfylgjandi þéna mér til auðmjúkasta[1]) afsökunar og forsvars.

Þær bevísingar[2]), sem eg hefi um það, að þeir peningar, sem eg útdeildi Skaptafellssýslu innbyggjendum, þeim til lífsbjargar og gripa innkaups, eru áður leveraðir[1]) til hans hávelborinheita herra amtmanns Thodals, sem og bevísaðir reikningar, að peningarnir eru til skila komnir. En þá mína yfirsjón, að eg ekki réttilega hindraði klausturhaldarann Sigurð Ólafsson að opna paqven, og að eg þar eptir útdeildi nokkru af peningunum, játa eg auðmjúklegast og set til minna náðugu yfirvalda, hverninn þeir vilja mig þar fyrir straffa, en afbið undirdánugast process og réttargang, sem einasta mundi ruinera mig fátækan og mjög nauðstaddan, er ekki stenzt þann kostnað, sem þar með fylgir. Eg bið og auðmjúklegast, að mér mætti vægð sýnast í því skyni, að eg var ei sá, sem upp braut peningapakkann, sem og einninn, er eg get með eiði sannað, ef til kæmi, að minn einfaldur tilgangur var að hjálpa nokkrum Skaptafellssýslu innbyggjurum, sem staðar höfðu numið í Rangárvallasýslu, sem bæði ætluðu, sem og lofuðu mér, hvað sumir ent hafa, að fara aptur austur

---

1) Svo.

2) Tvítekið í frumriti.

á Skaptafellssýslujarðir, nær þeir heyrðu, að jarðelds pestin minkaði þar á mönnum og skepnum, sem þá var enn í litilli rýrnan, sem og þeim af þeim eldsköðuðu jörðum, er þar voru þá á ferð að fá sér matbjörg og kvikfénað, en áttu ekkert útgeingilegt til þess, gátu ei heldur vegna vanmáttar, hungursneyðar og hestaleysis reist til baka að taka á móti peningunum hjá sýslumanni Lýð, og þar eptir á ný fara vestur í Rangárvallasýslu til sömu gripa innkaupa, er síðar hefðu þar trauðlega feingizt, og ei með svo góðum prís, er þá upp á tímann var að fá, og, hvað meira má segjast, að Skaptafellssýsla hefði annars mist flesta af þessum sínum duglegu innbyggjurum. Með eiðum kann og staðfestast, ef þörf krefur, að nokkrir þar af, — voru þeir vel svo 40 manns, — er með konum og börnum hefðu af langvarandi hungursneyð rétt upp á tímann lífið mist, hefði eg ei þeim í soddan ýtrustu þreinging komið til liðs með þetta hjálparmeðal, hverir nú þar fyrir allir lifa. En hverninn eg hefi síðan forhaldið mig við einn og sérhvern, og viljað erstatta allan þann afdrátt, er nokkur hefði kunnað að líða, sem peningarnir voru til sendir, fyrir mína útdeiling, sýna bezt meðfylgjandi bevísingar. Í tilliti til áðurskrifaðra atvika og minnar fátæktar fel eg þetta málefni mínum náðugu háyfirvöldum á hendur til beztu moderation.

Skálholti dag 23. Septembris 1785.

Jón Steingrímsson.

Meðfylgjandi bevísingar voru eptirfylgjandi:

Virðulegir minnar sóknar meðhjálparar og þessarar sveitar hreppstjórar, gerið svo vel, sem eg hér með beiðist, og segið sannleika um það, hverninn eg hafi hér næst afliðið fardagaár hagað mér:

1° í mínum embættisverkum utan kirkju sem innan;
2° í þeim verðslegu með einn og sérhvern, sem til vitið;
3° hvert gagn eg hefi haft af þeim nýja selabát og nót, sem eg hefi að keypt fyrir peninga þá, sem

háyfirvöldin, herra stiptamtmaður og biskup, hafa lagt mér, og hverninn eg hafi hagað því gagni;
4° hverninn háttað er mínu búskaparstandi.

Prestsbakka 18. Junii 1785.

Jón Steingrímsson.

Til þess fyrsta svarast, að velæruverðugur prófasturinn okkar elskulegur og góðfrægur sóknarherra hefir með allra mestu og kostgæfnustu trú og dygð, mannlegum kröptum framar, að allra sjón stundað sín embættisverk með lastvörum lifnaði og huggunar- og lærdómsfullri kenningu innan kirkju sem utan.

Til hins annars svarast, hann hélt einn þann allra þyngsta niðursetning, sem hér var á sveitinni, og (hefir) þar að auki lagt sig allan til, langt fram yfir megn, að hjálpa nauðlíðandi með ráð og dáð, svo margir hafa hér þar fyrir við lífið haldist, sem of langt er upp að telja. Gesti og umferðafólk hefir hann framar öllum líkindum hýst, og eingan látið synjandi frá sér fara, það til vitum, þar þó mikill fjöldi hefir sér til hans líknar, hjálpar og aðstoðar leitað, því trautt mun finnast svo hjartagóður maður sem hann, er svo af sérdeilislegri og nákvæmlegri góðvild við aumingja og nauðlíðandi breyti.

Til hins þriðja svarast: Af bátnum hafði hann það gagn í vor, að þá harðast var og lá við uppflosnun, fór hann með hann þangað á fjöru, sem ei varð öðru vísi á komizt; náði hann þar 54 kópum, býtti þeim og gaf þá út, bæði þeim, sem þar með honum voru, sem og öðrum nauðlíðandi í sveitinni. Þar eptir lét hann fara í einn veiðiós, hvar í henni[1] náðust 30 kæpur, og nokkuð fleiri smákópar, sem skipt var að jafnaði milli þeirra, sem í veiðinni voru, og síðan hafði þess öll sveitin not, svo og margir í Meðallandi. Og guð veit, hver neyð og bágindi hér hefði upp á fallið, hefði guð ei gefið þá veiði.

Til þess 4. svarast: Hann er nú einstæðings ekkjumaður, hefir væntanlega fram að færa 8 menn

1) Svo.

í heimili, er vinnumannslaus, á eingan mannshlut í útverum, er enn búinn að missa úr pestinni eina kú, og önnur hefir ei síðan á sumarmálum á fæturnar[1]) stigið, öll hnýtt og bækluð, er innan skamms mun drepast úr sömu pest; tvær kvígur ganga sér varla að mat, hinar þrjár haltar og lítið mjólkandi, og ei er okkur sjáanlegt, að hann geti hér leingur við haldist, nema meðan hann eyðir þessum uppdráttarkúm, verði honum ei með öðru móti bjargað, því prestinntektin hleypur hér ei yfir 3 ríxdali, vegna fátæktar fólksins. Er þetta svo af okkur í sannleika sagt eptir sem bezt vitum.

Arnardrangi d. 20. Junii 1785.

Pétur Sveinsson. Oddur Bjarnason.

Kirkjubæjarklausturssóknar og Síðusveitar meðhjálparar og hreppstjórar.

Eptir velæruverðugs prófastsins síra Jóns Steingrímssonar begiæring attesterast hér með sannferðuglega, að framan og ofan útgefinn vitnisburður hreppstjóra og meðhjálpara þessarar Síðusveitar er í allan máta sannferðugur, hvar um eg kann því framar að vitna sem eg er því gagnkunnugur, svo það er grátlegt til að vita, og útkrefur hæstu meðaumkvun af öllum guðlega sinnuðum mönnum, hvílík uheld og bágindi hann á stríða með kýr hans og lífsbjargargripi, hverninn þær af pestagtugum veikleika uppdragast, deyja og sýna honum ekkert gagn, sem þó var það einasta uppáætl í þessari báginda tíð, og hverninn hann má sleva sjálfur sem grófur arbeidskarl til að leingja sitt og sinna líf þar með, þar af sókninni nær einga undirstöttning eður inntekt hefir, vegna hennar fátæktar, fyrir sín þungu og trúu embættisverk eptir tíðinni og sitt stöðuglyndi, að víkja ei frá henni, sem aðrir gert hafa, hverjar ógnanir sem á hafa geingið. Hann getur og ei haldið vinnufólk til að arbeida fyrir nauðsynlegri húsholdning fyrir efnaleysi, þar kýr hans biluðu. Hann er og orðinn udmattet sjálfur, fullorðinn maður, af reiðum, en optar af gaungum, fram og aptur um sóknirnar,

1) Svo.

að þéna og hjálpa sjúkum um þessar tíðir, og kann ómögulega leingur viðhaldast hér við sóknina, nema aðstoð og gott tillag fái þar til, og einginn prestur kann hér við haldast af hennar inntekt, njóti hann ei annars tillags, þótt ungur og ómagalaus væri.

Kirkjubæjarklaustri d. 20. Junii 1785.

L. Guðmundsson.

Undur mætti þykja, að sýslumaður hefði gefið mér svo góðan vitnisburð, svo sem hann sat eptir minni hrösun. En sannleikur í því var svo opinn og öllum kunnugur, að hann gat ei með sönnum munni annað talað. En hér bjó og annað undir. Hann vildi fá til ekta eina dóttur mína, og var nú að sleikja sig upp við mig aptur. Þó varð ei af þeim ráðahag. Í fljótu áliti mátti og sýnast, að þessir vitnisburðir, er svo útlegðu mitt bága ástand og kærleikans verk, mundi nokkuð mýkja minna yfirvalda hjörtu til meðaumkvunar, en sú var tíð, að úr því vildi alllítið verða. Biskup Hannes sagði, þá hann las þessi orð í þeim, að eg hefði látið eingan synjandi frá mér fara etc.: »Betur eg hefði aldrei séð þessi orð. Við kunnum finna okkar skyldu að fá þér sjálfum nokkuð að lifa af, en ei handa öðrum«. Eg svara þar til, hann viti bezt, hvað mikið þeir hafi út deilt mér sjálfum að lifa af, — það var upp á 20 rd. þá í tvö ár, — og hvort eg hafi getað nokkrum miklu miðlað af því.

Aðrir vitnisburðir og bevísingar var frá þeim, sem þá voru eptir hjarandi og búandi í sókninni, er sýna hverninn eg lagði alt til að halda þeim við lífið.

Hjartkæru sóknarmenn mínir!

Guð annist yður alla!

Sú er mín bón til yðar, unnið mér hér upp á yðar sannmælis, hverjar sérdeilis þénustur eg hefi sýnt yður afliðið fardagaár, eður síðan eg heim aptur til mín kom í fyrra sumar, að fráteknum embættisverkum mínum. Og svo sem eg veit, að nokkrir af yður eru ei fljótt eða vel skrifandi á stuttum tíma, sem nú út heimtist, þá sendi eg yður þessi blöð, og

Jón litla, dreing minn, til yðar, að hann skrifi rétt eptir yður, það þér viljið honum fyrir lesa, er eg óska sé stutt og einfalt.

Prestsbakka 14. Junii 1785.

Jón Steingrímsson.

Hér upp á svarast:

Minn elskulegur sóknarprestur og prófastur, þegar hann kom sunnan í fyrra, fór hann austur að Núpstað að vitja um mig. Var eg þá svo aum af sinakreppu, að eg skreið af rúminu á höndum og fótum, þegar eg gat komizt það. Mín 3 piltbörn voru svo uppþrungin af vatnsbjúg, að sér gátu aldeilis aungva björg veitt. Bjó hann þá til handa okkur graut úr fíflalaufum, og lét okkur neyta hans mest matar, smurði holdið að utan með einhverju, en lagði plástur yfir þær kreptu sinar, svo að á fárra daga fresti viðréttustum við öll svo við[1]), að við urðum flutt úr því eyðiplázi út á Síðuna, hvað hann sjálfur gerði og lagði þar til tvisvar sinnum hesta sína, og nú aptur í vor bjargaði hann mér með mat og hesti að komast hingað aptur. Soddan kostnað, útlát og fyrirhöfn get eg honum ei betalað. Á eg svo guði og honum að þakka, að eg og börn mín héldum lífi og erum orðnar heilar manneskjur aptur.

Núpstað.

Guðrún Bjarnadóttir.

Það segi eg með sanni um minn elskulega sóknarprest síra Jón Steingrímsson, að hann lagði allan hug og dug á að bjarga mér við einnri harðri sinakreppu, sem á mig var komin, með plástrum og öðru, og svo batnaði mér fyrir það meðal fyrir 6 ríxdali, sem eg fékk frá stiptamtmanni. Keypti hann undir sjálfs síns nafni hest handa mér, svo ef eg hefði ei hann feingið, so hefði eg ei við búskap getað haldið.

Fossi.

Bjarni Jónsson.

---

1) Svo.

Minn elskulegur sóknarprestur gaf mér handa konu minni og barni sárameðöl og plástra, sem vel læknaði þau svörtu, bláu og djúpu sár, sem það hafði á höfðinu, en hún á fótunum, af hverjum meinsemdum og hverjum meðölum þau aldeilis heil urðu.

Hörgslandskoti.

Hreiðar Pálsson.

Eg undirskrifaður vitna þanninn um minn velæruverðugan sóknarprest, að hann gerði mér það gott, að hann fór austur í Kálfafellskot til mín og tók með sér minn vanfæra vinnumann Þorlák Jónsson, sem allur var kominn í hnúta á rifum og öðrum útlimum, tók hann svo á sitt heimili, hvar hann var rúman mánuð, hvar hann læknaði hann, svo hann varð heilbrigður maður. Ásamt læknaði hann Eyjólf fósturson minn, sem var harðkreptur orðinn. Til merkis mitt nafn.

Hörgslandi.

Gísli Pálsson.

Hér með geri eg vitanlegt um minn elskulega sóknarprest, að hann með ráð og dáð hefir verið að hjálpa mér síðan í fyrra. Fyrst læknaði hann það stóra sár, sem kona mín hafði feingið á hálsinn, og svo þann andlits þrota, sem yfir mig var kominn. Síðan, þá eg misti mína beztu aðkeyptu gripi (hesta), sem mitt mesta gagn stóð á, aumkaðist hann yfir mig, og fékk mér annan reiðhest sinn fyrir annan lakari, svo kona mín skyldi komast til kirkjunnar. Hann hefir og eptirlátið mér að veiða silung mér til bjargar með manni hans, lagt þar til bát og net, en gert mig þó jafnan við sig, þá nokkuð hefir veiðzt.

Breiðabólsstað.

Þórarinn Ísleiksson.

Minn fyrrnefndur elskulegur sóknarprestur hefir síðan í fyrra þanninn hjálpað upp á mig. Fyrst læknaði hann son minn að öllu leyti með olíum og áburði af því afl(l)eysi, sem komið var yfir þessa

barnskepnu. Og þegar eg lagðist sjálfur um sláttinn, þá ekki einasta gaf hann mér inntökumeðöl til viðhressingar, heldur og léði mér vinnumann sinn og vinnukonu að hirða og binda heim hey mitt, sem slegið var. Og síðan, þá eg komst í heyskort í vetur, hjálpaði hann mér um hey. Og síðast í vor, þá eg var ekki heima, sendi hann konu minni og börnum nokk(ur)ra daga björg, að ei skyldi of mjög hungra. Og ekkert af þessu hefi eg getað borgað honum. Þorstein[1]), sem hjá mér var, forsorgaði hann í 5 vikur, þar til hann við réttist.

Morðtungu[2]).

Þorleifur Jóhannsson.

Það sama játa eg um minn sóknarprest, að hann hefir síðan í fyrra alla ástundan á lagt að halda mér og mínum við lífið, því fyrst í fyrra sumar, eptir það eg skildi við kammerherrann[3]), fékk hann mér fisk og feiti til að komast vestur mér til bjargar, og á meðan eg var í burtu sendi hann hvað eptir annað konu minni og börnum mat, að ei skyldu út af sofna, sem annars lá við borð. Og nú aptur í vor, þá eg var ekki heima, og harðast var milli manna, og þeirri einnri mjólkurkú, sem þá höfðum, var af okkur án vægðar svipt, hjálpaði hann okkur svo með fjörureka, sem þá var fyrir hendi, að ei skyldum út af deyja né upp flosna. Mig kól á fæturnar[4]), að þar urðu opin sár og fúin, og við þeim sárum og sárum þeim, sem eitt mitt barn fékk á fæturnar[4]), að við lá, að mundi missa tærnar, gaf hann okkur hreinsandi og græðandi meðöl, svo að mestu erum nú heilbrigð orðin. Til merkis mitt nafn.

Kirkjubæjarklaustri.

Páll Ólafsson.

Það segi eg í sannleika um minn elskulega sóknarprest, að eg hefði verið dauður og uppflosnaður,

1) Þorsteirn, hdr.
2) Svo; morð = orusta.
3) Þ. e. Levetzow.
4) Svo.

ef hann hefði ekki léð mér í haust þá beztu mjólkurkú sína að lifa af í vetur, og svo fór hann nákvæmlega að því, að þó hann liði sjálfur skort þar fyrir í vor, þá tók hann hana ekki fyrr af mér en mín kýr var borin. Hann græddi og þau stóru og viðbjóðslegu sár, sem dottin voru út um hold konu minnar. Til merkis etc.

Efrivík.

Guðni Ólafsson.

Minn elskulegur sóknarprestur læknaði konu mína af því höfuðþyngsli og svefnleysi, sem hún hafði feingið, svo hún varð heilbrigð. Ásamt stilti hann blóðrás á barni mínu, sem stakk sig gegnum æðina á gagnauganu, og læknaði að öllu leyti, sem guð bezt launi honum.

Þykkvabæ.

Jón Ólafsson.

Eg undirskrifaður, hér nær staddur, geri augljóst um minn fyrrverandi sóknarprest síra Jón Steingrímsson, að eg tvíla, að eg og börn mín hefðu nokkurn tíma í þessu lífi til heilsu komizt, ef hann hefði ei svo nákvæmlega og iðuglega við okkur leitazt með innvortis og útvortis meðölum við þeirri vatns uppþembingu og sinakreppu, sem við í lágum, sérdeilis eg, í rúma 7 mánuði, sem eg hefi ekki getað honum borgað.

Staddur á Hörgslandi.

Eirekur Sigurðsson
(frá Fossi).

Hér með geri eg augljóst, að það hélt mér og mínum mörgu börnum við lífið, með guðs hjálp, að eg eptir prófastsins ráðleggingu brúkaði í fyrra sumar með öllum hvítumat fífilrótarlaufin.

Seglbúðum.

Oddur Bjarnason.

Þegar eg átti sem allra bágast í fyrra sumar lánaði minn elskulegur sóknarprestur og prófastur mat mér og mínum til lífsbjargar, frá hverri skuld eg er enn þá ekki kominn.

Hrauni í Landbroti.

Jón Þorsteinsson.

Minn nú verandi eruverðugur sóknarprestur síra Jón Steingrímsson gerði á mér í fyrra sumar það kærleikans verk, að hann léði mér í minni nauðsyn hest til heydráttar alt sumarið af. Honum á eg og það að þakka, að eg get stigið heilbrigðum fæti á jörðu, þar hann náði því meini, sem leingi hafði um sig búið undir hnéskelinni. Hans mörgu góðgerðir get eg honum aldrei betalað sem skyldugt er.

Gamlabæ.

Árni Erlendsson.

Minn elskulegur sóknarprestur síra Jón Steingrímsson hefir með öllum hætti viljað halda mér og mínum við lífið, sem og með guðs hjálp tekizt hefir. Fyrst hjálpaði hann mér um peninga vestur í Holti undir Eyjafjöllum, þá eg var þar í standandi ráðaleysi til að kaupa mér hest. Þar eptir léði hann mér hest suður á Nes, að fá mér á hann lífsbjörg í fyrra haust, með mönnum hans, og á meðan léði hann konu minni hest að flytja á hey, og þá á veturinn leið, og ekkert lá annað fyrir en eg yrði að drepa eina mína kú, konu minni og börnum til lífsnæringar, og að eg kæmist til sjósins, tók hann eitt kvartel af þeirri mjöltunnu, sem hann með miklum kostnaði aðkeypt hafði í Djúpavog og til sín náð á þorranum. Og í vor, þá eg til sjósins vestur var kominn, lagði hann þá nákvæmustu alúð á, að barn mitt skyldi fara með sér á hans fjöru og upptína það matar rusl og beinatau, sem þar var að finna, og hjálpaði því til að flytja það heim, og hér fyrir með þeim mjólkurdropa, sem gafst úr kúnum, héldum við kona mín okkar kúm og 5 börnum við lífið.

Keldunúpi.

Ólafur Bjarnason.

Þessum mínum hjartkæra og elskulega sóknarpresti á eg næst almáttugs guðs hjálp að þakka að eg hefi haldizt hér við og haldið minu, minnar konu og barna lifi. Fyrst keypti hann kvígu handa mér út undir Eyjafjöllum, af hverju eg hefði aldeilis verið, ef hann hefði ekki rétt upp á þann sama tíma lagt út gjaldið fyrir hana. Nokkrum tíma þar eptir tók hann til láns 6 rd. handa mér, til að kaupa mér hest, og standa enn 3 rd. af mér til hans óbetalaðir, og hefi eingin úrræði með það. Í fyrra haust tók hann aptur til láns handa mér 5 rd., og 1 tók eg til láns hjá Mr. Jóni Vigfússyni á Skála til að festa þá pöntuðu kú, sem þeim eru nú aptur betalaðir. Í vetur tók hann af mér barn mitt hér um hálfsmánaðar tíma, til að lækna hennar gulu og uppþembing, sem henni varð að góðum notum. Þá kvígu, sem eg hafði af honum tekið í prestskyldu hans, léði hann mér þá hún bar í vor og hart var á milli manna, þar til guð gaf mér sjálfum mjólk af mínum eigin skepnum, og lagði á sig auðvitanlegan skort til að gera ei endaslept, það hann hafði uppbyrjað, að bjarga okkur við lifið, því þá tóku sjálfs hans kýr að tapa mjólk og nyt með lifi.

Heiði.

Hinrek Höskuldsson.

Eptir bón og begiæring, að við skrifum hér upp á til frekari sannindamerkis, þá er hér ei ofsögum sagt um góðgerðir okkar hérnefnda kennimanns, því hann vill öllum sínum sóknarbörnum vel, sem áður hér vitnað sýnir, og ef nokkur má segjast réttur prestur og föðurlandselskari, þá er hann að vorri beztu þekkingu einn af þeim. Vér vitum ei né heyrum um getið, að nokkur maður í landinu hafi afliðna eldtíð meira liðið eður lagt á sig, sem hann með óþreytanlegu stöðuglyndi að blífa hér við og halda sem flestum við lífið upp á sinn eigin kostnað, því þá hann kom hingað með það, sem þau góðu landsyfirvöld lögðu honum, því annað hafði hann lítið, þá seldi hann nú í fyrra haust jarðarpart, er hann átti, fyrir 25 rdr. ei alleinasta handa sér, heldur til þess

og so, að vesalingar hér í sókn kynnu sem leingst við líf og jarðir að haldast, sem þeirra vitnisburðir hér að framan sýna bezt. Það er og að segja um þá, er hér dóu, að hann lagði á sig stóra mæðu, jafnan fótgangandi, að þeir skyldu komast í guðs barna reit, því þann eina hest, sem hann átti eptir tórandi, léði hann að bera á þá dauðu til kirkju, en gekk sjálfur; gaf og so 5, ef ei fleirum, kistu um sig. Hér hefðu og orðið færri við jarðir en eru, hefði hann ei í soddan háska og neyð, er þá yfir gekk og á stóð, bjargað bændum hér um peninga af þeim sjóð, hverninn sem hans misunnarar, ef nokkrir eru, hafa kunnað að útleggja það. Þessu til staðfestu eru vor undirskrifuð nöfn.

Arnardrangi d. 13. Septembris 1785.

Oddur Bjarnason (L. S.)
hreppstjóri og meðhjálpari
Síðu sveitar.

Pétur Sveinsson (L. S.)
hospitalshaldari og hreppstjóri Síðu sveitar.

## KAP. XLIII.

Til stiptamtmanns Thodals voru áður komnir ríktugir reikningar fyrir peninga þá, er eg tók í hæstu lífsþreinging af pakkanum, með hvers eins undirskript með eigin nafni og auðkenning, að sér hefði legið lífið á þeim, nema tvo vantaði, sem dauðir voru, og því hlaut alt málið að vera ókvitt. Orð og afsökun gilti engin[1]) í þessum stað. Alla undanskrifaða vitnisburði afhenti eg biskupi, og hann sendi svo þá og mitt forsvar til stiptamtmanns Levetzo(w), sem þá var enn í sínum óstillandi ofsa, því hann ætlaði nú að stíga eður dempa alla niður í landinu með straungustu yfirdrottnan, en þar varð minna úr, sem betur fór. Af 6. og 10. Octobris þar eptir, ɔ: 1785, kemur frá stiptamtmanni og biskup Hannesi til mín sú þeirra ályktan, að af ásigkomulagi og kringumstæðum minnar meðhöndlunar með peningana, samt minnar fátæktar vegna, sé eg álitinn fyrir yfirsjónina að láta úti 5 rdr. til fátækra presta, og biðja opinber-

1) eingva, hdr.

lega fyrirgefningar fyrir synódalsréttinum vorið eptir. Átti eg þetta að láta úti innan 6 vikna frá því, eg fékk að sjá það afsagt, sem þó beið af minni álfu, því eg var að bylta því fyrir mér, hvað eg afráða skyldi. Sá þó að múlktin var sára lítil á móti kostnaði þeim, sem hlotið hefði að gera, að hrinda þessu af mér. Vildi því heldur saklaus líða og ofsóttur verða. Þyngst þótti mér að verða að biðja fyrirgefningar á soddan miskunnar- og kærleiksverki, sem eg gerði, hvar um eg skrifaði biskupi til, en hann svaraði með einu bréfi af 12. Junii 1786, að hann þyrði ei annað en eg gerði það, með víðara. Svo fór eg til þings um sumarið, lagði út greinda 5 rd. og lét biskup ráða um fyrirgefningarbónina. Og þá hann hafði skrifað hana, sagði hann: »Hér sannast, að margur geldur góðviljans«, er allir samsintu, er í réttinum sátu. — Einginn lagði á mig óvirðing hér fyrir, nema öfundarmenn mínir tóku sér hér af stundargladværð. Var það bót í máli, hvar nokkrar slæður komu frá þeim til mín í orði eður verki, setti lögmaður sig til að koma í veg fyrir sérhvað, er mér mátti mein að verða, varaði mig við því, sem honum sýndist mér hætt, gaf mér forskriptir til eins og annars, er eg hlaut að láta fyrir æðri menn koma, þó fátt sjáist hér. Einu dæmi smeygi eg hér inn, sem sýnir náttúrufar hans og biskupa minna. Áminst haust í Skálholti fæ eg hjá biskupi Hannesi 6 rd. mér til lífsbjargar af inngefnum kössum. Eg segi: »Minn herra, lítið forslær þetta í þá stóru þörf, sem eg hefi að haldast þar við prestskapinn. Ætla eg mér nú betra og náðugra að gefa hann frá mér og gera mig að bónda, eins og aðrir gera nú, hvar í eg vil þó þiggja yðar ráð«. Hann svarar: »Gerið hvort heldur þér viljið, en gefið mér það skriflegt«. Mig tóku þau hissugheit af þjáningum þeim, er leið, að eg ætlaði að segja af mér kallið. Fer til lögmanns, bið hann um pappír, blek og penna þar til. Hann svarar: »Þar til ljæ eg þér ekkert. Eg sé, að þér er á milli vita. Farðu til biskups Finns teingdaföður míns og prófa, hvað hann ráðleggur þér«. Eg geri

svo og segi honum, hvað eg sé að brjóta í þanka mínum. Hann segir mér: »Sitjið nú fyrst«, og spyr mig, hvað marga gripi eg hafi, hversu eg hafi heyjað, og svo að fleiri aðdráttum. Spyr mig síðan, hvort eg treysti mér ei til að komast nú af með þessu tillagi til vorsins. Eg svara það kunni verða. Hann segir: »Trúir þú ei, að guð sé almáttugur að forsorga þig framvegis?« Hverju eg játa. Hann segir: »Fyrst þú þessu trúir, þá er það ráð mitt, að þú aungvan vegginn gefir frá þér kallið, því guð gefur ráð með tíma«, með fleiri fortölum, sem hann hefir þar um. Lætur sækja mér brennivíns hýrgun, svo eg verð glaður og aldeilis á það fallinn að blífa kjur[1]), og þakka eg honum heilræði þessi. Kem svo aptur til lögmanns og tjái honum nú glaðvær, hverninn farið hafði. Hann segir þá: »Þess átti eg von. Nú sér þú mismun þeirra, og fór nú betur að (eg) aptraði þér að rasa þanninn fyrir ráð fram«. Var eg þá hjá honum viku tíma, og vildi (hann) ekkert þar fyrir þiggja, heldur gaf mér ýmislegt að skilnaði. Svo fór eg heim hingað aptur.

Var (eg) nú mest hugsandi, hvert an(d)svar eg mundi fá upp á konbónarbréf mitt. Og svo varð þankinn sterkur og vonin til minnar gömlu vinkonu, að mér varð sá þanki opt til afþreyingar í mínum a(n)dvökum og einstæðingsskap. Þá á veturinn leið, fékk eg tvö bréf frá madame Helgu minni með kærleiksfullu ávarpi. Segist (hún) með sínum ektamanni hafa fært mín bónorð í tal við stúlkuna, hverju hún sé ei fjarlæg, sérdeilis ef eg feingi prestakall nokkuð nær; hún vilji láta mér hana eptir, jafnvel sér í baga. Telur upp margar hennar dygðir, og segir, af öllum, sem hún til þekki, útsjái hún mér aungva hentugri. Segir þá þar hjá, að hún ætli að gefa mér enn útþrykkilegra an(d)svar þar upp á, áður en á vorið líði, eptir hverju eg kunni að haga mínu ferðalagi. Hér við gladdist eg meira en frá vilji segja, og skrifaði báðum þeim til stórt þakklætisbréf, og stúlkunni til annað, í hverju

---

1) Svo = kyr.

eg ítrekaði það, sem skrifað hafði og umbeðið húsmóður hennar. Fór eg svo á Góunni að visitera austurpartinn, keypti mér þar nú 27 kindur, fyrsta gang eptir eldinn. Var eg búinn að öllum mínum prófastsverkum fyrir páska, því eg ætlaði nú vestur að Saurbæ til vina minna um sumarmálin, og sækja til þeirra stóra lukku. Þá eg var hér til reisuferðugur kom bréf frá minni fulltrúu vinkonu madame Helgu, í einum pósti solátandi:

»Hvað viðvíkur loforði mínu eptir því fyrra bréfi upp á málaeptirleitan yðar við jómfrú Kristínu, þá tekur hún nú hreint af með það, því hún þykist vera orðin vís þeirra hluta, sem henni falla ekki. Og ei get eg stúlkunni láð, þó hún þetta afráði, því þungt mundi mér falla þau kjör að þola vegna sira Björns míns, sem eg heyri þér hafið nú orðið að undirgangast, hversu stór nauðsyn sem yður hefir þar til dregið, og mundi (eg) ei hafa ráðlagt barni mínu að binda sig þvílíkum kjörum, og hverninn skyldi eg þá gera það þeirri stúlku, sem mér trúir eins og móður og forþénað hefir með sinni dyggri þjónustu elsku mína og virðing. Þó þetta sláist af, þá, eptir því, sem þokki yðar meðal fólks var þann tíð, eg til yðar þekti, munu færri fá en vilja það hlutskipti, sem jómfrú Kristín nú hafnar etc.

Saurbæ d. 17. Martii 1786.
Helga Brynjólfsdóttir«.

Þar með mátti eg nauðugur viljugur gefa frá mér þessa ferð og fyrirætlan, þar soddan vinir brugðust mér, og ætlaði ei framar þar til að hugsa.

Nú þá kom að alþingistímanum, fór eg fyrst upp í Skálholt og komst þar í veizlur síra Guðmundar Þorgrímssonar og síra Gísla Einarssonar, því þeir giptust þá, og þar tóku allir vel á móti mér, þó eg þangað óboðinn og óforvarandis kæmi. Eg hitti enn lögmann. Spyr hann mig að, hvort eg sé búinn að gefa frá mér þanka til jómfrú Kristínar. Eg játa því, og segi, mér sé nauðugur einn kostur til þess. Hann svarar: »Eg hefi nýfundið sira Björn. Eg veit alt um

bréfin, sem milli ykkar hafa farið; sjá þau eptir bráðyrðum sínum, svo eg held þér gangi nú erindi, ef þú finnur þau síra Björn og madame Helgu sjálfur. Þau eru nú í Viðey, og bíða byrjar að flytja sig á duggu vestur að Setbergi í Eyrarsveit, því hann hefir feingið það kall fyrir afstoelsi síra Björns Halldórssonar mágs míns«. Eg fellst enn á þessi ráð, því neyð þreingdi eptir. Skrifaði hann nú með mér tillögubréf og síra Guðmundur til bróður síns, sem eg með fer. Fór eg nú fyrst að Þingvöllum að afgera mínar sakir fyrir synodalsréttinum, hvar um áður er talað, og svo þaðan suður í Viðey. Hitti þau þar að óskum, og segist vera kominn þar til guðs og þeirra ráða í áður sögðu efni, ef þau ráðleggi mér að fara vestur og þau vilji styrkja mig til þess, eg fái stúlkuna og þau þeinki, hún muni taka mér, þá ætli eg að halda ferð leingra áfram. En ef þau segi, eg skuli frá mér gefa og ei fara leingra, svo fari eg þeim ráðum fram. Eg gefi það aldeilis á þeirra vald. Nú telja þau, sérdeilis hann, beztu trú, að eg fari ei forgefins ferð. Ráðleggur hann mér, eg skuli með mér hafa einn lausan hest undir fatnað hennar. En hún segir, eg hljóti aptur biskup að finna og taka hjá honum skriflegt, að eg sé skilinn vel við peningamálið. Nú fer eg með glaðara sinni frá þeim, fékk Ásgrím son Mr. Páls á Gufunesi vestur með mér, því hann var kunnugur öllum vegum. Fór nú fyrst upp að Þingvöllum aptur eptir biskupsvitnisburðinum. Nær eg og þessi minn sveinn Asgrímur komum upp á Alþing, gerðist hann drukkinn og lausmáll, og víðfræ(g)ði þar erindi mitt vestur að Setbergi, er eg hafði þó beðið hann að láta vera hljótt. Var þar á þingi Einar Brynjólfsson, bróðir madame Helgu. Hann hafði siglt sem stúdent til Kaupenhafnar. Komst þar með sína lukkuspilun í lotteríið, tapaði þar við, og urðu náungar hans að leysa hann þaðan út með 18 hundruðum ríxdala, kom svo inn aptur, ónýtur til allra efna, er nokkur fremd og æra var að. Nær hann heyrir þar um erindi mitt vestur, fær hann strax lita- og sinnisskipti, sefur hvorki né neytir matar, ríður burt

með hasti og suður til systur sinnar. Sá eg alt síðar, hvað undir þessu hans fasi og flýtir bjó, að hann ætlaði sér þessa sömu jómfrú. Einn gamlan kunningja hitti eg á þingi, er sagði mér mundi hollast vera að hraða svo ferð minni, að eg hitti stúlkuna sjálfur áður en aðrir; og þó ei væri hjá mér grunsemd um ótrygð hjá soddan mæta vinum mínum, tók eg þó eptir heilræðum þessum og hraðaði ferð minni sem eg kunni. En gat þó ei náð því takmarki, því eg varð tvo daga regnteptur á þeirri ferð. Að öðru varð mér ei hindran.

## KAP. XLIV.

Frá Þingvöllum fór eg að Lundi. Þar var fyrir prestur, er heitir síra Snæbjörn. Var eg hjónum þeim áður kunnugur, þá hann var prestur í Seltjarnarnesþingum. Þar teptist eg annan daginn. Ei lét eg þau vita af erindi mínu vestur, svo sem það var. Bar þar mart á góma, sem opt skeður, þá kunnugir finnast. Magdalena hét dóttir þeirra hjóna, sem þénti mér til sængur. Eg spyr þau að, hvað til þess komi, að svo væn jómfrú sé þanninn ógipt. Eg heyri þó að meðþénari hans síra Markús Sigurðsson sé ókvongaður. Þau svara: »Honum viljum við ei vora dóttur gefa. Hann er öfuglyndur og einginn búskapar maður«, með öðru fleira, er að honum fundu, hvar af eg sá, að hann var í aungri gunst á þeim bæ, en sá þó ei, hvað sannast var í því. Þaðan fór eg að Hítardal. Prófastur síra Halldór tók mikið vel móti mér. Hann vissi af erindi mínu síðan úr Skálholti, því síra Guðmundur giptist Sigríði dóttir hans, og segir enn framar: »Ef þér geingur ei erindið, þá kom til mín aptur; skal eg til sjá þú fáir jómfrú Guðríði Sigvaldadóttur í Skálholti, frændstúlku mína«, og vissi eg svo mikið, að það var ekkert skrum, hvar fyrir eg þakkaði. Þá eg fór til baka, var hann ei heima, enda fór eg ei þessu fram. Þaðan fór eg að Miklaholti. Teptist þar annan daginn. Tóku þau góðu hjón síra Vigfús Jónsson og madame Guðrún, systir

lögmanns M(agnúsar) Ólafssonar, mikið vel móti mér. Var hann lærður maður, en hún góður læknir, og þótti þeim báðum gaman að tala við mig. Þaðan komst eg að Setbergi seint á laugardegi. Þá eg reið í hlaðið lagði dugga sú inn, sem prófastur síra Björn Þorgrímsson og madame Helga kærasta hans (komu með). Jómfrú Kristín var ei heima, heldur í seli með kvikfénaðinn, á þeim bæ, sem heitir á Grund, nálægt við kaupstaðinn, svo ei gat náð fundi hennar. Prófastur síra Björn Haldórsson og madame Rannveig Ólafsdóttir, systir lögmanns M(agnúsar), tóku í allan máta höfðinglega á móti mér til hýsingar og alls góðs viðgernings. Eg, sem aðrir, gekk á móti þeim, er þau komu af skipfjöl, og sagði þau velkomin. Finn nú Helgu mína að tali og ráði, hvort nú skuli finna stúlkuna eður ei. En hún segir hún komi heim að morni, og þá sé nógur tími að tala við hana, og lét eg mér það enn vel lynda. Á sunnudaginn vísar madame Helga mér inn í svefnherbergi sitt, að eg sé þar út af. Nú kemur jómfrú Kristín heim. Þær eru á langri málstefnu. Loksins kemur madame Helga til min og segir: »Þú fær ekkert tal af henni fyrr en eptir embætti, og ei vill hún greiðuglega þínum tilmælum taka«. Leiddist mér þá að bíða þar í þessu einhýsi og fer út á hlað. Hitti eg þar tvo kunningja mína, sem áður hafði viðkynzt á Alþingi. Þótti þar hverjum fyrir sig annan gaman að spyrja að því og því. Þangað kom höfuðfjöldi manns, sem geingu sniðhalt í hópum að sjá mig og skoða, segjandi hver við annan: »Sko, sko, hann þarna, austan úr eldinum, hversu hann er vænn og feitur. Eitthvað er þar gott. Ósköp hefir hann útstaðið. Hann er þó frískur. Hvað mun hann vilja hingað?« Þetta hvískur, gægjur og bendingar lét eg sem eg sæi ei né heyrði, en hafði þó hálfgaman að, enda skoðaði eg og einninn þann mannsæg, er þar var þá til kirkju kominn, því veður var blítt, en ei var fyrr tekið til messu en komið var af miðmunda, vegna sacramentisfólks. Mun þar þá hafa verið við kirkju hér um 300 manns, því í sókninni var að sögn 600,

og sögðu þeir, er eg átti þar tal við, að þá mundi rúmur helmingurinn við vera. Síra Björn Þorgrímsson stóð fyrir altari, en hinn prédikaði og kvaddi undir eins söfnuðinn. Sú ræða var ypparleg og gegnumþrengjandi. — Þangað var kominn kaupmaður með kærustu sinni frá Vatneyri að vestan lystiferð til hins eldra prófasts, og varð að hafa mikla fyrirgaungu fyrir því ráði. Hollenzkir og Flandrar voru og þar til að grafa einn sinn landa. Mátti þar sjá nýja siði. Að afstaðinni embættisgerðinni fer eg inn í áminzt svefnkamers, og bíð þar. Kemur nú madame Helga og jómfrú Kristín með henni. Hún setur hana upp í rúm sitt, en sezt sjálf öðrumegin í húsinu. Við heilsunst vingjarnlega, og þakka eg guði fyrir, að hann hefði nú látið á mér fram koma eitt loforð sitt, að eg skyldi ei fyr deyja en eg sæi hana (því enn meinti eg, hún væri sú sama, er hann hafði bent mér til). Og þá eg hafði ítrekað erindi mitt, svarar stúlkan: »Eg get með aungvu móti yðar tilmælum tekið, því guð vill ei hneigja mitt hjarta til þess, og bið eg yður að hafa mig afsakaða«. Eg segi það kunni lagast, því allar stundir og allra hjörtu séu í drottins hendi, og sé mér enn í hug að bíða enn nokkuð eptir drottins hjálpræði. Þær halda áfram með það sama, og loksins segir madame Helga: »Ef þú hefðir tekið guð í ráð með þér, þá hefði þetta haft framgang. En þetta eru einasta ráð og fyndingar hans Magnúsar lögmanns vinar þíns; sér þó ei á því vinskap hans, að hann sótti ei fyrir þig um Saurbæjarþingin. Er það nú ráð mitt, þú nefnir þetta ei framar, og alir aungvan þungan þanka til hennar, þó hún neiti þér«. Eg lofa því síðara, en ei hinu. Tekur mér nú að hitna í brjósti, því framar sem mig smýgur grunsemi, hér sé ei alt trútt orðið, og höfðum við þétt meiningarorð á báðar síður. Og þá svo hafði geingið langa stund, fór madaman burt, en við jómfrú Kristín urðum eptir, og verður hún þá alt viðkunnanlegri í tali. Sýp eg þá af brennivínsglasi, er eg hafði þangað til geymt frá Gufunesi, og býð henni með mér, er hún þiggur; tekur annað upp hjá

sér og lætur á mitt aptur, og segir mér fljótt að tæma það eptir var. Bæði sá eg, hún hafði alt þetta brennivín sjálf og það, að hún vildi ei láta aðra njósna þetta. Fer eg nú fram hægt erindi mínu, því eg sá, hún var orðin lítið kend af víninu, og svo skiljum við tal vort. Sá hún hjá mér eitt kvæði í öðrum bréfum mínum, er þar lágu á borðinu, er eg ort hafði hér um eldinn, sem hún girntist að eiga, og eg gaf henni.

Ásgrímur meðreiðardreingur minn fór nú inn í Helgafellssveit til erinda sinna, og varð eg að bíða hans til miðvikudags. Vissi hann af erindisleysi mínu, áður en hann fór þangað. Um kvöldið fylgdi jómfrú Kristín mér til rúms. Eptir bón minni tók hún þá af mér nokkurn fatnað minn til að þvo hann og bæta, eptir sem skemst hafði á þeirri laungu ferð. Gaf eg henni þá, og hlaut þá að lauma að henni, tveggjabræðradal, því madaman sat yfir okkur. Á mánudaginn fór eg í kaupstað, tók þar út hestajárn og annað, sem þurfti til ferðarinnar. Fór eg með það í selið, þar hún var, og fann hana enn að tali, er eg fékk þó ei næði til, því síra Björn kom þangað með ýms erindi til hennar. Sagðist (hún) mundi heim koma á þriðjudaginn, og skyldi hún þá koma með varningspausa minn, hvað hún og gerði, og hafði þá látið í hann tvo væna og nýja bekkjaklúta, er hún skeinkti mér. Á mánudaginn, þá eg kem heim aptur, býður madama Helga mér til máltíðar hjá sér í kamers sitt. Nær við erum sezt, þá kem eg enn í tal erindi mínu. Verður hún mér nú í tali mjög mótfallin, og meðal annars segir hún: »Þú ert nógu upplýstur. Eg vorkenni þér ekkert að hugga þig sjálfur«. Eg svara: »Eg sé, að þú ert enn ei komin í þann ofn og skóla, sem eg hefi í komizt, og víst pressa þessi orð af mér tár, sem nú verða að falla hér niður í þetta hús. Guð veit það er þó ekkert góðverk að hryggja mig«. Hún svarar: »Þú ert orðinn breyzkari en eg átti von á«. Meðal annars sagði eg: »Eg átti von á öðru frá yður, og að þið munduð muna, þá eg stóð af rétti mínum um Saur-

bæjarþingin«. Hún svaraði: »Það þökkum við guðs forsjón, en ekki þér. Hver eyðir þar nóttum, sem guð vill«. Lítið varð af máltíð, svo við skiljum í þessum styttingi. Þó bið eg hana láta mig af vita, þá jómfrú Kristín komi heim á morgun, hverju hún lofar. Nær síra Björn kom heim úr kaupstað og skipi um daginn, — því hann var ei heima þá við sátum til borðs, — þá finn eg hann í einmælum, minni hann á loforð sín og ráð og bið hann nú að framfylgja mínu einkamáli. Hann svarar: »Þú hefir mig afsakaðan; þú ert búinn að heyra og sjá, hverninn það fer. Eg hlýt að vera neutral. Eg vil, mér sé um ekkert kent, en ekkert skal eg vera á móti þér«. Slitum við svo það tal. Eg fór svo til eldri hjónanna, síra Björns og Rannveigar, og bað þau um fylgi hér til, hvað þau og gerðu, þó til einskis kæmi, því þau sögðu síðar, þau skyldu ei, hverninn þessu væri háttað, að aðrir legðu lítið til um það efni. Á þriðjudaginn svaf eg fram eptir með ró, því eg vonaði, eg mundi þá vakinn verða, er stúlkan kæmi. En það sló feil, svo þá eg kom á fætur, var hún að búa sig burt aptur með öðru selfólki. Fundust við þó að tali, og var það hvorki til né frá, og þar hún mætti ei langt tal við mig hafa vegna annara anna, lofaði hún að fá sér hest að morni og finna mig heim aptur. Lét eg mér þetta enn nægja, og hélt mér til eldri hjónanna, sem mér sköffuðu mat og rúm og sérhvað, er með þurfti, í yfirfljótanlegan máta, bæði sérdeilis einlæg og viðræðugóð, að ei hafði fyrr á æfi minni hitt fyrir betri manneskjur, sem alt höfðu til að bera, sem einn höfðingja má prýða. Eg tók þeim og fleirum þar blóð. Að skilnaði gaf hann mér 2 danskar spesíur, riðið vasaglas með brennivíni, brauð, kjöt, ost og smjör, sem með þurfti. Þau kendu sárlega í brjósti um mig. Nú kemur miðvikudagur. Heyri eg, að hestur sé heima bundinn í selinu, og vonaði hún mundi koma, en það brást; hesturinn slapp eður honum var slept. Sagði síra Björn mér, að svo mundi hún rulluna spila, því hann sagði hana falska, þá það vildi í frammi hafa.

Kvað það hafa nú vantað, að lögmaður hefði ei verið með mér, og skrifaði honum til soleiðis með mér til baka. Við móðir[1]) hans, madame Ragnhildi sálugu, átti eg tal með ráði hans, og tók hún hreinlega og vel mínu tali. Hélt hún, stúlkunni væri ei fjarlægt að taka mér, ef vel væri að stutt, en þá væri alt í umróti og flugi, sem og satt var. Hún sálaðist um haustið. Eg kvaddi svo alt fyrirfólk í bænum, fylgdu mér allir til hests, nema madame Helga mín. Með hverju hugarfari eg fór nú þaðan, má nærri geta, því nú sá eg, hvað vinir og höfðingjar eru fallvaltir og hverninn beztu góðverk eru launuð. Reið eg nú fram í selið og finn jómfrúna. Hún færir líkindi til, að hesturinn hafi óvarlega sloppið, gefur mér enn í 3. sinni brennivínshýrgun og talaði enn alt skikkanlega við mig. Meðal annars spyr hún mig að, hver mig hafi á eggjað nú svo langt vestur. Eg segi henni, það hafi gert húsbændur hennar og vinir mínir. En hún spyr: »Hverjar eru nú tillögur þeirra?« Eg segi, að þær séu aungvar, þar hún sé ei viljug. Hún svarar. »Hver einn verður að hugsa um sjálfan sig«. Eg tók þetta einfaldlega, en á bak eptir sá eg, að frekara bjó hér undir. Kvöddunst við svo, og lofuðum hvort skyldi öðru til skrifa síðar, þá ferð félli, og þar með hélt eg til baka, eins í nauðum og þá eg þangað fór, sem guð gerði þó alt bærilegt.

## KAP. XLV.

Þá eg fór nú til baka aptur, skilaði Ásgrímur frá gamalli vinkonu minni madame Guðríði Haldórsdóttur, konu prófasts síra Sigurðar Stephánssonar á Helgafelli, hverjum hann hafði sagt af erindisleysi mínu, að eg skyldi til sín koma og af tveimur kjósa þá, eg vildi. En hvorki gat eg því við komið, enda var hugur minn ei aldeilis frá hverfur, þar eg enn var, af einfeldninni, því ætlaði ei öðrum ilt, sem eg hafði gott gert. Eg fann á þeirri leið frænda minn síra Kristján[2]) Jóhannsson í Stafholti, og fékk mér

1) Svo. 2) Kristin, hdr.

hestakaup. Þá eg hafði sagt honum alt af ferðum mínum, svaraði hann: »Fals og undirferli hefir verið við þig brúkað, og var það óhamingja þín, að ei náðir stúlkunni fyrst á tal. Einar Brynjólfsson ætlar sér stúlkuna, og þar upp á hefir hann svarið í minni áheyrn, og madame Helga systir hans mun þar allan hug á leggja, því hún veit hvað(a) böggull það er að sitja undir honum ónýtum«, með enn fleiri orðum og kringumstæðum, sem hér að lúta. Vakna eg nú sem fyrst af svefni.

Svo tók eg mér náttstað hjá madame Þuríði Ásmundsdóttur, þá á Bæ í Borgarfirði búandi. Hún hafði við mig önnur hestaskipti, og gerði mér alt til góða, er hún megnaði. Meðal annars frétti eg þar, að tal á Lundi um síra Markús væri meira af hatri en sannindum. Honum væri þar víst ofaukið, er hann sæi, og vildi því þaðan í burtu komast til einhvers prestakalls.

Svo komst eg í Skálholt, fann þar enn lögmann, sem var nú að flytja sig að Meðalfelli, afhenti honum bréfið og tjáði honum alt af ferðum mínum, og þykir honum alt hafa sárilla og ómannlega[1]) tiltekizt, í þeirri viðgerð við mig. En þar honum var gefin góð von, ef hann aptur tilkæmi, þá segir hann mér, eg skuli gefa sér skriflegan myndugleika í hendur, og skrifa þeim enn til, því að forfallalausu vilji hann þangað vera kominn um Michelsmessuleytið, og ef alt vont sé ei í vegi, ætli hann að koma henni með sér til sín, og þangað verði eg að vitja hennar, eptir sem orð og njósnir fari þá á milli okkar.

Svo fór eg heim til mín á níu dögum þaðan vestan hingað. Fór eg ei fyrir framan, heldur á Fjallabaki ofan í Skaptártungu. Um þá daga sálaðist síra Sigurður á Heiði, mágur minn. Fór eg þangað að standa yfir greptri hans. Mætti eg þar tvöföldu angri, ofan á mitt það fyrra, að sjá þar barn mitt forstöðulaust, og geta ei þann straum af henni staðið, sem hún með þurfti, annað, að sýslumaður Lýður

---

1) Hér er »hafa« ofaukið í hdr.

var þegar farinn að láta af sér skilja, að hann ætlaði sér hana fyrir ektakvinnu etc. Ætlaði strax að sýsla þar í búi, setja þangað dóttur sína. En guð hagaði því so til, að Katrín dóttir mín fékk stóra þrá að fara með mér, sem varð að því happi, að hún þurfti ei þangað að fara. Eg skrifaði biskupi strax til um prestsins fráfall og bað hann haga svo til, að einhver ókvongaður fengi kallið, ef ske mætti mér og barni mínu yrði það til liðs og bjargar. En hann þar þvert á móti gaf þá beztu erklæring síra Illuga frænda sínum og mági Lýðs, sem og so hafði áfýst hann að sækja um Reyniskallið, þó ei vildi láta á bera, að henni yrði nauðugur einn kostur að fara til sín. Aptur gaf biskup síra Markúsi daufa erklæring, og þó framar til að fá annað en þetta kall. En guð hagaði því so til, að bæði síra Illugi og herra Lýður geingu eptir síra Markúsi að hafa skipti á því og Dalsþingum, er hann fékk. Þá eg fór austur til mín úr begravelsi síra Sigurðar og síra Jón mágur minn á Lyngum með mér, og erum í ráðslagi um ekkjuna, hver[1]) til hennar kynni að fást, kemst síra Markús í tal. Hann segist hann gagnþekkja fyrir góðan og stöðuglyndan mann, en eg vissi hann var ógiptur (og) að honum var ofaukið og vildi því burtu komast til annars prestakalls. Varð það so fyrir okkur afráðið, hann skrifaði honum til, en eg lögmanni, og bið hann flýta bréfi því til hans. Þar með fylgja og hin bréfin. Mr. Páli á Gufunesi skrifa eg og til, og bið hann koma bréfum til mín frá lögmanni, ef til hans komi, og láta mig frétta af vesturferð hans. So leið fram yfir Michaelsmessu, að eg fékk eingar njósnir að vestan. Fór eg nú að heiman so útbúinn sem eg kynni að komast vestur í Kjós; en ef af því brigði, tók eg fyrir mig að kaupa fé, kýr eða hesta, þar eg átti von á peningum til að kaupa þá gripi. En það[2]) varð þó að aungvu, því allir náungar, vinir og vandamenn undir Eyjafjöllum og í Dalshverfi voru

1) hvorn, hdr.
2) þar, hdr.

mér nú so frásnúnir, að eg fékk ei keypt hjá þeim eitt lamb, auk heldur meir, en fann þó aungvan né sá nokkurn bæ, sem eg hafði ei áður eitthvert kærleiksverk á gert. Jón sýslumaður á Móeiðarhvoli, nær hann sá þar til mín á förnum vegi, reið með mestu ákefð so frá réttum vegi, að eg skyldi ei geta hitt sig eða náð tali af sér. Eg heyrði, síra Illugi væri búinn að fá Reynisþingin. Lýður sótti sig nú sem mest til dóttur minnar. Eg frétti vicelögmaður hefði aldrei vestur farið og við værum, framar en segi nú, rægðir saman, að hann væri búinn að leggja niður alla rækt við mig, sem eg var þó tregastur að trúa.

So sem nú vildi alt móti blása með andvökum mínum og hugarangri, yfirféll mig sá veikleiki, er kallast *mictus cruentus*, so storkið, lifrað blóð gekk af mér til lífs, í meiri stærð en trúanlegt er eður eg kann frá segja, með illa þolandi pínu og kvöl. Lá eg þar af í 3 daga út á Breiðabólstað, og var þar í allra bezta máta við mig gert. Komst eg so með naumindum heim. Hélzt það so við fram á haust og árið eptir, að í hvert sinn eg út reið eður fór til kirkju, var blóðkast víst að kvöldi, hvar af marka mátti, að mínar stóru reiðar höfðu mest linað mig. Eg fór að leita mér ráða og læknismeðala hjá landsphysico Jóni Sveinssyni, sem áður hafði lofað mér sinni sérlegri vináttu og trúfesti. En hann einn sveik mig í trygðum, út bar mín veikindi til óhróðurs, en kastaði hug og hendi að hinu, so alt varð til verra en einkis. Þó fór[1]) guðs speki so vísdómslega með mig, að embættisgjörðir féllu þó aungvar úr um tiltekinn tíma, því þá var ætíð sem eg feingi nýja krapta og heilsu, þá mér bar mínum guði opinberlega að þjóna. Háleitlega veri hann lofaður! Með þessu kvalræði féll eg í einar þær allra þyngstu freistingar að stytta sjálfur aldur minn. Bjó eg nokkra stund yfir þeim heilabrotum; innbyrlingarnar urðu svo sterkar, að það fanst ei alleinasta leyfilegt, heldur gott meðal. Féll eg tvisvar

---

1) so, hdr., hér; ofaukið.

sérdeilis í þessi ólukku fyrirtæki. Kvísl úr ánni rann hér suður með túninu, í hverri voru tveir hylir; heitir sá syðri Búrhylur; ætlaði eg að kasta mér í þá, og nær eg var að þeim syðra kominn í fullum ásetningi til þess, var sem mér væri kipt til baka og til mín sagt: »Þú hefur nógan tíma til þessa«, og þar með sneri eg til baka og lofaði guð. Liðu enn nokkrir tímar, að sama kom enn í hug, og tók eg nú fyrir mig kvöldrökkurs tíð, þá dimt var orðið, og ætlaði nú að fleygja mér í efra hylinn, sem hér er út af bænum. Verður mér geingið yfir tóptarmynd þá, er sagt er hafi verið goðahof til forna. Kemur mér þá í hug, að þar hafi djöfullinn verið dýrkaður, og þar hafi hann an(d)svar gefið sínum tilbiðjendum. Nú skuli eg reyna, hvort guð vilji mér ei, og so í þessu plázi, andsvara mér í minni neyð, og kasta mér þá flötum niður. Undir eins og eg það geri, er sem að til mín sé sagt:

Öll mín fyrirheit stöðug standa,
styrki eg nú og jafnan þig,
í allri þinni eymd og vanda
ákalla skaltu og treysta á mig,

og þar með hætti eg því átormi, og lofaði guð með fögrum tárum fyrir það frelsi og (þá) huggun, sem hann nú veitti mér. Einginn komst að þessu í mínu heimili fyrr en eg birti það sjálfur Helgu dóttur minni, og bað hana framvegis hafa gætur á mér, ef hún sæi stór umskipti á fasi og háttsemi minni. En það var henni so nær ómögulegt, þar eg var optast í einrúmi nótt og dag, í rúmlandi þaunkum á næturnar, að eg fór þreyttari á fætur optsinnis en eg háttaði, og var so afsinna fram eptir degi til allra hluta nálega að segja. Eg gat varla beðið mér guð til hjálpar, nema eg færi til þess í einrúm langt frá mönnum og skepnum. Fór eg og ógjarnan þaðan jafnnær, heldur með einhverja nýja huggun til baka. Það skeði og, að mig hér um á mánaðar fresti dreymdi

1) þar, hdr.

til Kristínar minnar, sem mér gerði stóra afþreying. En það átti aðra þýðing en eg þá skildi, því það áhrærði systur hennar.

Um jólin fékk eg þó nýja hugsvölun, að síra Markús væri að Heiði kominn, og að saman mundi draga með honum og dóttur minni. Skrifaði eg honum til og bað hann að finna mig; brúkaði eg þar þó til yfirvarp með peninga, er fátækum voru hér sendir að vestan með honum.

## KAP. XLVI.

*Framar segi eg frá einum tilburði, er skeði hjá* mér á greindum jólum 1786. Einn (var sá) minn meðhjálpari, sem heitir Ólafur Ólafsson á Hrauni, hver *með konu sinni hafði mér og minni sálugu* konu ætíð verið tryggur og trúfastur; varð so góður kunningsskapur milli barna hans og barna minna. Var dóttir hans Ingibjörg opt hjá mér á jólum sem í sjálfræðisferð og hér var vani milli vina fyrir þá, sem langt áttu til kirkju að sækja þær tíðir. Og nú féll so til, að hún varð hjá mér og svaf fram í dyralopti hjá dóttur minni; þar voru og vinnukonur mínar. Þriðja dags nótt í jólum gerði allra sterkasta norðanveður með frosti, er mig so inn tók að trekkvindi, sem lék um rúm mitt, að eg vaknaði við þá allra sterkustu brimköldu, að við sjálft lá, eg mundi öndina missa. Allir vakna við þessi flugköst. Bið eg þá Ingibjörgu að fara á fætur til fótalags hjá mér og *halda mér og fótum mínum niðri, að* eg fleygist ei úr rúminu, hvað hún og gerir, og hlaut að neyta þar til aflsmunar um stund. Þá mér fór að hitna af henni, *sefaðist þetta stóra kast, sem* eg hafði að bera; var eg þá svo móður með kulda-svita-útslætti sem eg kæmi af hlaupum eður sterku erfiði. Eg fékk af þessu þanka, hvort þessi kvöl og bót hennar ætti þar til að þéna, að eg skyldi renná optar huga til hennar. En þá eg var í þessum umbrotum, er sem til mín sé sagt:

Ekki þessa, heldur hina
til huggunar skal eg gefa þér;
þá skulu þrautir þínar lína,
þegar þú henni giptur er.

Þó varð eg tvílráður að trúa þessu, og því áður en við skildum, tala eg soleiðis við hana: »Ef so er að guð sendir mér ei þá hjálp að vestan, sem eg ætla til, bið eg þig að fara til mín og vera hér fyrir framan hjá mér, eptir sem þá tiltalast, því bágt mun eg eiga, þá dætur mínar fara frá mér, — og seg þetta föður þínum«.

Sagði eg aungvum frá þessu ráðabruggi mínu, nema dóttur minni og Pétri mínum á Hörgslandi, sem ætíð reyndist mér tryggur vin; fann eg þetta á þeim, eg mundi neyðar vegna verða þetta að afráða, ef aðrir kostir feingjust ei, því so yfirfallinn sem eg var orðinn, mátti eg ei leingur vera; var og mart gott við stúlkuna sjálfa. En hún og foreldrar hennar gerðu sér þar af langtum frekari þanka og orð en eg hafði látið á mér skilja, so hér fer nærri og fjærri að komast á kvis, hvað eg ætli fyrir mér.

Nú þá þorri byrjaðist, kemur síra Markús, sem leitaði eiginorðs til dóttur minnar. Varð það yfrið auðvelt, sem nærri má geta. Spyr hann mig um ráð mitt. Eg segi honum slíkt sem var og í huga bjó, nema eg fái systur hans því hugur minn sé ei enn þá frá henni horfinn. Hann telur sér hana so nær vísa, því hún hafi lofað að fylgja jafnan sínum ráðum, og lofar mér þar til sínu fylgi; skrifaði henni og þar eptir so snoturlega grundvallað bréf eins og eg bezt kjósa vildi, so nú sneri eg þangað enn þaunkum mínum. Nokkru þar eptir fékk eg bréf, frá lögmanni, er segir: »Hvorki þú, né nokkur af oss fær nú bréf frá því á Setbergi. Þó frétti eg sannferðulega, að síra Björn setur sig allan á móti því, að Einar verði þér hlutskarpari; er hann nú um stund kominn þaðan«. Í öðru bréfi, sem var þessu samstemmandi, var tilgetið, klerki mundi þó ei ganga til þess eintómis dygð til mín. Raun gaf þar um og

ljósast vitni, því þaðan í frá fékk eg eingan bréfseðil þaðan, né aðra vísbending.

Leið so á þennan minn mæðuvetur 1787, þar til um sumarmál, þá tók eg mig að heiman að skrifa upp og skipta sterbúinu á Heiði og visitera, hverju eg af kom með naumindum, því nú espaðist, framar en frá get sagt, mitt blóðrennsli og sú kvöl, þar með fylgdi. Lét eg þó á þeirri ferð tvisvar sinnum stinga mér æðar, alls síðar 17 sinnum; varð eg þá svo lasinn, að sex sinnum sunnan af hraunsbrúninni fyrir sunnan Hraun varð að taka mig af baki. Teptist eg þar hjá Ólafi mínum þrjár nætur til og frá. Sýndu þau góðu hjón og Ingibjörg alla aðhjúkrun, sem þau gátu, og nú fleygðist fljótt í almæli af kjaptakindum, að annað hefði búið undir mínum ferðum og veru þangað. Eg hafði þá, sem skaparinn vissi, framar lyst til dauða en nokk(ur)ra stundlegra hluta. En þetta var sannara, að Gísli Þorsteinsson á Geirlandi hafði þá beðið hennar í millertíð, og höfðu þau mig í ráði, hvort ei skyldi framar þann kost af taka en bíða eptir öðrum óvissum, sem afráðið var, og síðar varð framgeingt, so nú féll þetta skraf.

Hér eptir fór drottinn að leggja mér líkn með þraut og senda mér gleði með hrygð. Því fyrir hvítasunnu um vorið giptist Sigríður dóttir mín síra Markúsi, og héldu hér sitt brullaup hjá mér. Fór hann so vestur í Laundarreykjadal eptir búsefnum sínum, og var tilætlað, hann skyldi leingra halda, ef til þess þyrfti að taka, er þó ei þurfti.

Eptir hvítasunnuna giptist Katrín og Helga dætur mínar sínum ektamökum, sem undir eins tóku við móðurarfi þeirra, er furða mátti heita, eg gæti þá í stað útsvarað. Var eg þá svo heilsulasinn, er þær fóru frá mér, að ei treysti mér hið ringasta að fylgja þeim úr hlaði. Enn nú man eg þann dag, meðan eg lifi.

Jórunn dóttir mín, hverja eg tók aptur til mín að sunnan frá Gufunesi, hughreysti mig sem hún kunni. Gísli minn á Geirlandi og Ingibjörg komu og mér til stundarskemtunar, því þau gátu til, sem satt

var, mér mundi angursamt vera og langsamt þykja, þá eg skildi við börn mín; létti því þó af, því mig hughreysti, að þær voru allar í góðra höndum.

Liðu nú stundir fram í Júlíummánuð, að eg frétti ekkert af ferðum síra Markúsar, né hans útréttingum, fyrr en Pétur minn Sveinsson á Hörgslandi kemur heim úr ferðum. Hann vitjar um mig, færir mér til hressingar brennivínstár, og segist hafa fundið síra Markús á ferð, og með honum hafi verið systir hans, sem hjá honum hafi verið, og Margrét heiti; sé hún ungleg, en sér lítist þó allvel á hana. Bréf fæ eg og frá síra Jóni mági mínum í Meðallandi, áhrærandi það sama, og sér litist og vel á þá sömu. Sé eg nú hverninn komið er, og er í vandræðum með sjálfan mig; bíð nú einasta eptir einhverri vísbending frá síra Markúsi.

Einn morgun, í því eg vakna í rúmi mínu, er sem fyrir mér sé mælt vísa þessi:

Ætíð gæti eg að þér,
enn í dag svo vitja eg þín,
að þar fyrir skaltu þakka mér,
þar til að þín æfin dvín.

Eg vek Jórunni dóttir mína og segi henni frá þessu, og það, að án efa ætli guð eitthvað gott að láta við mig fram koma á þessum degi, er hún og samdóma verður. Þá við höfðum þetta úttalað, kemur bóndinn frá Rauðabergi, Stephán að nafni, með bréf frá síra Markúsi til mín. Hafði hann beðið þar til eg vaknaði. Nú kemur bréf frá jómfrú Kristínu til hans, í hverju hún hreint afsegir að taka mér, og finnur að bréfi hans í einum pósti. Hann segir mér, Margrét systir sín sé með sér komin, hún vilji fyrir sín orð til mín fara, ef eg vilji. Hér leita eg ráða til guðs og dóttur minnar, hvað afráða skuli. Í því ráðslagi verður sú ályktun, að samvizkufriður og rósamt[1]) geð sé fyrir öllu, og án þess muni eg ei aptur ná mínum trufluðu sönsum. Hún segir, sem satt var,

---

1) nósamt, hdr.

að hún var ein ófær að sjá um heimilið og þjóna mér svo heilsuveikum, nema eg feingi hana til, með fleiru. Eg sendi svo vinnudreing minn vestur að Heiði. Skrifa presti soleiðis til, mér liggi á stúlkunni, sem honum og öðrum sé vitanlegt, en eg vilji hana þó ekki, nema henni sjálfri sé það aldeilis í alla staði viljugt, en ei fyrir nokkur hans lokkunar eða aðþreingingarorð. Er það ei að orðleingja, að hún gefur sig viljuglega til þeirrar ferðar. Bað eg enn guð, að hann vildi við mig gera sem hann sæi mér fyrir beztu. En þó eg á marga vegu tilreyndi, vildu mér ei optar innfalla nokkur orð en þessi af Ps. 86ta: »Gerðu eitt teikn við mig mér til góðs, að þeir, sem hata mig, skammist sín, að þú so hjálpar mér og huggar mig, — af hverju eg merkti, að guð ætlaði þó að rétta mig við, og ei láta mig út af deyja í minni eymd. Það er og satt að segja, að eg hafði so nær efast um hans fyrirheit, ef hann hefði eigi rétt mig við aptur. En eg hafði þó á þreifað, að hann fer sem næst um alt. Hagaði hans guðdómlega forsjón því svo til, að þann 17. Julii leiddi eg hana inn í mín hús, rétt á sömu stundu og degi mánaðar, sem Setbergsráðið slepti mér út frá sér huggunarlausum að þeirra tilstofnan,

Um ferðir gat eg ei embættað í kirkjunni vegna hestaleysis, so eg embættaði þá fyrst þann 7da sunnudag post Trinitatem þar eptir. Fékk eg þá so sterk blóðköst, er ei tók úr nærfelt í 5 dægur, og hefði þá af mér lífið pressast, ef guð hefði mér ei þessa stúlku lagt til allrar uppþeinkjanlegrar aðhjúkrunar, sem hún hafði í viðleitni. Varð eg þá að láta hana lesa yfir mér og fyrir mig, því eg hafði eigi ráðdeild á því sjálfur. Og þar eptir, þar eg sá, að hún hafði alt það geðslag til að bera, sem eg í mínum veikindum með þurfti, gerði eg hana mér handgeingna. Og þá eg var búinn við hana að kynnast hér um mánaðartíma, og hún var ljúf að skilja ei við mig fyrr en dauðinn gerði endir á minni mæðu, — eg sá þá, að eg gat eigi launað henni góðsemd hennar og fyrirhöfn eptir verðugleikum, og að heim-

urinn mundi taka sér hneyksli af okkar einingarlegri samveru, þó hrein og saklaus væri fyrir guði, — réði eg það því af, að eg leitaði eiginorðs við hana, hverju hún vel tók, ef það væri guðs og bræðra sinna vilji, því hún væri búin að skoða sig um það, að eg hefði huggunar og líknar þörf, og gott verk mundi það vera að hjálpa upp á mig, sem so mörgum hefði komið til hjálpar. Skrifa eg nú síra Markúsi mági mínum til, bið hann um leyfið, en lýsi sjálfur, bið guð að hindra það, ef það sé ei hans vilji, annars, að hann gefi þar á framkvæmd. Átti síra Markús að taka lag að vestan og bjóða fólki upp á vissan dag, sem hann fyndi hentugastan, sem hann alt röggsamlega útrétti. Varð so okkar hjónabands inngaungudagur 30. Septembris, einn og hinn sami, er fyr meirr var, þá Guð gaf mér mína fyrri sælu konu[1]). Þanninn leikur guð við mannanna börn, so hér sannaðist:

Upphaf bæði og ending hér[2])
allra hörmunga minna
faðir himneskur fyrir sér
í forsjón m. s. etc.

Lofaður veri guð! Nú enti hann á mér öll sín [fyrirheiti, bendingar[3]), viðvaranir, innföll, og alt,

---

1) Í prestsþjónustubók Kirkjubæjarklausturs er skýrt svo frá giptingu síra Jóns og Margrétar:

»Þann 30. Septembris (1787), að undangeingnum 3 lýsingum voru í heilags hjónabands stétt af ehruverðugum prestinum síra Jóni Jónssyni opinberlega í kirkjunni á Kirkjubæjarklaustri saman vígðar þessar velæruverðugu persónur, mjögvellærður prófasturinn síra Jón Steingrímsson, ekkjumaður, og guð og dygðir elskandi höfðingsjómfrú jómfrú Margrét Sigurðardóttir. Hans svaramaður var presturinn síra Jón Jónsson á Mýrum, en hennar, bróðir hennar elskulegur presturinn síra Marcus Sigurðsson. Fjárskilmálar þeirra í milli á öllu lausafé sömdust og samþyktust eptir forordningunni af 17. Julii 1769, en tilskilið, að hvort behaldi sínni fasteign. Morgungáfa var til 40 ríxdala.

Til merkis eru hér nefndra hlutaðeigenda og tilkallaðra kaupvotta nöfn.

Jón Jónsson. Jón Jónsson. M. Sigurðsson.
Thorsteinn Eyjólfsson. Thorsteinn Steingrímsson«.

2) með, hdr.(!)

3) [fyrirheita, bendingar, hdr.(!)

hvað hér að laut, so að bæði eg og hún geingum úr öllum skugga um það að þetta var guðs ásett, forundrunarlegt ráð og vilji, að við skyldum í eina hjónasæng saman komast. Hafði guð og so bent henni þar til, að hún mundi hingað komast til mín í ókent pláss, og so fleirum, og meira að segja fyrir fimm árum. So birtir guð sína fyrirhyggju optsinnis elskendum sínum, að þeir skuli þess fastara halda sér við hann og fylgja hans ráði. Hefi eg nú þetta og so í fyrra sinni reynt og prófað, að það stendur ei í mannsins frívilja að giptast og giptast ei, að eiga þá hann vill og hina ei, er hann vill ei. Segi þeir hálærðu guðfræðis kennendur um það, hvað þeir vilja! Hlutföllum verði varpað í skaut, en þau falla sem drottinn vill. So var og um systur þessar. Eg hafði fullan vilja að fá þá fyrri mér til aðstoðar, og hafði þar í fylgi með mér eina þá beztu menn; mér og öllum sýndist það bezta ráðaneyti; þar fyrir hafði eg mesta kostnað og mæðu. En þessi síðari kom til mín án allrar mæðu og fyrirhafnar og var mér í allmörgu hentugri en hin, þá að beggja sinni var betur gætt. Þanninn gerir guð marga hluti betur og yfirgnæfanlegra en nokkur maður kann eður skynjar hann um að biðja. Nú með þessari giptingu fékk eg fyrir guðs náð og það meðal, hugarins rósemi og hvíld nótt og dag, so sætan og rólegan svefn, hvar með burtdrifust allir vondir þankar, freistingar og innbyrlingar; hér með hefi eg glaðvær geingið að öllu mínu verki og útréttingum; í mínum embættisverkum feingið sætara líf, lyst og gleði að lofa guð og dýrka, því nú kynni eg með réttum sönsum og yfirbevísingum um guðs orða og fyrirheita sannleika, krapt bænarinnar og verkan þolinmæðinnar að auglýsa, útmála og fráskýra, hversu sá a(l)vísi guð hagar öllum hlutum til hins bezta, álítur í náð eymd og einstæðingsskap sinna biðjanda og nauðborna, látandi hjálp og bænheyrsluna framkoma á hagkvæmustu tíð, að hver einn sjái, að hann er ei æfinlega reiður, heldur að hann gefur eptir hrygð gleði, og sýnir, að hann hefur lysting til lífsins. Nú þó mín

sömu innvortis náttúru fordjörfunarveikindi vari við, því þau leiða til eins, kunni eg þó ánægður að líða þau, og bíða eptir minni lausn frá þessu mæðusama lífi og hrekkjafulla heimi. Ó, að sú gleðistund kæmi sem fyrst!

## KAP. XLVII.

Þar eð tími, efni og tækifæri gáfust, læt eg hér eptir fylgja tvenna vitnisburði um mannskap þann, verk og aðburði, sem minn almáttugi guð veitti mér að framkvæma hér, að hans verði dýrð í öllu. Þeir hljóða sem eptir fylgir:

Hér með vitnum við undirskrifaðir sannferðuglega, að þann tíð prófasturinn síra Jón Steingrímsson var hér á Hellum í Dyrhólaþinglagi búsitjandi, upp tók hann og bygði upp á sinn eigin kostnað tvö býli í greindu þinglagi, sem í eyði höfðu verið síðan stórabólan gekk 1707, hver býli heita Garðakotshjáleiga og Rof, hver bygð og býli hafa síðan við haldizt. Sína þáverandi ábýlisjörð Hellur forbetraði hann í margan máta, sérdeilis að húsum og túnum, hver tún að austanverðu voru yfirfallin með skriður og grjóthrun úr fjallinu, er hann lét aka og burt bera, so þar varð gott tún, sem lítið eður ekkert var áður. Úr því burtdregna grjóti lét hann gera þvervarnargarð og so einn undir endilangri brekkunni til varnar grjóthruni og skriðum úr fjallinu, en sumt grjótið tók hann og bygði þar af við enda túnsins vænt fjárhús og hesthús, hvar af síðar og þessarar forbetrunar vegna var upp bygður einn bær, sem heitir Garðar, hver bygð hefur síðan við haldizt, — er við viljum með eiði staðfesta, ef það forlangast. Þessu til staðfestu eru vor undirskrifuð nöfn og hjáþrykkt signet.

Sólheimum í Skaptafellssýslu d. 22. Maj 1786.

Jón Jónsson,
hreppstjóri i Mýrdal (L. S.)
Jón Bjarnason
meðhjálpari og hreppstjóri Mýrdalssveitar (L. S.).

So sem við undirskrifaðir vitnuðum í fyrra sumar 1785 um vorn elskulega sóknarprest og prófast

síra Jón Steingrímsson, so vitnum við enn það sama, að fyrir nokkra þá peninga, er hann fékk hjá stiptamtmanninum herra Thodal keypti hann bát og tvítuga nót með þar til heyrandi vöðum; fór svo á bátnum með tveimur mönnum, er hann tók með sér þangað, á fjöru, er ei varð öðruvísi ákomizt, drap þar 54 smáseli, býtti þeim út og gaf þá bæði þeim, sem hann tók með sér og öðrum stórum nauðlíðandi í sveitinni, þá harðast var í fyrra vor og hér lá við bráðum dauða og uppflosnan af hungursneyðinni. Þar eptir lét hann fara með greinda selanót í einn veiðiós, hvar í henni náðust 30 stórselir og nokkuð fleiri smákópar, sem útskipt var að jafnaði milli þeirra, sem í veiðinni voru, og síðan hafði þess öll sveitin not, og so margir úr Meðallandi. Guð veit hvað(a) mannfall og vandræði hér hefðu orðið, hefði ei velnefndur prófasturinn útlagt sig og sitt, með þvíliku fylgi, að halda með guðs hjálp sem flestum við lífið. Aptur nú á þessu ári 1786 eptir fardaga fór hann þangað með sömu selanót í þann sama veiðiós og með honum nokkur sóknarbörn hans, sem ei lágu sjúkir í bólunni eður voru annað hindraðir, eptir því sem til hlýddi útbúnir til veiðarinnar að standa á stöðum í flæðarmáli og eptir því sem sjórinn að flæddi á land, án hverrar fyrirstöðu veiðin kunni ei að takast. Veiddist so fyrir hans framfylgi, sameinaða krapti og verkfæri tveggja annara, er hann tók í lið með sér, með hálfu sjávarfalli þann sama dag 73 stórseli(r), 120 smáseli(r), sem þessu Kirkjubæjarþinglagi, ásamt Leiðvallar þinglagsinnbyggjurum, kom til stórrar lífsbjargar í þeim matarskorti og gripaleysi, sem hér er, þar margir lafa hér við með 4 og 5 menn á einni kú. Þennan vorn vitnisburð staðfestum við með vorum höndum og signetum, og kann frekara með eiði staðfestast, ef forlangast.

Hörgslandi á Síðu d. 24. Junii 1786.

Oddur Bjarnason (L. S.)
meðhjálpari og hreppstjóri Síðusveitar.

Pétur Sveinsson (L. S.)
hospitalshaldari og hreppstjóri.

Ólafur Ólafsson (L. S.)
meðhjálpari.

Eptir bón og begiæring velæruverðugs prófastsins síra Jóns Steingrímssonar vorum við undirskrifaðir til staðar á Prestsbakka á Síðu til að yfirskoða þá bygging og forbetrun, sem hann hefur á þeirri prestsseturjörð gert síðan hann þangað kom árið 1778, eptir því sem vér vel vissum, að sú jörð var í mikla níðslu og langvarandi órækt komin, nær hann hingað flutti sinn búskap, hvað okkur er því augljósara sem tveir af okkur voru þá jarðarinnar úttektarmenn, og við viljum hvort eitt í sinni röð sýna sem eptirfylgir.

1° Fram á hlaðinu var eitt bænahús í 4um stafgólfum, óstæðilegt, var orðið sokkið og grafið ofan í hlaðið, að ei varð varið fyrir vatnsuppgangi á vetrardag. Það tók hann upp og hlóð að því nýja grjótveggi alt um kring; en þar hann tók það upp af hlaðinu, bygði hann aptur kálgarð, sem er 5 faðmar á tvo vegi en 10 á aðra tvo, sem hann hefur síðan ræktað og mikið gagn af haft.

2° Bæjardyrnar, sem áður voru 2 ál. á breidd, en 3 á hæð, og svo niðurgrafnar, að vatn gekk upp úr þeim á vetrar dag, tók hann ofan og bygði þanninn aptur, að þær bæjardyr eru nú á breidd 4¼ al., á hæð 6½ al., á leingd 8½ al. eður 3 stafgólf með 8 gildum stoðum, sillum áfellum, 3 lambböndum[1]) hvoru megin, mænistróðu, reisifjöl, slagþili og vindskífum, alt saman af nýjum trjávið. Umhverfis í veggina alt um kring hefur hann aðflutt útvalið og kantað grjót, því að áður var þar ekki nema lítil hellublöð með torfkökkum á milli í veggjum. Hann hefur og tillagt mest alla helluna á þessar bæjardyr, og gólfið lagt með stórum hellum, sem aftók vatnsuppganginn.

3° Fyrir austan bæjardyrnar, skálann og búrið var eldhúskofi, 3 stafgólf, með vagla og ásabyggingu, lítilfjörlegri hurð og dyrustöfum. Það er nú að nýju praktuglega uppbyggt, tillagður mikill trjáviður nýr, aukið við einu stafgólfi, grjót aðflutt í veggi og hella á þak; að framanverðu er nú slagþil og vindskífur, sem áður var ekkert; hurð á járnum með hespu og keing.

1) Svo.

4° Hann hefur bygt fyrir austan eldhúsið stóra skemmu í 4um stafgólfum, og þar til brúkað þá viði, sem notaðir urðu úr þeirri þriggja stafgólfa skemmu, sem var fyrir vestan bæjardyr. Alt grjót í veggina og helluþak á þetta hús hefur hann aðflutt; fyrir því er slagþil, vindskífur, hurð á járnum með skrá og lykli.

5° Þar fyrir austan hefur hann bygt af nýjum viðum skemmu í þremur stafgólfum, og mest alt grjót þar tilflutt; fyrir því er slagþil með vindskífum, hurð á járnum með hespu og keing. Það er nú brúkað fyrir smiðju; þar var og áður lítilfjörlegur smiðjukofi með auðvirðilegu bjórþili fyrir.

6° Þar fyrir austan hefur hann bygt skemmu í 3m stafgólfum, alla af nýjum viðum, með slagþili, vindskífum, hurð og lömum, með öðru tilheyrandi, flutt þar að alt grjót og helluþak. Áður var þar moldarkofi í 2ur stafgólfum og hurðarflaki.

7° Baðstofuna með húsinu hefur hann mikið prýtt og forbetrað. Item hefur hann lagfært skálann og búrið. En að flytja fjósið á hagkvæmari stað og byggja hjá því heyhlöðu, sem ei gerist án stórs kostnaðar, lætur hann bíða fyrst um sinn, vissra orsaka vegna. Áður umgetin hús hefur hann sett í rétta röð, so það er einlægur og beinn veggur á millum þeirra, með sínum vindaugum, meðalmanni á öxl og þar undir og yfir, og so fyrir framan alla þessa bæjar- og húsaröð hefur hann lagt eina breiða grjótstétt, sem slétt eingin var áður. Hún er að leingd 30 faðmar, með so stóru hellugrjóti í bland, sem tveir menn kunna ei að fara með án verkfæra; alt þetta grjót hefur hann að dregið á sleðum. Fyrir utan húsagarðinn í kringum bæinn, sem hann hefur að nýju upphlaðið, hefur hann heygarðinn, sem er svo stór, að hann tekur 30 faðma heys, að nýju utan og innan hlaðið, og grjóti í aukið, sem áður var ekkert.

8° Keypti hann vænt hesthús til jarðarinnar, því áður var það ekkert, nema einn moldarkofi fyrir einn hest. Þess trjáviður var virtur á eina 5 fiska.

9° Hefur hann að nýjum grundvelli bygt hest-

hús fyrir 10 hesta. Þar er aðflutt grjót í alt gólfið, annan vegginn og kampana.

10° Hefur hann bygt nautahús fyrir 4ur naut, sem nú brúkast fyrir sofnhús; alt grjót í þess veggi, kampa og gólf hefur hann aðflutt og dregið.

11° Hefur hann að grundvelli bygt lambhús fyrir 50 lömb, og þar að dregið grjót í veggina, og byggingunni so tilhagað, að garð má gera á miðju gólfi upp á norðlenzkan móð. Áður tylgdi jörðinni moldarkofi, mest fyrir 15 lömb, hvers allir viðir voru virtir á 15 fiska. Þessi 4ur úthýsi, sem hann á, hefur hann bygt á hagkvæmustu plássum, túninu til forbetrunar.

12° Bygði hann að nýju í heimahögum jarðarinnar eitt fjárhús, sem tók 100 fjár, og flutti þar að, ásamt uppgróf úr gamalli tópt, grjót í þess veggi alt um kring. En þar sem að því lagði snjór og vatn, ætlar hann að byggja það aptur annarsstaðar, þar hvorugt það að sækir, og er búinn að flytja þar að grjót og hellu.

13° Hefur hann í efstu og beztu högum jarðarinnar að nýju bygt 3 selhús á einum hól með 7 stafgólfatali, en so rúmgóð, að til var ætlað, þau skyldu taka hálft annað hundrað fjár, og mátti so hvort brúkast fyrir sig sem hagarnir gáfust til beztu búskapar nota.

14° Á hann öll húsin í kotinu, sem undir þessa jörð liggur, hver hús hann opt með trjáviðartillagi forbetraði meðan þar var bygð, og þau standa enn þá öll, væntanleg til íbúðar aptur. Mikið af þessum trjávið, sem hann hefur brúkað til þessarar húsabyggingar, hefur hann aðkeypt og flutt, bæði úr Meðallandi og af einum parti Kálfafellsfjöru, er hann forpaktaði þar til um 5 ára tíma.

15° Hér fyrir utan á hann hér inn í bænum fjalvið í 14 stafgólfum, er þar brúkast fyrir lopt, og enn þá langtum meiri fyrirliggjandi stór tré. Þakhellur, sem hann hefur aðflutt og dregið á húsin, kemur bevísanlegt fram, að verið hafi upp á gilda hundrað hesta. En hitt grjótið, sem hann hefur aðflutt og

dregið, virðist okkur ei kunni minna að reiknast en upp á 800 hesta, hverjar menjar jörðin ber til stærstu nytsemdar so leingi á henni verður nokkur bygð. En *orsökin, hvar fyrir hér var svo lítið grjót í húsum og görðum framar en á öðrum jörðum hér í þessari Síðusveit, hefur verið, með hirðuleysi, örðugleiki til að ná til þess, hvað prófasturinn hefur þó ekki látið sig hindra.* Vegurinn til þess staðar, hvar hann hefur grjótið upp grafið og til bæjarins heimflutt, eru 540 faðmar, og er þar að fara yfir brattlenda og þýfða mýri, í gegnum hverja hann hefur veg lagt, með því að taka þar í burtu þúfur til að koma sleðum fyrir, þá akfæri hefur verið. En 320 [faðmar leingra eru[1]) þangað sem hann hefur sótt helluna og uppgrafið úr einni urð. Hversu hann hefur farið að því að rækta túnið, með því að koma úr því mosa með mold og svaði, getum vér nú ekki frá sagt sem var, þar eldaskan steyptist þar yfir síðan. En hundrað faðma langan túngarð er hann búinn að hlaða á einn veg, forsvaranlega fyrir því, hvar á er eitt hlið og grind í. Þau tvö fyrstu ár var hann með sínu fólki og aðfeingnum mönnum að hreinsa, burtbera og aka grjóti, er áin hafði borið á mestan part eingis þess, sem jörðinni fylgir, [um afliðin ár[2]), er sumstaðar einungis hafði verið kastað saman í hrúgur, sem vatnavextir báru jafnóðum í sundur aptur, og so sem það eingi var áður illa sláandi vegna grjóts, er það nú aptur orðið fyrir hans uppápússun vel slægt, og það bezta eingi hér eptir.

Er so þessi prestsetursjörð Prestsbakki á Síðu komin í eitt prýðilegt, gagnlegt og sætilegt stand, ef *henni væri þanninn viðhaldið og forbetruð, sem árlega viðþarf, og ef hún mætti behalda öllum þeim húsum og trjávið, sem prófasturinn á þar, sem auðveldlega gæti í stand komizt,* ef einhver hans nyti þessa prestakalls og jarðar eptir hann, sem þeim verður í fjarlægum stöðum að litlum og aungvum

---

1) [Svo.
2) [Svo.

notum. Þetta vort skrif viljum við með bevísingum og eiði staðfesta, ef þörf krefur. Hverju til frekara merkis og staðfestingar eru vor undirskrifuð nöfn og hjáþrykt signet.

Prestsbakka á Síðu d. 23. Jan. 1787.

Pétur Sveinsson,
hospitalshaldari og hreppstjóri á Síðusveit (L. S.)

Oddur Bjarnason,
meðhjálpari og hreppstjóri á Síðusveit (L. S.)

Gísli Þorsteinsson,
forpaktari Kirkjubæjarjarða (L. S.)

Þessir, sem áður skrifaðir, vitnisburðir sýna, hvílíka karlmensku, aðburði og krapta guð hafði gefið mér, og að eg vildi aldrei lifa mér einungis, heldur guði og mínum samkristnum náunga, sem þanninn nýtur minna handaverka, að mér lífs og liðnum. Kemur nú það grjót og byggingarstrit fram við mig, með útlimalúa og braki, en útreiðarnar á hinn veginn. Áminztar hellur uppgróf eg norðan í Stekkjarholtinu við Klapparlækinn, og upp úr honum, en stéttarhellur og grjóti(ð) úr holti fyrir sunnan upptök á Steðjalæknum. Munu þar og leingi sjá(st) merki til. En austur af fjósinu er greft[1]) sú, er eg gerði yfir mýrina til að koma grjótinu heim.

## KAP. XLVIII.

Árið 1788 uppbyrjaði eg með sorg og gleði. Eg var þá so veikur af gyllinæða og nýrnanna blóðrensli og plágum, að varla var fötum fylgjandi. Þó hefði eg reynt til að embætta á nýjársdag, hefðu ei ófær vötn og vegur hindrað. Var það so í fyrsta sinni í 28 ár, sem eg hafði þá prestur verið, er eg hafði ei embættað á nýjársdag. Þó var mér flutt barn til skírnar og þar með gefinn góður brennivínspeli, sem mér kom mikið vel, því eg brúkaði hann að hressa mig, meðan eg tók mér sjálfur æðablóð, hvar við eg tók mikið að viðréttast. Barn það heitir Ragnhildur, dóttir

1) Svo,

Sigurðar Gunnsteinssonar í Hátúnum. Nú má sjá að tvisvar verður gamall maður barn, að eg færi í skrif soddan lítilræði. En það sýnir þó annað með, að fyrr hafði eg aldrei so verið, að ei ætti brennivín á bæ mínum, hvað sem á lægi, en nú átti eg ekkert. Kom það til af kostnaði þeim, sem eg hlaut að hafa, og af því, að af þeirri fríhöndlan og lögleysu, sem í landið var komin, kostaði einn pottur brennivíns 30 sk. og þar yfir, so eg sem aðrir skirruðunst[1]) við að kaupa það so dýrum dómum, eptir sem mögulega gátum hjá komizt, og annað þyngra ei upp á féll.

Nú reyndi eg það, sem ei hafði fyrr komið á mína daga, so eg til muni fyrir víst um minn kennimannlegan áratíma, sem var um heila föstutímann eður á þá daga, sem leggja átti út af píningarhistoríu vors herra Jesú Christi, komst eg aldrei til kirkjunnar, því að sitthvað hindraði í hvert sinn. Þó lagðist mér það til, að síra Jón minn á Lyngum embættaði fyrir mig einn miðvikudaginn og á föstudaginn langa, því eg fann eg mundi ei hafa krapta að geta staðið so leingi meðan eg læsi píningarhistoríuna af prédikunarstólnum. Tek eg nú þetta sem annað fleira sem bending til burtköllunar minnar, og þakka nú guði fyrir alla umliðna tíð, og bið hann að sjá fyrir þeirri stuttu, sem eptir er orðin, og sýni nú enn, hverninn hann hefur látið mig þéna í sínum söfnuðum þar í Mýrdalnum og hér á Síðunni alt til þessa árs 1788 nefnilega. Um 17 ára ministerialtíð mína í Mýrdalnum skírði eg 208 börn, en jarðsaung 186 manneskjur, confirmeraði 122 börn og samanvígði 52 pör hjóna. En hér hef eg skýrt 78 börn, sungið yfir 168, confirmerað 71 barn, copulerað 11 hjón. Þetta alt samlagt: börn skírð 286, yfirsungið 354, confirmerað 293, copulerað 63. Guði sé lof og dýrð!

Börn þau, er guð gaf mér með minni fyrri hjartkæru ektakvinnu, eru fædd á þessum árum:

Sigríður er fædd á Reynisstaðarklaustri 1753 í December, skírð af síra Haldóri Jónssyni, sem þá

1) Svo.

var klausturprestur, varð síðan prófastur og dómkirkjuprestur á Hólum og dó þar.

Jórunn er fædd á Frostastöðum í Skagafirði og Blönduhlið 1755 aðfaranótt annars þriðjudags fyrir jól[1]), skírð af síra Birni Skúlasyni, sem þá var prestur í Flugumýrarþingum.

Guðný er fædd á Hellum í Reynishverfi 1757.

Katrín er fædd og skírð 1761 30. September á Felli í Mýrdal, af mér skírð, en Guðný af síra Daða Guðmundssyni.

Helga er fædd á Felli í Mýrdal 1762[2]) 29. September, og af mér samdægurs á Dyrhólum skírð.

Öllum þessum gaf guð með fagri líkamans sköpun skarpleika og næmi, hreinferðugt, ærlegt og siðprútt sinni við hvern einn í allri framgeingni, en sérlega samrýnt sín á milli, so eg má með sönnu segja: barnalánið er betra en fé, og: fleira er lán en fagna miklum auði. Þó skal enn framar sýna, hversu guð blessaði mig með börnum þessum í gegnum þrenn stórharðindi og hallærisár, sem hvað eptir annað gerðu mig snauðan af öllum gangandi pening. Eg átti þá eg giptist ígangsföt mín, reiðhest með reiðtygjum og tvo aðra, tvær kýr og naut, og litið af öðru töyi[3]). Hennar máli var fyrst eptir skiptunum 90 hundraða í fasteign, hvar af Jón foreyddi 30 hundruðum, en 60 hundraða urðu seld fyrir 200 rdr., hvar um áður er talað, og 70 hundraða í lausafé, hver aptur voru kortuð um 20 hundraða, þá við giptustum[1]), vegna þess stóra gripafellis, sem upp á kom þann tíð, so nú urðu eptir 50 hundraða eður 200 rdr., so nú voru alls 400 rdr., sem eg hefði átt börnum vorum að svara. Hverninn þetta útféll, vil eg sýna. Fyrir utan, hvað Mr. Jón Scheving átti hjá mér, hafði eg útlagt honum um fram upp(á) 15 hundruð 77 álnir; er 100 rdr. Mr. Vigfús Scheving bróðir hans fékk nú í

| | |
|---|---|
| sinn móðurarf . . . . . . . . . . . . | 68 rd. |
| Flyt: | 168 rd. |

1) þ. e. 15–16. Dec.
2) 1662 (!) hdr.
3) Svo (*ekki*: tagi).

| | | |
|---|---|---|
| | Flutt: | 168 rd. |
| Madme Karitas í sinn móðurarf . . . . . | | 61 rd. |
| Madme Sigríði á sínum giptingardegi . . . | | 100 rd. |
| Madme Guðnýju á hennar giptingardegi . . | | 100 rd. |
| Madme Helga á hennar giptingardegi . . . | | 165 rd. |
| | | 265 rd.[1]) |
| Jómfrú Jórunn í sinn móðurarf uppborið | | 68 rd. 17 sk. |
| Madme Katrín á hennar giptingardegi . . . | | 64 rd. |
| | Summa | 626 rd. (17 sk.) |

sem skiptaactinn af 1785 d. 7. Junii með sér ber, og var þó öllu betur og ríflegar lagt í fé þeirra tveggja síðari en hinna fyrri, með öðru fleira, að nærfelt mundi hafa getað samboðið hinna fyrri fjárs[2]) upphæð, sem hlutaðeigendur munu eptir minn dag vel finna og í kærleika koma sér saman um. Sést hér af almættis forsjón Guðs, sem so hefur haldið í hönd með mér fátækum og fákunnandi að veraldar dómi, að takast slíkt á hendur, að það góz ei alleina við hélzt, heldur og jókst um 226 rd. rúmlega. Guði sé lof fyrir sínar gáfur! Þar með kann eg og so með hreinni samvizku að hugga mig, að eg veit að alt, hvað eg hefi börnum mínum feingið eður fyrir þau dregið, er *rétt feingið*. Eg hefi ei mátt í nokkrum viðskiptum eða höndlan hafa af nokkrum manni, því ef eg blindaðist í því, foreyddist snögglega sá sami hlutur aptur eður annað jafnmeira í þess stað með öllu *móti*, opt hlægilega. Tók eg mér því sterkan vara fyrir því að ásælast náungann í nokkurri höndlan, sem nú um stundir er af mörgum metið fyrir litla yfirsjón. Sama var að segja um gjafir. Eg hafði að sönnu ei stórt gjafalán, en væri mér gefið, vildi eg þó sýna aptur einhverja þénustu í móti, meðan eg hafði efni til þess. Þó gaf guð mér einstöku vini, sem áður eru sýndir, sem settu sig móti því að þiggja aptur hjá mér nokkur laun. So ei á það heima hjá öllum, að allar gjafir girnist laun, eður ætíð viti gjöf til gjalda.

---

1) Svo. *Rétt:* 65 rd.
2) Svo.

Eitt það helzta meðal, sem þénti til þess að bú mitt foreyddist ei né kollsteyptist í slíkum harðindum, útgiptum og óskrifanlegum útdráttum á ýmsa vegi, var sú hirtnisama og forstanduga ektakvinna, sem guð útvaldi mér, sem hélt vel fram kvenmannavinnu og stundaði til þess, að við, börn okkar og hjú væru ætíð vel fötuð. Hún var soddan verkmaður til handa, að þó hjá okkur væri 14 menn í heimili, og opt yfir það, til 20, þá prjónaði hún upp á alt það fólk, sem með þurfti so þétt og vel, að leitun var á öðrum prjónaskap eins vel gerðum. Fær Eyjafjarðarkvenfólk almennings hrós fyrir það utanlands og innan, að prjónles, hverju nafni sem heitir, sjáist ætíð bezt frá því. Var það og auðséð, að mín sæla kona hafði til þess séð og hjá því uppalizt. Frá tek eg gróft prjónles til handa og fóta á vinnumönnum og dreingjum, prjónaði hún ógjarnan, því so sem hún var hreinhent, fékk hún ei af sér að leggja höndur að nokkru stórgubbi. Við reyndum okkur eitt sinn til gamans, hvort fljótara væri, eg að skrifa, en hún að prjóna, og settum til vissan mælir. Varð sá munur á meðan eg með fljótaskript skrifaði 12 hundruð stafi, prjónaði hún 9 hundruð lykk(j)ur (og) nokkrar fleiri. Jafnvel þó að æfisaga hennar né ættartala sé mér nú ei fyrir hendi, — því þær eru hjá börnum mínum, — þá læt eg hér eptir fylgja litið ágrip af æfisögu hennar, bæði mér til afþreyingar og gamans, fyrst eg fékk nú tómstund til þess.

## KAP. XLIX.

Mín fyrri hjartkæra ektakvinna, Þórunn Hannesdóttir, var fædd í þennan heim 1718 á Hólum í Hjaltadal. Hennar faðir var Hannes Lauritzson Scheving sýslumaður og klausturhaldari á Múkaþverá[1]) í Eyjafjarðarsýslu. Hann var kominn af aðli í Noregi. En kvinna Lauritzar, móðir Hannesar, hét Þórunn dóttir Þorleifs Kortssonar lögmanns, — einninn af norskri ætt, — en móðir hennar var Jórunn dóttir

1) Svo.

bisups herra Steins Jónssonar og hústrúr Valgerðar Jónsdóttur. Alt þetta má betur lesa í ættartölubók, er eg hef gefið dótturdóttur minni Þórunni, er enn ber sama nafn og ættleggnum fylgt hefur[1]). Vorum við kona mín sæla einnrar ættar í afa og ömmu ætt hennar að móður hennar, en í föður og móðurætt mína. Hver mundi hafa hugsað, er eg var í fangi útborinn að heilsa biskupi herra Steini, hvar um áður er talað, að eg mundi eignast dótturbarn hans, sem þá hefur verið 15 ára? Hennar skírnarfaðir var frændi minn síra Þorleifur Skaptason, sem þá var bæði prófastur í Skagafirði og dómkirkjuprestur. Hún fór með foreldrum sínum að Munkaþverá[2]) og þaðan að Stórhóli í Eyjafirði, hvar guð burtkallaði hennar góða föður á hennar 9da aldurs ári. Hann hafði verið eitt með þeim beztu ljúfmennum, og hann tregaði hún meðan hún lifði, og gat varla ógrátandi á hann minzt. Slíkur forstandsmaður var hann, að hann hafði dregið so fisk að búi og önnur matvæli, að ekkja hans, Mdme Jórunn, þurfti ekkert af því til bús að kaupa í næst eptirkomandi 5 ár. Bræður átti hún þrjá, er allir lærðu í skóla. Dóu tveir á unga aldri, góð mannsefni, en sá þriðji, Sr. Lauritz, giptist Önnu dóttur síra Björns Magnússonar á Grenjaðarstað, varð klausturhaldari á Munkaþverárklaustri; bjó þar þó ei, heldur á Laugum og Garði í Kelduhverfi, hvar hann dó í heiðarlegri elli. Trega eg hann meðan eg lifi. Hans ágætu börn eru öll til manns kominn.

Þá Madme Jórunn giptist í annað sinn síra Stepháni Einarssyni, fór hún með þeim að Laufási, hvaðan hún giptist klausturhaldara Jóni Vigfússyni. Á þeirra 12 ára hjónabandstíma átti hún með honum 5 börn, 2 pilta og 3 stúlkur, af hverjum tvær sáluðust ungbörn. Um þau 3, er lifa, er áður talað. Velnefndur prófastur síra Stephán stjúpfaðir hennar var

---

1) Ættartala síra Jóns eptir sjálfan hann er í Landsbókasafni 483. 4to og 954. 4to.

2) Svo.

hálærður og grundlærður maður, og gaf sig út til þess að láta sem flesta hafa sem bezt not af lærdómi sínum. Nú þar sem guð hafði gefið henni, eg má segja, dæmafátt næmi og skarpleika, minni og eptirtekt, þá numdi hún heilmikið af vísdómsræðum þeim, er hann kendi bræðrum hennar. Þá var og venja að lesa sögur og rímur á kvöldvökum, so eg vissi varla nokkra þá sögu til vera, er hún vissi ei inntak og efni úr. Það var og prófastsins vani að láta stjúpbörn sín borða daglega með sér. Braut hann þá upp á einhverri borðsögu, um háttsemi annara þjóða, trúarbrögð þar, og þar til var hann með historíur úr biblíunni og ýmsar greinar þaðan, er hann var að spyrja þau að, og lagði svo alt út fyrir þeim. Dáðist hann so að skarpleika hennar, að hann sagði: »Ó, hvað gekk guði til þess að þú, Þórunn, varðst ekki dreingur, — þú nemur alt og manst alt«. Þetta heyrði eg og so af hans eigin munni, — því að hún var so minnug og flugnæm, að þá hún var búin að lesa sálminn yfir, eður hvað það var, tvisvar sinnum, so kunni hún hann, og því næmi hélt hún fram til æfiloka. Hún kunni so mikið af kvæðum og sálmum, að eg get þar ei orðum eður tölu á komið, því um þann 32 ára tíma, sem við vorum saman, heyrði eg ætíð ár eptir ár eitthvað nýtt til hennar, og eins á hennar síðasta endadægri, og mart af þesshátttar hef eg eptir henni skrifað, sem ei er annarsstaðar að fá. So voru henni kunnug öll Vídalíns verk, að hvar sem í þau var tekið, kunni hún að bæta við og lesa leingra. Hún saknaði og fullskjótt, ef hlaupið var yfir eina eða tvær línur. Þetta guðsorð, er hún kunni, iðkaði hún ei alleinasta fyrir sig, heldur hélt þar til börnum sínum og heimilisfólki. Frá nýjári til hvítasunnu lét hún i húsinu lesa kvöld og morgun, hvenær sem því varð mögulega við komið. Hún var ætíð með klökkvu hjarta undir guðs orða prédikun og lestri. Henni voru[1]) sérdeilis ógeðfeldar[2]) sunnudaga vinnur, spilamensk-

---

1) var, hdr.
2) ógeðfeld, hdr.

ur og þesshåttar óþarfa verk. Hún var hreinlynd í orði og verki, djarflega og hreintalandi, hver sem í hlut átti, so allir réttsinnaðir menn elskuðu og virtu hana þar fyrir, og létu margopt ei réttgáðir að orðum hennar framar en annara. Í verki og viðskiptum var hún so hreingeðjuð, að hún vildi aldrei láta á sig hallast, gagntrygg og stöðuglynd við góða menn og vini sína, er hún skipti við, miskunnsöm og aðhjúkrandi við nauðlíðandi og fátæka, og so örlát, að aldrei gat lítið tiltekið meðan nokkuð var fyrir hendi, sem optast var. Og þá eg eður annar sagði, hún ætlaði enn ei að sjá fyrir sér, svaraði hún: »Eg hef enn nóg og mun hafa nóg, so leingi eg lifi«, hvað og so skeði. So sem hún var hreinlynd, so var hún einföld í sínum verkum, og sá ei við óhreinlyndum og kænum mönnum opt og tíðum, en þeir nýttu sér að narra það út af henni, er þeir þá þóttust við þurfa. Til dæmis og gamans er ein sveitakerling í Mýrdalnum, er hét Oddný Helgadóttir; hún var mikið raunmædd, en þar hjá klók og undirsett og hafði sérdeilis andagtugan talanda. Hún var lítil að vexti, stutt og digur, augndöpur og brjóstveik. Þessi kerling kemur um sumarið að Felli, þá fólk var ei heima, nema Þórunn mín sæla, og eg, en þó ei vitanlega. Kerling sezt á hlaðið fyrir framan bæjardyr, stynur þar hátt og andvarpar og segir: »Hér er eg nú komin í síðasta sinni. Ó, hvar er nú blessað dygðablóðið, húsmóðirin? Eg kom til þess að kveðja hana etc«. Hún heyrir þessar stunur, fer fullsnögt til hennar, og af stærstu meðaumkvan býður henni inn til sín, sem hin afþakkar; segist ei vilja gera henni kostnað, en vilja í Guðs nafni þiggja það hún vilji nú rétta að sér, og komi hún nú til hennar margs þurfandi. Hún spyr, hvað hana, skepnuna, vanhagi þá um. Hún segir sig vanti ull í skyrtubol. Þá hún hafði það feingið, vantaði svarta ull í sokkbol, so lérept í skyrtukragann, so góðan freðfisk og nokkuð við honum. Þá þetta var alt feingið, mæltist kerling til um fiskhöfuð, so sundmaga, so hrogn, so hin var að sækja, hvað eptir annað, en kerlingin forsómaði ekki

hjartaþreingjandi fyrirbænir og handaupplyptingar við hvert eitt, þar til so mikið var komið í kjöltu hennar, að hún gat varla upp risið. Þá segir hún: »Gefið mér nú ei meira, elskulega guðs barnið góða! Þér hafið í mörg horn önnur að líta«. Fór hún þá að sækja hestinn, sem farið hafði fram á flötina á meðan. Þá segir kerling við sjálfa sig: »Ekki þorði eg að biðja nú um fleira; mart smátt gerir eitt stórt, ef eg feingi svona á hverjum bæ, drattaði mig það nokkuð. Þó gaf hún mér ei heilsu[1]) skökuna«. Heyrir nú ei til hennar stun eður hósti meðan hún er að pútta niður hjá sér. Kem eg þá í ljós og segi: »Gott er að hafa tungur tvær og tala sitt með hvorri. Ertu nú þess verðug, herjans kerling þín, að eg taki nú alt af þér aptur, en þú verður að njóta vesældar þinnar«.

Í sínu húsi var hún stjórnsöm og framsýn um marga hluti, so það heppnaðist opt vel, er hún fyrir lagði. Í sinni framgeingni var hún í hófi glöð og siðprúð, en so sem einginn gerir so öllum líki, og einginn getur so lifað, að ei verði að fundið, þó ei sé aðfinningarvert, so var og hér. Hún átti sér því líka haturs og öfundarmenn, eins og önnur guðs börn, hverra aðkast, eins og hvert annað mótlæti, hún leið með góðu umburðarlyndi. Var hennar daglegt viðkvæði þetta:

Angrast þess vegna ekki máttu,
illir menn þó lasti þig,
glaðvær alt þér geðjast láttu,
gott málefni birtir sig,
sigurvinning vísa áttu,
von er sú óbrigðanlig.

Item þetta:

Litla stund líðum vér
litla armæðu hér etc.

Sumt af því, hún mátti líða, er hér áður sýnt. Hvað hennar líkamans skapnað áhrærir, þá var hún með meðalhæð, nett og nokkuð fattvaxin, og þess

1) Svo.

vegna framsett, með ljósleitt og hrokkið höfuðhár með hofmannavikum; hafði verið smáfeld og andlitsfríð, þar til bólusóttin 1736 afskræmdi hana mikið. Hún var ennisbreið með höfðinglegu yfirbragði, létteygð, með lítið nef, nokkuð þykt að framan, slétta og rauða kinn, litlum og varaþunnum munni, með lítilli höku með skarði dálitlu í. Hennar brjóst voru lítil, útlimir og öll bein smá, hendur mjóar og jafnbreiðar fram, með litlum nöglum; rist og ilvegur jafnbreiðari að framan. Hún hafði mikið aðsópsmikinn og fallegan svip, að sjá eptir henni á bak eptir, og að öllu góðmannlegan ættarsvip að framan verðu. En þó hún væri þanninn að allri útvortis ásýnd og skapnaði sómasamleg og prýðileg af guði gerð, þá bar hún þó innvortis þungar meinsemdir, so hún lagðist í tvær þungar stórsóttir, að mannlegur skilningur gat ei begripið, hún mundi þá lífi halda. En guðs óútsegjanlegt almætti sýndi í því sem öðru sinn krapt, að hún komst á fætur aptur. Þó dró það sama krankdæmi hana til bana að síðustu; það var nýrnaveiki eður so kölluð nýrnagula, sem féll[1]) loksins í óstöðvandi blóðlát og sárindi, sem meir og meir eyddu hennar líkamans kröptum, so að hún varð að halda við rúmið nærfelt í 6 vikur, áður guð burtkallaði hana. En so sem guð gaf henni fult vit og rænu fram í andlátið, so lét hún ekki af að fara með gott sjálf, og lét mig einninn lesa hjá sjer það, hún útvaldi til dauðans undirbúnings, ítem að veita sér heilagt sakramentum Christi líkama og blóðs; þar eptir gerði hún ráðstöfun fyrir sér, sinni útför, börnum sínum og öðrum kunningjum sínum, er hún bað að heilsa. Veiti það guð, að hennar fyrirbænir, sem hún þá fyrir guð framsendi í djúpustu hjartans sorg, komi niður á börnum vorum á hagk(v)æmlegustu tíð! Eg hlaut að hvíla mig í öðru húsi en hún lá, en var þó opt um daga hjá henni, eptir sem hún vildi. Seinasta morgun hennar lífdaga, þá eg kom til hennar og spurði hana að, hverninn henni liði, svaraði hún: »Nú er stríðið strangt, en þó stutt orðið. Eg hef afliðna nótt átt þungt freistingarstríð, en það er nú

1) féllu, hdr.

yfirunnið fyrir guðs krapt; mínn Jesus hefur verið með mér«. Og var so á henni svefnmók allan þann dag. En þá hún vaknaði, var hún að biðja fyrir sér með andlátsbænum og versum. Um ljósaskiptin um kvöldið vaknaði hún með þunga, stundi og sagði: »Ó, guð legðu nú ei meira á mig; þú veizt, að eg get ei meira borið. Faðir, í þínar hendur fel eg minn anda. Kom nú Jesus snarlega! Ó, faðir, minstu mín«. Svo varð á litið hlé, eins og guð væri að veita henni an(d)svar í hjartanu, sem og víst hefur verið; og þar með blés hún hræringarlaus og so sem í dái frá sér andanum, og öðlaðist þar með sætt og farsælt andlát fyrir sinn frelsara Jesum Christum á hennar 66ta aldursári 7da Octobris 1784, og er sómasamlega leidd og jarðsungin á bak við kór í Kirkjubæjarklausturskirkjugarði.

## KAP. L.

Hér af fýsir mig framar að segja frá nokkrum guðhræddum mönnum og vinum mínum, hversu guð hefur leitt þá dásamlega af heiminum og látið þá jafnvel fyrir vita sitt endadægur.

Sigurður Ólafsson hét meðhjálpari minn í Dyrhólasókn, guðhræddur maður og frómur. Hann bjó í Skarðshjáleigu. Hann var so köldusjúkur, að hann sagði fyrir inni í húsum af hræringum og vindi í sínum líkama í hafátt, þegar él eður skúrir geingu upp úr hafi, og eptir því sem skýflókar þeir liðu fyrir, so vægði honum undir eins. Annan sunnudag í adventu var hann við kirkju; eptir embættið í einrúmi finnur hann mig og þakkar mér fyrir kenninguna, og segir: »Aldrei hefur nú nokkur prédikan eins verið mér sæt og huggunarsöm sem sú, er eg nú heyrði. Er það af því, að það verður sú síðasta, er eg heyri í þessu lífi«, með fleirum orðum, sem hann hefur um það. Kveður mig svo og segir: »Við sjáustum ei framar lifandi aptur, því þá eg er nú heim kominn og kominn í rúm mitt, þá mun guð gefa mér eilífa hvíld, því alt þetta hefur hann látið mig vita«. Og

þetta gekk alt eptir. Hann átti dóttur, er Ólöf hét, vel uppfrædd, guðhrædd og ráðvönd. Hún fótbrotnaði af ei stærri steinnybbu en sauðarvölu stærð, er stóð upp úr gólfinu. Hún lagðist í bólunni 1763; fór bólan að falla, so hún hafði aptur feingið opna sjón, lá so mállaus og hreifingarlaus, so einginn gat formerkt, hún hefði nokkra rænu né sansa. Þó beiddu foreldrar hennar mig að koma til hennar, er eg embættaði á Dyrhólum, hvað eg gerði; sýndist mér sem öðrum hún hafa einga rænu; las eg þó bænir og blessunarorð yfir henni og fól hana guði á hendur. Lá þá fyrir mér ferð í burt úr sókninni. Þá eg fór úr húsinu, vantaði mig annan klút minn. Var leitað og fanst hann ekki. Hugsaði eg ei annað en eg mundi honum hafa annarsstaðar glatað. Fór eg so minn veg. Í vikunni hjarnaði hún við aptur; var síra Daði sóttur að þjónusta hana. Þar eptir kom eg til hennar. Fagnaði hún mér og sagði: »Það var mér stór kvöl, þá einginn ykkar hugði eg hefði vit. En eg hafði það alt, og heyrði hvað sem talað var, og til merkis talaðir þú þessi orð yfir mér, og annað er það, að hér er hjá mér klútur þinn, er eg bar mig að draga inn undir mig, þá þið voruð að tala um þekkingarleysi mitt, til þess ef þið þar af kynnuð að ráða, að eg væri ei þekkingarlaus. Hefi eg nú síðan verið á milli heims og helju. Hefur guð sýnt mér inn í himnaríkisdýrð. Sá eg þar bæði systkini mín, sem undan mér eru sáluð, og aðra kunningja mína í soddan fegurð og ljóma, sem þar er, sem einskis manns tunga getur hér útmálað, og alt, hvað eg hefi heyrt hér um, það er satt, en þó of lítið. Soddan glaðværð og ljómi er nú kominn í hjarta mitt, að eg get ei framar sint mínum góðu foreldrum og aungvum manni. Eg get ei sofið, etið né drukkið af þeirri sárheitu eptirlangan, sem eg hefi þangað; er eg nú ekkert annað að gera en biðja guð að flýta fyrir mér þangað og láta mig ekki framar lifa í veröldinni, á hverri eg hef feingið stærsta viðbjóð. Vona eg nú þetta dragist ei leingi, og fær þú þá vísbending um það«, hvað og so skeði. Kvöddunst við so

í fullvissu, að guð mundi veita henni, það hennar hjarta girntist. Að skilnaði gaf eg henni klútinn, og segir (eg) móður hennar að láta hann yfir hennar andvana ásjónu, hvað og svo gert var. Ei alleinasta var mér sem hennar sálusorgara þetta dæmi gleðilegt, að vita hana fara so beinleiðis í himnaríki, heldur tók eg mér hér af þá sterkustu leiðslu og áminning að fara aldrei so fram hjá veikum manni, sem eins heyrðist á sig kominn vera, að eg færi ei til hans og beiddi fyrir honum, enda hefi eg hjá fleirum aðkomizt, að eins hefur verið ástatt fyrir þeim, og hefur mig aldrei iðrað þess litla ómaks. Þéni og þessi frásaga til þess, að hver sá guðs þénari, sem les eður heyrir þessa frásögu, að hann taki sér hér af eina sterka anleiðing til þess hins sama.

Sýslumaður Bjarni Nikulásson, hann sálaðist í Bæjarstað, sem hann hafði bygt í Sólheimanesi. Hann lagðist veikur, kallaði mig til að þjónusta sig og sagði: Afliðna nótt var eg alla í stríði; þar sótti Satan með öllum vondum öndum eptir mér. Allar mínar heimuglegar og opinberar syndir, sem eg hafði drýgt frá barnæsku og eg hafði gleymt og eg vissi, að mér var búið af guðs álfu að fyrirgefa, komu nú í ljós. En guðs náð varð yfirsterkari, so upp á þau andsvör, er eg fékk, vil eg mér til trúarstyrkingar og sálar veganestis upp á mína síðustu reisu taka míns frelsara heilagt hold og blóð«, sem hann og guðrækilega meðtók. Kvaddi mig so, sína ektakvinnu og dóttur og sagði: »Drottinn, eg sleppi þér ekki fyrr en þú blessar mig. Eg bið, að út af þessum orðum sé yfir mér andvana talað, nær eg verð jarðsettur«. Bauð so öllum góðar nætur, snéri sér upp til veggjar og fékk með sætum svefnblund sáluhjálplegt andlát[1]). Hjá honum var gamall maður nokkra stund, sem hét Jón Haldórsson. Hann lagðist banalegu; var hann þá í Hvammi. Eg var sóttur að veita honum sakramentið. Þegar hann hafði það meðtekið, bað hann mig að gefa sér tóbak i nefið. Eg sagði, mér sýndist

---

1) Bjarni sýslumaður andaðis 1764.

annað væri nú nær hjá honum; lét hann þó ráða því. Að því gerðu segir hann: »Lofaður veri nú guð, sem nú hefur látið gleðja mína sál og líkama; nú lofi hann mér að deyja, og nú dey eg glaður. Guð taki við minni sálu«. Og þar með gaf hann upp andann. Undarlegur er guð í sínum verkum.

Síra Daði gerði mér boð að finna sig, þá eg var hingað kominn, því hann vildi kveðja mig upp á síðasta fund, hvað eg og gerði. Sagði hann þá nærfelt fyrir, hvenær hann mundi deyja; bað mig sjálfan að kistuleggja sig og jarðsyngja. Hann lét styðja sig blindan út, er við skildum; bað þar hvor fyrir öðrum; saung hann mig þá úr hlaðinu með þessu versi:

Af himna hæðum
hjálpræðis renni sól,
með gleði gæðum
guð sé þitt hlífðarskjól etc.,

er hann þrítók með lystilegri röddu; hef eg ei síðan af nokkrum presti verið sunginn úr hlaði, og mun ei hér eptir verða, so sem sá einfaldi móður er nú so nær aflagður. Hann er jarðsettur fyrir altari í Reyniskirkju[1]), en síra Sigurður, sem átti dóttur mína, fyrir norðan sáluhlið og framan kirkjudyr; eru þeir að sögn þeir fyrstu prestar, sem liggja begrafnir á Reyni. 4 liggja fyrir víst á Höfðabrekku; er það án efa þess vegna, að þeim hefur betur í geð fallið sú lifandi og dauða jörð þar en á Reyni. Á Höfðabrekku og (í) þeirri sókn hefur einn ættleggur guðhræddur, frómur, einfaldur, góðgerðasamur og lángefinn haldist við 300 ár, ef ei leingur[2]); hafa og átt þar mestalla fasteign, og so ætíð, mann eptir mann, farið mæta vel með presta sína. Taldi eg það ætt minni og afspreingi fyrir lukku, er eitt barn mitt teingdist í þá frómu blóðlínu, jafnvel þó báðar þær ættir megi á tvo vegi saman telja upp eptir.

Tildráttur um afgang míns trygðfasta vinar síra Jóns Bergsonar á Kálfafelli gekk þanninn til. Við,

---

1) Síra Daði dó 1779.

2) Þ. e. ættingjar Eyjólfs lögmanns Einarssonar.

hvor þó í sinn stað, fórum í ferðir eitt sumar[3]). Kom eg að kvöldi dags út að Eyrarbakkabúðum með lest mína, en hann kom síðar um nóttina, og tjaldaði á flöt fyrir norðan Háeyri; varð því fljótari til um daginn eptir að taka mig upp og fara út yfir ána; en áður en eg burt fór, fór eg í tjald hans og kvaddi hann; var hann þá að búa sig inn í búð til kaupmanns. Þá eg var búinn að láta flytja allan minn farangur yfir ána, og eg var einasta eptir og hestur minn, kemur maður á flugferð og segir, prófastur, þ. e. síra Jón Bergsson, hafi feingið aðsvif úti, so það hafi orðið að bera hann í brekáni inn í tjald hans. Það síðasta til hans hafi heyrzt, sé það, að hann hafi beðið mig að koma til sín, þjónusta sig og vera so hjá sér, þar til hann gæfi upp öndina; en þá hann hafi farið, hafi hann verið orðinn þekkingarlaus og mállaus. Brá mér næsta þunglega við þessar fréttir, gerði mönnum mínum boð að halda samt áfram að Skildinganesi, hvar eg átti fisk fyrir og minn gagntryggva skiptavin. Skyldu þeir mín þar bíða, hvað leingi sem verða kynni. Fór eg til baka með manninum; lá þá prófastur hvítur og kaldur sem nár í svefnmóki þekkingarlaus, þar til eptir nónbil, þá vaknaði hann og fékk alla sansa aptur, hverju eg og allir þar nálægir urðum feignari en frá megi segja. Biður hann mig nú að þjónusta sig. En þá til átti að taka vantaði mig tækin, þ. e. utensilia, því mér hafði gleymzt í þeim hasti, er eg fór frá lest minni, að taka þau úr skrínunni. Hann hafði eingin með sér að heiman tekið. Þrír prestar voru þar nálægir og aðkomnir í kaupstaðinn, og hafði einginn þeirra heldur tækin. Þetta óforsvaranlega skikk og tilfelli setti hvern einn í stóra ásökun og blygðan, og mun(u) fleiri en eg hafa gætt að sér að brúka ei soddan gáleysi framar. Ætlaði eg so að brúka thebolla og undirskál. En so vildi til, þar var brjóstveikur kaupmaður, sem hafði kaleik og patínu, því hann lét þjónusta sig heima. Þetta léði hann að

---

3) Þ. e. 1773.

vörmu spori og til hans var leitað. En hvílíka kvöl eg hafði af þessu að bera, vil eg ei frá segja. Alt þetta knúði mig að biðja guð heitt og alvarlega um anda sinn og náð til að framkvæma so verkið, að honum yrði til dýrðar, en þeim undir lá til sálargagns og hugsvölunar, því nú (var) nauðsyn á, enda gaf guð mér þá talsgáfu, að hann fékk að heyra þá huggun og hugsvölun, sem hans angrað og sanniðrandi, trúað hjarta sótti eptir að öðlast. Tveir prestar og mikill mannfjöldi, sem stóðu í kringum tjaldið, lofuðu guð fyrir sitt heilagt orð og þann krapt, er hann nú hefði látið því fylgja, að þeir hefðu sjálfir í hjarta hrærzt og viðkomizt, og allir beiddu, guð vildi sýna á þeim sjúka, er þá lá fyrir dauðanum, að hann vildi ei tefja með sína hjálp og bænheyrslu, nær eg hafði hann þjónustað. So kvöddu hann prestarnir og aðrir skikkanlegir menn og kunningjar hans, sem þaðan fóru í burtu. En 6 sóknarmenn hans voru þar enn eptir í öðru tjaldi. So gerði hann guðrækilega ráðstöfun fyrir sínu gózi og húsi. Son sinn Berg litla, tók hann sér (í) fang, lagði hjartnæmar bænir og blessan yfir hann, og biður mig so að taka við honum og ganga honum í sinn stað; framar sinti hann honum ei. Eitt sinn sagði hann: »Gráttu ei barn, þú ert guði afhentur«. Leið so með hægð fram að sólsetri; þá jókst kuldinn so á líkamann, að hann varð ei yljaður með nokkru móti, sem færðist ætíð brjóstinu nær. Var hann nú að fara með andlátsbænir og sálma, og láta mig stundum lesa þá með sér, einkanlegast sálminn: »Líknarfullur guð og góður« etc. Um nóttina sofnuðu allir; vakti eg enn þá hjá honum og var að lesa það gott mér þótti helzt við eiga hans þáverandi ástand. Nú fór mig að sigra so sætur svefn, að ei gat heldur haldið mér uppi; dett so útaf í svefn með bókina í hendinni. En hvað leingi það hefur verið, veit eg ei, nema eg heyri hann kallar til mín og segir: »Þér ætlaði eg allra manna bezt, og þú getur ei eina stund vakað hjá mér, er mér liggur lífið á«. Við þessi sárbeittu orð vakna eg, hugsa nú til míns endurlausnara í

hans dauðastríði, hversu hans lærisveinum varð þá og svefnsamt. Eg hleyp út, harðfleygi mér tvisvar ofan á jörðina og hleypi í mig móð, fer inn aptur; fer þá af mér allur svefn, og kom ei framar þá nótt. Nær undir sólaruppkomuna leið, segir hann: »Nú sækir mig so kuldi, að mér finst, að úr hverju þráðargati á tjaldinu standi kaldur vindur«, — hvað þó ei var, því spakt og heiðríkt veður var úti, — »og því vil eg fá mér rúmaskipti«. Lætur mig vekja vinnumann sinn, sendir hann að Háeyri og biður bóndann þar að ljá sér rúm, er hann strax lét verða til reiðu. So lætur hann vekja upp sóknarmenn sína, sem voru í öðru tjaldinu, og biður þá að bera sig þaðan heim til bæjar, hvar til þeir voru reiðubúnir. En áður þeir taka hann upp í sænginni, lætur hann mig mæla fram sálminn: »Dagur er, dýrka ber« etc., þar eptir faðir vor og blessunarorðin; síðast les hann andlátsbæn og andvarp úr Þórðarbænum, meðan þeir voru að bera hann heim. En þá hann var lagður í rúmið, talaði hann Christi andlátsorð, so þeir næstu heyrðu, og fékk so mikið hægt andlát. Þanninn breytir guð við sín börn, að þeirra síðasta verður það farsælasta.

Hann hafði nokkrum sinnum áður sótt um prestaköll í Árnessýslu, þó forgefins. Þó sagði hann það lægi í sterkum grun sínum, að þar ætti hann að verða og bera beinin, og eg ætti að verða sér þar sérdeilis handgeinginn og jafnvel prestur sinn. Hversu úrstint[1]) sem eg tók þetta, þá hélt hann þó ætíð fram á því sama. En hvað kom nú fram og hvað vill enn framar fram koma, þar beggja okkar börn eptir fyrirlagi hans og spá eru samteingd í heilögum ektaskap og eru staðnæmd í Árnessýslu[2]). Hann liggur begrafinn fyrir norðan miðjan kór á Stokkseyri.

Minn trúfasti vin herra Bjarni landphysicus lá í rekkju leingi áður hann burtkallaðist[3]). Eg finn hann, þar hann lá sængurliggjandi, og vildi þar kveðja

1) Svo.
2) Þ. e. Bergur Jónsson og Katrín Jónsdóttir, Steingrímssonar.
3) Þ. e. 1779.

hann, en hann svarar: »Nú er so ástatt, að eg vil kveðja þig annarstaðar, og ætla að reyna til þess að komast á fætur«; fór[1]) so í annað kamers, setur þar til borð, og tvö vínstaup, lætur síðan á mig kalla og segir: »Nú drekk eg þér til okkar síðustu skilnaðarskál og mína dauðans skál. Þú munt nokkuð leingur lifa, en þó ei háaldraður verða. Eg óska þér lukkulegrar reisu og lífdaga«. Með það lét hann konu sína, Madame Rannveigu, þénara sinn, Mr. Jón Einarsson, og þjónustustúlku, Hólmfríði Hjálmarsdóttur, byrja þetta vers:

Allra skepnu þá aðstoð dvín,
aðstoð góð vertu mér,
frá vinunum skilja verð eg mín,
vin minn, tak mig að þér etc.,

sem sungið var með listilegustu raddarhljóðum, því öll þau voru dágóðir saungmenn, og hann mjög gefinn fyrir saung. En eg saung aptur á móti þetta vers:

Þótt sundrunst nú
sú er vor trú etc.

Við supum af glösunum, þakkaði hvor öðrum, ei án trega, alt umliðið, og kvöddunst so. Eg fór minn veg, en hann í rúm sitt, lá nokkrar vikur þar eptir, þar til guð gerði farsælan enda á hans mæðu[2]). Nokkur fleiri dæmi man eg og veit uppá sama slags efni, en eg læt hér við blífa, því þessi eru nóg, til að *sýna hversu guð láti sín börn opt fyrir sjá og vita* sitt endadægur, og hverninn hann leyfi góðum vinum að skilja gleðilega hvorum við annan.

## KAP. LI.

Þetta sama ár 1788, er kap. 47di um getur, lét guð mig kenna á stríðu og blíðu; veikindi mín viðjukust með stórum blóðköstum og pínagtuðum verkjum, so hvað sem eg leitaði við þau, var sem til eins-

1) So (!) *hdr.*
2) Bjarni andaðist 8. Sept. 1779.

kis, þó þau svíuðu þar við lítið um stund, því þau eiga að draga til eins. Varð þó þeirra vegna fyrir guðs hjálp ekkert áfátt í mínum embættisverkum. Eg húsvitjaði á Síðunni og yfirheyrði börn og ungdóm, en kallaði ungdóm á tilsettum dögum til kirkjunnar. Einginn heilagur dagur féll úr eiginlega fyrir þann veikleika, en þá hæpið varð um það, var sem hingað væri stefnt mér til aðstoðar síra Jóni mínum á Lyngum, sem þar til var fús að hjálpa mér í öllu, sem honum var mögulegt. [Hann er með lærðari prestum, guðhræddur, uppbyggilegur og ráðsettur í öllum prestsverkum[1]). Hann embættaði fyrir mig tvisvar austur í Hverfinu, og húsvitjaði, þar sem með þurfti, og taldi hvorki þá né aðra fyrirhöfn til betalings við mig. So sverja menn sig í ættir með dygðum, sem af ættgóðu blóði eru bornir. Persónulegar dygðir og ódygðir foreldra ganga hvort að sínu leyti optast í arf í náttúru barnanna.

Þetta sumar embættaði eg alt til enda, að fráteknum helgum dögum, er úr féllu, og catechiseraði optast nær, þá börn komu, þar til á sunnudaginn fyrstan í vetri, sem var sá 23. eptir Trinitatis, og þakkaði guði fyrir sína blessan, vernd og hjástoð, er hann hafði veitt mér og sóknarbörnum mínum af liðið sumar. Var eg þá so heilsulasinn orðinn, að eg ei annað hugði en það mundi verða í síðasta sinni. Þó gafst mér ei inn að kveðja söfnuðinn fyrir fult og alt. Þetta sumar var það fyrsta, sem eg átti eingan veg til þess, vegna veikinda minna, að bera ljá í gras, og ekkert gat eg að heyverkum gert, nema lítið að snúa flekk endur og eins. Þreifaði eg á, að guð var að leiða mig og benda mér til annara verka, sem hann fyrirsá mér nytsemlegri, sem var að hugsa um mína endalykt því betur.

Þó, eg get ei orðum að því komið, hvílíka krapta og nýjan styrk guð gaf mér ætíð, þá eg skyldi þjóna honum, og það mætti heita eitt stórt miskunnar og

1) [Þessi setning er strykuð út í hdr., og hefur síra Jón köggull sjálfur líklega gert það: þótt oflof í.

almættisverk. Þá lét hann við mig framkoma enn þá fleiri gæzkuverk, sem eg vil stuttlega á minnast.

Hann gaf mér styrk að fara austur að Kálfafelli og setja þar inn í kallið þann guðhrædda kennimann síra Þórð Brynjólfsson, taka þar út kirkju og stað, svara út öllu kirkjunnar og staðarins gózi, sem var í minni vöktun og umsjón. Var á því mörgu soddan vafi, er ei var gott úr að ráða fyrir ókunnuga, en hér treindi hann svo mitt líf, að eg gæti gert skilagrein á því öllu, hverja fyrirhöfn að presturinn mikið ærlega án nokkurs tilkalls betalaði mér. Féll þó upp á mig stórviðri, þá til baka fór, að nóg hafði með að komast heim aptur.

Sú dygðaríka og óflekkaða jómfrú Margrét Sigurðardóttir, um hverja eg má með öllum rétti vitna það sama, sem Helgi gaf Ketilríði forðum; þann tíma, sem við höfum nú í hjónabandi verið, hefur hún verið mér því nákvæmari og ástúðlegri í öllu sem eg hef aumari verið, so þó eg hefði átt um að mæla við sjálfan gjafarann, hef(ð)i eg ei kunnað mér nokkra hagkvæmari að kjósa í mínum veikindum. Áður er um það getið, að guð hafi henni til mín bent fyrir 5 árum, sem var þanninn. Henni þótti í draumi til sín talað: »Þú átt að fara til hans síra Jóns«. Og þá hún þóttist ei vita, hver hann væri, var henni sagt: »Hann er fyrir austan«, með enn fleiru soddan. Þanninn sér guð fyrir ráði manns áður en hann hugsar hið minsta til þess, sem von er, þar allir vorir dagar eru teiknaðir í hans bók áður en vér nokkrir erum. Við erum óskakkir fjórmenningar, af síra Sigurðar ætt frá Goddölum fyrir norðan, en einnrar ættar af Eydala eða síra Ketils ætt. En börnum mínum er hún skyld af Marteins biskups ætt. Hún er fædd í þennan heim á Stafholti af síra Sigurði Jónssyni og Madame Sigríði Markúsdóttur 1757 22. Martii kl. 1 eptir miðdag; skírð af föður sínum.

So sem eg var orðinn úrkúla vonar, að eg mundi nokkur laun hjá mönnum fá fyrir mitt seladráp og þá hjálp, sem guð veitti fyrir það, sem áður er sýnt og umvitnað, kap. 47da, þá stjórnaði hann nú so

þeirra hjörtum utanlands, er í öðru sýndu mér mikil óbilligheit, að eg fékk nú frá þeim 10 ríxdali courant. So hefur guð allra manna hjörtu í sinni hendi, hver dæmi degi eru ljósari.

So gerðist eg nú lasinn að heilsu, að ei mátti nærast, nema af léttasta mat. Þá að haustaði, stóð so á kúm mínum, að eg hafði litla mjólk í heimili, en mátti ei hennar án vera. Tók þá minn fyrrnefndi vin Mr. Pétur á Hörgslandi þá einu snemmbæru kú, er hann til hafði, þá borna og vel til búna, og léði mér so leingi eg vildi, en var sjálfur eptir með fólki sínu so nær mjólkurlaus. Þanninn ættu fleiri menn lyndir að vera við prest sinn. Guði sé lof, að enn þá er ei þessi vonda öld so komin, að ei finnist hér og hvar í sóknum þvílíkir. Hver einn kann þar um að segja, eptir því sem reynslan kennir og fram kemur. Í sannleika er og aldrei of vel breytt við góðan kennimann, þó eg meti mig ei þvílíkan. Af náð guðs er eg það eg er, því svo hljóðar þar upp á þessi staka:

Kennimann, sem mart gott kann
og mæða kreinkir,
meiri er skaði að missa hann
en margur þeinkir.

Hvílíka ánægju hver hefur þar af öðrum og hvílík blessun og náð guðs fylgja sambúð, verki og viðhöndlun slíkra manna, verður ei nóglega frá sagt.

Nú kemur til sagna annað efni guðs góðrar og undrunarlegrar forsjónar við mig um þennan tíma í tvöfaldan máta, er nú vil eg frá kynna.

Áður fyrri hér í velmakt allra hafði eg léð dóttur mína Jórunni þáverandi hospítalshaldara hér á Hörgslandi Mr. Pál Jónssyni fyrir þjónustustúlku, og sem handgeingnasta konu hans Madme Valgerði Þorgeirsdóttur, sem hér var þá eiðsvarin jordemóðir. Hjá þeim var heimilisfólk undir 20 manns, og þurfti mikla umhyggju og fyrirgaungu, er hún kunni ei einsömul að afkasta. Voru þau hjón einir þeir mestu umgangs og erfiðismenn utan húsa sem innan, og

þó dóttir mín kæmist hér í harða og vandasama þjónustu, þá gerðu þau í allmörgu vel til hennar. Fór hún so með þeim, þá þau flúðu héðan undan eldinum suður á Seltjarnarnes, og síðan, þá þau fluttu sig að Gufunesi, hvar hann varð hospitalshaldari. Lágu mér margir á hálsi, að eg skyldi láta hana vera þar í þvílíku vandværi, er eg lét ei á mig festa, meðan eg þurfti hennar ei sjálfur við, því so var og skilmáli áður þar um gerður. En þá síra Ólfur sonur hans giptist Helgu dóttur minni, tók eg Jórunni til mín aptur, en þeim þótti mikið af henni að sjá; vildu og fá hana til sín, er eg giptist. Nú mátti eg ei að heldur vera hennar án, hvar af kom heldur en ei þykkja í þau. Komst þetta so vítt, að eg vildi ei hún þyrfti að fara til þeirra aptur, sem þó lá ei annað fyrir, að mér burtkölluðum, nema þar hefði áður orðið umbreyting á ráði hennar, er eg hvergi sá nú líkindi til, því 5 höfðu áður beðið hennar, þrír ágætir menn af þeim, og fékk hún sér ei geð til nokkurs þeirra. Og þó eg áfýsti og fylgdi þar að með tvo af þeim, sá eg síðar, að það varð þó fyrir beztu, að ei varð af því, og hugsaði enn framar, það stand ætti ei fyrir henni að liggja, og aldrei skyldi eg þar framar hlut að eiga að leggja orð mín til við hana eða nokkurn mann til þeirra efna.

Síra Ólafur og síra Þórður Brynjólfsson vígðust báðir undir eins, og urðu saman á ferð frá vígslu; færist þá þetta í tal milli þeirra, að þessi dóttir mín sé hér eystra og óheimangefin, og munu þeir hafa meira um það talað. Þá búið var að afhenda og og innsetja síra Ólaf í Ásaprestakall, bregður hann sér til mín og Helga dóttir mín, kærasta hans. Urðu þar fagnaðarfundir með okkur, þvi eg þóttist hana so sem úr helju heimt hafa, þar við fjarlægðustum so, að eg taldi þá von af, eg mundi sjá hana fyrr en í eilífu lífi. Nú segir sira Ólafur mér þanka prests. Eg svara honum, að eg skipti mér ei af soddan, þau skuli sjálf koma sér saman, og þá sé mitt að samþykkja, ef af því verði, því raunar sé mér þetta ljúft, ef hún sé viljug. Hann skrifar so presti til um þetta,

hann skuli sjálfur fara þess á leit, so hann kemur hér eptir þessu, nefnir það við mig, en eg vendi því til hennar, er so fór, að hún játaðist honum auðveldlegar en eg hafði kunnað að þeinkja, að hverju sem guð lætur það framar verða. En verði það framgeingt, hverju guð ræður, þá er þar í tvíllaust hans blessað ráð og vilji. Er það og víst, hann hefur þá beztu eiginlegleika, er áttu við geðslag hennar, framar hinum að nokkru leyti. Hann er af dágóðum ættum; móðir hans dóttir þess nafnfræga guðsmanns síra Jóns á Staðarhóli, var ein sú frómlyndasta og guðhræddasta kona, sem við hef kynzt, og ein með þeim[1]). Hann sjálfur vel persóneraður maður, veldrifinn, forstandugur, erfiðissamur, og verður, eptir því sem eg kann um að dæma, einn með þeim betri og uppbyggilegri kennimönnum, því eg lét hann hér hjá mér embætta. Annað er þetta, að sonur Mr. Páls síra Ólafur, sem bæði er frómlyndur og um allan tíma eitt það bezta barn foreldra sinna, verður hér þá að fyrstu framfylgjandi orsök, en vissi af þanka þeirra. So verða menn ei sjálfráðir!

## KAP. LII.

Nú víkur frásögn fram á sumar þessa árs og aptur, þar til menn fóru í venjulegar aðdrættaferðir[1]). Með mínum áðurnefnda vin Mr. Pétri á Hörgslandi skrifaði eg herra Hannesi biskupi til, og meðal annars tjáði honum af mínum heilsubresti, og að eg mundi þurfa að biðja hann að útsjá mér capellan, sem mér og sókninni væri hagkvæmur og þénanlegur. En á meðan vildi eg samþykki og leyfi hans fá, að næstu prestar aðstoðuðu mig í mínum embættisverkum, þá so lægi við, hvert leyfi eg soleiðis fékk, að[1]) ef ekkert forsómaðist í þeirra sóknum þar fyrir; og bendir mér til norsku laga og þess articula þar, sem tilsegir einum presti að taka sér capellan til aðstoðar, þá hann sé farinn að bila til að þjóna

1) Svo, hdr.

í sínu embætti. Var hér enn meira undir falið, því nokkrum tíma þar eptir fæ eg bréf frá biskupi solátandi, í einum pósti þetta áhrærandi, sem eptir fylgir:

Eg condolera yður með yðar vaxandi heilsuveiki, og sagði Mr. Pétur Sveinsson, hversu stór hún væri Þá, sem nógu eru gamlir, er búið nú að skikka til fátæku brauðanna, en þeir, sem sig hafa til skóla kostað, þykjast beðið geta betri kosta en að verða capellanar, nema á einstöku úrvalastöðum. Að vísu er systursonur minn Mr. Sigurður Jónsson einn af þeim, og þarf ei fyrir því að óttast að skikkast, en gjarnsamlega vildi eg kjósa honum til handa capellanie hjá yður; því hjá yður kann hann að fá margfaldan fróðleik og þekkingu, bæði í historia civili og naturali, ecclesiasticis og mörgu öðru, sem hann ekki þarf annarstaðar að vænta. Paucis, eg vil gjarnan mín orð til leggja, að þér kallíð þennan frænda minn, og þá sendið þér mér yðar vocation til hans það fyrsta ske kann etc.

Skálholti d. 27. Junii 1788.

H. Finnsson.

Nú sannaðist á mér, að mörgam verður bilt við, þá boðið er. Þóttist eg nú vera bundinn í báða skó, hvað afráða shyldi. Eg hafði í huganum afráðið að kalla minn elskulega teingda og uppfóstursson, Mr. Berg minn, til meðþénara í embættinu, og gera síðan afsögn við hann á kallinu með yfirvaldanna leyfi og samþykki, og vera hér so síðan í skjóli hans, því so sem hann er gagndrifinn og forstandugur maður, so er hann stórærlegur, tryggur og dygðaríkur, þar sem hann tekur því. Ætlaði eg, að hann skyldi í millertíð byggja aptur sína bújörð, og so framvegis. Annarsvegar sá eg nú ekki sýnna en gera eptir vild og beiðni minna yfirboðara, sem auðveldlega gátu komið í veg eða orðið mér ei hliðhollir í því fyrra, ef eg hefði ei tekið þeirra boði. So þó eg væri mjög hræddur um að taka á móti soddan persónu af þvílíku blóði komin(ni), so réði eg

það af að kalla hann. Sjálfur þekti eg til hans í uppvextinum, að hann var sérdeilislega frómlynt og skikkanlegt ungmenni. En hér var enn meira að segja, að foreldrar hans herra Jón Teitsson og frú Margrét Finnsdóttir, þann tíð þau sátu á Gaulverjabæ, voru þau einir mínir beztu velgerðavinir, sem of langt yrði upp að telja, so eg ei alleinasta skipti við þau, heldur sótti eg til þeirra, — og var[1]) hjá þeim hve nær, sem eg var á ferð, — so sem ástríkra foreldra minna. Því um hann má eg með sönnu segja, að það var í honum, þeim guðsmanni, fornaldar trygð, hreinlyndi og ærlegheit, en hún sannsýn í öllum viðskiptum. Voru þau góðu heiðurshjón ein af þeim, sem opt voru velgerðir vanþakkaðar, og þar sem so var um garð búið, fann eg mig alt of illa minnugan þeirra ærlegheita við mig, ef eg hefði nú ei gert mitt allra bezta eg kynni í orði og verki við son þeirra. Og lofaður veri guð, að mér gafst þar til efni og tækifæri. Já, hans fyrirhyggja og ráðstöfun var furðanleg í þessu. Þó skrifaði eg köllunina með þeim sléttu skilmálum, að þeir skyldu sjálfráðir að ganga til eða frá. Í bréfi mínu til biskups útmálaði eg mitt fátæktarástand að taka á móti þvílíkum manni, þó eg vel vissi mína skyldu að gera mitt hið besta við hann, því hér væri helzt söl, rót og íslenzkt mjöl að lifa af, og mundi honum ei falla sá kostur, og bað hann því, þ. e. biskupinn, að hjálpa upp á mig með mjöltunnu, hvað hann til vann og gerði, hvar af sést, að þeim var full alvara, að hann til mín kæmist. Beið eg so fram eptir sumrinu, að eg frétti ekkert til né frá, þar til lítið lifði eptir af því. Eg embættaði það so til enda, þó opt væri með veikum burðum, catechiseraði jafnlega eptir sem börn komu. Seinast embættaði eg þann 23. sunnudag eptir Trínitatis og fól þá guði á hendur mín sóknarbörn á þá nýuppbyrjuðum vetri. En þar eptir í vikunni, þ. e. þann 31. Octobris, kom minn velnefndur capellan, og með honum síra Jón minn á Lyngum,

---

1) vera, hdr.

sem embættaði fyrir mig á allra heilagra messu þar eptir, og setti hann inn í embættið með bæn og blessun eptir lögum. Á þeim sama degi hafði eg fyrst í stól stígið og prédikað, eptir það eg var útskrifaður úr skóla, sem nú uppvaknaði fyrir mér í mínum aldurdómi. En þá kom þessi velnefndur kennimann með bréf frá biskupinum, og síra Eiríki í Reykholti systurmanni hans, sem allir beiddu mig fyrir hann betur en eg vil þar um mæla eða minn verðugleiki tilstóð. En það sýndi ættrækni og manngæzku þeirra allra.

So leið allur Novembermánuður, að eg treysti mér aldrei til kirkju að fara fyrr en þann siðasta, sem var adventusunnudagnr. Sté eg þá í stól og í Jesu nafni uppbyrjaði eitt nýtt kirkjuár, og fól minn tilsendan og nálægan meðhjálpara í orðinu söfnuðinum á hendur til þeirrar skyldu og þénustu, er þeir ættu honum að veita, og so afhenda hann og þá þeim gæzkuríka guði til allrar hjálpar og varðveizlu; boðaði so húsvitjan. Og þar eð veður var gott í vikunni eptir, húsvitjaði eg að Hörgsá alt að austan, en hann alla sóknina þar fyrir utan. Vaknaði eg enn við góða bending, að á adventusunnudag var eg fyrst innvígður í kennimannlegt embætti. Þanninn leikur sér guð við oss. En þaðan í frá til nýjárs komst eg aldrei til kirkjunnar; þótti mér það fyrst næsta sorglegt. En þá eg fann í samvizkunni kraptleysi til þess, so hún kunni ei að áklaga mig þar um, lét eg mér það vel lynda, og gaf mig so á guðs vald. Ei brá sókn minni minna við, þá eg komst ei til þeirra. Frá tek eg nýjungagjarna, sem þó færri voru.

Hversu guðs forsjón hafði þó hér í hönd á báðar síður, vil eg enn fremur sýna.

Sá hálærði skólameistari á Hólum Mag. Hálfdán Einarsson var góður vinur minn. Við skrifuðum hvor öðrum til í ýmsum sökum, hvar um áður er á vikið. Hann var hér barnfæddur og þótti ætíð vænt um að frétta héðan, eins og mér af minni fósturjörðu. Hann dó 1784 á 52. aldursári.

Þessi minn capellan sagði mér þetta eitt af honum. Þá hann var eitt sinn í einrúmi á Hólum að lesa yfir lectíu sína, kemur skólameistari til hans af hendingu, lítið kendur af brennivíni, og talar til hans þessum orðum: »Það vil eg segja þér fyrir, að ei muntu neinn embættismaður verða í þessu stipti. Þú munt aptur suður á land komast, og fyrst prestur verða hjá vini mínum Jóni Steingrímssyni, sem þig mun vel menta til kennimannsskapar, og taka þar við, sem eg hætti. Ber honum kveðju mína, ef af þessu verður, sem eg ætla«.

Dæmið sýnir, hvílikur sá maður var. Voru það sannmæli, að þörf hafði þessi kennimann að láta segja sér til, þar hann hafði ekkert iðkað það so að segja þann 3ja ára tíma, er hann hafði stúdent verið, hvar til eg lagði til alt það, eg kunni, því ljúfari sem hann var til að nema og læra það hér til þénti. Þó hafði eg, jafnvel fyrr en hann til mín kom, og hef enn, frekari þanka síðan feingið, að ei mun vor samvera laung verða. En mig gleður þó hjartanlega, að hann getur borið mínar menjar í kennimanns embættissökum, bæði sóknarbörnum mínum, meðan hér dvelur, og so öðrum til gagns, hvar hann staðar nemur síðar meir.

Sá góði guð, sem nú er farinn að tilreiða mig til sinnar hvíldar, lét mig þanninn þéna sér í rúminu, er hann sá eg gat það ei leingur í kirkjunni, og (gaf) mér so líf til þess að útenda þetta ár. Lofað sé hans nafn eilíflega!

## KAP. LIII.

Þetta ár 1789 uppbyrjaði eg, sem það fyrra, með sorg og gleði, í fullri von og eptirbið, það verði mitt síðasta í þessum heimi eptir minnar holdsnáttúru og sjúkdómsins eðlishætti, og enn fleirum bendingum, sem hér að lúta. Nú komst eg ei til kirkju á nýjársdag, því austanstormur var með fjúki, so að mjög fátt fólk kom til kirkju. Gátu þó fleiri farið en fóru, ef vilji hefði verið til þess. Fóru sumir upp

á bæi sína og gættu að, hvort eg kæmi, og fóru so inn aptur, er þeir sáu hverir að komu. Gat eg bæði og ekki kent í brjósti um þá. Næsta sunnudag þar eptir varð virkilegt embættisfall. Þann næsta þar eptir, er var 1sti sunnudagur eptir þrettánda, komst eg til kirkju, og fjöldi fólks, því spakt veður var um morguninn, en sterkviðri um kvöldið. Þó fékk einginn þar af mein. Eg prédikaði nú með forundrunarlegum styrk guðs og hagaði so ræðuformi sem hlýða kynni upp á nýuppbyrjaða tíma, að guðhræddar sálir skyldu ei sakna í fyrir nýjársdaginn. So fór eg aptur til kirkju þann 3ja, og prédikaði þá ei síður til kraptar en þann fyrri. Var hér og til ein stórtilknýjandi orsök. Frá þessum degi og fram að föstu komst eg ei til kirkju, bæði vegna veðurs og veikleika míns.

Tók eg nú fyrir mig að stunda og iðka sem bezt guðlega hluti, samantaka og fullkomna eitt og annað, sem áður hafði hálfkarrað viðskilið í sálmum og kvæðum, hversu langt sem eg kann að komast með það.

Vil eg nú einninn segja ykkur frá, mín hjartkæru börn, hvað eg hefi í skrifum saman tekið, sem nokkur nytsemi mátti af verða.

Þann fyrsta vetur, eg var í Hellum, tók eg saman registur yfir *Spatens Lexicon* í þýzku, og bar það saman við vort móðurmál sem bezt eg kunni. Var það mikið nytsamlegt fyrir þann, er læra vildi þýzku, er eg var farinn að leggja mig eptir og komst so langt, að eg gat samantekið prédikun úr þýzku með stuðningi, þó ei aldeilis orðrétt. Og þá eg nenti ei betur að leggja mig eptir því annars auðvelda tungumáli, — sem mig maklega iðraði eptir á seinni tímum, — gaf eg í burtu *Danat* og *Gramaticam* frænda mínum á Mýrum[1]). Með[2]) þetta mitt áminst *Spatens registur* fór Jón stjúpsonur minn með[2]) í skóla. Hefi eg það síðan ei uppspurt.

So gerði eg aðra glósnabók yfir *Pontani colloquii*

1) Það mun vera Steingrímur biskup.
2) Svo.

*adagia,* sem eg hefi alt af hendi látið Mr. Vigfúsi stjúpsyni mínum, sem eg held hann enn víst eigi.

Eg tók mér saman 4 prédikanir yfir hvern helgan dag, og langt fleiri yfir hátíðisdaga, heila árið í gegnum, þó fáar fullskrifaðar, sem eg bæði hefi aptur burt gefið, og góðir vinir hafa hjá mér tekið, að ei á nú eptir, nema lítið rusl af því. Því nú varð eg so vel að hjálpa upp á minn andlega meðbróður, sem með[1]) slétt ekkert af þesshátttar kom hingað með[1]).

Á móti grillufangaranum Gunnari á Dyrhólum og hans áhangendum mátti eg gera þrjú skrif. Eitt var um það, að menn skyldu biðja guð með fororði um líkamlega hluti, því þeir neituðu því, að einn trúaður maður þyrfti þess. Annað var um forherðinguna. Þar til útlagði eg eina Herslebs prédikun um Moses saung og lambsins saung, Ap. 15,3, og samansafnaði (meir) lærðra manna skrifum um það, en eg til byggi nokkuð sjálfur, so sem þau verk sjást eptir mig, hver sem þeirra nýtur. Það þriðja var um guðs siðalögmál, að það ætti að viðhaldast, kennast og brúkast, með útlegging yfir pistilinn til Galatas, hvar á móti hann skrifaði mikið skrif, upp á 4 arkir vel so, og eg aptur bakarekning á því. Útskriptir af því öllu liggja hér eptir mig, verðugar að lesast móti sérvitringum.

Eptir mig liggja og tvö skrif eður útleggingar úr dönsku. Annað *yfir það, að guð taki alla sanniðrandi stórsyndara til náðunar,* af þessum orðum Luc. 15: Þessi meðtekur bersynduga og etur með þeim. Það er í 12 kapitulum.

Annað er *samtals guðs og iðrandi sálar.*

Eg tók mig til að samantína *andleg kvæði,* bæði hjá fróðu gömlu fólki og þar eg fann þau á rotnum og yfirgefnum blöðum, að auðséð var þau mundu flestöll, ef ei öll, úreldast og gleymast. Lagfærði þau so sem eg kunni og setti saman í eitt, að þau eru *stórt hundrað í einni bók*[2]), er eg hefi gefið dætrum mínum, og *aðra* er eg nú að tilbúa. Eru þar saman

---

1) Svo.
2) Landsb. 987. 8vo.

komin *104 kvæði*[1]). Eg hefi að sönnu til þau 16, er hér til vantar á fullnustu við hina. En guð ræður nú, hvort mér lénast líf til þess eður ei. Hálfa *kvæðabók Eggerts sáluga Ólafssonar* skrifaði eg upp og gaf Jórunni dóttur minni. En *hans skrifkonstarbók* gaf eg síra Markúsi mínum, ásamt *fornaldar- og pápiskukvæði og bænir*, er eg saman tíndi víða að, þá doctor herra Finnur var að taka saman sína Kirkjuhistoríubók, því hann bað mig þess, henni til fullnustu eður útmálunar, hverninn kristilegri trú þá og síðar var háttað hér á þeirri pápisku öld. En það eg hafði uppskrifað af ættartölum hef eg feingið síra Jóni mínum á Lyngum. Hjá honum er og *ættartala minnar sálugu ektakvinnu*, samantekin af síra Jóni sáluga Helgasyni. Hann varð nærfelt níræður, varð aldrei veikur, nema 2 nætur áður en hann dó. *Mín sjálfs ættartala*, er hjá biskupi herra Finni, en uppkast hennar er hjá mér[2]).

*Tvær syrpur* hef eg tilbúið, *hvar í finnast margir fróðleikskveðlingar fornir og nýir*, með mörgu fleira. Hef eg aðra gefið Jóni Sigurðssyni fósturdreing mínum, en aðra ætla eg síra Þórði. Eg hef og ánafnað greindum Jóni Sigurðssyni eina *sálma- og kvæðabók*, er eg hef tilbúið af öllum þeim sjóferðasálmum, sem til hef spurt, ásamt kveðlingum og ljóðmælum út af mörgu, sem við hefur borið, sérdeilis hér innanlands; er eg þó ei búinn að fullkomna hana eptir minni vild[3]). Eina bók hef eg samantekið, hvar í eru fyrst *biblíusálmar síra Jóns Guðmundssonar*, og fleiri sálmar út af heilagri ritningu, 4 tólfstunda sálmar, 20 stafrofssálmar, allar þær ljóðabænir, er eg hef upp spurt og eptir komizt, og er mikið nytsamleg fyrir ungar studerandi persónur. Sú bók er hjá síra Ólafi mínum. Eg hafði og tekið fyrir mig að gera *eitt huggunarstafrof af heilagri ritningu*, bæði í eintila[4]) og margtila[4]), og var kominn mitt fram í það verk, en

1) Sbr. Bókmentafél. safn Rvk. 160. 8vo.
2) Landsbókasafn 483. 4to og 954. 4to.
3) Sbr. ÍBfél. Rvd. 160. 8vo.
4) Svo.

get nú ei fullkomnað það vegna lasleika og annars fleira. Það má og segja, hver sá ungur prestur, sem tæki fyrir sig að fullkomna það verk og lærði það síðan, mundi aldrei orðfall verða í nokkru nauðsynja bænaákalli til guðs, því stafanna niðurröðun styrkir[1]) so minnið. Fyrir utan ótal sálma og vers, sem eg hef uppskrifað, og útgefið hingað og þangað, eptir sem eg hef beðinn verið, og guðhræddir menn hafa átt í hlut, — meðal hverra eg má marga telja í næstprentuðu síra Hallgríms kveri, so sem formáli Mag. Hálfdans fyrir því ljóslega sýnir, — þá hef eg, eins og fyrr segir um kvæðin, samantekið tvær sálmabækur, aðra gefið Helgu dóttir minni, en aðra minni núverandi ektakvinnu. En þó sálmarnir séu þar langt frá ei í sinni réttri röð, orsakast af því að eg varð að skrifa upp hvern einn eptir því sem eg fékk þá til af munni eða penna í þann eður þann tíma. Vikubænaflokkar eru hér fyrir utan, af hverjum mér má eigna *Herslebs bœnir*, er eg hef útlagt, og mart í flestöllu því, sem hér hefi að framan og ofan talið, sem þeir sjá merki til, sem það hafa undir hendi. Þótt nú alt þetta sé í þvílíkum hræringi og ófullkomnan, sem sagt er, þá mætti úr því hverju einu samanbornu gera þær nettustu og gagnlegustu kvæða-, sálma- og vísindabækur, og því hef eg samansafnað þessu sem mest og bezt eg kunni, ef ske mætti, mínar hjartkæru dætur, að einhver ykkar ektamaður tæki sig til þess eður hefði tómstundir til þess. En ef ei, þá ef guð gæfi ykkur þann son eða dótturmann, er sig gæfi til þess, guði til ævarandi lofs og dýrðar og einhverjum hans börnum til gagns, þá væri mín girnd södd og þetta erfiði ei til forgefins. Og þó vel megi (eg) játa, að nóg sé guðs orð enn til í landinu, þá vona eg þó, að hver sá, sem vill að guðsorðalærdómur búi ríkuglega í því og útbreiðist um það, viðurkenni, að ei sé þessu ofaukið; heldur hefði mátt synd heita að láta það foreyðast og gleymast fyrir þann, sem það gat aptur leitt fyrir ljós, so hvað einn

---

1) styrkja, hdr.

sér óviðurkvæmilegt á öðrum, að því skal hann helzt gera á sjálfum sér. Hvers er sá verðugur, sem grefur sitt pund í jörðu, nema þess, að það sé frá honum tekið? Hvað viðheldur betur einum ættlegg í lukku og farsæld en guðhræðslan? Kunni einn að hæla sínum ættlegg, að hann sé sá mesti og ríkasti, þá kann eg að hæla mínum, að hann alt frá pápiskri tíð hefur verið einn meðal þeirra guðhræddustu og farsælustu, með litilli auðlegð, og ánægju hjá allmörgum, og so hefur guð sér til sérdeilis þjónustu útvalið hann, að þar finst ei foreldri upp að telja, að ei hafi átt eitthvert barn, sem annaðhvort varð prestur eða teingdist þá í þá orðu. Eg man að á einum opinberum samfundi taldi síra Sigurður föðurbróðir minn 32 presta, er á því ári, ɔ: 1767, voru lifandi í ættleggnum, sem hann var þá útstrjálaður um heila landið. Þegar eg spyr að norðan í þessum mestu hallærisárum, þá heyri eg þó með forundran, að þeir fáu, sem þar hafa um þann tíð i skóla komizt, hafa þó verið flestir ættingjar mínir. Tveir af þeim orðnir nú kennimenn í Múlasýslu, síra Jón Hallgrímsson og síra Árni Þorsteinsson. Skoðið, mín kæru börn, hverninn guð hefur í þessum hlut farið dásamlega með ykkur, gefið ykkur kennimenn og þá af kennimannlegu og erlegu blóði komna. Guð mun og efunarlaust halda fram sömu náð við ykkar afkomendur, ef þið iðkið og stundið að ganga í ættleggsins framtalin dygðafótspor, hvar til hann virðist að leggja til sitt fulltingi. Þess óska eg nú með tárum og heitum huga, þar eg ligg nú sængurliggjandi og hripandi þessar línur.

Margir sögðu fyrr meir, þá eg var að samansafna því, sem andlegt var, og hreinsa það og skrifa, því eg skrifaði ei heldur upp sögur og rímur, lög og þess kyns en þetta, sem mér er nú það inndælislegasta af öllu hinu? Að sönnu skrifaði eg nokkuð af annálum og lærðra manna skrifum. Í rímum komst eg í sjálfar Refsrímur, og þar stóð við, því eg fann mér alt betra geð til hins. Um alla jarðelda, sem hér í sýslu hafa fallið, hef eg skrifað eptir (því), sem

feingið hef frásagnir um, þá og einkanlegast um þann mesta og síðasta 1783. Item hef eg gert, meðan eg var limur þess lærða félags i Kaupenhafn, þrjú skrif; eitt *um að þekja hús með hellu*, hvar með fylgdi um hlöðubyggingar, annað *um að lenda brimsjó*[1]), 3ja var *tillag til íslenzkrar matartilbúningsbókar*, og mun ei reynast ónytsöm, þeim er nota vilja. Þetta legg eg nú alt fyrir óðal. En nú er eg til annars aldeilis vakinn, sem er, að hvenær eg hef uppsetumátt er eg að taka mér saman eina þá fágætustu sálma, er ei hafði áður yfir komizt að uppskrífa, með öðru fleiru þar að hnígandi, ásamt að auka við mitt lang-saman safnaða *húsversa lesturskver*, að mitt stutta líf, sem nú eptir er, mætti brúkast til iðrunar og guðs dýrðar, og að eg fyndist vakandi, þá hann kemur.

## KAP. LIV.

Vildi nokkur betur samantaka það, eg hef skrifað um sjúkdóma og lækningaraðferð við þeim, hef eg þar mart í af eigin reynslu skrifað, en sumt er annarsstaðar frá tekið, helzt úr læknisdómabók Gísla Magnússonar, þess grundlærða höfðingja, sem var á Hlíðarenda, so hún yrði að fást til samanburðar. Ætla eg sú bók sé nú hjá prófasti síra Markúsi í Görðum á Álptanesi. Item önnur, sem heitir Blankard. Með ráði herra landphysici Bjarna og landsþingsskrifara herra Sigurðar fékk eg síra Eyjólf Teitsson að leggja hana út úr þýzku; kostaði eg þar upp á 3rdm, því hún var upp á 56 arkir, sem eg allar hreinskrifaði. Hún er sú bezta, sem eg veit til vera, að þekkja alsslags sjúkdóma. Ætlaði eg og landsþingsskrifari sálugi að setja til í hana öll specifica og recept af innlendum meðölum, sem við vissum við mundi eiga. Hafði so landphysicus lofað oss að yfirskoða alt verkið, umbæta það og lagfæra til fullnustu. En guð burtkallaði kann fyrr, og þar með gaf eg frá mér bókina til landsþingsskrifara með

---

1) Lærdómslistafélagsrit IX, 1789 bls. 1—23.

viðara. Hann gekk síðar þar eptir veg allrar veraldar[1]), og þar með féll allur sá kostnaður og ætlan aldeilis niður. Þanninn falla opt gerðir manna. Þanninn hef eg sýnt, hverninn eg hef hagað þeim gjöfum, sem minn góði guð gaf mér, sem honum einum er kunnugt, ykkur og öðrum er vitanlegt og sjáanlegt. Þó finn eg hjá mér vangæzlu og hirðuleysi alt of mikið í öllu því, og helzt því, er mest á reið. En hans óendanleg náð fyrirgefi mér og láti (e)i straffsins verðlaun falla yfir mig í mínum nú yfirkomnum aldurdómi!

Að verkið lofi meistarann verðuglega, vil eg enn framar sýna og frá segja, hvað guð lagði mér til í *líkamaskapnaðinum.* Hans almættishönd hafði gert mig vel skapaða(n) mann, eykinn meðalmann á hæð, af sangvinsku temperamente, sem af minni eigin vantempran og holdsvellystingum varð mér að dauðameini, þá þeir köldu vessar og líkamslúi tóku náttúrlega að hafa yfirhönd. Eg var útlimasmár og vöðvaþrekinn, með jafnbreiðum ristum, lítið framdregnum. Hendur mínar voru litlar og þykkar, en sérlega mjúkar í öllum tiltektum, sem barnssængurkonum og öðrum sjúkum kom opt að góðu liði, því frá þremur konum limaði eg dauð fóstur, og fleirum með öðrum manni til, so mæðurnar feingu þar fyrir með guðs vilja og hjálp að halda lífi og heilsu. Veit eg enn ekkert annað meðal við því, þá hönd eða handlegg ber að, að ei hafi orðið öðruvísi snúið, og so hefur leingi verið. Andlitsfarfinn fagurrauður leingi fram eptir æfi minni, en dökknaði og bliknaði sem á aldurinn leið. Heldur kringluleitur en langleitur, með breitt, slétt og upphátt enni, sem varð tvíhrukkað við ellina. Lítil og blá augu og ljósar augabrýr, lítið nef, nokkuð hærra að framan, lítill og sléttur munnur og kringlótt haka, með þykkum kinnum og undirhöku. Mikið hár ljósgult eða saffranótt hafði eg í ungdómi, sem liðaðist með hrokknum lokkum á herðar niður. En þá eg var farinn að

---

1) Hann lézt 1780.

iðka sjóferðir, dökknaði það ár eptir ár, en eyddist nú mest á jarðeldsárunum. Og þó eg tæki að hærast í kampi um mitt 32. aldursár, er eg þar enn ei á 61. fullhærður, og ei hið minsta í höfuðhári. Líkist eg þar föðurfrændum mínum. Þá eg varð feitastur, varð eg 20 fjórðungar að vikt, en so gekk nærri mér eldpestin og það hörkuerfiði og ónæði, sem eg hafði um þær mundir, að eg varð 13 fjórðungar, og nú komst eg mikið í sömu hold aptur. Ei fékk eg þó ístru og fitu af kræsingum, því eg hafði ætíð ógeð á þeirri eyðslusamri athöfn, heldur var mínu náttúrufari so háttað af hollum og hreinum mat, og mátti því, þó ei hefði þörf af manneklu, hleypa mér opt í svitaerfiði. Þess vegna, þá eg misti svitann og þá útdampan líkamans, komst eg í þessa mæðu, sem eg nú líð. So var eg léttfær í ungdómi, að eg nærfelt gat stokkið skattinn, það er 8 álnir, á sléttri jörðu. Gátu það fremur mér nokkrir mínir jafningjar í skóla. Annað, sem eg lærði upp á, var að þrífa hendi í fax og snara sér upp í hnakk af jörðu; gat eg það af vana fram til síðustu í öllum fatnaði, alt hvað hæð var við hestsíðu í hné, sem menn forundruðu sig yfir. En þetta hégóma athæfi og áreynsla, er eg klemdist þanninn ofan í hnakkinn, bakaði mér það kál, sem eg drekk nú með öðru af með blygðan af minni blindni. Ei gaf guð mér meiri styrkleika en so, að eg gat hæglega látið upp 12 fjórðunga bagga; hvað meira var, hlaut eg að neyta afls. Þó var eg so snar, að eg gat látið upp á hestinn hinu megin, þótt einginn stæði undir. Vita Norðlingar margir þann máta, sem fáir munu hér brúka. So þó eg kæmi þeim stóru björgum so og so fyrir í byggingar, sem sjást eptir mig, var það meira af vana og lagi en aflsmunum, eins og fyrr hef sagt. Guð gæfi, einginn færi so með sína góðu heilsu, sem er ein sú bezta skaparans gjöf, og eg hef farið, að þá nagi ei samvizkan síðar um þá vanbrúkan! Einginn veit, hvað átti fyrr en misti; og verður þá ei það mista aptur tekið, og verða þá ei önnur úrræði en biðja guð um vægð á forþénuðu straffi.

Nú er so fyrir mér komið, að eg get ekkert beygt mig, verð að eigra fót fyrir fót og taka með lempni fætur upp fyrir þröskulda. Kemst eg nú ei án mannlegrar hjálpar á hestbak, né af hestbaki, og þoli aungvan veginn að ríða, nema fót fyrir fót á rennsléttu. Hlýt eg nú undan að líta, þá aðrir eru að ríða og renna í kringum mig og fyrir augum mér. Vekur það mig að hugsa því framar á mitt hartnær útendaða lífsins skeið, og biðja guð að styrkja mig á því til enda.

Þar eð þessi blaðsíða varð óvart eptir, þá skrifa eg það, sem sérdeilislega viðbar og eg frétti þann vetur, sem hér er næst um getið. Hann byrjaðist með sterkum vindum og kulda, hvar á þeir kendu á Suðurnesjum með skiptöpum, hvar af drukknuðu 33 menn að samtöldu. Síðar druknaði einn útlærður studiosus juris Jón Jónsson úr Viðey, ágætt mannsefni, og 3 aðrir með honum. Áður sálaðist Jón foveti faðir hans, frómlyndur yfirmann; item prófastur síra Guðlaugur Þorgeirsson, sem var í Görðum. Sýslumann Odd Widalín í Barðastrandasýslu kól til mikils skaða á höndum og fótum; varð úti í 5 dægur í einu sterku veðri. So gekk að bjargræðisleysi í Austfjörðum við sjóinn, að þar féll fólk í harðrétti. Eldur var hér leingi uppi fyrir páskana norðanvert í Skeiðarárjökli, og leiddi af sér stór vatnsköst í Núpsvötnum og Skeiðará. Sandfall af þeim eldi skaðaði þó ekkert. Þó veturinn væri hér snjóalítill, varð útigangspeningur víða grannholda. Úr Viðey fréttist, að þar hefði dáið fé úr hor, sem ei hafði skeð í heilmörg ár. Þar hey voru víðast létt og lítil, varð stór heyskortur hjá velflestum, því vorið var kalt. Tók að batna og mýkjast veður með uppstigningardegi eður Urbanusmessu; annars hefði orðið mikið bágt. Hlutir að sunnan hæst 6 hundruð og þar langt fyrir innan; þar um bil, þó minna, fyrir austan fjallið; í Vestmanneyjum 2 hundruð, undir Eyjafjöllum undir 5 hundruð, 2 hundruð í Mýrdalnum; hefur ei þvílíkur hlutur gefizt í þessum síðastnefndu 3 veiðistöðum síðan árið 1767, ɔ: í 22 ár. So sem eldiviður varð ei borinn eður

notaður fyrir frostum i vor, so verður hann nú enn ei hirtur af votveðráttu, sem síðan tók við 25. Maji til þessa dags.

## KAP. LV.

Þar hætti eg tali mínu um kirkjuferðir mínar, þá fastan byrjaðist. Þann fyrsta sunnudag i henni fór eg til kirkju; var eg þá til sacramentis og kallaði þar til mín síra Jón minn á Lyngum, því eg hafði brúkað hann fyrir minn confessionarium frá því hann varð prestur, og til margs fleira í kennimannlegu embætti. Ætlaði eg þetta mundi verða forþeinkingarlaust, hvað þó ekki varð. Þann tíð eg og síra Daði vorum saman í Mýrdalnum brúkaði hann mig ætíð fyrir sinn skriptaprest, þó capellana héldi, og forþeinkti það einginn af þeim, né tæki það illa upp, og því kunni eg hér ei að vara mig við. So fór eg aptur til kirkju þann 3ja sunnudaginn. Voru þá yfir 50 communicantes, hverjum eg velflestum skriptaði og stóð so fyrir altarí. Miðföstusunnudaginn embættaði eg, i því að eg prédikaði og spurði börn. Hér eptir þyngdi (so) mikið veikindum mínum, að eg ætlaði, eg mundi þá og þá út af slokna. Dreymdi mig eitt sinn: »Þú fær ei að gleðjast á páskum með öðru fólki með þessum saung:

Allfagurt ljós oss (birtist brátt) etc.,

heldur átt þú að syngja þennan sálm:

Nú bið eg guð þú náðir mig«.

Þetta kom og fram á þann veg, að eg varð að vera heima á páskadaginn, en á annan var búið að syngja inngaungusálm þann áður en eg kom; þó prédikaði eg í það sinni og tók fyrir mig að tala út af mannsins lífs vegferðarreisu um heiminn, og út af honum. So embættaði eg að öllu leyti annan sunnudag eptir páska, sem var sá fyrsti sunnudagur i sumri, því þá var prestur til sacramentis og fékk eg glaðværð og efni til þess að biðja guð að farsæla nýja tíma. So fór eg til kirkju þann 5ta sunnudag til að

útvelja og undirbúa börn uudir sína comfirmation. Mart hindraði, að eg staðfesti þau ei sjálfur, né tæki þau þar eptir til sacramentis á hvítasunnuhátíðinni. Á annan dag hennar kvaddi prestur söfnuðinn og gaf saman ein hjón, fór so í burt með alt sitt töy á 4ða eður þann 3ja Junii. So kom Trinitatishátíð, þá fór eg til kirkju og framflutti öll embættisverk, og lýsti með þrennum persónum, sem eg hafði fyrri ei gert með so mörgum í einu. Tókst mér so vel embættisverkin eins sem eg væri nærri alheill, so eg má nú hvað eptir annað játa, að almætti guðs er óútsegjanlega stórt í vanmættinum, að hann gefur þeim þreyttu krapt og styrkir lúnar hendur, þá þær eru með heitri bæn upphafðar til hans.

Þessi eru þá mín veikindi, að úr nýrnaveikinni er kominn *calculus in vesicam*, er nú gera mest særindin, og auðvitað er, að verður mitt dauðamein. Hefi eg altaf mikið dulizt þar við. En sá alvísi og gæzkuríki guð lét, eptir það eg hafði embættað þann 1. sd. í sumri, hann springa, so að nokkur þykk stykki komu þá í ljós af honum, því hann sá, að eg var þá enn ei orðinn réttilega tilreiddur og reyndur, sem hann vill eg verði áður eg fæ að burtkallast héðan. Hefi eg síðan tilreynt að spreingja hann betur með meðölum, en þó forgefins, því líkamans kraptar eru so svektir orðnir, að eg þoli ei þau meðöl. Hefi því gefið mig guði á vald. Hann geri við mig sem honum gott líkar!

Á hér umgetnum tíma gat eg afiokið áðurnefndri kvæðabók, sem vantaði á 16 kvæðin, so nú eru þar samankomin í eitt stórt hundrað kvæði, og gaf eg hana so Guðnýju dóttur minni. Er eg nú að samantaka þá fágætustu sálma og búa mér til eina nýja bók, eptir sem líf og lasnir kraptar treinast, ásamt að leysa af hendi bænir og sálma, sem einir og aðrir hafa beðið mig um, sem hverjum einum verði að beztu notum.

Nú er að víkja til orsakar þeirrar, hvarfyrir minn fyrrnefndi prestur og capellan fór so hastarlega í burtu, að hann enti ei út árið eptir skilmálum okkar á milli,

sem þar stóðu þó upp á með þeim skilmálum, hann skyldi hjá mjer hafa kost, ljós, alla uppvartning og klæðnað eptir lögum, hálf(an) extraverka ágóða, og so í kaup að auki 8 ríxdali til specie reiknaða, og alt þetta undirgekkst hann og samþykti. Fram á jól sýndi hann sig einn þann þægasta og umgeingnisbezta mann; hann var fús til að læra alt það þénti að vita og gera í kennimannlegu embætti, er eg sem bezt eg kunni menntaði hann og uppfræddi. Eg fékk honum bækur, og alt hvað eg hafði, áhrærandi kennimannsembætti, að hann skyldi verða góður og uppbyggilegur kennimaður, hvar til eg sparaði honum ekkert, ljós né nokkuð, sem þar til þéna kunni, so af iðuglegri ástundan hér af á báðar síður, — því hann kom með ekkert það með sér, er þar til þénti, — þá var hann eptir jól, og þá á föstu leið, so útbúinn og fullnuma orðinn i því verki, að hann gat sjálfur alt það gert án annara aðstoðar og tilsagnar. Nú gladdist eg hér af hjartanlega, að hann forframaðist þanninn hjá mér, og eg veit ei, hvað mikið eg hefði aflagt við hann og börn mín, hefði hann verið mér eins hér eptir eins og hann hafði áður auðsýnt sig við mig. En hér vildi annað í ljós leiðast, sem gerði okkur sundurlynda. Hann var ofur lauslyndur í sinu ráði, so það hann nú vildi og sótti mikið eptir, vildi hann síðar ekki. Hann hafði og ágirndarsnert af einhverjum sínum, þar hjá, þó með undrunarlegum hætti, þann frómleika, að hver einn mátti láta hann ganga um alt sitt, smátt og stórt, án þess að draga sér þar af smátt né stórt eður hafa höndur á því, sem kjurt[1]) átti að vera. Við þetta Síðupláss, sem nálega öllum hefur fagurt þótt, sem hér hafa um farið eður staðar numið, kunni hann ekki, er mörgum þótti undarlegt, og gátu til, þar mundi önnur sök undir liggja, sem var sú, að þar hann ætlaði að teingjast við Sigurð Ólafsson klausturhaldara, hér til forna, en nú á Stóra-Hólmi í Leiru, og eignast dóttur hans Þóru, sem var þremeningnr við hann af Vestfjarðaræ ttum, þá stað-

---

1) Svo.

festist ei hugur hans hér. Hafði hann leynt þessu biskupa, hverra tilgangur var og so, þó annað ofan á flyti í bréfum þeirra, að hann skyldi setjast hér að kalli eptir mig, ásamt búi, og eignast Jórunni dóttur mína, sem þeir ei vissu að öðrum var orðin trúlofuð skömmu áður, hvar fyrir eg fæ guði ei so fullþakkað sem vera ber, því hans forsjón var búin að koma því svo í verk og veg, að ei gat af því orðið, þó á væri reynt. Hann var heilsugrannur maður og (so) brjóstveikur, að ei mátti á sig reyna, hvar til sú slagningsfulla veðrátta gerði hann (so) mjög ólystugan, að opt í góðu veðri skalf hann af holdhrolli og kulda. Af þessu fékk hann enn framar stóran viðbjóð og óyndi hér að vera og vildi fyrir hvern mun héðan komast undir hreinna lopt, sem hann hafði vanizt. Féll so til, þegar að niuviknafasta byrjaðist, að liðugt varð Reykjadalskall í Hreppum, hvar um hann sótti, og taldi sér það aldeilis víst hjá frændum sínum herra biskupunum fyrir þeirra milligaungu, hvað ogso hefði verið, ef þeir hefðu viljað leggja léttan þar á hans vegna, hvað þeir síður en ei gerðu, því þeir ætluðu honum kallið hér. Vildu hann og fjær sér en nærri, að sögn kunnugra manna. Fyrir utan áður nefnt lauslyndi hafði hann mjög hissuga geðsmuni, þegar svo vildi til, sérdeilis þá hann var kendur af brennivíni, en þar fyrir utan einn sá dagfarsbezti maður, þá aðrir honum yfirklókari skemdu ei fyrir honum í því, er so vildi nú tilfalla. Hann var mjög spurull, og alt um of einfaldur, og trúgjarn, sem góðum og frómum mönnum er mjög hætt við, því þeim kemur ei í hug, að slíkt fals og óhreinlyndi sé í fölskum mönnum, sem þau reynast og upp koma. Tekur það yfir, þá þetta hendir yfirvaldspersónur eða presta, því sá er margan spyr að í sókn sinni um eitt og annað, fær að heyra margar lygar og ósannindi. Þeir frómlyndu tala jafnan sem fæst um flest, og þó þeir viti og verði af hnýsni aðspurðir, þá sleppa þeir ei meira en þeim gott þykir, og aungvum getur orðið til meins.

Nú þegar þessi kennimaður fór að kynnast hér

við fólk og umgangast það og fá hjá því njósn um eitt og annað, og þó það ætti til góðs að sigta, hitti hann fyrir so fláráða menn og lygna, bæði upp á mig og aðra, að þa(ð) upphissaði og skemdi (so) hans bráðu geðsmuni, að hann varð rétt annars sinnis, er hann kom frá þvílíkum. Guð veit, hverninn það hefði útfallið fyrir honum, hefði hann af sinni gæzku ei tillagt honum hér einn fróman og ráðhollan mann, sérdeilislega Mr. Pétur Sveinsson á Hörgslandi, — fleiri kunna þeir hafa verið, — hver að yfirtalaði hann, að fallast ei á ráð, frásagnir og tal óheillra og ókunnugra manna, hvað líklega sem það út liti, með viðara, er eg eyði ei orðum að. Kemur nú um þessar mundir upp hjá honum, að hann treysti sér ei til að þjóna mér í kennimannlegu embætti og sókn minni fyrir so lítil kjör, sem contracten uppástandi og fyrirskilji. Hann vilji hafa hálfar inntektir, sem einhverir höfðu að honum logið, að væri þær og þær, sem þó ekki var. Annað veifið vildi hann fá bújörð bæði hjá mér og öðrum, handa sér og sínu konuefni, með enn fleirum útbrotum, sem eg leiði ei í ljós, sem mér, so lasburða sem eg var, gerði stærra og sárara hugarangur og veikinda viðbætir en eg færi þar orð að. Guð veit það bezt, og hversu aumt ástand það var, að þar sem við tveir guðs kennimenn áttum að halda saman í elsku og samlyndi, skyldum verða að vera saman sem mótpartar. Opt sá eg hann vera ei sjálfráður, og kröfur hans voru af annara toga spunnar og inngefnar, eins og eg sagði honum, og hann sansaðist við. Hér af sést heimsins art og hverju vonzkan getur komið til leiðar. Víst hefði eg ei getað séð fyrir, hvert útfall þetta sundurlyndi hefði feingið, hefði ei sá alvísi góði guð látið mig fá nokkra njósn af því, bæði áður hann hingað kom, og so þar eptir, hann var til mín kominn, sem þanninn var háttað.

Í draumi þóttist eg sjá hann og sóknarbörn mín í kringum hann; eg þóttist að koma og ætla með virðing að heilsa honum, en náði þó aldrei af mér hattinum, er eg réði fyrir því, að mínu embætti mundi

eg óskertu halda fyrir honum til enda, hver mannleg makt sem með honum yrði. Í annað sinn þóttist eg á ferð vera með einum manni, sem eg átti einsslags tal við. Til okkar kom piltur vel uppfærður, en mér þótti sá, hjá mér var, segja til mín: »Vara þig við þessum pilti, því hann er útsettur að sitja um þig, en það mun þér ei að skaða verða«. So þótti mér báðir hverfa, en eg gekk litla stund einsamall, þar til eg komst að einu kirkju gaflhlaði, er eg réði fyrir því, að kapellanslaus, eður í hans fjarveru, muni eg burtkallast. Þó var eitt ljósast, er eitt sinn var sem rétt hvíslað að mér, er hann var að kalla eptir einslags hlutum hjá mér, sem var þetta, — en eg lá þunglega lasinn og angraður í rúmi mínu, biðjandi guð að kalla mig annaðhvort náðarsamlega í burtu eður leiða hann héðan. Þá var sem til mín sagt væri:

Hann skal í burtu héðan fara,
hjálpa eg nú og jafnan þér,
en eg mun þig auman spara,
að þú getir þjónað mér.

Fyrir hvítasunnuleytið kom bréf frá biskupi upp á hans ansögning um Reykjadalinn, er frá skýra, hann hafi ei sótt um það kall hans vegna; það sé þá öðrum veitt, og alt lýtur að því úr bréfum hans, að hann ætlar, hann skuli vaka yfir mér og hafa þetta kall, og þótti bæði mér og presti fyrir, að so fór. Ítrekar hann enn skilmálana. En eg segi honum, eg bæti ei við þá, þar teingdasonur minn Mr. Bergur bjóðist mér nú, sem satt var, með sömu og enn betri skilmálum. Hann megi þess vegna vera hér laus við sem hann vilji, og sækja um betra kall, og væri honum því bezt að finna biskup frænda sinn. Sömdum við hér um í vinsemd, og gaf (eg) honum góðan vitnisburð, ásamt sóknin, um sitt framferði og embættisverk, og fékk honum so, það sem contrakt okkar stóð upp á, ɔ: 9 rd. cour., og þar fyrir utan upp á 7. rd. í þeirri von, að hann ei aptur kæmi, og að hvor skildi vel við annan. Item, að náungar hans

gætu ei upp á mig klagað hið minsta um viðgerning minn við hann. Mannúðlegur, sanugjarn og höfðinglegur var hann við vini sína, meðaumkunarsamur og góðgjarn við fátæka og nauðlíðandi. Eptir guðs dýrð og safnaðarins velferð, eptir sínum gáfum, með allri trú og dygð stundandi í kennimannlegu embætti, sem öllum er hér vitanlegt.

## KAP. LVI.

Þótt guð fjölgi optsinnis tárum og sárum með elliárum, þá eykur hann og fjölgar með þeim sín miskunnarverk og dásemdar, hvar af eg einn með öðrum hef mikið að segja, og mátti eg því ekki þegjandi fram hjá því ganga, sem nú kom fram við mig og aðra fleiri.

Eg hætti þar frásögu, er eg með bærilegri heilsu embættaði á Trinitatishátíð. Þann 1sta sunnudag varð embættisfall af óveðri, þann 2. sunnudag embættaði hjá mér síra Markús minn. Fór eg þó til kirkju. Hann kom til að hrinda einu og öðru í lag fyrir mig, fjær og nær; meðal annars fór hann með köllun frá mér til teingdasonar míns Mr. Bergs til að vera hjá mér capellan. Hér verður þar um ei meir talað. Þann 3ja sunnudaginn lýsti eg fyrst með áður áminstum hjónaefnum, sem voru þessi: ekkjumaður Sverrir Eiríksson og jómfrú Sigríður Salomonsdóttir, Þorleifur Jóhannsson ekkjumaður og ekkjan Sigríður Einarsdóttir, Einar Ólafsson og jómfrú Þórunn Salomonsdóttir. Hafði hann hjá mér verið undanfarin 3 ár og með bezta geðlagi þjónað mér með trú og dygð, leynt og ljóst. Lét eg menta hann til búskapar og uppbera í fatnaði, það eg kunni, að hann yrði mér og sér til bezta, sæmdar og sóma. Móðir hennar og kona mín sæla voru einar þær beztu vinkonur til dauðans. Hún hét Rannveig Þorgeirsdóttir, og átti einn bróðir eptir annan með kongs leyfi. Eptir þá 3ju lýsingu gaf eg þessar þrennar persónur saman, — textinn Ps. v. 4to, — leiddi konu í kirkju, skírði barn með annari embættisgjörð; var

eg þar eptir í samsæti og samdrykkju þeirra með soddan fréskleika og kröptum, að alla mætti á stanza, en allra mest sjálfan mig. Skeði hér og við eitt meira, að þetta var sá sami dagur í tölunni, sem eldurinn sýndist ætla að eyðileggja það guðshús, og allir þessir voru þar þá inni staddir, rétt á milli lífs og dauða. So var nú guð alhagur að snúa því voru hrygðarvatni í sætt gleðivín.

Tvær eptirfylgjandi frásögur hafa enn leingri tildrátt, sem hér eptir á þessum tímum tilféllu, og hefst sú fyrri með þessum hætti.

Fyrir eldinn 1783 voru hjón við litið jarðnæði út í Álptaveri með nokkurn kvikfénað; hann heitir Jón Eiríksson, hún Arndís Sigurðardóttir. Hann var hagleiksmaður á tré og járn, hvar fyrir eg hafði stóra þörf, og falaði hann fyrir ráðsmann og smið, sem hann afréði, því hann átti mér gott að uppunna. Eg hafði læknað hann og hana í einu vandgæfu og versta tilfelli, sem var dautt fóstur, er hún gekk með (conceptum extra uterum), er þó burtdrifið varð. Lofi guð öll hans verk! Okkar skilmálar voru, að þau skyldu þjóna mér, en eg skyldi aptur eins mörgum kvikum skepnum út svara, þá frá mér færi, eins og þau komu með. Nú dó alt í eldinum óviðráðanlega. Fékk eg þeim þó kú og hest, en hann vildi fá hjá mér meira, en eg lét þar viðblífa, þar alt hefðu mist, þó ei hefðu til mín farið, og urðum við hér um sundurorða, og (eg) bauð honum til réttra laga þar um, ef hann so vildi. Einasta sá eg með sjálfum mér, hann hefði nokkuð síður tapað sínu fé, ef ei hefði til mín farið. Hann er spaklyndur maður og guðhræddrar náttúru, að gera ei öðrum að fyrra bragði mein, en aptur var hann sérvitur, þverlyndur og kappsamur, þá það greip hann, og þetta vildi nú fram koma í milli okkar. Hann fór um þetta skeið suður til stiptamtmanns, fyrst að fá tillag með jarðarparti, hann tók, og þar með að anklaga mig, so sem hann nú síðar sagði mér sjálfur. Nær hann var kominn á túnin á Bessastöðum, þar heim er að ganga frá Lambhúsum, fellur hann í ómegin litla stund, og

þá hann náði sönsum, þykir honum sem til hans (sé) sagt: »Þú ætlar að finna landsins herra, en þitt eigið erindi geingur þér eigi. En anklögun þinni upp á hann prófast síra Jón gegnir hann vel, því hann sækir sjálfur eptir lífi hans og velferð. En eg vara þig við, að þú hrærir ekkert við honum, því eg stend með honum. Hann mun sjálfkrafa gera þér gott, sem þú munt reyna«. Þetta stakk hann so til hjarta, að hann hætti þeirri fyrirtekt, þegar hann og sá, að hið fyrra gekk eptir.

Þá hann var heim kominn, lagði guð mér til mikla heppni með selaveiði, hvar um áður er talað. Kom hann sem aðrir að fá sér nokkuð. Eg segi við hann, hann muni þykjast eiga nokkuð hjá mér. Hann segir: »Ei kem eg til þín upp á þá reikninga, heldur að fá smekk af sel«. Var mér þá öllum lokið og lét hann fá, sem hann gat þá með komizt. So skiptunst við við í annað og þriðja sinn, og lætur hann mig öllu ráða. Eg komst í forundran og spyr, því hann breyti nú þanninn? En hann svarar: »Það kemur so til, að eg ætla mér aldrei að reiknast á við þig eða telja upp á nokkurn hlut«. Meira fékk eg ei af hans munni í 3 undanfarin ár, þar til hann nú síðast segir mér upp alla söguna, og framar, eg sé so búinn að gera sér gott, að hann geti ei fundið, hann eigi hjá mér fiskvirði, heldur eg hjá sér, og tökum so hreinum vinskaparhöndum saman til dauðadags. Hér af sést, hversu guð hagar furðanlega hlutunum til, að manninum óvitandi, og hversu hann ber nákvæma umhyggju fyrir þeim, sem í nokkurn máta bágt eiga og upp á hann vona.

Hin önnur frásagan er þessi:

Hér var einn bóndi á Fossi, er Eiríkur hét, vænn í mörgu, annars stórlyndur, þver og þybbinn, þá það vildi við hafa. Hann fékk uppblástur í lærið, so hann varð karlægur. Var eg sóttur um hæstan heyskapartíma að Felli, að gera honum eitthvað gott. Skar eg upp lærið og setti hanka í gegnum það undir hásinarnar, hvar af hann fékk tilætlaðan bata. Hann bað Mr. Pál, þá á Hörgslandi, að betala mér

allan þann kostnað, er hann gerði, og matti hann upp á hundrað, er sagt var hann hefði eptir talið, sem hann þó í sannleika þurfti ekki. So varð hann landseti minn, og kom okkur aldrei eiginlega vel saman. Eg leiddi hann hjá mér, og sá til, eg gerði honum ei órétt. So hraktist hann burt í eldinum, komst so hingað aptur og átti nú ekkert til, nema einn hest. Nú áminstan sunnudag sló hestur hann á sköflunginn, so fóturinn blés allur upp. Komst hann so til mín í þessu ráðaleysi. Skar eg nú upp þennan marðan fót, og verður (hann) nú, sem von er, alt saman af mér að þiggja. Er hann nú orðinn so lítilátur sem barn og játar nú með gráti og auðmýkt, að sér séu þetta makleg gjöld fyrir hissugheit sín og þvermóðsku, so nú sárkenni eg í brjóst um hann, og sé, hversu guð beygir oss undir krossins oki, að við kunnum að lítillækka oss og umvendast til hans af öllu hjarta.

Hér til bætist hin þriðja frásaga upp á guðlega forsjón, vernd og náð yfir manninum.

Maður hét Þorlákur Guðmundsson, af ætt meistara Jóns Vídalíns, gáfumaður mikill, guðhræddur, frómlyndur og höfðinglegur, item vinfastur, þar sem hann tók því; þar hjá mikið eptir ábata, laus í sínu ráði, drykkjumaður og þá risjufeinginn, sem þá féll fyrir. Hann varð fyrst prestur í Otrardal, þar eptir hreppstjóri, síðan sýslumaður um stund í Strandasýslu, so klausturhaldari á Þykkvabæjarklaustri. Varð hann þá húsbóndi minn á Felli, en hann hélt sér uppi á Teigi í Fljótshlíð, — hvaðan að giptust tvær dætur hans; hans sonur er það mikla skáld og gáfumaður Jón Þorláksson, sem tvisvar hefur mist prest fyrir lauslæti, og er nú fyrir kongs náð orðinn enn prestur í Norðurlandi, — síðan varð hann lögsagnari í Vestmannaeyjum og síðast í Árnessýslu, hvar hann deyði[1]). Eina dimma haustnótt sváfum við saman fyrir norðan altari í Þykkvabæjarkirkju; sneri hann höfði inn, en eg fram. Slökt var ljós, en opnar stóðu dyr í kyrru veðri. Þegar við vorum að eins sofnaðir,

---

1) Hann lézt 1773.

kom mikill óróleiki í kirkjuna. Eg gaf mig ei að þessu, en hann varð hræddur, fór á fætur og ætlaði að ganga út, en í því bili viltist hann, en kirkjunni var slegið í lás. Gekk sá órólegleiki alt þar til dagaði. Honum þótti eitt sinn, að eg hefði verið frektækur upp á tré til kongshúsanna, hvar til eg svaraði honum litlu góðu. Annað sinn kom hann til mín með drykkjulátum. Lá eg þá veikur í stofurúmi mínu í kverkameini, so lítið gat talað. Hann storkar mig þar upp, að eg skuli nú sparka og gaspara[1]) á móti sér, með fleirum orðum. En so fór, að nokkrum tíma þar eptir kviðslitnaði hann, og fékk þar með þann hættulegasta sjúkdóm, sem kallast garnaslyngur, og var þá fluttur til mín og borinn inn í sama hús og rúm, so á sig kominn. Bendi eg honum nú til sinnar fyrri komu, og hversu guð fari nú að þessu, er hann játar með viðurkenningu. Og eptir nokkurn tíma varð hann reiðfær að komast þaðan aptur. Vorum við enn betri vinir eptir en áður. Þá eg síðast kvaddi hann á Alþingi í Snorrabúð, þá hann var lögsagnari í Árnessýslu, setur hann upp eitt staup og segir: »Guð gefi þér nú góðar nætur«. Eg svara honum og segi: »Hvað kemur til þess, að þér so mælið, — enn nú er um hádegisbil, — eður sér þú feigð á mér?« Hann svarar: »Ekki á þér, því þú átt enn þá mikið ólifað. En hvað eg meina, kantu síðar að frétta«, — enda sálaðist hann skömmu eptir það hann heim kom af þinginu.

Nú meðan venjulegur ferðatími yfirstóð, var eg með bærilegri heilsu, so eg gat bæði stungið kekki í garða og hlaðið þá með litlum dreing til léttis mér, er Gunnsteinn heitir, gott mannsefni, ef vel væri uppalinn af móður sinni, sem þó ekki er[2]). Annan dreing tók eg þá um þá tíð, sem Einar Jónsson heitir, sonur konu Þorleifs í Morðtungu. Hann var so fljótskarpur, að hann lærði nú settletur, breytta og óbreytta hönd, fljótaskript og latínuletur að sjálfum sér; gat þar

1) Svo.
2) Þ. e. Gunnsteinn Sigurðsson hinn guli (d. 1866).

eptir (sér) framtekið, því hann var það flugnæmasta ungmenni, sem eg hafði að nýjungu tilsagt, eður eitt með þeim.

Þá samantók eg 7 *viku hugleiðingar* af so margri tölu heilagrar skriptar. Item einn *stafrófssálm* um eptirlangan eilífs lífs, því nú hafði eg um þann tíma þau beztu sálar og samvizku rólegheit, því eg vonaði, að eg mundi fá teingdason minn Mr. Berg mér til aðstoðar, en losast við áðurnefndan klerk, sem og búinn var að hóta og lofa að koma hingað ei optar. En þessi mín von og traust, sem eg hafði til höfðingjanna og þeirra réttlætis, varð mér að aungu hvarfi, né aðstoð. Hér gekk makt fyrir rétt, því biskup, Hannes sérdeilis, rekur hann til baka upp á mig aptur, kennir mér alt um burtferð hans, skuldar mína ofdirfsku að biðja um Berg, so leingi hann sé hjá mér, so sem það maktarbréf sýnir sig. En hvílíka umturnan soddan yfirmakt gerði nú aptur í langþjáðum og mæddum geðsmunum mínum, veit guð bezt. Þó gaf hann mér enn stilling og þolinmæði að líða þennan maktar yfirgang. Það var sem að bylur dytti af húsi þær 7 vikur, sem hann var í burtu, en nú vildi alt aptur endurnýjast. Varð það þó vægara en von var, því það, sem af er, hefur hann nú aungvar fyrri óspektir sýnt. Mun bæði til þess koma, að heyrzt hefur, að biskup og aðrir frændur hans hafi sett niður hroka hans, og hitt annað, að nú sést, að til þess er af þeim stýlað, að hann setjist hér að jörðu og kalli, ef ei fyrr, þá eptir mig, og má segjast, guð sé undarlegur í þeirri ráðstöfun, so sem undirbúningurinn er vitanlegur og auðráðanlegur, ef af því verður; en aungvu síður mun hann hjálpa börnum mínum, þó þeim verði fyrirmunað að hafa hér gagn af handtökum mínum. So sem guð styrkti mig að þjóna sér, þó hann burtu færi, þá slepti hann ei þar fyrir sinni styrktarhendi af mér, að honum aptur komnum. Því þegar úr ferðum var aptur komið, gaf eg síra Þórð og Jórunni dóttur mína saman í heilagt hjónaband þann 23ja Julii 1789. Var í því samkvæmi hér um 60 manns. Gaf guð þar til nóg efni, að ei þurfti að

finna að því. Ei sat síra Sigurður í því brúðkaupi, — hvers vegna læt eg ótalað; veikindum var viðbrugðið. So auðnaðist mér þá, að gefa systur mína og bróður, stjúpdóttur mína og 5 dætur mínar elsklegar í hjónaband. Hafði eg fyrir hjónavígslu texta við Helgu systur: Hvað er eg,drottinn, og mitt föðurhús, að þú etc.; við Þorstein bróður: Faðir minn og móðir mín yfirgáfu mig etc.; við Karitas: Hlutföllum verður varpað í skaut, en etc.; við Sigríði dóttur (mína): Komið hingað, börn; ótta drottins vil eg kenna ykkur og yðar; þitt orð hefi eg heyrt etc.; við Guðnýju: Drottinn, minstu mín til hins bezta; við Helgu og Katrínu: Guð er trúfastur; við Jórunni nú síðast: Gangið upp á vegina, skygnist eptir þeim forna veginum, og hver að sé sá góði vegurinn, gangið á hinum sama, og munuð þið finna hvíld sálum yðar. Jer. 6. Heimfærslan var þar ei einasta upp á þau, heldur mig, sem allir sáu að var farinn að ganga veg allrar veraldar, og eg bezt sjálfur fann, að nálægðist dag frá degi. Þakkaði so mínum guði fyrir alla blessaða ráðstöfun á mér og mínum frá fyrsta til síðasta í þessari sýslu, í gegnum margar þreingingar og heims óvegi, og látið hvert eitt af oss þar nema staðar, er hann sá fyrir beztu. Kvaddi eg so börn mín og náunga, nálæga og fjarlæga, og öll mín fornemstu sóknarbörn, sem eg hafði til mín kallað, með blessunarorðum og Lutheri þrefaldri útleggingu yfir þau, því eg sá þetta var það síðasta samkvæmi, er verða mundi á mínum bæ. Lagði eg blessan yfir dótturdóttur mína Þórunni litlu, sem til þess var látin koma til mín, er eg af hjarta óska, að verði að áhrinisorðum. Gaf henni so silfurfesti, þá er amma hennar átti, hvers nafn hún ber, — mín sæla ektakvinna. Áður hafði eg henni gefið og tileinkað mín silfurtæki, sem eru með glasi og hulstri snoturlega tilbúin. Þórunni minni sælu var það silfurstaup áður gefið í tannfé, úr hverju so var kaleikur gerður af stjúpa hennar síra Stephani Einarssyni. En þá hann sálaðist, gaf teingdamóðir mín, Madme Jórunn, (mér) greind tæki og lagði það fyrir, sem nú er af þeim gert, að eg gæfi þau þeirri, sem

nafn dóttur sinnar kynni að bera. Æ, hversu forlingir mig nú að leysast úr þessa heims mæðu og öðlast ævarandi hvíld og ró, sem guði sjálfum er kunnugt!

## KAP. LVII.

Þann 6tta sunnudag eptir Trinitatis embættaði eg að öllu leyti, sem áður er sagt, og síðan prédikaði eg þann 8da. Frétti eg þá fyrst lát míns trúfasta vinar síra Páls Magnússonar í Vestmannaeyjum. So embættaði eg að öllu leyti þann 10da, en prédikaði þann 12ta; þann 13da embættaði síra Jón á Lyngum hjá mér, og tók mig til sacramentis. Þyktist prestur[1]) við þetta sem fyrr, og hafði marga útbrjóta við mig um kvöldið um kaup sitt og fyrirhöfn, eins og síra Jón á Lyngum og sýslumaður Lýður upp á heyrðu; og vissi nú skaparinn, að varla þoldi eg meira. Þó hafði eg þvílíka heilsu um þessa daga, að eg að öllu leyti einsamall hlóð úr heyfaðmi laugardaginn áður, en visiteraði kirkjuna daginn eptir, þá hún og klaustrið var afhent Mr. Páli Jónssyni á Gufunesi, sem hér var þá til staðar, og Mr. Ásgrímur sonur hans. Féll so til, að við presturinn[1]) urðum samferða heimleiðis báðir, og kendi eg nú á þvílíkum orðum, sem eg hafði aldrei fyrr reynt á æfi minni, enda svaraði honum eptir verðugleikum, og fyrirlagði honum þau heilræði, sem eg bezt kunni, og að hann skyldi ekki áreita mig þanninn optar saklausan, eður ganga nokkurn tíma móti hönd sinni og signeti, hvað hann og lét sér segjast, því þaðan í frá talaði hann ekkert stygðarorð til mín né minna. En mér gafst orsök því heitara að biðja guð að skilja okkur að og leiða hann héðan á burtu með farsælu móti, ef mér ætti leingra aldurs auðið að verða, sem nokkrir sóknarmenn mínir af mér heyrðu. Fullsnöggt kom þar á bót við minni mæðu, að fyrrnefndur Mr. Páll vildi láta mér eptir son sinn Mr. Ásgrím til capellans með

---

1) Þ. e. síra Sigurður aðstoðarprestur.

hægustu og beztu kjörum, so eg þurfti aldeilis ekkert þaðan í frá að ganga eptir honum[1]), sem hann af öðrum njósnaði, er hann hvatti því framar héðan að fara, nema ef eg hefði viljað auka laun hans, skaffa honum bújörð og so framvegis.

Þann 14da sunnudag eftir Trinitatis voru sóknarmenn 70 til sacramentis, hvar af eg skriptaði 40, tveimur fátt í, en hann hinum; prédikaði so þann sama dag, og so aptur þann 18da. En þann 19da varð embættisfall af stórregni, sem viðhélzt þá viku, í hverri að inféll föstudagurinn fyrstur í vetri, sem var sá 23. Octobrismánaðar. Var þá enn regn og vötn mikil. Kom þá hingað hospítalshaldarinn, hreppstjóri Mr. Pétur á Hörgslandi, til að fara á hreppamótið, sem haldast átti á Klaustrinu. Með honum var og einn bóndi, er Eiríkur hét, er áður hafði verið hreppstjóri í Lóni austur. Fór velnefndur prestur með þeim héðan að heiman; var að ríða á ánni[2]) eitt brot sniðhalt á móti og vestur yfir; féll áin í ál af því vestur við landið, ei breiðari en hér um tvær hestleingdir. Riðu þeir á undan brotið, en presturinn á eptir þeim, en þeir vissu ei fyrr til en hesturinn var kominn á sund í greindum ál. Hann flaut þar af hestinum og sökk þegar, so þeir sáu ekki til hans fyrr, þar til hann rak upp úr ánni langan veg framar, og þá aldeilis örendur. Veit einginn maður til, að nokkrum manni hafi á borizt eður drukknað í greindri á.

Þann 20 sunnudag eptir Trinitatis, sem var sá fyrsti sunnudagur í vetri, bjóst eg til kirkjunnar með einum þeim veikustu burðum. Sýndi nú guð enn á mér sárlega veikum sitt almætti, að eg gat embættað að öllu leyti og komizt svo heim til mín aptur. Laugardaginn þar eptir, sem var sá seinasti dagur mánaðarins, var presturinn sálugi síra Sigurður jarðsunginn af teingdasyni mínum elskulegum síra Jóni á Lyngum, rétt á þeim sama degi og hann kom með hann hingað næst afliðið ár. So reynist mannsins

1) Þ. e. síra Sigurði aðstoðarpresti.

2) Þ. e. Geirlandsá.

gangur og líf af guði niðursett, að yfir það takmark kann einginn að komast, og hann hagar því og öllu öðru, nær það er réttilega aðgætt, sér til dýrðar, en manneskjunni til nytsemdar, eins og hér skeði. Við Mr. Pétur á Hörgslandi gerðum útför hans eptir hans standi og persónu, og þó so kostnaðarlitla sem við voguðum, vegna fjarlægra náunga hans.

En hversu guð fór dásamlega að búa hann undir sína burtkallan, vil eg með fáum orðum á minnast. Hann var orðinn mér og fólki mínu því þægari sem leingra lék við, settari í sínu framferði og að trúa málugum mönnum, sem hann í sinni einfeldni heilmikið skemdu á móti mér, meðal hverra þann fremsta mátti telja Sigurð klausturhaldara, — við hvern hann ætlaði að teingjast, — sem sjá mátti af bréfum hans, er hann hafði skrifað prestinum sáluga til; og hér fundust eptir hann, hvað mér kom ekkert óvart, því sá maður hafði mér altíð óheill reynzt. Hér með var presturinn sálugi orðinn langtum (fullkomnari) í prédikun og lestri en hann hafði áður verið. Og áður hann fór heiman mælti hann fyrir munni sér sálminn:

Blessaða þrenning blessuð sé.

Ítrekandi þessi orð opt úr honum:

Hjálp og náð þinni faðir flýt,
forþénta reiði lægðu.

Kvaddi mig so og þá alla, í heimilinu voru, í ástúðlegasta máta, sem ei var ætíð hans venja, þó nokkuð viki frá bæ. Var hann þá mjög litverpur orðinn og brugðið til dauða, en menn sáu alt á bak eptir, að af líkindum vil eg halda, að hann hafi bráðkvaddur orðið, og þanninn hnigið niður af hestinum, þegar hann burtkallaðist. Optlega talaði hann um það, að eg mundi sig leingur lifa, vötn mundu hér verða sér í einhverju bág, einhver umskipti mundu verða á högum hans hér, þá jafnleingdin væri komin á veru hans hér, og so framvegis. En guð vildi reyna okkur báða, og jafnvel fleiri, og undirbúa okkur sér í hendur, þó eg þekti það ei. Og nú mátti eg sjá, hversu guðleg forsjón hagaði þessu víslega til, að hann lét

hann ekki drukkna í ferð með heimilispiltum mínum, né nokkrum öðrum sóknarmanni, nema þeim, sem allir nær og fjær þektu fyrir guðhræddan og ráðsettan mann, so allra munnar skyldu tilbyrgjast, að hér kom ekkert fram, nema guðleg ráðstöfun og vilji á allar síður. Hann sýndi með þessu, að hversu þeir mektugu og stóru í veröldinni með sínnm ráðum og fyriræltunum megna ekkert á móti hans ráði, so sem ljós gáfust nú dæmin á biskupi Hannesi, sem var auðsjáanlega að létta honum á sér og öðrum náungum hans, enn síður leyfa honum að vera hjá sér á því auða Skálholtsprestakalli, sem einginn sækir um. En hvers vegna, sjá allir þeir, sem það ígrunda. Og að sjáist ákefð biskupsins að halda honum hér við, en fyrirmuna mér að taka teingdason minn Mr. Berg mér til aðstoðar, hvar um eg hafði hann auðmjúklega beðið, þá innfæri eg hér orðrétt biskupsins skrif til mín, er hann rak þennan sinn systurson aptur til baka.

Pro Memoria.

Yðar velæruverðugheita 2 tilskrif hefi eg meðtekið, það eina með frænda mínum síra Sigurði Jónssyni og hitt með hospítalshaldaranum Mr. Pétri. Beggja innihald var að nokkru leyti, að velnefndur yðar capellan og þér skilduð að þessu sinni í ást og kærleika, og gleður mig það, að hann fær hjá yður sem öðrum góðan vitnisburð. Nú, so lögfróður maður eruð þér, að meira þarf til að skilja sig við sinn capellan en so. Líka skil eg ekki, með hverju eg hefi gefið yður orsök að meina mig so einfaldan, að eg mundi taka í móti vocation Mr. B(ergs) teingdasonar yðar til capellans, meðan þessi er ekki löglega frá. Eg þekti einfeldni síra Sigurðar í því að taka í mál við sitt brauð soleiðis að skilja, en yður get eg minna vorkent að hugsa, að soddan geingi an. Hefi eg því ráðið síra Sigurði að vitja sem snarast aptur til sinnar tiltrúuðu hjarðar og bíða með þolinmæði, þar til guði þóknast kynni að senda hann annarsstaðar. Alt hvað eg kynni contribuera til hans promotion, að því, sem hann forþénar, vil eg gjarnan gera. En recom-

mendera hann í millitíð alúðlega yðar velæruverðugheita góða favori.

Skálholti d. 6. Julii 1789.

Hannes Finnsson.

Hér mátti segja við mig, að heiti yrði heimskur maður feiginn, því vanséð var, hvort það kall yrði liðugt, sem honum þætti frænda sínum vel boðið. Vel hafði *guð gefið mér* vit *að* svara honum upp á þetta maktarbréf, — og feingið tvær milliferðir um sumarið til þess, með hverju(m) eg sendi honum bréf í embættissökum, — þá gerði eg það þó ekki, því þá eg vildi áforma það, var sem penninn félli úr hendi mér, og til mín væri í ákefð hvísluð þessi orð: »Þú skalt ekkert orð þar um skrifa, eg stríði fyrir þig, og þú skalt sjá mína dýrð«, er eg hugði að merkja mundi bráðan afgang minn, so ei mundi þurfa að brúka nokkrar afsakanir eður forsvar við minn yfirmann. En sá réttláti guð sýndi nú sem optar sakleysi mitt, og hann heyrir bænir þess undirþrykkta, sem til hans kallar.

Þann 1sta Novembris embættaði fyrir mig síra Jón minn á Lyngum, og daginn eptir skrifaði upp með mér og Mr. Pétri þá fémuni, sem hér voru eptir prestinn sáluga, og sendi (eg) þá uppskript með Mr. Ásgrími Pálssyni, hvern eg kallaði nú aptur fyrir capellan minn, ef Mr. Bergur gefur frá sér þá köllun mína, sem hjá honum er, eður hindrast þar frá með öðru móti. Þann 22. sunnudag eptir Trinitatis embættaði hér fyrir mig síra Ólafur minn í Ásum, og þótti öllum þeim, er til heyrðu, honum fara það verk ágætis vel.

Afliðið sumar skrifaði eg sjálfur og lét skrifa guðsorð í bundinni og sundurlausri ræðu upp á 26 arkir vel so, bæði *handa börnum mínum* og öðrum, sem mig höfðu þar um beðið, er eg mundi ei gert hafa, ef fyrri heilsu hefði haldið. En guð sýndi mér nú, hvað honum var þægast, eg skyldi gera. Verði honum og það til dýrðar! Þetta varð mér so inndælt, eins og þá eg heilbrigður gekk að heyverkum

áður. Þótt eg liði so mikið, að varla gæti af mér borið opt og tíðum, bar eg mig að hafa glaðlegt tal og umgeingni við fólk, en þó sérdeilis við guð í andlegan máta. Flugu mér opt þessi bænarorð í þanka:

Gefðu mér nú glaðvært sinni,
góður guð, í sjálfum þér,
því það svíar þjáning minni,
þar um reynslan vitni ber.

Item:

Þú hefur alt í þinni hendi,
þýði guð, að líkna mér.

R(es)p(onsum):

Á minni náð er einginn endi,
að því skal og verða þér.

## KAP. LVIII.

Þann 23. sunnudag eptir Trinitatis var so kalt og hvast veður, að ei treysti (eg) mér að komast til kirkju. Var þó annars um þá tíma eitt það stiltasta vetrarveður. So þegar kom að þeim 24da sunnudegi eptir Trinitatis ætlaði eg að reyna að komast á kirkju mína og embætta, þó alllitla krapta nú til þess fyndi. En guð vildi ei, að eg leggi á tvær hættur með það, heldur kom þá um kvöldið síra Erlendur Guðmundsson frá Hofteigi í Múlasýslu, og embættaði fyrir mig þann dag. Við erum náfrændur að þriðja og fjórða lið. Dáðust allir, er heyrðu, að hans andríkri og uppbyggilegri prédikun, so eg og þeir prísuðum guð fyrir þvílíka hans ráðstöfun.

Þar sem mér nú finst (draga) af líkamans daglega minkandi kröptum, þakka eg honum, sem mig tilbjó fyrir sinn þénara, fyrir hans náð, upplýsing og krapta, er hann gaf mér óverðugum vesæling til þeirra verka afliðna prests- og geistlegheita embættistíð. Eru það alls 16 kirkjur, sem eg hef framflutt að öllu leyti guðs heilaga þjónustugjörð, sem eru fyrir norðan: á Hólum, Reynistað, Flugumýri. Þar prédikaði eg sem stúdent. Hér fyrir sunnan: í

Skálholti, Vestmannaeyjum, Dal, Holti og so öllum hér í Vestri-Skaptafellssýslu, fyrir utan Búland. Prófastsverk og önnur prestsverk framið í 12 kirkjum hér fyrir utan. En alls, að þessum meðreiknuðum, heyrt guðs orð kent í 44 kirkjum. Einsetti eg mér hvert sinn að nema eitthvað af guðs orða kenningum, er eg þar heyrði, er eg mundi um stund, en gleymdi, — hvað guð náði, — meðan mér vel gekk, af ýmsum umsvifum. En nú eptir því sem hans gæzka kipti mér frá þessu veraldlega, kemur mér nú mart gott aptur af því í hug, — sem eg hugði aldrei gæti skeð, — af því guðs orði, sem eg þar og þar heyrði af hans þjónum. Er þetta til þess að sýna, hversu gott minni guð hafði gefið mér, og að hann lætur nú ekkert eptir verða, sem mér má verða til huggunar og velferðar. So kann hann og að fara með fleiri, sem heyra hans orð og angrast hjartanlega af sínu minnisleysi, að hann mun víst uppvekja það hjá þeim, þá hann veit að þeim liggur hvað mest á, því so fór hann með mig; og þetta skaltu, mitt barn og góði lesari, ígrunda.

Nú kom adventusunnudagur. Embættaði hér þá síra Jón minn á Lyngum, og so þann annan sunnudag þar eptir síra Þórður minn á Kálfafelli, sem er og vel grundvallaður og uppbyggilegur prédikari. So leið jólafastan með mikið höstugu veðri á þeim tveimur helgidögum, að ei varð embættað. Var so niðurraðað, að síra Jón minn á Lyngum embættaði hér á jóladaginn, en hann, mót fólksins von, hindraðist þar frá. En þar eg fyrir sá, að það mundi til kirkjunnar koma á þann hátíðisdag,bað eg guð að gefa mér krapta og tækifæri til þess að komast til kirkjunnar, ef það væri hans vilji, hvað hann og gerði, að eg gat heilaga þjónustugjörð þar framflutt með glaðværu hjarta fyrir hans stóru náð. Út dró eg minnar ræðu form af Elias Naurse's[1]) Hátíðaspegli, um runninn, sem brann, en eyddist ei, Exod. 3, fyrst lærdóm um samanburð upp á Christi holdtekju, so guðræknisáminning af skipan guðs til

1) prófessor f. 27. Febr. 1650; d. 1728.

Moysis etc., so huggun fyrir alla þá, sem staddir kynnu vera í nokkrum ofsókna-, freistinga- eða krossburðareldi, hverninn guðs birta og almættis gæzkuljómi eptir dæmunum væri þó mitt í honum að finna, og viðsnerist síðast í eilífan dýrðarljóma öllum, sem áður gagnhreinsuðust í þessum eldi, og so framvegis. So leið af það lífstunda ár mitt og annara með sérlegri guðs forsjón og furðanlegum almættiskrapti. Honum sé einum æran!

Ó, guð hjálpi! Nú kom nýárið 1790.

Þann annan dag jólahátíðarinnar embættaði hér sira Jón minn á Lyngum, en sunnudaginn varð það ei fyrir óveðri, er þó var ásett. Og so liðu þrír dagar til nýjársins, að uggvænt sýndist, þá embættað yrði, er eg var þó búinn að boða, ef guð gæfi mér líf og heilsu til þess. En so fór, að alt það hvassveður, sem var daginn og nóttina áður, að því slotaði, so kyrra logn var um daginn, að eg nú þó með veikum burðum komst til kirkjunnar og embættaði, hvar til guð gaf mér, enn sem fyrri, nýja krapta þann nýjársdag til enda, sem eg þó ályktaði og lét á mér skilja, að mundi verða minn síðasti embættisverkadagur. Eg brúkaði fyrir inngang eður þakklætisbæn fyrir alt gott umliðið guðs eiginlegleika og tillagsorð eptir stafrofsins bókstöfum. Fyrir exordium með stuðning úr Joh. Gerhardo: Um lífsins tré með sínum 12 ávöxtum, Apoc. 22, með heimfærslu upp á andlegs árs tólffaldan ávöxt og þess náttúrlega árs einninn tólffalda nytsemi, og það í hverjum mánuði. Exegesis var um mannanna lífsstunda ár, eptir útmálan og samanburði við ársins parta, so um drottins prófunarár, og hverninn þau á tvo vegi útféllu, so um hans typtunar og endurgjaldsár, og síðast um þau eilífu dýrðarár, er menn ættu jafnan að búa sig undir og láta sig til langa. Guð vissi, að mínir þankar voru ei festir við nokkurn stundlegan hlut meðan eg þetta framflutti, heldur þrá í eitt betra líf, bæði fyrir mig og aðra. Þessi ferð gekk þó so nærri mínum langþjáðu líkamans kröptum, að eg mátti með miklum vanmætti halda við rúmið. Þótti mér enn stór

guðs náð og gáfa, að eg gat enn lesið án stórrar þvingunar sunnudaga og aðra lestra í húsi mínu, og farið optast nær á fætur, þegar spakt veður var. So temur mótlætið mannskepnuna.

Um þessar mundir mátti eg fá og heyra ýmislegt last og lygar, er mér saklausum féll nú ei þungt að bera. Þar eg gat að komist, svaraði eg áreitingum þeim sem vera átti. Ó, hvað vondur er heimurinn! Hér sannaðist:

Nunquam bella bonis, nunquam discrimina desunt.
Et cum quo certet mens pia semper habet.

Nú eptir nýjárið kom Jórunn dóttir mín að vitja um mig sér til gamans og mér til afþreyingar. Var mér það gleðiauki að sjá hana vel við heilsu og í allri annari vellíðan og atlæti. Dvaldi hún hjá mér nokkra daga, og fór so heim til sín aptur. Guð minnist í náð minna bænarorða og kveðju við hana, sem eg lagði þá yfir hana og hefi lagt, sem önnur börn mín, og alla þá, er eg var tilsettur fyrir að biðja nær og fjær um þau undanförnu 30 ár, sem eg hefi prestur verið.

Féll mér hér við í hug ein frásaga, er féll til, þá eg varð fyrst prestur, því hún kann að sýna guðs alvizku og forsjón, ásigkomulag guðs trúrra þjóna og þeirra kjör hjá heimsins börnum, verði þeir mjög upp á þau komnir með fleira. Þá eg kom frá vígslunni, framflutti eg fyrst prestsembættisverk fyrir altari í Holtskirkju undir Eyjafjöllum, sem áður er á vikið. Er eg látinn sofa þar einsamall í bæjardyraloptinu nóttina áður. Undir daginn dreymir mig, að til mín komi tíðuglegur[1]) prestur, höfðinglegur að yfirlit, rauðleitur með jarpt hrokkið hár, er lá á herðar niður. Hann heilsar mér vingjarnlega og þakkar mér fyrir fólk sitt. Eg þóttist ei við hann kannast; tek þó vel ávarpi hans. Hann talar framar: »Eg bjð þig og so fyrir son minn, því þið verðið saman. Þú átt og að vera þar eg er«. Hér við vakn-

---

1) Svo.

aði eg og sýndist mér sem eg sæi á bak honum aptur ofan úr loptinu. So kemur prófasturinn, föðurbróðir minn, til mín, og spyr hverninn eg hafi sofið. Eg segi honum draum þennan, en hann segir: »Ei var von þú þektir hann, því þetta hefur verið svipur síra Þorsteins Oddssonar, sem hér var fyrir mig, og skal það vera sanndreymi. Þú skalt nú í dag íklæðast hér þeim sama kennimannsskrúða og hann bar, og standa í þeim sporum og hann stóð. Hann liggur í Múlakirkju, en guð mun ætla þér annarstaðar legstað, hvað sem um afspreingi þitt kann að verða«. Kannaðist eg nú við, að sú stórhöfðinglega velgerða- og vinkona mín, Guðný sáluga í Skógum, var dóttir hans. Af góðgerðum hennar og gestrisni vildi opt undanganga hjá henni, og hafði eg þá sem betur megandi opt orðið vel við nauðsynjabón hennar, sem verðugt var. Þá hún sálaðist seint um vetur, var mikill matarskortur á milli manna. Þá tók heimur að flimtra: »Henni var betra að gefa minna, að nóg væri til begrafelsis hennar«. En jafnsnart gaf guð 3 hundruð fiska landhlaup á fjöru hennar, að ei varð útförin einasta gerð í heiðarlegan máta, heldur gaf soddan blessun mörgum nauðstöddum nóga lífsbjörg þar í kring. Síra Þorsteinn hafði verið einn sá mesti gáfumaður og saungmaður, en misti málið, og var so í 12 ár, ef ei leingur, og sálaðist úr þeirri sýki. Hvað guð brúkaði mig nú þar eptir fyrir verkfæri að gera sonar- og dætra-börnum hans gott, veit sá alvísi herra. Honum sé þar fyrir eilíf æra og þakkargjörð! En til þess helzta vil eg víkja, er mér var bent til, — það var síra Þorsteinn Benediktsson, ektasonur áðurnefndrar höfðingskvinnu. Hann var þá í skóla, er eg varð prestur; vígðist þar eptir, og var skikkaður í Mjóafjörð. Giptist þar, flosnaði þaðan upp vegna harðinda, varð so capellan hjá síra Daða 6 ár eður þar um bil, með lítilfjörlegu tillagi. Varð búandi á Heiði, en komst þar ei upp vegna fátæktar, fjölskyldu og harðra ára, er þá innféllu, og sótti því um Skorrastað, hvar hann verður til dauðadags að líkindum. Hann var og er dágóður kenni-

maður, hreinlyndur og opinskár, sérdeilis við öl, frómlyndur og góðgerðarsamur, meir gefin fyrir sjóferðum og fiskiveiðum en landvinnu, en hafði þó gott skynbragð á því öllu; ánægður með blítt og strítt, og gat ei beðið þó með þyrfti. So sem hann kom fátækur og klæðfár, gaf eg honum prestshempu, kjól og so eptir hendinni annan klæðnað, hvað meira kom til konu minnar, því þeirra hreinlyndi átti vel saman, enda brast ei af hans hálfu að hjálpa upp á embættisverk mín í sóknum mínum, þá eg var ekki við, og nokkurs þess með þurfti. Eitt sinn er hann embættaði á Dyrhólum í minni fjarveru, þá safnaðist skríllinn til þans og segir: »Við viljum þú sért prestur vor! Vert þú oss velkominn«. Hann svarar: »Svei ykkar slagsi! Haldið saman kjöptum ykkar! Eg vil ei skarnnýta að vera prestur ykkar. Þið munuð ei betur með mig fara en þann, ykkur þénar« etc.

Eitt sinn var mjög vorhart, að ei fiskaðist, að hann átti svo bágt, að ei sá annað fyrir en hann yrði að skera kú sér til lífsbjargar. Eg heyri þetta, tek mér hest, ríð austur í sókn til 5 bænda, sem eg vissi ummúraðir voru og fullbýrgir af mat að hjálpa honum ánægjanlega. Bið þá að sýna mannæru og bjarga honum, því það sýnist skömm, þeir sóknarmenn hans hafi yfirfljótanlegt, en hann líði skort. 1sti hét Hjörtur; hann svarar: »Eg verð að sjá um búkorn mitt fyrst; eg hefi ei intektir að styðjast við«. 2ar hét Einar; hann svarar: »Eg skal lofa honum, ræflinum, að snara sér upp á fjóspallinn og sletta nokkru í hann, þá hann slæpist til kirkjunnar eður til sjóarins«. 3ji hét Ólafur; hann svarar: »Vilji hann koma hingað að Fossi á málum, skal eg láta gefa honum nokkuð, en ei sendi eg honum mat«. 4di hét Jón Árnason; hann svarar: »Hann á ekkert hjá mér; eg hef ríflega betalað honum skyldur hans, og mun þar við blífa«. 5ti hét Sveinn; hann svarar: »Eg vil heldur kasta því út í eldinn|; hann mátti fara sparsamlegar með það, hann hafði; sjái hann fyrir því. Nógir eru, þó hann fari«. Eg svara hverjum einum eptir sem við átti, og fór so jafnnær frá öllum þeim. Þeir skipuð-

ust ekkert við áminningar mínar, að þeir liðsintu honum hið minsta. Dæmið sýnir, hversu illa og ómannlega heimurinn fer með fátæka presta, og í hvílíku forakti þeir eru hjá soddan veraldarsonum. Trautt getur sá prestur haldið virðingu sinni, sem mikið er kominn upp á sókn sína. Guð gefi, vegna sinna dýrðar, það væru sem fæstir! Guð sér þó, hverninn með hans þjóna er farið. Hann lætur ei að sér hæða. Hver skyldi hafa trúað þá, að börn þessara velmaktar- og efnamanna mundu hungur og fátækt líða, verða að éta hrossaket og deyja so í hor og vesöld, eins og síðar fram kom, þriggja þeirra. En búsæld hinna er ei framar til. Hér á móti veit eg ei þau dæmi, að þeim, sem vel hafa með prest sinn farið, hafi mjög flatt farið, né afkomendur þeirra. Guðs orð og fyrirheit standa stöðug.

Nú er að víkja frá þessu og til hins, hversu guðs forsjón hafði og bar umsorgun fyrir prestsskepnunni, að hann komst af með sín efni, þó þessir efnamenn hjálpuðu þar ekkert til. Eg reið lærðari frá þeim, að þekkja heimsins hátt, heim til mín. Sendi presti að vörmu spori smjörfjórðung og þrjá fjórðunga fiska, tók aptur hest minn, reið út að Skógum til Mr. Högna bróður hans, og segi honum, að hans bróðir síra Þorsteinn ætli að slokkna út af í vesöld og matarleysi og alt hans, nema hann bregði nú við fljótt og færi honum mat. Hann viti, hann deyi fyrr en betli, og skuli hann nú rýma óþokkann, — því Högni var haldinn naumur maður. Tel eg so um fyrir honum, að hann fer með mér til baka, og færir gefins hróður sínum mjölkvartél, hálfvætt fiska og 2 fjórðunga smjörs, finnur klerk, heilsar honum og segir: »Eg varð að vitja um þig, bróðir minn. Eg heyrði þú værir farinn að eiga ofurbágt, og eg vissi líkindi til þess, og kem eg nú að færa þér og börnum þínum til nokkurra mála«. Hinn svarar: »Vel kominn sértu að vera hjá mér. Eg hef nógan fisk og smjör að gefa þér nú nætursakir«. Hinn segir og hlær við: »Sízt átti eg von á þessu, og hefur þú þetta ei af sjálfs þíns rammleik, og seg mér, hvaðan

það er, þó mig gruni nokkuð um það«. Hinn svarar: »Seg þú mér hver kom þér til að færa mér matinn?« Segir þar hvor öðrum upp alla söguna. Þá svarar prestur: »Svo skyldi hvor öðrum á bak hollur vera og hjálpandi; það er ei hans fyrsta« etc. »Hef eg lagt á og legg enn, að það, hann mér gott gerir, komi niður á honum og börnum hans, þá þeim á liggur. En so þú, minn bróðir, sjáir, eg vilji ei með ofmikilli ágirni ásælast þig, so máttu fara með þína fórn til baka, því mér kann að nægja það eg hefi, þar til guð gefur mér nokkuð af sjónum«. Högni svarar: »Hverjum ertu líkur? Það er vissast jafnan sem í hendinni er; eg geri það ei. Þú færir mér það þá síðar í vor, ef þér verður það afgangs". Maður, sem eg lét fara með Högna, sagði mér þessa samræðu, er hann fór heim aptur. Tók eg þá svo vel sem eg kunni á móti honum, og útbreiddi síðar, hvar eg skyldi, þetta hans örlætisverk honum til æru og sóma. Og lýkur so þessari frásögu. Hefi eg þó fleira af okkar viðskiptum að segja.

## KAP. LIX.

Aðra frásögu læt eg hér með fylgja, sem sýnir, hversu falskir og hrekkvísir menn útleika á stundum fróma og einfalda menn, af dæmi eins slóttugs manns þar í Mýrdalnum, er við velnefndur síra Þorsteinn feingum með okkur fyrir meðreiðarmann og tjaldmann upp á Alþing. Hann hét Vigfús Sæmundsson. Við þóttust þekkja vel þennan segg, og tókum því fyrir okkur að fá honum það eina í hendur og umsjón, er hann gæti ei annars en staðið okkur skil af. En þar hann var ötull og alvanur ferðamaður, slægðustum við til hans. Nú er að segja, hverninn fór. Við héldum fljótu stryki út á Eyrarbakka, og höfðum jafnan góðar hressingar. Var þessi minn meðbróðir meir gefinn og náttúraður fyrir brennivín en eg, og bilaði þó aldrei við það, að ei hefði ráð á orði og gerðum. Ei tók eg þá neitt brennivín í kaupstaðnum, því eg átti það víst upp á Alþingi, er eg þurfti

þar til útbýtingar. Þá við fórum af Bakkanum, segir hann: »Eg heyri, að á Alþingi sé ei gott að fá sér að drekka, og ætla eg mér nú að fá mér blöndu á kút minn, sem eg hefi«. Við biðum hans á meðan, héldum so á stað og upp Reykjadal. Þá við komum upp á hálsinn, áðum við hestum okkar. Var þá komið á nótt, og við orðnir matlystugir, og tókum því til matar, hvar eptir okkur þyrsti, en vatn var þá ei nærri. Báðum hann að gefa okkur að drekka úr kútnum. Hann segir það að sönnu velkomið, en segir það sé soddan ýlda frá einni Bakkakerlingu, sem hann ei vogi sjálfur að drekka, tekur úr tappann, sýpur á og spýtir með miklum ræskingum út úr sér aptur, og setur so tappann í; hafði hann síðan undir tjaldskör okkar á þingi, þar til hann var að selja hvern pela úr honum á 10 sk., því raunar var á honum brennivín, sem hann hafði í einhvers reikning, og enn fleira, svikið út hjá kaupmanni. En við þessu sáum við ei. Af hálsinum riðum við að einum bæ, er heitir Nesjar. Var eg þar kunnugur og feingum (við) okkur þar að drekka. Þar var ekkja fyrir, til hverrar hann inn fór, því fólk var í svefni, laug þar mjög kynduglega út hjá henni klút vetningum[1]) [og sjálfskeiðingshnif handa okkur, er ári síðar kom upp. So fórum við að Skálabrekku; var eg vanur að koma þar fyrir hestum mínum um þingtímann. Þar bað hann um til láns, þar til aptur kæmum, nýjan starfhnif, er bóndi viljuglega léði. Komum við þar til baka, fórum heim til bæjar, en áðum hestum á stöðli. Var þar þýfi á milli tveggja lækja. Þá við heimtum aptur hesta vora, var hann að hlaupa eins og hálfærður væri um þúfurnar, kennandi okkur um dvöl okkar; sagðist hafa orðið að hlaupa fyrir hesta okkar, og því hefði sá leiði hnífur týnzt upp úr vasa sínum, og afmarkaði víst svið, hvar innan hann væri að finna. Fór bóndi og fólk hans að leita með honum, en hnífurinn fanst ei, þó hann segði bónda þar til hans, því raunar hafði

1) Svo.

hann aldrei týnt honum, og viðlík brögð brúkaði hann víðar. Hann lunkaði út betliattest hjá sýslumanni, færði sig so í larfa, er hann hafði þar til fyrirhugað og heiman með sér haft, og við vissum ei fyrr af, og ávann sér þar með ölmusgjafir á þingi. Hjá kokk stiptamtmanns og annara herra þar á þingi kom hann sér í vinfeingi við, so vel upp á eldamensku, vatns aðburð, hreinsun diska og kera, og kom so með fullan barm og vasa þaðan með ýmislegt matartöy og jafnvel fleira, svo við klerkarnir vorum orðnir hissa og rétt hræddír um oss, af því, við urðum varir við, og tókum því iðuglega varúð á oss sem bezt höfðum vit á að innflækja oss ei í hans orð né athafnir, og urðum feignir þá við sluppum síðast klaklaust með hann.

Þá fékk eg blóðvellu í annan fótinn á þingi af því eg hlaut ávalt í sterkasta hita að ganga þar í stígvélum. Hjó Bjarni sálugi landphysicus í fótinn og bar so ofan í benjarnar nokkru drífandi. Hér við umsnerust þær so, eg ber þau ör og merki til dauðadags; fóturinn og lærið blés alt upp, so ei sá annað fyrir (en) að eg mundi þar hreint leggjast, sem óhentugt var. Flýtti mér því í burtu þaðan og ætlaði að nema mér veru og staðar í áðursögðum Nesjum. Gat eg nú ei riðið nema fót fyrir fót, þoldi hvorki sokk né skó á fætinum, og vafði hann með klútum. Vorum við alt kvöldið og nóttina að komast þangað. Prestur fór til bæjar að útvega mér rúm, en lét mig af baki í eina lág á stöðli, hvar eð var mikið gras fyrir með Maríu- eða brúðarstakk so kölluðum. Eg tók á meðan þessi blöð og lagði þau yfir fótinn, hvar við strax tók úr verk. Jók eg þá því meira við yfir allan fótinn, lét einasta færa mér ábreiðu og sofnaði þar um stund. Þá eg vaknaði, var hreint allur verkur í burt. Prestur vakti yfir mér, því hann heitstreingdi, ei við mig að skilja fyrr en eg væri dauður, eður eg kæmist lifandi heim. En þó bólgan væri enn mikil, réði eg af að fara leingra. Ekkjan leitaðist við að gera mér alt til greiða, er eg borgaði henni. En hún var ei, því miður, so fram-

færin að segja mér viðskipti hennar og Vigfúsa í það sinn.

So fór eg yfir hálsinn í Ölvesið að þeim bæ, sem heitir Reykjakot. Þar var fyrir vænn og erfiðissamur bóndi, er Guðni hét. Hann hafði átt tvær konur, og við þeim 24 börn, af hverjum 18 komust á legg. Háttlofað veri almætti guðs! Eg hafði í þá yfirstandandi fjárpestartíð skaffað þeim manni í 4 þá undanfarin ár 10 fjórðunga ullar á hverju, af því eg kendi i brjósti um hann og féll vel i geð mannskapur hans. Hlaut eg og að vera forhugsaður um þau pestarár um 80 fjórðunga ullar og þar yfir handa þeim og þeim, sem mig höfðu beðið og eg var skuldbundinn til að gera það fyrir, so sem voru mínir yfirmenn. Hafði eg það ei af minum eigin rammleik, heldur hlaut þá jafnan að fá þá ull að, héðan og mest austan úr Hornafirði, er mér ei í þann tíma örðugt féll, því þá var nógur frískleiki og efni til þess, er eg þá sá ei sem skyldi, hversu dýrmætt var. Þessi maður tók fegins hendi á móti mér. Eg dvaldi þar nokkra stund dags; fór þaðan að Kaldranesi[1]), og fékk þar gott rúm og góðar viðgerðir. Var nú sunnudagsmorgun. Sóknarpresturinn, sem hét síra Einar Jónsson, frá Berufirði áður, var þá ei embættisfær, en hafði boðað fólk til kirkju. Síra Þorsteinn og hann voru kunningjar, frá því hann var í Mjóafirði. Hann býður honum að embætta fyrir hann, sem hann þáði. Varð eg, þar eg lá, mjög hræddur um meðbróður minn, þar eg vissi, hann hafði ei sofið og ei matar neytt, að segjast mætti, i undanfarin 5 dægur, en haldið sér uppi á brennivíni. Þó gaf það guð, að það fór allvel að allra sögn. Þvílíkar gáfur hafði hann til að bera.

So komust við heim til vor að heilu og höldnu fyrir guðs hjálp.

Þá á leið það sumar, fékk hann Skorastað, og þénti eg honum til þeirrar ferðar sem eg kunni og eg sá honum lá á, og þótti báðum mikið við hvorn

---

1) Svo.

annan að skilja. Sonur hans Benedikt var hjá mér leingi sumars nú eptir eldinn. ɔ: 1786, áður hann var antekinn í skólann. Við skrifum jafna hvor öðrum til, til gamans, þá ferðir falla á milli. Er hann nú farin að þvinga brjóstmæði, er mér síðast 1788 tilskrifaði. Sitt vill meinið sérhvern þjá. Guð lætur oss sjást í eilífu lífi.

Víkur nú hér frá sögunni og aptur til Vigfúsar Sæmundssonar. Hann var giptur maður, tók sér aðsetur í Hvammi í Mýrdal, og átti þar barn við einni dóttur Jóns Árnasonar áður umgetins. So var hann dæmdur í sundur frá konu sinni, og þá við, sem þau sundur dæmdum, sögðum þeim að kveðjast með kossi, gekk hvort sínu meigin kirkjudyra, litu um öxl hvort til annars og sögðu blygðunarlaust: »Farðu þinn veg frá mér til etc.; samur er kærleikurinn, þó við kyssunst ekki«. Hraut þá einhverjum þetta: »Svei ykkur báðum, djels ókindurnar«. Hér eptir lagði hún lag sitt við annan, og hann enn frekari verur hjá sinni hóru; eyddi þar og útdreif mart úr heimilinu. Prestur hans, sem ekkert réði hér við, angaf þá þennan hrapp fyrir mér sem prófasti, og so sýslumanni, sem eptir marga snúninga skikkaði hann úr sýslunni. En hann fór út að Skógum á næsta bæ við hana og hélt so enn sama áfram, sem honum var auðvelt. So útvegaði eg skrif hjá stiptamtmanni, er skikkaði, undir stórar sektir, að drífa hann so langt í burt frá sýslunni, að hann næði ei til hennar, sem og gert var. Komst hann so um nokkur ár vestur í Gullbringusýslu, og numdi staðar hjá ekkju þar. En þá eg var hingað farinn úr Mýrdalnum, snautaði hann þangað aptur. Eitt sinn, er eg var í fiskiaðdrættum á Seltjarnarnesi, hitti eg hann í Nesi, hvar landphysicus sálugi Bjarni var að skera upp fingurmein á honum. Lék hann mér þá þann refsleik, að hann yfirtalaði hann að biðja mig að flytja sig austur í Mýrdal, hvar hann ætti aðskiljanlegt, og að gera svo að þessu meini, so landphysicus fer þessu mikillega fram við mig, sem vorum soddan vinir, að eg hafði lofað að gera hverja hans bón, er

eg megnaði. En þá er eg nú neitaði þessari bón, hvar til hann vildi öllu kosta, varð hann afarreiður við mig, bregðandi mér um nízku, miskunnarleysi, óærlegheit við sig, er mér var sárast að þola, áður en eg kæmi nokk(ur)ri afbötun fyrir mig, sem nú hafði ei að segja vegna bráðsinnis hans. Lét eg sem eg mundi gera það og lofaði mig aptur að koma þangað, sem eg þó ei gerði, heldur bar fyrir mig með seðli, að lest mín hefði verið í burt komin, að eg hefði ei mátt aptur hverfa þangað; gat og litið um vandhæfið, sem á því hefði verið. Jafnaðist so aptur vinskapur vor. So eru heimsins börn kæn og útsett til að gera mein af sér með öllum hætti.

Frá þessum sniðuga þjóf og skelmir vik eg til annars, er eg hefi fyrr á vikið, sem hét Ásmundur Einarsson, og eg hitti eitt sinn á Alþingi. Hann hafði gefið sig þar í lið og þénustu með peningaríkum lausamanni og drykkjurútara, hverjum hann reyndist leingi fram eptir trúlega fylgjandi, uppápassandi, bætandi og forsvarandi íllyrði hans og misverk. En að endalykt fanst þessi hans lávarður, er Bergur hét, á víðavangi liggjandi í svefnórum og rússi hjá þjóðbraut, firtur og ræntur öllu lauslegu, og peningum, er hann sagðist haft hafa, nema hesturinn var eptir að bera hann til bygða, en fylgjarinn horfinn. Var nú óvíst að kenna honum eður öðrum soddan tjón. Þó kom hann blygðunarlaust á þingið aptur. Fyrir vestan Snorrabúð við Almannagjá hafði einn maður í boði flugvakran hest, er þar stóð með reiðtygjum hans, og blárri flossessu í. Þar gaf sig fram annar, sem vildi kaupa hann fyrir uppsett verð, ef hann færi þann sprett, sem sér líkaði, og skyldi hvorugur þeirra reyna hann, heldur einhver óviðkomandi, er kynni þá list. Þar var þá nærstaddur greindur Ásmundur, er þó nefndi sig öðru nafni, með uppspertan hatt, í skinnpeysu og skinnbuxum, og bauðst til að reyna hestinn á þeim skeiðflöt, sem er þar suður í gjánni að Kárastíg. Er þar litill afburður af háu klettnefi, sem geingur í gjána að austanverðu. Við vorum átta í hóp, sem fórum upp á einn klett fyrir

vestan búðina, ásamt kaupanautunum, að sjá upp á renniskeið þetta. Hann stökkur á bak og hrökkur hestinn með keyrinu fyrst fram og enn listilegra til baka. Vindur var á norðan (so) þéttur að skinnpeysan flaksaðist aptur af honum. Allir gættu meir að fimleika hestsins, er var sem hver vildi sér kjósa, en að kauðanum, sem á baki sat. Þá hann af baki stökk, að reyndnm hestinum, vantaði sessuna. Er hann spurður að henni, en hann segist ekkert til hennar muna né vita. So leitar eigandi orðróms til okkar; verður þá ágreiningur á. Sumir segjast hafa ei aðgætt það, aðra minnir ei betur en hún hafi verið. Hann segir, allir við höfum séð yfir síg, og menn sjái, hún sé ei hjá sér. So fórum við þá allir að leita og finnum hana ei, og hættum við so búið. Eg þóttist víst hafa séð þennan mann áður, en kom því ei snögglega fyrir. Við hittunst síðar um daginn í einrúmi. Eg segi við hann af viðorraði[1]). »Eg þykist vita, að þú heitir Ásmundur Einarsson«. Hann svarar: »Satt er það, en hvar höfum við sézt?« Eg segi honum það, en hann kannast við. Eg bið hann nú að segja mér, hverninn hann hafi getað náð sessunni um daginn, og lofa honum aptur upp á æru mína og trú, eptir sem hann að fornu þekki mig, að uppljóstra honum ei eður svíkja hann í trygð. Segir hann mér þá, hann hafi strax losað hana, er hann fór á bak, en þá hann hafi til baka riðið hafi hann fleygt henni aptur undan sér og upp í veðrið, er hann reið fyrir nefið, og hafi hún þar fleygzt í eina klettaskoru hátt upp í berginu, hvaðan hann sé búinn að ná henni. Féll eg nú í forundran af so útséðu kænskubragði. Segi eg honum þó, að maðurinn sé nú í tilbúningi að láta hann gera betri grein á henni, og sé honum nú annaðhvort að gera að hafa sig strax í burt eða mæta því, er hann geti upp á hann náð gögnum og bevísingum. Réði hann það af að hann fór hið snarasta þaðan og spurðist ei framar til hans.

Það þriðja dæmi upp á fals og fláttskap ágjarnra

---

1) Svo.

manna rís til gamans og varúðar eitt sinn af tveimur ölmusukerlingum þar á Alþingi. Af því hyski var opt mikill fjöldi og ei allir so haltir sem hinkruðu, þar til stiptamtmaður Thodal tók það alt of vonda og uppstigna skikk af.

Sagan af þeim rís á þennan hátt.

Eg var einn morgun í vestanvindi staddur hjá amtmanni Ólafi Stephánssyni. Við vorum skólabræður til forna, og var hann mjög eiginlegur við mig, þegar einginn sá né heyrði til. En þar fyrir utan gætti hvor síns embættis. Sú timburbúð, sem hann var í, sneri til austurs og vesturs. Var austan á henni stórir glergluggar, en þar sem þar var nú logn fyrir og sólskin, settust þar undir tvær kerlingar af Innnesjum. Þekti hann báðar þær fyrir misjafnar kindur. Önnur var þar áður alkunnug, en önnur var nú þangað í fyrsta sinni aðkomin og ókunnug. Sú aðkomna segir: »Eg er nú, fáráðurinn minn, hingað komin; kendu mér nú, heilla mín, öll ráð og siði, til þess að eg fái hér nú nokkuð.« — »Það skal eg gjarnan gera«, segir hin. — »Hver á nú þessa búð?« — »Hann Ólafur okkar amtmaður. Hann er hér góður og gjafalítill okkur, sem hann þekkir. Beztur er hann heima«. — »Hvað segir þú mér um hina höfðingjana, og hvar þeir eru og hverninn eg á að haga mér við þá?« — »Það er mér auðvelt að vísa þér á búðir þeirra og tjöld. Sumir eru geistlegir og sumir verzlegir, og verður þú að brúka sitt orðatiltæki og heilsan við hvern. Margir eru og gefnir fyrir virðingum, og verður þú að hæla örleika þeirra og miklum afspurnum af þeim, og skal eg segja þér, þeir eru þessir etc., en varastu það við Olaf amtmann, eður þá hann heyrir til. Þegar þú ert búin að vera hér 4ra daga eður leingur, þá kantu að biðja þá og þá aptur, því opt hefur mér orðið það að lukku; ef að upp kemst um þig, þá kenn um gáleysi og minnisleysi þínu, eður bið þá um mat«.— »Hver gefur nú mest af öllum?« —»Hann heitir Lýður, og er sýslumaður að austan«. — Quæstio: »Er hann so ríkur?« — Responsum: Nei, nei. Hann er so góður maður, en þar hjá mikill drykkjumaður, og þá gefur hann

10 sk., eina og tvær álnir tóbaks, en langtum minna þar fyrir utan«. — »Vísa mér sem fyrst á búð hans«. — »Nei, ei geri eg það fyrr en eptir nón í dag«, — »Því þá?« segir hin. — Responsum: »Af því hann er þá orðinn drukkinn, því hann er þá kominn frá höfðingjunum. Eptir því sem það vill til, gefur hann þá tvisvar þeim sama á sama degi«. — »Æ,« segir hin, »hamingjan gefi, eg verði fyrir því«. Og svo hætta þær þessu hjali. Við hlýðum á alt til enda. Biður amtmaður mig að láta Lýð vita af væntanlegum gestum etc., en segja sér aptur, hverninn fari um viðtektirnar, hverju eg lofa, fer til sýslumanns laust fyrir nónið, og segi honum alt af létta. Þá góð stund er liðin af nóni, koma kerlingar, setjast við búðardyrnar, klappa upp á með fegurstu fyrirbænarorðum. Hann svarar litlu síðar: »Hvað á soddan ónæði? Látið mig vera kyrran«. Þá hvískra þær saman: »Já já! drukkin er hann orðinn; vel hittum við upp á tímann«. Nú kemur aptur kall: »Sælir og blessaðir, sýslumaður góður, blessað dygðablóðið«. Hann svarar: »Eg skal drepa ykkur, ef þið þegið ei«. Sú eldri muskrar enn: »Kipp þér ei upp við þetta; það eru drykkilæti hans«. Í þriðja sinn heilsa þær andvarpandi og stynjandi; þar með lýkur hann upp með höstugum reiðisvip, hefur í hendi nakinn korða, so segjandi: »Ef þið, örmustu flærðarker(l)ingar, hafið ykkur ei héðan í burt á augnabliki, so læt eg þennan korða ganga í ykkar vondu búka. Þær stökkva upp með hræðslu, og að forða lífi sínu taka til stafs og fóta og stikla suður eptir gjá, segjandi: »Drottins maðurinn góði, gætið að höndum yðar og drepið okkur ei«. Hann svarar: »Segið nú frá aptur, að þið hafið fundið hann gamla Lýð eptir nónið, og þið hafið getað tvínarrað hann«, með enn fleiri orðum. Hann er að slá og pota korðanum í bakhluta þeirra suður eptir gjá, því búð hans stóð við fossinn, út úr hverri búð og tjaldi á þeim vegi komu þeir, er þar fyrir voru, að heyra og sjá upp á þetta leikaraspil; hljóðafæri, hlátur og sköll tóku dver(g)mál í klettum þar í kring. Ei sízt hafði amtmaður gaman að sodd-

an viðskiptum. Og so má lýsa fleirum ölmusumönnum þessarar aldar.

Virð ei illa fyrir mér, góði lesari, þó þessar frásögur hlypu hér inn á meðal annars. Eg stytti mér eitt sinn dægur með þeim út af íhugan af heimsins falsleika, sem af þeim má sjá og þekkja. Til þess eru vond dæmi að varast.

## KAP. LX.

Nú er betra að sjá sig aptur um hönd og bæta sér í munni, því hve nær sem tal eður skrif fellur um vond heimsins börn, og þá þau framfylgja sinni eiginlegri náttúru, er það hjá þeim að finna, sem hér var talað og þúsund fleira vont, er einn siðprúður og hreinlyndur maður leiðir sér ei í hug, að sá og sá búi yfir, er kristið nafn ber og nóga upplýsing hefur feingið að haga sér vel, nema hann sæi hér á og þreifaði so opt, og því optar sem hann leingur lifir í veröldinni, sem Lutherus þess vegna kallar einn strákastöðul. Eg ályktaði í ungdæmi mínu, þá eg var í skóla einn hlut verstan og viðsjálastan, hvar um áður er á vikið, því eg í þann tíð hafði ei af fleirum að segja. En hversu mart hefur ei síðar komið á veg fyrir mig? Og enn þá fæ eg að reyna það, sem aldrei fyrr hafði reynt, að so leingi mann lifir, er hann að læra að þekkja gott og ilt. En sá óumræðilega góði guð hefur so haldið í hönd með mér, að hverninn sem heimurinn hefur viðleitazt að fordjarfa mig og fella, hefur honum aldrei tekizt það. Það eg hef af hans álfu ætlað stundum mest upp á, hefur mér orðið að öllu óliði. Því ber honum lof og dýrð af því öllu saman, og þykist eg nú hafa alt ónógan tíma til þess, en bæti mér þó í skapi með því, að eg fæ þar til hindrunarlausa og fullkomna tíð í eilífðinni, er eg tvíllaust trúi og vona, hann veiti mér. Sú huggunargrein, er eg hefi fyrr á vikið, að hann eitt sinn í þungri baráttu hughreysti mig með af Malachiæ spádómsbókar 3ja kapítula, hljóðar sem eptir fylgir:

Þér talið hart í móti mér, segir drottinn. So segið þér: Hvað tölum vér í móti þér? Í því þér segið: Forgefins þjónar mann guði, og hvað hjálpar það, þó vér höldum hans boð og færum einn strangan lifnað fyrir þeim drottni Zebaoth. Þar fyrir prísum vér þá forsmánara, því þeir óguðlegu vaxa, þeir freista guðs og hafa lukku og framgang. En þeir guðhræddu hugga sig so hver við annan, drottinn merkir það og heyrir það, og það er eitt minningarbréf fyrir hann skrifað, fyrir þá, sem óttast drottin og þeinkja á hans nafn. Þér skuluð vera minn eigindómur (segir drottinn Zebaoth) á þeim degi, hvern eg vil gera, og eg vil spara þá, so sem mann sparar sinn son, þann honum þjónar, og þér skuluð þar í móti sjá aptur, hvaða mismunur er á milli þeirra réttlátu og þeirra óguðlegu og á milli þeirra, sem þjóna guði, og hinna, sem honum ekki þjóna.

Hér sér þú, barn mitt og góðfús lesari, með hvílikum þaunkum og hugarfari eg hefi þá verið, og aptur í annan stað, hversu guð svaraði mér upp á þá, áminti mig og hughreysti og sýndi, hversu útfallið væri í hans ráði, sú sök útfallin, er minn holdlegur breyzkleiki af heimsins yfirgangi óttaðist þá fyrir. Það verður af aungvum lifandi manni útmálað, so sem skyldi, hversu guðs orð, réttlínis frá hans munni tekið, hefur í sér yfirnátturlegan og yfirfljótanlegan krapt og huggun á móti hverju einu mótstæðilegu, er koma kann í hug eður á veg fyrir einn andlega fátækan kristinn mann. Þó eg megi ei reikna mig þar með, þá hefur þó guð, allra helzt síðan hann, bæði af réttvísi og gæzku, tók af mér þá líkamlegu heilsu, mig aldrei látið bresta nýja huggun af því. Heil grein eður eptirdæmi, og þá það eður annað gott hefur verið búið að hafa sínar verkanir, eður mér hefur gleymzt það, hefur þá annað nýtt á nýtt ofan komið, og fært með sér nýjan styrk og hugsvölun, so eg hefi fallið í forundran, hversu nákvæmlega guð hagar sér og leikur við mannanna börn. Þetta begrípur einginn mannlegur skilningur, og þó maður reyni þvílíkt, getur hann það ómögulega út-

skýrt, nema lítið við reyndan sinn líka, so til góðra nota komist. Eptirþanka kann slíkt að gefa og styrkingar uppvakning síðar meir, þá heimurinn er farinn í mótlætinu að brydda á sér fyrir alla alvöru. Tek eg þetta og tala af sjálfs míns dæmi og prófan, sem nú á undanförnum rúmum 4ra ára tíma langt meira fræðzt hefi í þvílíku ásigkomulagi en allan minn aldur hingað til. Sannast og hér, að reyndur veit, en óreyndur tortryggir. Hvað mér einna mest þykir í heiminum við að skilja, er guðs opinber þjónustugjörð. Þó eg vel viti og voni, að fá að heyra annan langtum fegri og sætari lofsaung í eilífðinni, þá er eg þó enn eins sinnaður sem segist um Bursillai. Og opt hefur mér orðið það til afþreyingar, þá ei hefi komizt til kirkjunnar, að fara með alla embættisgjörð með sjálfum mér í einrúmi, er eg hefi vitað, að þann dag hafi brúkuð verið. Þó eg væri ei mikill saungmaður, mest af því eg, of heimskur, lét narra mig til, þá eg var í skóla, að skemma þau, þá hélt eg þó eptir í meðalmáta laglegum róm og hljóðum, og hafði ætíð mikla lyst og gleði af fögrum saung. Því lærði eg og so upp á hljóðfæraslátt. Guð fór og so í því sem öðru vel með mig, að hann gaf börnum mínum fagurt og nett raddarlag, ásamt stjúpbörnum mínum. Lærðu þau so upp á tvísaung, og mundu þar fyrir marga sálma með listilegum lögum að syngja, þar með sín á milli og með öðrum, er kunnu og æfðu sig í þeirri list. Guð veitir aungvan hlut til forgefins. Guð gaf mér og þær ektakvinnur, sem höfðu væn og fögur saunglistarhljóð; kunnu og til þess, sérdeilis sú síðari. En hversu saunglistin var mér inndæl, vil eg hér eptir með nokkrum dæmum sýna.

Eg var eitt sinn haldinn á Felli af handarmeini, — eg fékk þau þrisvar, — sem gróf í það sinn út í miðjum lófanum. Hafði eg þá lítinn frið. Lét eg þá stúlkur mínar kveða mér til afþreyingar lystug kvæði, er þær mörg kunnu, sem hrærðu so sansana, að eg fann á meðan til slétt eingrar tilfinningar, sem eg ekkert liði. Eitt sinn var eg við embættisgjörð á

Þingvöllum, þá messu-upphaf var: Lifandi guð þú lít þar á etc. Þar voru þá 4 þeir listilegustu saungmenn eða prestar í kórnum. Herra Ólafur amtmaður, sem bæði var saungmaður, og hafði stóra lyst til saungs, vissi vel af þessu, og setti til 3 unga saungmenn, af hverjum öllum tók fram Magnús sonur hans, sem tóku strax bassann undir í einu sæti fyrir framan kórdyr, en hann sjálfur með 3ur saungmönnum var í jöfnum discanti undir. Gekk so af allur saungurinn með þessari lofsverðu prýði. Hafði eg aldrei fyrr né síðar heyrt so sætan og fagurtempraðan saung, að eg kemst ætíð við með sjálfum mér, nær eg til þess þeinki. Ó, hvað þá í eilífu lífi.

1777 kom hér til lands prýðilegt engelskt skip. Á því voru hálærðir náttúruspekingar til að skoða Heklu og ýmsa náttúrlega fáséna hluti[1]). Eg var á ferð um þann tíma, og kom til eins þeirra í Hafnarfjörð, því hinir tveir voru þá ei við. Mér var þar inn boðið í stásstofu, hvar í var langt borð með annari hliðinni, og mátti þiggja þar vín og hvað eg vildi, því þeir voru höfðinglega sinnaðir. Á borðinu lá ein opin bók, á hverri voru ei annað en stryk og nótur að taka lög, á hverja eg leit. Túlkurinn, sem talaði dönsku, raunar íslenzkur, spurði mig að, hvort eg hefði lyst að heyra nokkuð, hversu þær melodiur léti, hverju eg játaði, og bað, eg mætti heyra það. Flettir hann upp bókinni og bendir mér á visst danzlag. Meistarinn, sem Müller hét, sezt við efri borðsendann, tekur hljóðfærið og leikur lagið á það, en 8tta Eingelskir setjast í bekk á móti mér, taka þar undir, róa á hliðar og leika það sama með höndum og fótum, hart og lint, stappandi þeim á gólfið, sem lagið gekk hátt og lágt, so mér fanst sem alt húsið léki og fyrir. Nær þetta hafði nokkra stund geingið, sé eg, þeir horfa á mig og fara að hlæja. Eg fer að sjá mig um kring, hvað það megi vera, og komst loksins að, að þessi danz er búinn að hræra so mína sansa og blóð, að eg er farinn að hræra mig og róa

1) Ætli þetta eigi ekki að réttu við Uno v. Troils biskup og Solander náttúrufræðing?

til og frá aldeilis óvitandi, og þar með set eg mig kjurran[1]), og hætta þeir þá með lystugheitum, og segir túlkurinn mér, þeir hafi verið að sýna kunnáttu sína, og prófa mitt eigið sinni.

Nú eptir jarðeldsumgang(inn) hætti (eg) að fara með hljóðfæri af margfaldri mæðu þeirri, sem yfir mig féll.

Þá eg í minni Setbergsferð, hvar um áður er getið, hafði[2]) næturstað á Bæ í Borgarfirði, sá eg þar snoturt langspil, er þar hékk, og þarverandi húsmóðir Madme Þuríður Ásmundsdóttir átti og brúkaði. Hún, sem gera vildi mér alt til þénustu og afþreyingar, bauð mér það til að slá upp á það. Og þá eg það reyndi, gat eg það ei fyrir innvortis angursemi og hugsun til fyrri daga, hvað þá hún sá, tók hún sjálf að spila á það ein þau listilegustu lög, hvar við eg endurlifnaði við og fékk þar af sérleg rólegheit. Hún sem aðrir voru mér sérlega góðir í þeirri mæðuferð, nema þau nýju hjón á Setbergi, síra Björn og Madme Helga, sem eg ætlaði bezt upp á, hvar um áður er sagt. En nú um þennan tíma komu þær fregnir, að hann hefur ei hent minni yfirsjón en mig, að honum er skikkað að láta úti 12 rd., með víðara. Seinna koma sumir dagar. Síðar heyrist hverninn það mál útfellur.

Mr. Sæmundur Magnússon, er eg hjálpaði til siglinga forðum, er nú orðinn prestur á Helgafelli. Guði sé lof, að það mitt fyrirtæki með hann varð ei til forgefins, og hjálpi honum nú vel með að fara.

Jón Scheving, gamli stjúpsonur minn, heyri eg nú, að sé kominn niður á Jullandi, orðinn þar undirofficeri og eigi þar konu og börn. Og ef so er, þá verði honum það til lukku og farsældar.

## KAP. LXI.

Nú er framar að sýna guðs náðar umhyggju og hversu hann endalaust hagar hlutunum til beztu af-

1) Svo.
2) Hér stendur »eg« í hdr, (ofaukið).

drifa, og lætur það fram koma, hvað hann vill, hvað(a) umrót sem mennirnir i frammi hafa.

Þegar leið fram í Februarium, kom síra Bergur teingdasonur minn hingað prestvígður úr Skálholti. Var (hann) af síra Jóni á Lyngum innsettur 28. Febr., sem var 2. sunnudagur í föstu, til að vera minn meðþénari í kennimannlegu embætti. Eg var þá og so þann sama dag í kirkjunni til sacramentis, og varð þá eptir þá ferð mjög lasinn, að aldrei komst til kirkjunnar alla föstuna út. Gat þó enn farið á fætur og lesið húslestra, og hafði nú 1, stundum 2, tilheyranda, og mátti nú bregða við, og til muna, að fleiri hafði átt. Enn þá gerði minn góði guð við mig alt þolanlegt og bærilegt. Einginn vitjaði nú um mig optar eður kom til mín (annar) en einn guðhræddur og siðsamur bóndi í Morðtungu[1]), er heitir Þorleifur Jóhannsson, dótturson sýslumanns Bjarna sáluga Nikulássonar. Kippir honum í kyn sitt. Þótti báðum gaman og afþreying að tala hvorum við annan, og varð honum tíðum tafsamt hjá mér. Ætla eg honum eptir mig bók, er afi hans gaf mér á sínum dauðadegi: Jakobs Hvalseyjar bænir[2]). Síra Jón Sigmundsson, er þær útlagði, gaf sýslumanni þær á sínum deyjanda degi, og mælti so fyrir, hann skyldi þær og síðast gefa sínum bezta vin, er næst honum yrði á dauðastundinni, eins og hann hafði honum gert. *Nota bene!* Síðar eitt sinn, þá eg ætlaði útgert væri um líf mitt, afhenti eg honum þær. Þar var og á líkprédikun eptir ömmu hans Petronellu Bjarnadóttur, so eptir hana, afa sinn og móður á hann líkprédikanir frá mér, er hann hefur sett í eitt band.

Nú leið fastan og kom páskahátíðin. Gaf guð nú góða vegi og bliðskaparveður, að eg komst til kirkjunnar og framflutti þá alla guðsþjónustugjörð þann hátíðisdag, so fyrir altari sem í prédikunarstól, item

---

1) Svo.

2) Hans Jacobsen Hvalsoe, prestur á Fjóni, f. 1651, d. 1712. Bænabók hans: De Bedendes aandlige Kjæde, kom fyrst út í Khöfn 17C0, og opt síðan. Sbr. Landsb. 1659. 8vo.

leiddi guðhrædda konu í kirkju, er Guðlaug Björnsdóttir hét, — og þetta enn sem fyrr með furðanlegum styrkleika. Prédikunarform mitt var þá þetta, hversu alt náttúrunnar líf væri skammvint, so ei kynni við það bindast nokkur varanleg elska, en vors frelsara líf, er hann hafði fært frá dauðum, væri ævarandi og eilíft. Joh. 14. Ap. 22. Exegesis, hverninn hann í opinberan, orði og verki hefði glatt sína harmþrungna elskendur í sinni upprisu, og hverninn hann gleddi sín börn enn með nytsemi sinnar upprisu, einkanlega í von upprisunnar á síðasta degi. So fór síra Bergur að húsvitja, það eptir átti af Landbroti og Útsíðunni. En þar guð gaf so góða veðráttu, húsvitjaði eg alt fyrir austan á Síðunni, og var þangað gott að koma, hvar öll hjú fögnuðu. Eptir þann 1ta sunnudag eptir páska fór hann vestur að sækja bú sitt. Annan sunnudag eptir páska, sem var sá síðasti að sunnudagatölunni, embættaði eg enn að öllu leyti, og spurði börn; gat hvorki mér né öðrum, sem þar til þektu, komið til hugar fyrsta vetrarsunnudaginn, hvar um áður er skrifað, að mitt veika líf mundi so leingi treinast. So embættaði eg fyrsta sunnudag í sumri og kongsbænadaginn. Varð eg þá mjög lasinn eptir þá ferð. So embættaði eg 5ta sunnudag eptir páska. Uppstigningardag og sunnudaginn þar eptir var so óhagkvæmt veðurlag, að ei varð embættað. So kom síra Bergur að vestan fyrir hvítasunnuna; stóð hann fyrir altari, en eg prédikaði, og so aptur á Trinitatishátið. Mundi eg nú til þess, er guð hefði við mig gert á þeim hátíðisdegi, og þar eg fann nú algerlega á kröptum mínum, mér mundi ei framar á honum auðnast að koma í heilagan prédikunarstól, hafði eg fyrir inntak þessi Abrahams þénara orð: Drottinn hefur gefið mér lukkulega reisu, tefjið ei fyrir mér, látið mig fara heim til míns herra, — og heimfærði þetta upp á mín sóknarbörn, til hverra eg hefði verið frá guði sendur til að biðja þeirra hans syni til handa, sem fyrir hans styrk hefði lukkulega afgeingið, og mætti því ekkert tefja fyrir mér að fara nú héðan heim á

hans heilaga bústað. So hafði eg prédikunina um gagn og huggun, sem öllum stæði af heilagrar þrenningar heiti, með þakkargjörð fyrir þá upplýsingu, er kristnir menn hefðu þar af feingið. So prédikaði eg 2. sunnudag eptir Trinitatis. Fór nú síra Bergur minn, sem fékk Hólm til ábúðar, í venjulegar ferðir eins og aðrir. Á meðan varð ein kona veik í Þykkvabæ, er til mín sendi að þjónusta sig, hvar til eg nú aungvan veginn treysti mér, en þar guð hafði so mitt heilsupund, gat samvizkudómur mig ekkert áklagað um vanrækt á því. Guð hagaði því so til, að hún hjarði þar til presturinn kom heim aptur. Hjá mér var og um þessar stundir tvítug stúlka, er Arnbjörg hét, dóttir Þórarins á Breiðabólsstað, haldin af langvarandi innvortis meinsemdum, sem gaf sig út á síðunni, og gerði eg þar opnan á inn á milli rifjanna, sem so vel lukkaðist, að hún fór heilbrigð frá mér aptur eptir mánaðar viðgerð, hvar á vor allra meina græðari sýndi enn á mér sína náð og hjálp að lækna hana með léttvægum meðulum, ásamt enn fleiri, sem nú leituðu liðs til mín, hvar fyrir honum sé ódauðleg æra, lof og þakkargjörð, sem þanninn til míns síðasta tíma hjálpaði mér að gera nauðlíðandi gott af mér. *Gaf eg þeirri siðprúðu stúlku sálm undir hennar* nafni að skilnaði, að henni skyldi því síður gleymast soddan gæzkuverk drottins við hana. So fór eg til kirkju 8da sunnudag eptir Trinitatis. Treysti eg mér þá eingin embættisverk að fremja, nema eg skriptaði nokkrum mönnum. Heyrði þá fyrst til síra Bergs míns eina velgrundaða og uppbyggilega prédikun, og lofaði guð, sem ei hafði látið vort erfiði forgefins útfalla, so nú því framar, er hann var að auglýsa, hvað hann hafði honum veitt og gefið sínum börnum til gagns; þess framar tók hann nú af mér heilsuna, að gefa mér ævarandi hvíld eptir þessa heims mæðu, so nú frá þessum degi fór mér allra mest hnignandi, að verkurinn í bakinu og það beizka og óða þvagrensli gaf mér litla hvíld og ró, so hér með aftókst matarlystin og svefnværðin, er eg hafði haft í næstafliðin þrjú ár í bærilegan máta, nema þá

stórkostleg aðköst geingu, so ei hafði nú framar uppisetumátt að teikna og uppskrifa nokkuð af góðu, guði og hans börnum til nota, þó eg hefði enn gírnd til þess, sem honum sjálfum er kunnugt. Tókst mér þó af að ljúka þeim 7 bókum, er eg hafði þar til skrifað, í hverjum að eru 4 til 5 hundraða blaðsíður eður þar um bil. Sömuleiðis að setja nú í rétta röð mitt samantínings versakver, í hverju er að finna meir en 300 vers. Æ, guð láti nú börn mín og þeirra afkomendur, ásamt konu mína elskulega, sem alla alúð leggur á það að hjúkra að mér og þjóna í mínum lasleika, ásamt hvern einn, sem þær eignast, hafa þar af hugarins rósemd og öll sáluhjálpleg not! Hann veit, að þetta er af heitum huga og hjarta mælt. Þann 10da sunnudag eptir Trinitatis var eg so nær einn heima af ásettu ráði, og var því á auðmjúku samtali við minn guð þann dag, sem með sínum anda gaf mínum anda náðugt an(d)svar og huggun á móti einslags lygum upp á eitt mitt saklaust barn, sem og kom betur í ljós þar eptir, og veitti mér eptirþreyjanlega hugarhægð. Þann 11ta fór eg til kirkju og var til sacramentis. Hafði nú enn uppisetumátt að skrifa ýmsa sálma handa sóknarbörnum mínum, en komst nú ei til kirkju, er mig þó mjög langaði eptir. Fyrir þann 14da sunnudag eptir Trinitatis kom síra Ólafur minn og dóttir mín elskuleg, Helga, að vitja um mig. Fékk eg þá eitt það þyngsta og harðasta verkjakast, sem viðvaraði alla nóttina og sunnudaginn með litilli ró, so hefði það staðið um nóttina til, var hreint útgert um mitt líf. Var þá ei alleinasta þann dag beðinn guð fyrir mér, heldur komu nokkrir vinir mínir og sóknarbörn um kvöldið að kveðja mig sem í síðasta sinni. En þetta féll so út, þó fyrir einslags viðleitni, að guð gaf mér vægari nótt og svefnværð, og þó eg yrði mjög kraptalitill eptir, gat eg þó þá viku skrifað af nytsamlegu 2 arkir, og komst so enn á minn fæðingardag þann 10da Septembris, og byrjaði so mitt 63 ár. Lof sé guði fyrir liðna tíð![1])

---

1) Hér tekur við kafli með hendi síra Bergs.

Á þessu sumri bar það sérdeilislega við, er mig mátti *gleðja í mínum veikindum;* (að) sá hissugi stiptamtmaður Levetzow, af hverjum eg mátti þola stórt óréttlæti, sem áður er sagt, fór nú af landi burt og hans vondi þénari, sem hét Lindal, sem alt stýlaði mér til skammar, og fleirum öðrum, vegna fávizku síns herra. Nú stal hann frá honum að skilnaði að sögn tveim hundruð ríxdölum, strauk svo frá honum *og kom sér í eitt fríhöndlaraskip, er greindur stipt*amtmaður fór á öðru, með lítilli virðingu af æðri og lægri mönnum í landinu vegna fávizku hans og hissugheita, so allir urðu hans burtferð fegnir. Börn mín komu öll til mín þetta sumar til að kveðja mig, hvað mér var stór gleði og eptirlæti, að eg kunni að signa þær allar og leggja blessan yfir þær og þeirra börn. Item komu til mín að kveðja mig mínir beztu vinir úr Mýrdalnum: Jón Jónsson í Holti og Jón Bjarnason í Sólheimum, en Jón Guðmundsson á Ketilsstöðum kvaddi mig fyrir bréf.

Þann 16da sunnudag fór eg til kirkju og prédikaði um dauðans undirbúning mönnum til uppvakningar, en mér þó helzt, er var nú að búa sig undir hann. So komst eg til kirkju aptur fyrsta sunnudaginn í vetri, sem var sá 21. sunnudagur eptir Trinitatis, og prédikaði þá. Brúkaði eg fyrir prédikunarform, hversu heilsan væri dýr, með hverju menn í blindleika allra mest skelfdu hana, lækningarbótin væri bezt að flýja til Christum, hans viðtektir með vissum bænheyrslum, eptir því sem guð sæi, hverjum einum fyrir beztu. So komst eg aptur til kirkju þann 7da November. Tók þá til heimulegrar aflausnar þann fróma mann Odd í Seglbúðum og konu hans, item Jón Ólafsson í Þykkvabæ og konu hans Ingibjörgu, er þar eptir í December kom til mín til lækningar. Þar fyrir utan á því afliðna sumri benti guð mér í einslags skuggsjá, sem hann veit bezt. Fyrst sýndi hann mér, hvilík að væri dauðans myrkur í gröfinni, þar næst með einslags samkvæmi í húsi veröldina, fyrst með stórum blíðleika, síðan með hatri, falsi og allskyns handa óguðlegu athæfi. Í

þriðja máta með einslags fögru og prýðilegu húsi farsæld og samkvæmi eilífs lífs, hvað alt mig því fúsari gerði að skilja hér við. Þar með og vakti hann upp hjá mér langt um frekari eptirgrenslan, játun og viðurkenningu á mínum umliðnum syndum á móti honum, er mér hafði ekki áður í hug dottið að afbiðja. Gaf hann mér so iðrunaranda til þess að iðrast þeirra, að eg skyldi vera fullviss um í rólegri samvizku, að hvenær sem eg burtkallaðist, verði eg í hans náð, er eg og einninn af hjarta bið, að verði. Nú þann 4da Decembris, er eg læt þetta skrifa, því eg hafði sjálfur ei krapta til þess, er eg haldinn so þungu verkja kasti, að eg ætla, að nú líði mjög á mínar lífsstundir. Þess vegna tilset eg nú í eitt öll mín embættisverk, sem venjulega uppteiknast við prestanna fráföll, sem eru þessi, að eg hefi alls skírt 309 börn, jarðsungið 358, confirmerað 300, hjón samangefið 69 pör. Og þakka so guði fyrir alla mína umliðna æfitíð[1]).

Nú þá liðin voru 6 dægur, er eg lá í þungri kvöl og þrúgan, réttist (eg) við aptur, so eg fékk frið og ró. Þann 11ta þess mánaðar umbreyttist sú votsama veðrátta, er sló í fjúk og krapa, er viðhélzt til nýjárs. Fyrst fóru þá og að koma jarðbönn og torfærur, so ei varð framflutt opinber þjónustugjörð á jólahátíðinni. Eiginlega herti á soddan vetrarhörku með sólstöðunum 21. Decembris.

## KAP. LXII.

Árið 1791 jukust áður uppbyrjuð harðindi með snjófalli og ísing, sem hér tók af alla haga, að allar hagbeitar skepnur komust á gjöf, sem hélzt við jafnt og þétt fram að Góu. Þaðan í frá komu þíðvirðisdagar í bland, að upp skaut hæstu rimum. Eptir 3ja Aprilis tók veðráttan að vægna. En með sumrinu, er innféll á skírdag, kom blítt veður með sólbráð,

1) Hér þrýtur kaflann með hendi síra Bergs, og tekur við hönd síra Jóns.

er þaðan í frá viðhélzt, þó frost væri um nætur, þar hafís kom hér um þær mundir. Uppleystist so snjórinn, er so mikill var, að ekkert sást þá til jarðar í páskaviku hér á láglendi, að 31. Maji tók hann síðast af hér í brekkunni fyrir vestan bæinn á túninu, og þetta mest af sólbráðum. Mundi einginn þvílíkan snjóavetur. En tvo hafði eg þvílíka aflifað, þann fyrra 1754 í Norðurlandi, þann annan 1770 í Mýrdalnum. *Um báða er hér að framan getið.* So treindist nú heybjörg mín, að ei þurfti af mér að skera, og eigi misti eg neitt í hor. Þó hrakti einn bylur fé mitt frá fjárhúsinu fram um Skaptá, er þó fanst alt aptur, fyrir utan 5 kindur. Þanninn er öllu því hlíft, sem guð vill hlífa, og því einasta halda menn, er hann vill, nær vanrækt og hirðuleysi eru þar ei orsök í. Litið, mátti segja hér í þessari sveit, mististafhor og heyleysi hjá því sem annarsstaðar mátti frá heyrast, — ei að vér værum betri en þeir, heldur máske verri og óverðugri en margir af þeim. Þessi harða og kalda veðrátta lá nú yfirið þungt á mér, so veikum manni, að strax með nýjárinu fékk eg eitt kast, sem varði við viku. Kallaði eg nú síra Berg minn til mín að þjónusta mig í rúmi mínu, þar eg og fleiri sáu ei annað fyrir en eg mundi þá burtkallast. En eg réttist enn við, so í 7 vikna föstuinngang komst eg til kirkju, skriptaði 60 manns og prédikaði so; rúmir 80 voru til sacramentis. So komst eg aptur til kirkju miðföstusunnudag, og prédikaði og bað guð um vægð á yfirvofandi typtan, hvað og so þar eptir skeði. En þar eg lagði of mikið á mig, fékk eg að nýju eitt viku-kast, so eg lét taka mig til bænar. Lifnaði þó við aptur, og hefði um páskana til kirkju komizt, ef að vegir hefðu ei so slæmir verið. Þann 15da Maji tók mig enn þungt kast, sem varði við í viku. *En eptir það búið var að taka mig til bænar* á kóngsbænadaginn, batnaði mér, eins og í hvert sinn áður, so þann 29da sama mánaðar komst eg til kirkju og confirmeraði ellefu börn, og varð ei mjög lasinn aptur. Fékk eg nú enn meira eptirlæti um þá daga, því síra Jón minn á Mýrum, mér æfinlega trúr og

elskulegur, kom til mín og var hjá mér nótt til og frá, er hann hafði visiterað á Kálfafelli. Þanninn gefur guð ætíð í mótlæti gleðistundir með í bland. Guðs verkum er ætíð hrósandi; hann er ætíð hinn sami í kærleikanum; helzt sést það, þá nokkur er kominn í fátækt og einhverja nauð. Sjá mátti eg það hér nefndan sunnudag á nokkrum sóknarmönnum mínum, sem sátu með samtali á leiðum í útnorðri á kirkjugarðinum, þá eg gekk skamt frá þeim iun í kirkjuna. Ypti einginn þeirra höfuðfati sínu, enn síður þeir stæði upp að heilsa mér. Kom mér þetta ekkert undarlega fyrir, því ótal vissi eg af þeim dæmum áður. Eitt ætla eg að tilfæra.

Þá síra Hjalti Þorbergsson að vestan vígðist til prests, var eg staddur í Skálholti[1]). Þangað kom með honum systir hans, er Steinvör hét, snotur og dæileg jómfrú, trúlofuð undirkaupmanni á Eyrarbakka, er hét Magnús Einarsson, bróðursonur Skúla fóveta, og so frændi minn, ágætur maður. Þessi jómfrú var þar í Skálholti í miklum virðingum, leidd þar af öðrum jómfrúm, sýnd kirkja og staður og hvað uppþeinkt var henni til eptirlætis.

Og þá brúðgumaefnið kom með sitt föruneyti af Eyrarbakka, var henni fylgt og báðum þeim af fjölda af hvorutveggja kyni með stórum gleðskap að ferjustaðnum, því hressingar voru nógar fyrir hendi. Eg var þar í bland með mínar lukkuóskir. Orð fór og so af prakt þeirri, er gekk á Eyrarbakka, er þau komu saman í hjónabandið. En nokkrum tíma (síðar) lagðist hann í bólunni og dó, en hún var eptir með hans barni. Hann lét eptir sig miklar skuldir, og þar með komst hún í eymdarskap, að fáir vildu hvorki[2]) heyra hana né sjá, en náungar hennar af Vestfjörðum gátu ei so fljótt sem þurfti náð til hennar. Komst hún so einhvern veginn í duggu þá, er síra Björn Þorgrímsson og Madme Helga, kærasta hans, fóru á, þá sig fluttu að Setbergi. Þá þau geingu af skipsfjöl, kom eg á móti þeim, sem áður er sagt.

1) Þ. e. 1785.
2) Svo.

Var þar þá lítið samtal til afþreyingar. Gekk eg ofan að sjó að skoða skipið það íslenzka, er þau lentu á. Efst fyrir ofan lendinguna er hvammur eða kimi með götubölum, er ei sést að heiman. Þá eg þangað kom, sé eg þar liggur stynjandi konuskepna, er og so komið hafði af skipsfjöl. Eg geing til hennar, heilsa henni; sé eg hún er bleikföl og ei með sjálfri sér. Eg spyr hana að nafni; hún segir sem var, og gat eg nú naumlega þekt hana, og segi: »Á ýmsu veltur í heiminum. Nú eigið þér aðra daga en í fyrra haust«. Hún segir: »So læra menn að lifa«. Eg spyr hana, hvort hún vilji nú þiggja hjá mér nokkuð til endurnæringar. Hún játar því fegins hugar. Eg hafði til allrar lukku hjá mér balsamum vitæ, er eg með máta gaf henni inn í skel, er eg fann þar, og þar eptir nærði eg hana á brauðbita, og þá hún fór að styrkjast, fór eg heim til Mad^me Helgu, og sagði henni frá þessari konuskepnu, að hún hefði þörf fyrir hús og annan viðgerning. Hún svarar: »Eg á hér enn ekkert með hús,og því kunni eg ei að bjóða henni heim með mér«. Að þessu heyrðu fer eg til Madame Rannveigar, segi henni frá þessu. Henni varð ofþungt við, að ei hafði heyrt neitt getið um hana, og lét strax sækja hana og leggja hana upp í rúm meðan betur styrktist. Hún átti systur gipta einum beykir þar inni í kaupstaðnum. Var hún til hennar kominn á mánudaginn, er eg kom þar. Gerðu þau mér góða þénustu. Var nú enn á ný minzt, hversu alt væri fallvalt í veröldinni, en guð legði ætíð eitthvað til lífs þeim, er í sinni neyð settu á hann sitt traust. Fjögur önnur kærleikans verk sendi guð mig til að gera í þeirri ferð. Blessað veri hans nafn! Það voru þá líkamlegar meinsemdir. Er það ætíð breyzkleikanum viðfeldnara, sem frá guði so beinlínis kemur. Síðar fékk eg boð, að þeim hefði batnað.

Undarlega fer guð að hjálpa, og opt þaðan, sem eingin von var, sem þessi dæmi sýna. Eitt sinn tapaði einn piltur máli og sönsum í tvö dægur upp á Alþingi, hvar eg var staddur. Faðir hans heitir síra Þorsteinn á Stað í Súgandafirði, ættaður þó úr Eyja-

firði. Hann bað mig með grátandi tárum að gera eitthvað við hann. Lét eg flytja þennan hans son í tjald mitt, opnaði honum gintaggi-æðarnar, með annari viðgerð, so honum batnaði með guðs hjálp, hvar af faðirinn varð glaður og sagði: »Undarlega fór enn guð að hjálpa mér, vestustum af landinu með manni austast af því, og so segir mér nú hugur um, því eg er búinn að biðja guð að launa þér fyrir mig og barn mitt, að guð muni þér einhvern tíma óforvarandis hjálp senda aptur af vesturlandinu, þó ólíkt þyki«. — Hversu var bænin heit? Hvað kom fram síðar? — Eg svaraði þá: »Eg hef opt haft lyst að sjá vesturlandið. Hver veit nema þetta verði?« Þessi hans sonur komst þar eptir í skóla, því hann var þá að sækja um hann og er nú hans capellan[1]). Minn guð, því framar eg þeinki á hina fyrri dagana, því fleiri miskunnarverk þín koma mér í hug, og náði þín mildi, hversu mörg eru gleymd!

Nú vík eg aptur frá þessum frásögnum, og þar til, er guð styrkti mig að confirmera börnin. Nokkrir þeirra foreldrar og þau beiddu guð, hann gæfi mér styrk (að) lesa yfir þeim meira gott, þá þau væru til sacramentis tekin, sem átti að vera næstan helgan dag þar eptir, — ei það, að nokkur gerði það af minsta forakti við prestinn, — en so fór, vegur og veður hindruðu ferð þeirra til kirkjunnar þann dag, og so annan til, þar til á hvítasunnunni. Komst eg og þá til kirkjunnar, og prédikaði út af fimmslags blómstrum, er guð prýddi hjarta mannsins með á þeirri hátíð; er so anvendingin auðráðin, hver varð. Enn þá hafði eg bærilega heilsu, so eg fór til kirkju á Trinitatishátíð[2]) og framflutti þá alla guðsþjónustugjörð án allrar þvingunar. Prédikaði nú út af pistlinum, ɔ: hversu guð í almennan og sérdeilislegan, andlegan og líkamlegan máta breytti forundrunarlega við mennina etc.

---

1) Þ. e. síra Þórður Þorsteinsson, síðar prestur í Ögurþingum, f. 1760, d. 1846,

2) Þ. e. 19. Júní (1791), og er það hið síðasta, sem síra Jón dagsetur í æfisögu sinni. En 11. Ágúst andaðist hann.

Þó komst eg ei af þann dag án ádömunar, að einn minn sóknarmaður af hræðslu og heimsku, framar en illgirni, bar á móti því, sem hann hafði beðið mig að skrifa fyrir sig og setja sitt nafn undir. Vildi mér það til hamingju, að eg hafði kallað votta til að öllu hans tali og þeim gjörning; annars veit eg ei, hvað hans tal hefði svert mig, og eg mátti enn einu sinni gjalda góðviljans. Aldrei er of varlega farið. Hér eptir fékk eg eitt heptugt kast nærfelt í viku, og dró nú enn mikið af mætti mínum. Ætlaði eg enn, að eg deyja mundi. En sá almáttugi góði guð rétti mig enn við aptur, hvar fyrir honum sé lof og dýrð. Eptir mig finnast nokkur vers um það sem annað.

Af hugleiðingu guðs þolinmæði yfir mér og hversu lífið er þó skammvint, tek eg mér enn fyrir að skoða skólameistara mína og skólabræður, sem mér voru samtíða, hversu guð hefur nú á 40 ára tíð furðanlega ráðstafað þeim sem mér, og nokkra burtkallað.

Skólameistari minn var síra Gunnar Pálsson. Hann fékk Hiarðarholt í Dölum; varð þar prófastur. Er nú karlægur á Reykhólum.

Locaturinn síra Jón Egilsson frændi minn fékk Laufás. Dauður.

Stephán Björnsson, þá supremus, frændi minn, varð skólameistari. Er við Antiqvit(et) og Mathesen í Khöfn.

Herra Bjarni Pálsson landphysicus, — ættir okkar koma saman. Dauður.

Síra Jón Vídalín fékk Laufás. Dauður.

Síra Skapti Árnason fékk Kirkjubæ í Múlasýslu, frændi minn. Dauður.

Síra Illugi Jónsson í Vatnsfirði. Dauður.

Síra Illugi Sigurðsson fékk Hóladómkirkjukall. Frændi minn. Dauður.

Síra Helgi Jónsson. Dauður.

Síra Bergur Guðmundsson(!) Dauður.

Síra Hallgrímur Eldjárnsson. Dauður. Fékk Grenjaðarstað. Teingdur.

Síra Haldór Jónsson, varð síðast dómkirkjuprestur. Frændi minn. Dauður.

Síra(!) Páll Magnússon frá Höskuldsstöðum. Dauður.

Síra Þorvaldur Sörensson. Dauður.

Síra Jón Sigurðsson á Ingjaldshóli. Dauður. Frændi minn.

Síra Jón Eiríksson í Grímsey. Dauður. Mér teingdur.

Mr. Guðmundur Teitsson. Dauður.

Mr. Guðmundur Bessason. Dauður. Urðu stúdentar.

Mr. Haldór Sigurðsson. Stud. Dauður.

Herra Jón Skúlason fóveti. Dauður.

---

Þessir lifa *eldri* en eg.

Síra Jón Sveinsson í Goðdölum.
Síra Jón Jónsson á Möðruvöllum.
Síra Guðmundur Sigurðsson á Barði.
Síra Eyjólfur Sigurðsson á Hofi.
Síra Einar Þórðarson í Hvammi.
Síra Stephán Haldórsson á Laufási.
Síra Benedikt Pálsson.
Síra Ásmundur Pálsson.
Síra Bjarni Jónsson á Breiðabólstað í Vesturhópi.
Síra Ólafur Gíslason.

---

*Yngri en eg.*

Síra Kristján Jóhannsson(í)Stafholti. Frændi minn.
Mr. Páll Haldórsson, biskupsson.
Síra Erlendur Jónsson á Hrafnagili.
Herra stiptamtmaður Ólafur Stephánsson.
Sýslumaður Davíð Schieving.
Sýslumaður Magnús Ketilsson.
Síra Friðrech Guðmundsson á Borg.
Síra Eiríkur Guðmundsson á Stað í Hrútafirði; frændi minn.
Síra Eiríkur(!) Eiríksson.
Síra Pétur Björnsson á Tjörn.

Síra Magnús Jónsson í Miklagarði.
Síra Jón Guðmundsson á Melstað.
Síra Bjarni Pétursson, er þar var. Dauður.
Síra *Sigfús Jónsson í Höfða.*
Síra Sigfús Sigurðsson á Felli.
Síra Sveinn Jónsson á Hnappstöðum.

---

Mr. Jón Pétursson fjórðungslæknir. Frændi minn.
Mr. Þórður Þóroddsson, garðyrkjukarl, og
Erlendur Sigurðsson hreppstjóri.

---

Hér af sést, hversu allir komust til beztu menningar, nema sá síðastnefndi. Um hann er áður skrífað. Víslega hagaði guð til ráði síra Jóns Egilssonar frænda míns. Hann varð auðugur maður, og hafði þann auð mest uppborið hjá herra Steini og Valgerði hússtrú, giptist frá þeim, og átti með þeirri konu ekkert barn. Hún arfleiddi hann. So átti hann aptur dótturdóttur herra Steins, því hann sagðist finna bezt, að auðlegð sín hyrfi aptur til ættleggsins, hvaðan hún hefði mest komið.

Þá eg var þetta að skrifa, var ein dóttir mín hjá mér, sem bað mig að skrifa hér við eina frásögu, er eg hafði sagt henni, er við bar í skóla, þá eg var þar. Og þó mér sé ei um að minnast á soddan skólahnykki, lét eg það eptir henni, því hún sýnir þó skarpleika nokk(ur)ra manna, er síðar auglýstist betur. Læt eg hana þó vera á blöðum út af fyrir sig, er upp má kippast sem vill, og heldur sér þá efnið fyrir framan og aptan.

Herra Haldór Brynjólfsson biskup, í hvers tíð eg var í skóla, brúkaði mikið stofureikninga til búskapar síns, og varð opt of reikningsglöggur með þá, að ei komst af með þá, en var so processakær, að til laga vildi leggja, ef út af bar því, hann hafði með pennanum gert. Kom nú þetta fram á skólahaldinu eður vorri forsorgun, að það, hann hafði til ætlað, kom aldrei að sínu takmarki. Kendi hann um vor-

um ígangi um það, sem þó varð ei bevísað; meðal annars, að við réttum kanske munnbita að hungruðum aumingjum, sem komu að einu lúkugati, hvar maturinn var innlátinn í timburstofuna, — er þá hafði staðið í 500 ár eptir Auðun biskup, — hvar inni við neyttum matar.

Hann fékk hér af þá skikkun af þáverandi amtmanni, að hverir þeir skólapiltar, sem yrðu uppvísir að því að gefa öðrum af skólafæðinu, skyldu án vægðar úr skólanum útrekast, hvar upp á skólameistarinn skrifaði sitt samþykki. Bjarni Haldórsson var þá sýslumaður í Húnavatnssýslu; var (hann) búlduleitur og framþykkur maður sérdeilis af ístru, og másaði mikið við, þá gekk. Síra Pétur Björnsson, þá í skóla, hafði uppalizt hjá honum, og kunni so að herma eptir honum, að lítið sýndist afbregða. Herra Ólafur stiptamtmaður vissi og alla hans takta og siði. Hjá honum hafði vinnumaður verið í 5 ár, mjög dónalegur og luralegur að vexti, en so mikill átvagl, að einginn vissi til, hann hefði orðið saddur. Höfuðráðskonan eða fatabúrskonan á stólnum var ættingi hans; kom hann nú til að finna hana. Af ungæðis forvitni kemur oss saman að ná til hans og reyna, hvað mikið hann geti étið. Var til vonar, að um kvöldið kæmi á borð fyrir oss illa soðinn bygggrjónagrautur, hverjum við gerðum opt lítinn kostnað, nema fyrir sultar sakir. Var hann borinn til vor í 8ta trogum, 4 á hvort borð. Þá við vorum búnir að borða okkar lyst, heltum við grautnum í tvö trog barmafull. Nokkuð var í það þriðja. Hrærðum þar so miklu smjöri saman við; náðum so þessum kompan, so einginn vissi af. Át hann með hægð upp úr fyrsta troginu, og so nærfelt úr öðru, því hann hasaði upp af smjörinu. Var honum feingið brauð að éta með, so lokið gæti úr því. En við hið þriðja gafst hann upp. Var (hann) þá búinn að spretta öllu frá sér, og leit út sem kálffull kýr. Hann segir, mikið blessaðir menn séu hér saman komnir, sem sér hafi so gefið að eta; hann muni ei, að hann hafi fyrr feingið slíka saðning. Við biðjum hann upp á

æru og trú að segja aungvum frá þessu, því þar liggi mikið við. Nær hann verði kallaður til borðs, skuli hann segja, hann sé ólystugur i kvöld til þess, og biðji því að hafa sig afsakaðan, hverju hann með dýrum orðum lofar, og segir, þá sé alt of illa launuð slík góðvild. Komum við honum so í væntanlegt rúm í gestaskemmunni, so einginn vissi af, en féllum í forundrun yfir áti hans, og trúðum nú betur þvi, er Handorpins skrifar um átvagla.

Nú kemur að því, að hann er kallaður til borðs. Er það ei að orðleingja, hann bregður öll sín orð, segir, við höfum so gefið sér mat, hann þurfi hans ekki við, og skrifar nú biskupinn með þénörum sínum alt eptir honum eins og til gekk; vildu so 8ta verða sekir, er hér fyrir útrekast áttu. Likindi komu og til, að minna var í trogunum til ofurs en venjulegt var. Að þessu gerðu lætur biskup alt sitt fólk hátta og sína þénara, sem voru í biskupsbaðstofunni. Forsiglar so fyrir allar dyr og hurðir, að einginn, sem til vissi, skyldi út komast eður bera oss nokkra njósn um þetta. Dætur hans sváfu í lopti þar og fleiri herbergjastúlkur. En þá alt var komið í svefn, smeygir sér ein herbergjastúlkan í nærklæðunum út um stafnglugga, er var á hjörum í loptinu, og hleypur upp að skóla og nær til þeirra, er hún þekti þar fyrirliða, og segir þessar ólukkufréttir, og, að eptir bænir og lestra á morgun eigi skólameistari að kallast inn í stað og þá afgerist, hverir skulu útrekast. So fór hún aptur sína leið. Vel fékk hún launaðan trúskap sinn.

Nú tókum við að ráðslaga, hvað til skyldi gera að verja sig föllum og láta þennan ólukku kjaptaskúm og ótrygðarhas fá nokkra verðuga þénustu aptur. Að voru feingin þar í staðnum hjá trúum siglingamanni, er þar var, rauð klæði, hattur, paruk, korði, stokkur og stígvél, en larfar af smalamanni. Um morguninn, þá nærfelt búnir vorum með lestra vora, heyrum við að biskupsþénari kemur, bíður á meðan og ber fram erindin, að skólameistarar eru kallaðir inn til biskups. En þá þeir eru komnir úr

hvarfi, fara tveir, þó torkendir, inn í stað, ná karlinum, so einginn veit af, bjóða honum með vinsemd upp í skóla, að sjá hann sér til gamans. Nær hann kemur, er þar bundinn þjófur við stoð; böðull í lörfum er að hýða hann, þó ei á bert hörund, og læzt vera orðinn þreyttur. Hann spyr, hvað fyrir þetta sé. Honum er sagt, þjófurinn sé hestastrákur sýslumanns Bjarna, sem stolið hafi frá þeim peningum og tóbaki, en staðarböðullinn sé að dusta hann. Hann segir þá: »Mikil skömm er að þér, ólukku strákurinn þinn, að þú skyldir fara að stela frá so góðum mönnum, sem hér eru«. Hinn svarar: »Haltu saman á þér kjaptinum. Þú manst ei, þá þú varst rekinn frá Þingeyrum fyrir það og það« etc. Við þetta gremst honum í geði og segir: »Eg vildi, eg mætti jafna nokkuð um belg þinn«. Við biðjum hann þess og gefum þar leyfi til, því böðullinn var orðinn uppgefinn með skirpum og mási, — þetta voru raunar tveir af oss. Mitt í því hann er búinn að leggja tvö eður 3jú högg, æðir sýslumaður Bjarni Haldórsson inn í skólann í sínum klæðum, með korða og stokk, og hans þénari uppfærður geingur eptir honum (ɔ: síra Pétur og stiptamtmaður Ólafur), og spyr: »Hvað er hér verið að gera?« Þjófurinn hrópar upp: »Ó, góði herra, hjálpa mér, að þessi bannaður fantur drepi mig ei«. Sýslumaður þrífur í hár hans, fleygir honum flötum, ber hann og lemur með stokknum, trampar hann með stígvélum, so hann verður blár og blóðrisa. Við berhöfðaðir biðjum af allri auðmýkt fyrir honum og segjum, þessi góði maður hafi gert það fyrir okkar tilmæli; þjófurinn hafi og ert hann upp á sig, so hann lætur þar af, yfirlýsir hvaða fantur hann sé, skipar að leysa þjófinn, sem skýzt úr bandinu, og þennan lætur hann upp standa, rekur fótinn í rass honum og drífur hann út úr skólanum. Tveir fylgja honum enn með vinalátum og meðaumkan og segja honum að flýta sér upp í rúm sitt og láta ei sýslumann sjá sig framar.

Hér stóð so á, að þessi comedia var búin og biskup með skólameisturum að taka sinn frúkost og

thedrykk þar á eptir. Sendir nú biskup til karlsins og kallar hann fyrir sig. Hann kemur so útleikinn, sem sagt er. Biskup spyr hann að, hver hann hafi so útleikið. Hinn svarar: »Sýslumaðurinn Bjarni Haldórsson«. Biskup svarar: »Ljúgðu ei upp á sýslumanninn; hann er hér ei«. Hinn svarar: »Það var einginn annar. Mun eg ei þekkja hann, sem hjá honum hefi verið í 5 ár?« Segist og hafa þekt þar hestastrák hans, sem staðarböðullinn hafi verið að hirta, og brigzlyrði hans hafi hann slík frá honum fyrr feingið. Biskup spyr enn framar, hvar þetta hafi fram farið. Hinn svarar: »Í skólanum«. Hann spyr, hvort þetta hafi ei skólapiltar verið. Hinn svarar: »Það sé fjarri. Þeir eru betri menn en so; eg afsaka þá að öllu leyti; þeir fóru öðruvísi með mig. Eg ætla, að sýslumaðurinn hefði drepið mig, hefðu þeir ei beðið fyrir mig og friðstilt hann«. Biskup áminnir hann nú að apturkalla og fráganga, að sýslumaðurinn Bjarni hafi so útleikið hann. Hinn svarar: »Eg veit þið eruð vinir, og (þér) viljið fylgja honum í þessari vondu athöfn við mig, og eg bæti enn við, hann laug upp á mig lýtum og skömmum í áheyrn blessaðra skólapiltanna, sem einginn af þeim kunni að vita. Hafði hann mér það sama fyrr gert í drykkjurúsi sínu; og þó hann sé hér ei heima við bæ, þá er hann þó hér einhvers staðar í grend, — og ætlaði eg ei, eg mundi sækja þetta til yðar« etc. Nú varð biskup reiður og segir: »Farðu burtu frá mér, þinn bannaður fantur og lygari. Ilt er heimskum að leggja lið«. Og þar með snautaði karlinn burt.

En so var tilstilt, að tveir af oss skyldu heyra, hversu þetta tilgekk, því í öndverðu var siktað í öllu leíkspili þessu að gera hann að lygara, so hann heyrðist um ekkert. Líkingar, en aungvar bevísingar, feingust. Við kunnum ei að bera í sjálfs okkar sök, og ei falla án votta og órækra röksemda. So komu skólameistararnir aptur frá biskupi, glaðir af brennivíni og ganga í hús sitt. Eptir er grenslað, hvað þeir nú segi um þetta tilfelli. Skólameistari segir: »Eg veit til í so og so mörg ár, og hefi eg aldrei heyrt

né til vitað, að so sniðugt skelmersstykki hafi verið gert í skóla«. Hinn svarar: »Satt er það; verkið var ilt, en skarpleikinn að verja það er so mikill og með slíku forundrunarlegu snarræði, að það geingur langt yfir biskupsins og okkar skarpleika. Við verðum að láta af og þegja, þó við þykjustum sjá sannleikann, ellegar verða okkur til skammar með þá sókn. Það er auðsjáanlegt, að af þessum dreíngjum, sem nú eru hér í skóla, er eitthvert stórt höfðingjaefni, og kannske enn fleiri, því trautt hefur einn alt þetta so tilbúið, að fleiri hafi ei í ráðum verið«. Hefur þetta og orðið að sannri spá, því fyrirliðinn að öllu þessu var herra Ólafur stiptamtmaður. Man eg og, hverir hinir voru. Fleiri skólahnykki, er þá gerðust, man eg að sönnu, so sem þá einn gerði sig að draug, hristi skólann með eldglæringum til að afkoma laungum vökum, ausa vatni inn í skólann til að kenna um þakleysi, og fá þar fyrir frídag hjá biskupi, er hann mót venju neitaði. Þetta læt eg alt hjálíða, þar mig vill nú angra það mart, er mér var að kæti þá.

Manus ergo de hac tabula.

Þeir, sem eg hefi kent til skóla eður ásamt öðrum styrkt til þess eður grundvöll lagt, eru þessir:

Fyrir norðan:

Föðursystursynir mínir *Illugi* og *Eyjólfur Jónssynir*; urðu bændur; Eyjólfur komst þó í skóla.

*Jón Eiríksson* frá Dæli, frændi minn; komst í skóla og sálaðist. Faðir hans dreif þar fyrir á söðul Helgu systur etc.

*Rafn* og *Jón* frá Langamýri; sá fyrri varð og er prestur; hinn síðari stúdent í Kaupenhafn.

Stjúpsynir mínir *Jón* og *Vigfús Scheving*.

*Runólfur Jónsson*, dó í Kaupenhafn, einn með skörpustu höfðum.

Síra *Jón*, að nokkru leyti, og síra *Runólfur bróðir* hans.

*Árni Gíslason* og *Bjarni Sigurðsson* lærðu hjá mér Donatinn, og gáfu so frá sér.

Síra *Bergur*.

Með *Svein Pétursson* byrjaði eg.

Item með síra *Ólaf*.

Og nú með *Einar Jónsson* og *Jón Steingrímsson*, er guð sjái fyrir að hverju verður.

Þessum hefi eg kent að skrifa. Fyrir norðan 4um af áðurtöldum en 9íu af hinum:

So *Hjörti* og *Lopti*, bræðrum frá Þórisholti.

*Eiríki* og *Sverrir* frá Pétursey.

*Jóni Árnasyni* og *Mad^me Helgu á klaustrinu*, hálfsystur hans.

*Guðmundi Loptssyni*,

*Sæmundi Jónssyni* frá Höll.

*Jóni Magnússyni*.

*Kjartani Björnssyni*.

*Sveini* og *Eyjólfi Alexanderssonum*.

*Bárði Vigfússyni* gaf eg forskript.

*Haldóri Jónssyni*, Brynjólfssonar.

*Páli Jónssyni*.

*Þorsteini Eyjólfssyni*.

*Ásgrími Guðnasyni*.

*Bjarna Skúlasyni* og

*Jóni Sigurðssyni*,

hvar af eg hefi nú þau beztu not.

32 fleirum hefi eg forskriptir gefið, sérdeilis stúlkum, er eg hér ei tel.

Lofaður veri guð, sem gaf mér vilja, styrk og framkvæmd til þessa! Hann láti sem flest pennaför, sérdeilis þeirra, er hann útvalið hefur eður velja kann til sinna þjóna, verða sér til dýrðar og hans börnum til nota! So er sú mín eptirlangan uppfylt. Slíkt auðnast mér ei framar.

Þó draumur[1]) síra Daða sáluga Guðmundssonar sé að finna annarsstaðar í tveim stöðum, sem eg veit, þar, þó[1]) börn mín hafa beðið mig um hann, læt eg hann hér með fylgja.

1730 í Arnarbæli í Ölvesi í einu nýgerðu húsi, nóttina áður en Christian 6tti var hyltur á Alþingi, — var hann þá þénari prófasts síra Árna Þorvarðssonar[1]), — dreymdi síra Daða þennan draum. Hann þóttist

---

1) Svo.

kominn upp á Alþing; sá þar fyrst aungvan mann, nema einn. Sá gekk með honum að kirkjunni. Voru þar brúnklæddir menn að bylta öllu gömlu grjótinu úr kirkjunni, en byggja hana aptur af öðru minna. Landnorðurhornið stóð leingst. Hann spyr manninn að, hvað fyrir menn þetta séu. Hann svarar: »Þetta eru alt synir hans Torfa«. Hann þykist fara yfir ána, þar verzlegir voru vanir að tjalda. Er þar þá öllum tjöldum svipt, en búið að setja búðir með grasveggjum, — rétt í þeim stöðum og þær voru síðar bygðar. Voru þær tjaldaðar með hvítu, en þó hrís upp á hverri. Á bakkanum fyrir vestan ána sér hann 3 menn að ganga um gólf í litklæðum. Sá 4di er að skrifa, en hefur undafífil í hattinum. Hann spyr manninn, er með honum gekk, hverir þessir væru. Hann sagði: »Það eru sendimenn að ráðslaga um landið«. Þar hann nú stóð á nesi fyrir vestan ána, sér hann koma stóra búð, — hana bygði Thodal síðar. Þar geingur hann inn. Hún var bygð sem hinar. Sér (hann), hún er full af fólki í öðrum endanum. Það leggur hendur í kross og upphefur þær, horfandi upp í gegnum hrísið, mælandi þetta vers:

Vert oss líknsamur, góði guð,
já, guð, vertu oss líknsam(lig)ur,
hópur þinn er í hæstri nauð,
haldinn forsmánarligur.
Drambsamir menn og dreyssug þjóð
dára oss, því er lund vor hljóð.
Send þú oss, herra, sigur.

Hann spurði manninn, hvað þetta fólk væri. Hann svaraði: »Landsins fólk í ánauð«. Hann þóttist einsamall vera í öðrum enda búðarinnar, er hann sá[1]) og heyrði hér upp á. So hvarf honum alt, en hann vaknaði og sagði prófasti drauminn, er hann, að áður gerðri bæn í kirkjunni,[2]) réði á þennan hátt:

Hér verður eptir mína daga, þar þú sást mig ei,

1) so, hdr (!)
2) hann, hdr. (hér; ofaukið).

minkuð guðsþjónustugjörð í kirkjunni. Munu þó prestar í Austfjörðum halda leingi við vora siðu. Þeir brúnklæddu eru kennimenn, er þá verða, en biskup sá, er yfir þeim þá ræður, mun vera mikið jarðlega sinnaður eður af Torfa ætt. Búðirnar sýna, að menn munu þá stunda upp á jarðlega hluti jafnframt andlegum, en gefa sig þó meira við hinum, sem grundvöllurinn sýnir, en vera þó í þvingan. Þeir, þú sást á bakkanum, verða framandi menn að ráðslaga um landsins gagn, en sá er hafði innfætt gras í hattinum, merkir einn innlendan, sem verður með þeim, hvar af mörg umbreyting mun risa. Stærstu búðina byggir einhver mikilsháttar maður, og þá mun mikil hörmung falla yfir landið, að fólk mun í ánauð á allar siður. Mun þá ei kongur algerlega yfir landinu stjórna, heldur drambsamir menn eður ráðgjafar. En þá þeirra stjórnan er úti, gefur guð landinu sigur eður einhver góð umskipti. Þar þú kunnir ei versið, sem er í Davíðs saungpsaltara, en mundir það, mun þetta endilega fram koma, og byrjast meðan þú ert enn á lífi. En einhvern veginn verður þér þá afskekkt úr heiminum, þar þú varst einn, en einginn hjá þér í öðrum enda búðarinnar.

Það kom so fram, að síra Daði varð nokkur ár sjónlaus áður hann deyði. Alt hefur og annað ræzt, og er að fram koma árlega. Vor konungur er ei með réttum sönsum, so aðrir ráða. Jarðeldurinn 1783 kom í Thodals stiptamtmanns tíð. En hversu hörmulega stjórnanin geingur nú til, veit guð bezt, sem gefur sínu fólki sigur.

---

*Úr prestsþjónustubók Kirkjubæjarklausturs:*

1791 11ta Augusti andaðist sá nafnfrægi prófastur Skaptafellssýslu og prestur þessarar sóknar *síra Jón Steingrímsson* á Prestsbakka úr nýrnaveiki eður steinsótt, 63 ára gamall. Jarðsunginn af, prófastinum honum fyrr adjungeruðum, síra Jóni Jónssyni á Mýrum, 18da ejusdem. Hans líkami hvílir á bak við kirkju, hvar legsteinn liggur yfir leiði hans.

# Viðbætir.

---

I.

*Æfiágrip síra Jóns Steingrímssonar.*

[Eptir rotnum blöðum framan við prestsþjónustubók Kirkjubæjarklausturs].

1778. *Síra Jón Steingrímsson.* Hann varð [fyrst prestur í Dyr]hólaþingum og þar með prófastur yfir vestri [parti sýslunnar, en yfir] báðum pörtum 1778. Þann austari partinn sagði [hann af sér]. 1788 tók hann sér capellan síra Sigurð Jónsson. Hann var [sonur] herra Jóns Teitssonar, stóð til að verða grundlærður maður . . . . Geirlands . . . . [drukk]n[aði í] Geir[landsá hjá Prests]bakka ári síðar 1789 þann 23. Octobris, þá hann hafði þjónað í kennimannlegu embætti rétt heilt ár . . . Hann var jarðsunginn þann sama dag mánaðarins og hann [kom hingað[1]) að] norðanverðu við leiði síra Þorláks og síra Guðmundar, á hans 27da aldursári[2]).

1790 fékk hann aptur fyrir capellan síra Berg son síra Jóns Bergssonar prófasts fyrrum á Kálfafelli í Fljótshverfi, er sálaðist út á Eyrarbakka. Hann [er grafinn] við Stokkseyrarkirkju 1774, svo hérnefndur prestur síra Jón Steingrímsson tók hér við pró-

---

1) Síra Sigurður var vígður 19. Okt. 1788. — Í prestsþjónustubókinni er skýrt svo fra láti hans 1789: »23. Octobris drukknaði presturinn síra Sigurður Jónsson í Geirlandsá, en var jarðsunginn 31. sama mánaðar, 27 ára gamall«.

2) Alt hingað að er með hendi síra Jóns Steingrímssonar. Þá tekur við hönd síra Bergs Jónssonar.

fastsembættinu eptir hann, en hann í austurpartinum, þá síra Bergur Guðmundsson í Bjarnarnesi sagði þar af sér prófastsembættið. En þá hann tók að eldast og fallandi að verða, fékk hann sér adjungeraðan 1788 prestinn síra Jón Jónsson á Mýrum, sem átti madme Helgu systur hans. Hann var merkilegur með börn sín framar en nokkur prestur hér í vestari Skaptafellssýslu hefur áður verið. Ein dóttir hans, *Sigríður*, giptist fyrst Sigurði bróður síra Jóns á Mýrum, sem var prestur í Reynisþingum, og síðan giptist hún aptur síra Markúsi Sigurðssyni, sem það kall fékk eptir hann. En *Jórunn* dóttir hans giptist síra Þórði Brynjólfssyni á Kálfafelli í Fljótshverfi. *Guðný* þriðja dóttir hans giptist síra Jóni Jónssyni í Meðallandssókn. Fjórða dóttir hans hér nefndum síra Bergi. Fimta dóttir hans *Helga* giptist [síra Ólafi Pálssyni í Ásum]. . . . . . , . . . . . . . . . . . . . . . .
Hans ektakvinna var [Þórunn] Hannesdóttir. Hún var dóttir Hannesar Scheving sýslumanns og klausturhaldara [í Vaðla]sýslu og madme Jórunnar dóttur biskups Steins Jónssonar. En hans síðari ekta[kvinna var] madme Margrét Sigurðardóttir, systir síra [Markús]ar á Heiði, dóttir síra Sigurðar Jónssonar [í Stafholti], með hverri hann átti ekkert barn[1]).

Hann dó d[ag 11.] August 1791 úr nýrnaveiki, þá 63 ára gamall.

## II.

## *Æfiágrip síra Jóns Steingrímssonar.*

Eptir prestasögum Daða Níelssonar.

[ÍBfél. Rvd. B. 34. Fol., og er sú bók rituð 1848 af Einari Bjarnasyni á Mælifelli, Daða Níelssyni sjálfum og Sigfúsi Gíslasyni í Húsey, fyrir síra Jón Konráðsson á Mælifelli, og síðan yfirfarin og samanlesin af Daða sjálfum (= *a*). — Landsbókasafn 312. Fol. ritað um 1850 af Guðmundi Einarssyni og Einari

1) Hér þrýtur hönd síra Bergs, og tekur við hönd Páls prófasts Pálssonar.

Andressyni í Bólu. — Það er auðséð, að Daði hefir ekki þekt æfisögu síra Jóns sjálfs].

*Jón Steingrímsson.*

Hans foreldrar Steingrímur Jónsson bóndi á Þverá í Blönduhlíð í Skagafirði og Sigríður Hjálmsdóttir bónda að Keldulandi í Silfrastaðasókn [í Skagafirði[1]), Stephánssonar; [var Hjálmur sá ribbalda bóndi[1]). Móðir Steingríms föður síra Jóns var Sigríður Steingrímsdóttir bónda að Hofi á Höfðaströnd, Guðmundssonar bónda að Lóni í Viðvíkursveit. Systir síra Jóns var Helga móðir Steingríms biskups. Síra Jón var fyrst djákn á Reynistað, þá Jón Vigfússon var þar klausturhaldari. En eptir Jóns Vigfússonar skyndilega fráfall 1752 giptist síra Jón ekkju hans Þórunni Hannesdóttur sýslumanns Schevings, Laurussonar sýslumanns Schevings á Möðruvöllum. Móðir Þórunnar var Jórunn Steinsdóttir biskups. Jón klausturhaldari fyrri maður [hennar[1]) var son Vigfúsar Gíslasonar, Vigfússonar, Gíslasonar lögmanns Hákonarsonar. Litlu eptir það síra Jón var giptur, fór hann austur, og vígðist síðan[2]) til capellans síra Daða Guðmundssyni presti til Reynisþinga í Mýrdal 1760, en fékk ári síðar[3]) Sólheima og Dyrhólabrauð, og var þar prestur 17 ár; fékk Kirkjubæjar[klausturbrauð[4]) 1778, og þénti því til dauðadags; bjó á Prestsbakka á Síðu sem aðrir prestar í því brauði. Hann varð 1773 prófastur í vesturparti Skaptafellsýslu, en varð ásamt prófastur í austurpartinum 1779; en prófastsembættinu í þeim parti[5]) slepti hann 1787; hafði þó á hendi prófastsdæmi í vesturpartinum til dauða[dags[6]). Þau síra Jón prófastur og Þórunn Scheving áttu 5 dætur. 1. Sigríður kona Sigurðar prests í Reynisþingum, [síðan síra Markúsar, er síðast hélt Mosfell í Mosfellssveit[7]).

---

1) [sl. *b.*
2) sl. *b.*
3) seinna *b.*
4) [sl. *b,*
5) partinum *b.*
6) [sins *b.*
7) [bætt við í *a* með eiginhendi Daða (á spássíu); vantar í *b.*

finst prentað í þess [konunglega íslenzka[1]) Lærdómslistafélagsrita 4. bindi[2]). Hann fullkomnaði líka Jóns lögsagnara Sigurðssonar rit[3]) um eldgosið úr Kötlugjá 1755. Hans merkilega og gagnorða bréf til prófasts Jóns Sveinssonar á Stað í Steingrímsfirði um eldgosið í Skaptafellssýslu vesturparti um sumarið 1783, [dagsett þann 5. Oktober sama ár, má lesa eptir hans eiginhandarriti í annál mínum við árið 1783[4]).

Síra Jón prófastur deyði þann 11. Augusti um sumarið 1791 við góðan orðstír, saddur lífdaganna.

III.

*Úr Ove Mallings Store og gode Handlinger* af Danske, Norske og Holstenere. Khavn 1783, bls. 418—420.

Provsten Jon Steingrimsen i Vester-Skaptafields Syssel har anvendt besynderlig Flid paa Gaarden Fell i Myrdal. I Aaret 1761 antog han den ganske forfalden, og har siden bragt den i en ypperlig Stand. Han har omkring Gaardens Marker og Huuse ladet sætte, foruden Jorddiger, endnu over 500 Favne trofaste Steengierder. Han har ved omtrent 2000 Alen Gröfter og Render deels afledet Vandet, som för oversvömmede Gaardens Jorder og derpaa opkastede Gruus og Sand, deels indledet det paa andre Steder, hvor han har seet det fornödent; ved hvilke Indretninger han har bragt meget forhen ubrugbar Jord i Brug. Han har indrettet ved Gaarden et Indelukke for 40 Heste, og i en Klippe ikke langt derfra ladet udhugge en til Vinterlye meget beqvem men med Möie indrettet Faarestie for 200 Faar. Han har af nye ladet opbygge alle Gaardens Huuse, tækket dem med flade Skiefersteene, og lagt Steenbroe der omkring; til hvilken Bygning og Broelægning saa vel som Gierdernes Sætning han har benyttet sig af

1) [sl. *b*.
2) rètt: IX. bindi 1789, bls. 1—23.
3) ritgjörð *b*.
4) [sl. *b*(!).

Slæder, hvis Nytte han derved har lært hans Naboer, som ikke have kiendt den för. Det, som er det Mærkeligste heri, er, at Gaarden, hvorpaa denne stræbsomme Mand har anvendt saa meget Arbeide og Bekostning, er ikke hans egen, men Hans Majestet Kongen tilhörende, og af ham alene forpagtet; og at han har bestyret det med en Indtægt af 26 Rdlr. aarlig, som er alt, hvad han har i Embeds-Indkomster.

Til disse Mandens Fortienester kommer endnu denne: at han med en god Indsigt i de theologiske Videnskaber foreener en meer end almindelig Kundskab i Urtevidenskaben og Lægekonsten, og at han klogeligen veed at anvende denne Kundskab til Nytte i sin Egn, hvor den ogsaa höilig behöves, da den i Island beskikkede Landphysicus boer omtrent tredive Mile fra dette Sted. Ikke alene i hans eget Provstie, men endog i de nærgrændsende paa begge Sider, gaar han villig enhver, endog den Fattigste, til Haande med fornuftige Raad, naar det forlanges; foretager sig i den Henseende ofte besværlige Reiser paa sin egen Bekostning og med egen Skyds; for hvilke han ikke alene ingen Betaling tager, men endog skienker de Fattige Medicamenter for intet.

. . . . Hans Majestet Kongen har i Aaret 1777 ladet Stiftamtmand Thodal og Provst Steingrimsen tilkiendegive sit höie Velbehag, og derhos ladet oversende til Stiftamtmanden Medallien: For Fortieneste; og til Provsten: Indföds-Rettens Medallie.

## IV.

## *Grafskript á legsteini síra Jóns Steingrímssonar í Kirkjubæjarklausturskirkjugarði.*

[JSig. 578. 4to, bls. 35, með hendi Sveins Eiríkssonar á Klauf í Meðallandi 1817].

Grafskript á grafsteini.

Prófastur hjartahreinn
hér undir liggur
*Jón Steingríms arfi einn,*

alþýðu dyggur
Kirkjubæjar-
klausturs með hefð og sóma
*prestur var sá til sanns,*
siðferði og lærdóm hans
bezt ber að róma.

Ellefta Augusti
er sá kallaður
himneska höllu í
herrans trúr maður,
sextíu og þrjú
sem lifað árin hafði,
farsælan fyrir deyð
frá allskyns sorg og neyð
Kristur hann krafði.

Frá Christi fæðing þá
fagnaðarstóru
ár seytján hundruð hjá
hreint liðin vóru,
næst einu skal
við níu tugi bæta,
að Klausturs kirkju var
komið til legstaðar
hans holdi mæta.

Vegmóður við statt þú,
vegferðamaður,
gæt vel að sæla sú,
sem hann nú glaður
uppskera má,
er þér og búin líka,
ef fetar ærukranz
í dygða sporin hans.
Vit venju slíka.

V.

*Úr brúðkaupsvísum til Þórðar prófasts Brynjólfssonar og Margrétar prófastsekkju Sigurðardóttur, er giptust 7. Maí 1794.*

[JSig. 578. 4to, bls. 33—35, með hendi Sveins Eiríkssonar á Klauf í Meðallandi 1817].

Fyrir fáum árum
fyltist margur tárum,
hrygðar hafs á bárum
helið því að deyddi,
hirðir hjörð frá sneiddi
:,: síra Jón, Jón, Jón :,:
síra Jón frá sorgar ón
sjálfur drottinn leiddi.

Sóknar sveitin stundi,
sorgar regnið dundi,
ekkjan um þær mundir
angurs stríðið háði
hreld í hyggju láði,
:,: maka sinn, sinn, sinn :,:
maka sinn því moldausinn
mætust þreyja náði.

VI.—XIV.

*Viðaukar Steingríms biskups við æfisöguna.*

VI.

*Til bls. 38.*

(Sbr. vitnisburðarbók Hólaskóla 1744—1789 bls. 29).

Testimonium Johannis Steingrimi Filii.

Lectori Salutem.

Honestis ornatus moribus, nec illepi dum nactus ingenium juvenis Johannes Steingrimi Filius, annos natus XXI sexennio in schola nostra humanioribus sacrisque litteris diligenter operatus, utrisque juxta aptus, meliori latinitatis nec non Theologiæ positivæ, Biblicæ, Catecheticæ gustu imbutus; arithmetico, Logiçes, Physices, utriusque etiam historiæ ac Græ-

cismi Novi Testamenti haud ignarus, examinatus et concionatus hac rude discedens donatur.

Testor Nomine et sigillo
Holis VII Cal. Junias Gunnarus Pauli Filius
Anno MDCCL. Scholæ Holensis Rector
(L. S.)

VII.

*Til bls. 90—91.*

Presturinn síra Jón Steingrímsson og Mad. Þórunn Hannesdóttir gefa hvort öðru, sem leingur lifir, helming af eptirlátnu gózi, svo og löggjöf, nefnil. fjórðungspart úr fé þess burtdauða. Dat. 14. Sept. 1767. (Sjá Alþb. 1770 No XXIX, 29.)

VIII.

*Til bls. 133.*

Var upplesið í lögréttu protest próf. síra Jóns Steingrímssonar að betala til hs. M^tet^ meira en 12 rd specie eptir Flugujarðir frá 1770 til nærver. datum, eptir hans sama ár gerðu tilboði í lögþingsréttinum, sem innfært er í sama árs Alþingisbók, en uppsegir Flugujarða forpagtning með hærri afgipt en 12rd, eptir sem hann áður boðið hafi. Dat 20. Julii 1776. (Sjá Alþb. s. á.).

IX.

*Additamentum ad pag. 148.*

Vissulega hafa þeir frændur sýslumaður Jón og biskup Dr. Hannes mælt vel fyrir forþénustum síra Jóns Steingrímssonar. Sá fyrri hefur líklega falið þeim síðari á hendur, sem þá var í Kaupmannahöfn, að fyrirslá hann til forþéntra verðlauna, og innfærast hér 2 brét (in copie), sem biskupinn hefur skrifað.

a. Til det Kongelige Landhusholdnings Selskab d. 14. Dec 1776.

Det er mig en sand Fornöjelse at gjöre bekjent for et ved sine vigtige og lykkelige Indretninger af Staten saa höjt fortjent Selskab en Mand af en Tænke-

maade og i sin Cirkel saa velfortjent som Provsten i Skaptefields Syssel Hr. John Steingrimsen er. Om hans adskillige nyttige Indretninger paa sin paaboende Jord, om hans Giærdesetning, opförte Steenbroer og Gröfter, som i alt belöbe sig til over 2000 al., om hans Vandledninger paa Mark og Eng, om hans Benyttelse af Skifersteen til Tag og Broelægning, om hans Anvendelse af Slæder, et paa de allerfleste Steder i Island ganske ubekjent Redskab, og om den Nytte, han med dette sit Exempel har stiftet i sit Nabolav, derom vidner fuldkommelig hosfölgende Forretning gjort af tvende dertil af Övrigheden udnævnte Sognefogeder og bekræftet med vedkommende Syslemands Attestation. Men jeg kan heller ikke undlade at lægge her til at Mandens Præstekalds hele Indkomst om Aaret er 26 rd, at alle ovenbemelte Forbedringer har han gjort paa sin egen Bekostning paa en sig tilböigslet Gaard, som er hans Kongel. Majestet tilhörende, og uden Haab om nogen Betaling der for. At han foruden god Indsigt i de theologiske Videnskaber har lagt sig mere end almindelig Kundskab til i Fædrenelandets Historie og Urtevidenskaben, især i Medicin og Chirurgie, i hvilke han har en meget lykkelig og udvidet Praxis, ikke alene i sit eget heele Provstie, men endog i de tilgrænsende paa begge Sider, og denne Hjælp viiser han ikke alene uden Betaling, men skænker de Fattige Medikamenter desuden for intet og idelig paatager sig lange og besværlige Rejser til enhver, som begiærer hans Hjælp, hvor fattig han endog er, og det paa sin egen Bekostning, og med egen Skyds. Hvor mange Menneskers Liv han saaledes har reddet og givet det Almindelige, lader sig ikke sige, og er han saa meget meere nödvendig som den allernaadigst beskikkede Landphysikus er henved 30 Miil fra den Sted boende. Velbenævnte Hr. Provstes personlige og moralske Charakter er desuden agtbar og elskværdig, saa jeg uden Forbehold tör underdanig forestille bem^te Provst Hr. John Steingrimsen som den der fortjener, at komme i Betragtning til at beæres med et af Selskabet be-

stemmende Belönning for hans paa saa mange Maader viiste udmærkede borgerlige Dyd.

b. Til det norske Cammercollegium den 16. Dec. 1776.

Jeg anseer det for min Pligt at gjöre bekjendt for et Collegio, til hvilkets Opsigt mit Fædreneland Island kan ansee for Lykke at være af H. K. M^tet^ allernaadigst anbetroet, en Mand af den Tænkemaade og i sin Cirkel saa vel fortjent som Provsten i Skaptefjeldssyssels Vesterdeel Hr. John Steingrimsen er paa en sig tilböigslet Gaard Fell i Myrdal, som er H. K. M^tet^ tilhörende, uden at have faaet nogen Betaling derfor etc.

Paa at Manden i saa mange Henseender har viist udmærkede borgerlige Dyd, som vist vil tildrage sig og fortjener det höje Collegii naadigste Bifald, og som muelig kunde ansees for ikke, at væra uværdig til, at forestilles H. K. M^tet^ til nogen allernaadigst Belönning, især tillige i den Henseende, at ved bem^te^ Provstes Flid og Bekostning en af H. K. M^s^ Ejendomsgaarde er anseelig bleven forbedret, og vil i mange Aar yde Frugten af de paa den gjorte Indretninger, da desuden ved saadan en allernaadigst bevilgende Belönning mange andre Husholdere og Landmænd i Island, besynderlíg i den gejstlige Stand, hvis Exempel plejer at have de vigtigste Fölger, saavel gode som onde, hos Almuen, vilde faae den kraftigste Opmuntring til lige Flid og Vindskibelighed.

Sjá Dr. H. F. Privatbréfa
protok: pag. 89—92 fol.

X,

*Til bls. 148.*

Pro Memoria.

Ligesom Selskabet med megen Fornöjelse modtager Efterretninger om gode Borgeres patriotiske Handlinger, saa haver det især fornöjet sig over at erholde den fra D' Velærværighed om Hr. Provst Steingrimsen. Selskabet har fundet ham værdig til et Agtelsestegn af sin större Sölvmedaille, og desuden tillagt ham 20^rde^ i Penge, saavel for hans udviiste

patriotiske, som menneskelige Handlinger, ligesom Selskabet er Deres Velærværdighed meget forbunden at De haver lært det at kjende denne værdige Mand.

Det kongelige Landhusholdnings Selskab
den 15de Febr. 1777.
Abildgaard.

Martfeldt.

Til Hr. Provst
Hans Finsen.

---

Skrifað eptir Originalen
Steingr. Jónsson.

XI.

*Til bls. 178 ff.*

Svo skrifar stiptamtmaður L. A. Thodal til Biskups Dr. Finns Jónssonar d. 19. Maii 1784.

I Anledning af D. Hs. 2de höjstærede Skrivelser af 8de hujus har jeg gjort Hr. Provst Steingrimson efter min Tanke hjelpelig Understöttelse med 60 rd, hvilket jeg meener opfylder D. Hds. Haab, saavidt jeg af Udladelser derom i Brevet kan slutte, men neppe hans. Jeg gav ham först 30rd, det var ikke nok, tillagde 10rd, men hörte, han aldeles ikke var hjulpen med mindre end 60rd, og nogen Tid efter, at han behövede 100rd. Ingen Penge ere mig tilsendte og intet fra Kammeret tilskrevet, uden at der var Haab, Hans Majestet vilde understötte Vestre Skaptefjeldssyssels Indbyggere. Hr. Kammerherre Levetzow har alene berettet mig, at 1700 rd kunde forventes, og at Haab var om meere. Paa denne Grund har jeg forstrakt ovenbemte 60rd, til 5 Bönder her vare nærværende 40rd, desuden sendt Sysselmand Lyder Gudmundsen 600 rd, for dermed at indkjöbe Kreaturer i Östre-Skaptefields- og Mulesysselerne, samt givet Creditiv til derværende Sysselmænd, om de medhavende Penge ikke skulde forslaae, ligesom jeg og har bemyndiget Sysselmanden at reqvirere nödvendigste

Födevahrer i Örebacks og Vestmannöe Handeler, og paa sidste Stæd foranstaltet, at Kjöbmnnd Klog besörger samme med nogen Hukkert til Dyrhole, eller laaner dertil en Tiæring, dertil med gjordt Forbud paa al Slags Udförsel til Kjöbenhavn.

Skrifað eptir Original.

St.

XII.

*Til bls. 180—181.*

Af eptirfylgjandi, sem stendur í bréfi biskups Dr. Hannesar Finnssonar til stiptamtmanns Thodals, dater. 7. Junii 1784, má sjá að biskupinn hefur sannarlega viljað prófastinum vel, og hefur án efa, eptir kringumstæðum, bætt sem varð málstað hans.

D. Hds. store Naade mod Provst Steingrimson bör jeg og vil med störste Glæde underdanigst takke, og er dette eet af de utallige Mindesmærker paa D. Hds. Bevaagenhed for Geistligheden, som har distingveret Dem fra saa mange af Deres Formænd. Men ikke uden Fortrydelse har jeg tillige Aarsag at afbede D. Hds. billige Unaade mod hans usömmelige Paastaaenhed, som jeg af hans egen Ord kan slutte mig til, at han har viist; og for at troe at han ikke af Ondskab men Enfoldighed har stödt an mod den underdanige Respect, han burde viise, er mig det tydeligt Beviis, at han oprigtig og uden at kjende sine Feil, fortalte sine egne Ord, da jeg, hvilket og var min Pligt, viiste ham til Rette, naar han anden Gang skulde tale med sine Superieurs.

Sjá Protok. s. á. s. 882.

Jafnframt hefur hann einlægt sagt honum það, sem var ábótavant, og ráðið honum úr því, sem komið var, það hollasta, svo sem sjá má af eptirfylgjandi bréfi hans til prófastsins, dater. 21. Julii s. á. þess 5ta pósti:

5. Mjög illa er það farið, ef y. vrdh. skuluð hafa tildregið yður hr. stiptamtmanns misþykkju, sérdeilis, sé hún ekki aldeilis að orsakalausu. Þér

vitið sjálfur, hr. præposite, að margur hefur forséð sig, og það magnlega, í beztu meiningu. Til hafa einninn þeir verið, sem gert hafa ódáðaverk, og meint sig að gera guði þægt verk þar með, So ásetningurinn eða góð meining einungis er ekki nóg til að forsvara hvert verk. En hverninn sem þessu er varið, sem eg ekki heldur applicera upp á yðar distribution fremur en þér færið sjálfur yðar góða hensigt einbert yður til afsökunar, þá held eg yður sé bezt að flýja strax til herra stiptamtmannsins vorkunsemi og náðar, játa sökina rétt upp af botni og afleggja undir eins reikning og skilagrein, eins og þér getið, jafnvel þó hann ekki kalli eptir henni, við hverju þér þó víst megið búast, hvort heldur er seint eður snemma.

Eg tala ei um, hversu illa mér fellur þessi casus, og þær relationer, sem hingað bárust um óforsjálegt örlæti yðar á þeim yður tiltrúuðu peningum. Því er nú miður, að það verður ekki ógert, sem búið er að gera.

ibid. p. 936 f.

XIII.

*Til bls. 185.*

Copie.

Frá Cancelliet til Kammerherre og Stiptamtm. Levetzow og Biskop Dr. theol Finnur Jonsson.

Fra d.k. Rentekammer er Cancelliet blevet tilstillet vedlagde Extract af en Klage fra Stiftamtmand Thodal, hvoraf erfares, hvorledes Provst Steingrimson har opfört sig med 600 rd, som han havde modtaget, for at overlevere Sysselmand Lyder Gudmundsen til Understöttelse for de blandt Indbyggerne i Vestre-Skaptefjelds Syssel, som havde taget Skade ved den sammesteds udbrudte Vulcan. Da man nu finder at dette hans Forhold er saa meget mere lastværdigt, som det var ham udtrykkelig forbuden at aabne Paqven, og at han derfor bör ansees enten ved lovlig Rettergang, eller paa anden Maade, saa skulde man

tjenstligst overlade til Hr. Kammerherre og Ds Höjærværdighed, hvad herved kan være at gjöre.

Det Kongelige Danske Cancellie
Den 25de Junii 1785.
Luxdorph P. Aagaard.

XIV.

*Til bls. 244—245.*

Eptir kongl. Resolution af 20. April 1788 fékk hann premiu for Selhundefangst foruden et Selhundegarn.

(Sjá Alþb. s. á.)

XV.

*Bréf Jóns prófasts Steingrímssonar til Finns biskups um Skaptáreldinn, dags. 12. Sept. 1783.*

[Frumrit þessa bréfs hefir Steingrímur biskup látið binda inn með æfisögu síra Jóns].

Háeðla, háehruverðugi og hálærði herra biskup!
Háttvirðandi elskulegi herra!

Yðar háehruverðugheita tilskrif af 31. Julii meðtók eg nú þann 8da .... og annað af 28da Augusti með Ólafi Pálssyni frá Hörgslandi, og fer það illa, þá magtáliggjandi bréf liggja so leingi, og er því miður, að póstvesenið hér í landi, er þeir hafa látizt vera að erfiða so upp á, kemst ei í stand, so það og annað, sem landi þessu eða góðri stjórn í því, mætti til nota verða, að þar verður ekkert úr, en öðru er framhaldið meðan ei alt (er) tumlað um koll.

Bréf það, er eg skrifaði yður til af 29. Julii um eldsins og kirknanna ásigkomulag, sem hlaut fljótlega að berast, og að hlýða yðar skipan, keypti eg mann héðan fyrir 24 fiska að fara með vestur í Mýrdal. Og þó hefur það ei fyrr til skila komið en eg nú sé af síðara bréfi yðar. Annan mann keypti eg austur í Öræfi með magtáliggjandi bréf frá stiptamtmanni og synodalia, og gaf honum þar fyrir 1 rd. courant, og býst eg ei við að uppskera nokkrar bætur hér fyrir, nema þér styrktuð þar eitthvað til.

Og, með forlofi, gerðuð þér vel að setja þetta herra stiptamtmanni fyrir sjónir, og biðja hann betur og röggsamlega að framfylgja því, hann hefur uppbyrjað með greint póstvesen, sem í raun og veru er einn auðveldur hlutur, ef ei er of leingi kíkt á þá skildinga, sem þar til eiga að ganga. Hvað er að yrkja lofdikt um það, sem aldrei kemur til gagns!

Von er að til yðar berist ýmsar fréttir héðan um jarðeldanna verkanir, bæði sannar, ýktar og ósannar, því hér innsveitis geingur það so til, að varla er nokkru um það að trúa, nema því, sem maður sjálfur sér og optast er ofmikið á . . . Varast eg því að skrifa, nema það eg sjálfur veit satt vera, og tek nú fyrst til um:

1° Kálfafellskirkjusókn, sem mest hefur fordjarfazt af austureldgjánni, sem enn þá logar, þó vægara nokkuð en þá yður síðast tilskrifaði af þeim eldgangi, sem þá var á ferð; kom eitt nýtt eldhlaup fram þann 1. hujus, og tók af ytri og austari Dal með öllum húsum og túnum að mestu leyti, allar Seljalandsbrekkur, og so fór það hátt upp á túnið, að ei voru nema rúmir 30 faðmar til eldsins. En hvort bærinn er aftekinn, vita menn ei fyrir reykjarsvælu, sem þar er yfir alt. Hljóp so þetta eldkast austur í Brunná og fram eptir henni á móts við Hvol, og nam þar staðar. Er nú áin farin að stíflast og eldur farinn að kvikna austan til í Núpahraunum, hvað langt sem koma kann. Mikið öskufall hefur þessu fylgt, so þær skepnur, sem eptir eru orðnar, eru í stórri kvöl og dauða, þar ei getur bitið grasið. Áður hafði eg burt komið skrúða kirkjunnar að Núpstað. En nú þá eg þetta heyrði, fékk eg mér menn og fór austur þann 6tta hujus, tók Núpstaðarfólkið til sacramentis og embættaði í kirkjunni daginn eptir. Var þar þá öskufall so mikið að meira var myrkur en dimma í kirkjunni. Tók eg so skrúða kirkjunnar, bækur, peninga og annað lauslegt til mín, og flutti það hingað til mín, hvað sem upp á kynni að koma. En með klukkurnar gat eg ei í það sinn farið, og bað eg Hannes á Núpstað fyrir þær. Ætla og, ef

guð þyrmir því húsi og eg helzt hér við, að embætta þar aptur, fólki því til huggunar, sem að hvergi getur nú flúið eður sér fyrir komið og ei hefur annað í hyggju en eyða ætinu sér til lífs vetrarlangt. Hannes bóndi þar hefur feingið so sem á 10 hesta tals af túni, og ekkert meir. Núpstaður og Rauðaberg byggist, ef nokkur[1]) sauðskepna helzt við lifandi; Kálfafell, Kotið, Maríubakki og Hvoll að tveggja eður 3ja ára fresti, ef ei spillist úr því, sem er, so nú þarf einginn að sækja um það kall fyrst um sinn. En prestur, sem hér þénar, á auðveldast að embætta þar, því stórvötnin eru á hina síðuna, nema ef Hverfisfljótið kemur fram aptur, þá má ei vita, hverninn yfir það verður að komast. Um Kálfafellskúgildin hefi eg yður áður tilskrifað, hvað við þau á að gera, og það ítreka eg enn. Og enn framar ólukku inventarii-skranið, sem staðnum fylgir, er þar að fúna og skemmast, staðurinn farinn að láta mikið ásjást; þar skrangrey þetta hafði sumpart inni verið, hafði veggur fallið og brotið í sundur orf og kyrnu, og eitt trog laskað. Alstaðar farið að trosna þak og veggir af umgangi skepnanna um bæinn og upp um hann; fúin skinnin af smiðjubelgnum, so þar einginn maður fæst þar til húsahirðingar, so kann eg ekkert þetta að ábyrgjast, og afsegi það, þótt eg lefði hér við. Ef það mætti auctionerast, kynni nokkurt gagn af skraninu verða, en sona feyskist það alt, fellur og fúnar. En um kirkjuna og hennar skal eg sjá til, sem eg kann, og það henni tilheyrir.

2° Í minni sókn hefur ei, nema einn bær afbrunnið, þ. e. Dalbær, en þrír aðrir feingið stóran skaða, sem þó munu með tíðinni aptur byggjast, þ. e. Þverá, Hunkubakkar og Hólmur. En hvílík dauðans kvöl og neyð hér er og verður, skrifa eg ei um. Hvorki eg né aðrir feingum hér heyskap fyrir eina kú, nema á Hörgslandi mun það rúmlega vera fyrir tvær eða 3jár. Sunnarlega í Landbrotinu er mikið skárra, þar jörð skemdist þar ei so sem hér.

---

1) nokkuð, frumritið.

3° Í Hólmaselssókn eyðilögðust Hólmar, Hólmasel, Botnar, báðir Fljótar og Hnausar. Jafnvel þó hús standi þar enn, er þar yfirflotið alt með vatni, sem kemur undan nýja hrauninu, sem er mjög slæmt yfirferðar af bleytum og grafskurðum í mýrinni. Fyrir austan þetta vatn eru allir Steinsmýrarbæir, áður 6 býli og eins enn. Þær jarðir mistu mikið af högum, en ei túnum og eingjum. Sækir fólk frá þessum bæjum hingað bæði kirkju og prestsþjónustu, sem auðvelt er, þar eð Skaptá og hennar rásir eru enn aungvar í vegi. En úr öllu Út-Meðallandinu hefur sótt að Þykkvabæjarklaustri. Og þá svo var komið, bað eg og skikkaði klausturhaldara Magnúsi að setja þar til lopt í kirkjuna, hvað hann og so gerði, að fólkið hefur nokkurn veginn getað innrýmzt þar. Lík hafa og þangað flutt verið. Varla held eg vert að skikka síra Björn þangað aptur vetrarlangt. Hann skildi og so við þá sókn með öllu og öllu, að eg veit ei, hvað fúsir sumir yrðu að taka á móti honum. En mun hann ei svara sem hinn, að hann hafi so eitt sinn burtu farið, að hann ætli sér þangað ei aptur að fara? Mundi ei bezt hann feingi sér kall í Borgarfirði sínum? Ef hér var þraungt, þá er hér þreingra. Guð gerir vel að beygja háls minn og annara *undir okið*, þá hann sér úr lagi ætlar að ganga og ofmikið er orðið um eitt og annað. Þó einhverjum hafi þótt hér litið um sig, þá segir so í öðrum stað: »á Kálfskinni var Hrærekur mest metinn«. Þar í Meðallandinu er slétt eingin skemma so stór, að þar verði embættisgerð í framin. Þær eru flestar þar hjá bændum tvö eða mest 3jú stafgólf. Hefi eg því annað ráð upphugsað, og var búinn að byrja með það, áður en yðar háttvirðandi bréf meðtók, að nú á næstkomandi föstudag hefi eg kallað klausturhaldara og skynsömustu bændur þar í sókninni saman til áreiðar í Meðallandið, hvar oss sýndist verða kynni hagkvæmast kirkjustæði, og þar það kynni útveljast, að marka þar fyrir kirkjugarði, *eins og gert var áður en Hólmaselskirkja var bygð*, svo framliðnir mættu greftrast þar, nær ei verður

komizt með þá í vetur yfir fljótið, og gera þar so húskorn, þar kirkjan á að standa, eður forma til hennar, því bæði er trjáviður nógur til þess í Meðallandi, og so melur til að þekja með, að guðsþjónusta yrði í nauðsyn framin þar inni. En skrúðinn og klukkurnar kunna að brúkast þar til, sem fylgdu Skálarkirkju, meðan klausturhaldarar leggja hann ei til, sem fyrir þeirra eða annara forsómun fór í eldinn, því so sem menn tóku alt annað úr kirkjunni, sem þeim við kom, so var og hægt að taka hann. En því hef eg klausturhaldara á nafn nefnt til byggingarinnar, að eg meinti þeim bæri að láta kirkjukassann, er Hólmaselskirkja átti hjá þeim, yfir 30 rdr, ganga til þessarar byggingar eins og áður viðgekkst í þeim stað. En síra Jón á Mýrum getur vetrarlangt, eins og það afliðið er, þénað þar, því bæði er sjálfs hans sókn hæg og lítil, og so hefur hann haft við veg gagn af búi sínu í sumar, og feingið, að eg heyri, bjargvænlegan heyskap. Verður það og ei heldur jag og deilur, ef að síra Björn kæmi nú aptur og skipta ætti prestsinntekt þar milli máganna af því, sem síra Jón og eg erum búnir að hafa fyrir sókn þeirri, sem hann hefur gert með allri æru og dygð, hvað sem um mig má segjast. Það eg geri í um kirkjustöðuna [það ska]l eg gera sem eg bezt hefi vit á, og senda yður síðan.

[Um] Ásasóknir er það að segja, að Skál og sú sókn er aldeilis frá, að þar verður [ekki by]gð framar, nema kanske eitt býli verði í Holtsheiði bygt, og sækir það þá hingað. Búlandssókn heldur sér, að fráteknu Litla-Nesi og Svartanúp, sem nú er í eyði. Allir bæir halda sér í Ásasókn fyrir utan Nes, sem eldhraunið yfir fór, og Leiðvöllur, sem hér eptir legst til Meðallandsprestakalls. Vegir eru enn úr Tungunni í Álptaver, so fólk þaðan, sérdeilis úr Suður-Tungunni, hefur opt í sumar sótt messur suður að Klaustri í Álptaver. Ásakirkja er mér sagt, að standi, þó lasleg sé. Hún var og orðin það áður að nokkru leyti. En þá hún væri bygð, væri öllu hentugra að flytja hana að Hlíð, því þá er hún í miðri bygð.

Hvað eldkastið, sem þar kom nú í 7bri[1]), hefur að verkum gert, veit eg ei. Þó mun það ei annað vera en hafi það þreingt að Svínadal. Ef yður þóknast[2]) að láta síra Jón prédika þar 4ða eður 5ta hvern sunnudag í vetur, og eg, ef hér við lafi, hjálpi honum til með húsvitjan í Meðallandinu, þá kann það takast, ef ei á ganga því meiri ókjör. En ef yður þóknast það ei, viljið þér þá ei skipa síra Sigurði að fara þangað aptur og þjóna þar í vetur, ef hann vill halda við prestskap. Hann getur eins látið bú sitt standa á Sólheimum og fara annaðhvort að Flögu, þar sem meginpartur af fé hans er fyrir, eður að Búlandi. Sá kennimann er í vissum hlut líkur föður sínum. Í annað sinn gerði eg honum uppvartning, að hyggja nokkuð betur að sókn sinni. Nú heyri eg, hann hafi austur í Tungu farið, en hvort að hugsa um sitt eður sókn, er mér óljóst, utan það einginn úr Tungunni fór suður að Klausturkirkjunni á næst afliðinni helgi. Eg verð að tala hreint út, þó það sé bæði einfaldlegt og fávíslegt.

Veit eg og vona, að ei takið það illa upp, eður eg vilji sverta nokkurn þar við eður með. Hensigt mitt er, að óstandið mætti sem bezt í lag leiðast, guði til dýrðar, en gagns náunganna, hvar til allra hluta stjórnari leggi til sína hjálp. Og vona eg so eptir an(d)svari hið fyrsta upp á þa(ð), sem mest með þarf. Næst auðmjúkri forlátsbón á öllu fáfeingilegu, finst eg ætíð í undirgefni yðar háehruverðugheita

Prestsbakka auðmjúkur þénari

d. 12. Septembr. 1783. Jón Steingrímsson.

Háeðla háehruverðugum og hálærðum herra biskupinum yfir Skálholtsstipti Dr. Finni Jónssyni auðmjúklega á Skálholti.

---

1) = Septembri.

2) Hér stendur »ei« í frumritinu (ofaukið).

XVI.

Skýrsla Jóns prófasts Steingrímssonar (veturinn 1783—1784), án efa send Hálfdani Einarssyni skólameistara á Hólum, um jarðir þær, sem af fóru í Skaptafellsýslu í eldinum sumarið 1783.

[Eptir frumriti, komnu 26. Júní 1896 frá síra Arnljóti Ólafssyni. Sbr. Æfisöguna bls. 250].

Uppteiknan
á þeim í Skaptafellssýslu af jarðeldinum uppbrendu jörðum sumarið 1783:

1° *Skaptárdalur*, Þykkvabæjarklausturs jörð; þeirrar jarðar hús voru í haust óbrunnin, en hálft túnið, mestallur skógur, eingjar og mikið af högum uppbrent.

2° *Á*, Þykkvabæjarklausturs jörð, upp brunnin með húsum, túnum, skógi, eingjum og öllum högum undir fjalli.

3° *Skál*, proprietaireign, upp brend með húsum, kirkju, mestöllum túnum, eingjum og öllum högum undir fjallinu.

4° *Holt*, Kirkjubæjarklausturs jörð, upp brend með öllum húsum, túnum, skógi, eingjum og öllum högum undir fjallinu.

5° *Hunkubakkar*, Þykkvabæjarklausturs jörð. Þeirrar jarðar hús eru enn standandi, en uppbrunnið mest alt tún, eingjar og hagar austur með ánni.

6° *Dalbœr*, Þykkvabæjarklausturs jörð, uppbrend með húsum, túnum, eingjum og mestöllum högum.

7° *Hólmur*, Skálarkirkju jörð. Sú jörð eður hús umflotin af heitu vatni, og eldhrauni alt að norðan; framvegis óbyggileg þar sem stendur.

8° *Þverá*, Kirkjubæjarklausturs jörð. Þar eru hús óbrunnin; liggur eldhraunið yfir endilangt túnið. Eingjar og nokkuð af skógi er brunnið.

9° *Ytri-Dalur* dto. Þar eru hús, tún, eingjar og skógar brunnið, en hagar minna.

10° *Eystri-Dalur*, Þykkvabæjarklausturs jörð. Hús, tún og eingjar mestallar eru þar brunnar, en hagar ei.

11° *Seljaland* dto. Þar liggur hraunið upp á túnið að framanverðu, en slægjur og hagar austur með *fjallinu er brunnið.*

12° *Núpar*, Kirkjubæjarklausturs jörð. Þar liggur eldhraunið langs fram með túninu, hvar við rennur fram með sú uppstífiaða Brunná, og svo suðuryfir hagana, en hús eru óbrunnin.

13° *Botnar*, Þykkvabæjarklausturs jörð, upp brunnin með húsum, túnum, eingjum og högum.

14° *Hólmar* dto. uppbrunnir með húsum, túnum, eingjum og öllum högum.

15° *Hólmasel* dto uppbrunnið með húsum, kirkju, hvar inni voru öll hennar orna- og instrumenta, túnum, eingjum, utan á Skarðsmýri, og öllum högum.

16°} *Fljótar efri og syðri*, Kirkjubæjarklausturs jörð,
17°} upp brunnin með húsum, túnum, eingjum og öllum högum.

18° *Syðri-Steinsmýri* dto. Hagar eru þar mestallir brunnir, en hitt óbrent; liggur þó eldhraunið langs fram með túninu.

19° *Efri-Steinsmýri* dto. Þar er mikið af högum og melaplássi brunnið, en annað ekki. Hraunið liggur eitthvað 20 faðma frá bænum.

20° *Hnausar*, Þykkvabæjarklausturs jörð. Sú jörð er umflotin af vatni, svo að ei er framar byggileg. Hraunið liggur þar við túnið fyrir norðan bæinn.

21° *Nes í Skaptártungu*, Þykkvabæjarklausturs jörð, upp brend með húsum, túnum, eingjum og högum.

22° *Ásar eystri*, prestssetur. Þar standa hús, utan kirkjan, sem er fallin; hálf tún eru þar brunnin, ásamt eingjar og allir hagar og melar fyrir sunnan að mestu.

23° *Ytri-Ásar*, Þykkvabæjarklausturs jörð. Eingjar og hagar fyrir sunnan bæinn er brunnið, en annað ekki.

24° *Svínadalur*, Flögujörð. Hús eru óbrunnin, en tún, eingjar og hagar fyrir framan bæinn eru fordjörfuð af upp stífluðu vatni.

25° *Hvammur* dto. Þar eru hús og tún í kafi af vatni, en annað óbrunnið.

26° *Búlandsnes*, uppbrent með húsum og túnum, samt högum nokkrum.

Hér fyrir utan eru allar engjar á jörðinni *Flögu* forskemdar af uppstífluðu vatni.

27° *Svartinúpur*, Búlands hjáleiga, sagðist og nýlega væri af eldinum eyðilagður.

Fyrir utan þessar eru margar Kirkjubæjarklausturs jarðir í eyði sem stendur.

## XVII.

### Bréf Jóns prófasts Steingrímssonar til Hannesar biskups, dags. 16. Nóv. 1785.

[Frumrit þessa bréfs hefir Steingrímur biskup látið binda inn með æfisögu síra Jóns].

Pro memoria.

Yðar háehruverðugheita háttvirðandi tilskrif af 10da Octobr. næstliðna meðtók eg með skilum af hendi prestsins síra Brynjólfs Ólafssonar þann 22. Octobris, þá staddur á Núpstað, hvar í yðar háehruverðugheit tilsögðuð mér að setja hann inn í kallið, og taka prestsetrið Sandfell út með sínu tilheyrandi, hvað eg skal gera með fyrstu hentugleikum. Í millertíð skrifaði eg þar þeim fornemstu meðhjálpurum til að lesa þar um opínberlega hans kallsbréf, ef þeir sæu það þénti, og so enn framar að koma honum fyrir til veturvistar hjá þeim efnabezta bónda þar, hverju þeir hafa í verk komið, sem kostur var á. Í greint háttvirðandi tilskrif var og innlögð censura hans hávelborinheita herra kammerherra og stiptamtmanns og yðar háehruverðugheita af 6tta og 10da Octobris yfir mína yfirsjón, hverri eg í allan tilbærilegan máta undirkasta mig, sem áður tilstaðið hefi, og þakka auðmjúklegast fyrir þá náðugu decision, og lofa minn guð, sem að snúið hefur so háttreistum til hins bezta, sem verða kunni á allar síður.

2° Jeg er enn kominn í vanda og ráðaleysi um fátæk kenslubörn í sókn minni, sem hrakizt hafa

hingað aptur, að þau eiga eingin fræða- og spurningakver, foreldrar og náungar þeirra dauðir og ekkert fémætt eptir þá að kaupa kver með. Frá sumum hefur[1]) kverunum verið stolið á leiðinni, með öðru lauslegu, sum kanske feingin burt fyrir mat, að slökkva hungrið. Einginn því nær hér í standi að innkaupa þau, með víðara. Eg er og uggandi um að víðar hér komi sömu umkvartanir. Þetta skrifa eg í fall yðar háehruverðugheitum þóknaðist að consulera hér um við hans hávelborinheit herra kammerherrann, hverninn ráða skal fram úr þessu. Mitt einfalt plan er þetta: Eg hefi látið mér fortelja, að fátækum sé hér í sýslu, sem annarsstaðar, sér á parti nokkuð lagt af höndluninni. En í þau átta ár, sem eg hefi hér prestur verið, veit eg ei til, né heyrt hefi, hingað í sveit hafi nokkuð soddan tillag komið opinberlega, fyrir utan einn bancoseðil. Er það þó ei talandi, að þeir 5 rd. eður hvað margir þeir eru, leggist hér til sýslunnar til fátækra sálar gagns og fóðurs, heldur en láta þá vesælinga deyja í því hungri, hjá hverju það líkamlega er ekkert að reikna. En lofaður veri guð, hér er því so farið að létta, að á verður nú aptur komíð barna uppfræðingu, sem mikið hefur stopult geingið meðan hungursneyðin og dauðinn hér yfir gekk.

Guði sé lof fyrir liðna tíð,  
langsöm hvort hún var eða blíð.

3° Upp á 80 álnir til specie gjalds reiknað hefi eg meðtekið hjá ekkjunni Guðrúnu Bjarnadóttur á Núpstað eptir yðar síðasta bréfs innihaldi til hennar, yður til meðtöku. En þar mér lá nálega lífið á feitarkorni, — því eg fékk eigi að nema 2 fjórðunga smjörs, þó með stórum afarkostum, — tók eg það mikið í sel og spiki, so þessi skuld er nú inni hjá mér í góðri von, þér munduð ei taka hart á mér fyrir það, og bið yður að umlíða mig um það til vorsins. Eg hef að sönnu nokkuð af peningum enn,

---

1) hafa, hdr.

en þó ei fult að senda yður strax upp í það. En eg voga það ei, þar ei veit nema mér bregðist viss milliferð. Í fall eg kunni fyrr að deyja, — því eg er einhvern veginn ei með sjálfum mér, sem skeð getur af mínum andvökum og fleiru, sem þar að hnígur, — þá legg eg hér innan í skírteini upp á þá skuld.

4to Ef nokkur maður kemur úr Mýrdalnum gagngert með þetta bréf, bið eg yður so vel og ærusamlega gera og hjálpa mér um eina eður hálfaðra pappírsbók af 12 sk. pappír í tilskikkaða standbók mína, sem fylgja á þessu kalli. Betalingurinn skal viss verða, ef þetta getið, og ef so verður, á hann að taka við pappírnum, því eg ætla til, hún verði sett í band af einum bónda í Hvolhrepp(n)um, því hér eru ei góðir bókbindarar nær. Menn mínir, er eg sendi á Bakkann í haust, feingu þar aungvan þesskáttar pappír. En í ólukku krambúðinni í Landeyjunum fékkst einginn pappir, vondur né góður, so eg á ekkert til, nema af þessum rekapappír, sem blotnar upp aptur, hverninn sem eg fer með hann.

Næst auðmjúklegri velvirðingarbón og hugheilustu óskum

Prestsbakka d. 16. 9bris 1785.

forblíf eg í hárri virðingu
háeðla herra biskupsins
míns háttvirðandi patrons
auðmjúkasti þénari
Jón Steingrímsson.

Háæðla háehruverðugum og hálærðum biskupinum yfir Skálholtsstipti herra Hannesi Finnssyni auðmjúklega á Skálholti.

## XVIII.

*Andvari*

psálmur er so kallast um það markverðugasta, sem skeð hefur í vestara parti Skaptafellssýslu næst afliðin 23 ár, nefnilega frá árinu 1754 til ársins 1777, gerður eptir forlagi prófastsins í Skaptafellssýslu síra Jóns Steingrímssonar á Bakka við Geirlandsá af vel gáfugum síra Jóni Oddssyni Hjaltalín presti á Kálfafelli á Síðu.

[Handritasafn Reykjavíkurdeildar Bókmentafélagsins 160. 8vo, bls. 196—211, með eiginhendi Jóns prófasts Steingrímssonar. Síra Jón sleppir atburðum frá þessum árum hér í æfisögu sinni og vísar til þessa kvæðis].

Tón: Rís upp mín sál og bregð nú blundi.

1. Ó, þér svefnþrungnu Íslands lýðir,
æðri og lægri sérhver mann,
vaknið, æ vaknið samt um síðir,
senn hringir stóra dómklukkan(n),
senn gellur lúðurs seinsta hljóm,
senn kemur guð að halda dóm.

2. Bendingar hans í öllum áttum
eru að spyrja fjær og nær,
áminnir hann með ýmsum háttum,
uppvakna so að skulum vær
fyrr en sú stefna stýlast viss:
Statt upp og kom að dómstól Krists.

3. Stundum þráneyddur straffið sendir,
stórglæpanna so iðrunst vér,
stundum og so með blíðu bendir,
bevísanlega hver einn sér,
að hans almættis höndin klár
hefur so breytt í nokkur ár.

4. Eg vil fram telja fáein dæmi, —
frelsarans Jesú náðar saft
auki mér skilning, anda og næmi,
orðunum gefi líf og krapt,
að til vegsemdar verði sér,
og viðvörunar yður og mér.

5. Þá datum skrifa þjóðir gjörðu
þúsund sjö hundruð fimtíu og fimm [1755].
upp kom jarðeldur út úr jörðu
í Kötlugjá og sandhríð dimm,
vatnsgangur æddi undrum með,
öskufall þykt og myrkviðreð.
6. Dynkir og brestir dundu viður,
dó þá hver kind, er úti var,
sandurinn féll í fannir niður,
fimtíu bæir eyddust þar,
missir og tjón að mörgum óð, —
meir en sex vikur þetta stóð.
7. Samt lagði drottinn líkn með raunum,
lofuð veri hans blessuð hlíf,
ei mætti fólkið eymda kaunum
utan tveir menn, sem mistu líf;
mundi þó alt eins hinum hætt,
hefði ei drottinn þeirra gætt.
8. Leiðvallarþinglag alt nær eyddist,
ekki fanst neitt til lífsbjargar,
fólkið í burtu flýja neyddist,
fór það í næstu sýslurnar;
supu þá margir sorgar kaf,
sumir biðu og dauðann af.
9. Næsta ár eptir feiknin fanna [1756].
fárleg bágindi mörgum jók,
hafísinn gerði bjargir banna,
bægði hann mjög þá fiskast tók,
af hæðum ei í hafið sá,
hvar fyrir aflinn lagðist frá.
10. Sölvafjörur og sjáargæði
sannlega þar af skemdust með,
fátækir hreptu mein og mæði,
minka tók óðum bjargræðeð,
en drottinn mintist nú á ný,
náðar sinnar þeim raunum í.
11. Hann þá í brjósti um börn sín kendi,
bjargaði þeim úr hungursnauð,
því kongur Friðrik fimti sendi
fræktuð tvö skip með mjöl og brauð,

sem eyddi vel hjá öllum lýð
yfirvofandi hungurs tíð.

12. Skeinkti hann og þeim skaða feingu
Skaptafellsýslu innbúum
tvö hundruð dali, trútt er geingu
til uppbyggingar jörðunum,
blíður guð sendi björg þar með,
batna tók stórum árferðeð.

13. Jarðirnar bygðust allar aptur,
enn þó til sjái merkin þrenn,
so gerir drottins gæzkukraptur
græta og hugga auma menn,
hann færir burt í hel og neyð,
hann opnar þaðan aptur leið.

14. Tveim árum síðar sjógangs undur [1758].
so mikil komu óvart þá,
að öll skipin braut í einu sundur
með ógnum bæði stór og smá,
er við Dyrhólaeyju var
út haldið þrátt til sjóróðrar.

15. Eitt lét þó drottins eðlakraptur
eptir verða til lífsbjargar,
meðan hin voru við rétt aptur,
varð þá margur að kaupa far,
sem áður vildi ekki þó
ókeyptur róa fram á sjó.

16. Þanninn leið tíðin, þar til árið
þúsund sjö hundruð sextíu og eitt [1761].
barst á skipi, svo banasárið
beið þar af einn; en lífið greitt
hinum gaf drottinn dýr með grið;
Dyrhóla var það eyju við.

17. Tveim árum seinna bólan bráða [1763].
brunaði yfir Mýrdalssveit,
burt tók frá oss af þrautum þjáða
þrjátíu og fjóra í téðum reit;
veitti hún og fyrir austan Sand
einstöku manni lífsins grand.

18. Austur í sjálfu Álptaveri
ein stúlka hennar merki bar;

frá hinum drottinn henni sneri,
hún fékk ei öðrum grandað þar;
því, sem guð hlífir, hlíft er vel, —
hans veri lofað gæzkuþel.

19. Að liðnu einu ári síðar [1764].
á barst skipi í téðum stað,
uppsvelgdu dauðans ólgur stríðar
aðra tvo, — bending guðs var það, —
en hinum sömu hættu úr
hann veitti lífið gæzkutrúr.

20. Fjögur ár næstu farsæl gæði [1765—1768].
frelsarinn gaf til sjós og lands;
Hekla þó spúa höstug næði, [1766].
höndin almáttugs skaparans
umgyrði oss, so aungva neyð
af þessu nokkur maður leið.

21. Fjárpestin, sem á sögðum tíma [1767].
Suðurlands búa mæddi þá,
hnepti oss ei í hungurs líma,
hún komst ei yfir Jökulsá;
sona var drottins gæzka góð, —
göfgi hann hver ein kristin þjóð.

22. Ekki fékkst bati þó hjá þjóðum,
þróaðist vonzkan mörgum hjá,
deilur og kíf þá uxu óðum,
öfund, drambsemi, last og þrá,
ágirndin bygði brjóst og geð,
bönnuð ofdrykkjan fylgdi með.

23. Þá tók drottinn að hóta hörðu,
halastjörnuna sáum vér.
En þegar skrifa þjóðir gjörðu
þúsund sjö hundruð sjötiger, [1770].
kom hörkuvetur kyngi með,
kollfeldi bæði hesta og féð.

24. Refar og dýr úr suðursveitum
sóttu að því, sem eptir var,
því í fjárpestar fellireitum
feingu ei neitt til lífsbjargar,
samt varð þeim so nær öllum eytt,
og til betrunar ráð vort leitt.

25. Hér eptir drottins höndin milda
hélt so við vorum sauðkindum,
að vér kunnum, sem er vor skylda,
öðrum að hjálpa nauðstöddum;
samt fundust þeir, er so um leið
sér nýttu annara þörf og neyð.

26. Bjargræði hélzt og samt af sjónum
samfelt um næstu þrjú árin, [1771—1773].
þjóðin varð laus af þraut og tjónum,
þó fyltist ekki ágirndin;
hennar þénarar þorstlátir
þeir urðu aldrei ánægðir.

27. Guðs helgidagar fóru að fækka,
fororðning kongsins af tók þá,
áhyggjan nam þá stórum stækka,
strax vildu róa þessum á;
hinir, sem minna sintu seim,
sungu guðs orð á dögum þeim.

28. Þá kom beinding[1]) frá dýrum drottni, [1773].
drukknaði skip nær páskunum,
mistu þá sjö á mararbotni
mennirnir líf hjá Dýrhólum,
að landi ráku liðnir tveir,
leg kirkjugarðsins feingu þeir.

29. Með veðrum grimmum vann þá brúsa
vorharkan mikil eptir á,
sumarfuglarnir heim til húsa
hneptust og dóu niður í strá.
So grómtekin er syndin manns
að saklausar skepnur gjalda hans.

30. Mýs flýðu þá úr fylgsnum öllum
framar alvenju bæjum að,
að menn gættu að eymda áföllum
án efa vildi boða það.
Á annan veg það útlagt var, —
allfæstir[1]) þessu sintu ei[1]) par.

31. Ár seytján hundruð sjötíu fjögur [1774].
sást fyrir norðan Öræfin(n)

---

1) Svo.

uppkoma jarðelds ekki fögur,
ákaft sandfall og mökkurinn.
Þar varð þó skaði einginn að, —
augljóst furðuverk guðs var það.

32. Ágirndin tók að vaxa víða,
vildu sem flestir eiga skip,
menn tóku þau að mynda og smíða,
minkaði aflinn þá í svip;
en þessar skipa ákefðer
ósátt og misklíð fæddu af sér.

33. Tuttugu fiska tóku mestir
til hlutar allan veturinn,
minna þó þessu feingu flestir,
fer sona tíðum ágirndin,
geðið þá ólmast auðinn fá
opt hefur höndin lítið þá.

34. Enn reyndi guð oss ári síðar [1775].
alvitru sínu ráði af,
sjóróðragæftir þegar þýðar
þriðja í páskum drottinn gaf:
slíkar hagræðis hagkvæmder
hinir ágjörnu nýttu sér.

35. Þeir fóru strax til fiskiveiða,
fundust og líka allmarger,
sem lastið hinum gerðu greiða,
er guðs orð lásu heima sér,
drottinn því sinni dásemd með
dempaði þeirra stolta geð.

36. Mánudag næstan, trúr þá taldi
tuttugu og fjóra Aprilis,
blíðviðri mesta mönnum valdi
að morni höndin almættis,
fóru þá undan fjöru lands
fimm skip með níutigi manns.

37. Þau héldu út á hafið bláa,
höfðu gott veður fram á dag,
tók þá að örvast aldan háa,
austan blés vindur lítt í hag,
brimsjór og ólga vaxa vann,
varð þá hreint ófær landtakan(n).

38. Í þessum sútum sorgarefna
samankom öllum einlægt þá
út að Vestmanna-eyjum stefna,
ef færi gæfist þeim að ná,
til þeirra víst þó töldu þar
tólf vikur sjávar fullkomnar.
39. Undur, er þóttu ofra tjónum,
ýmsir menn réðu þann tíð sjá,
heyrðist og mikið hljóð í sjónum,
nær hröktust skipin landi frá,
en í vestrinu uppi senn
eins og regnboga sáu menn.
40. Guðs mildi-höndin maktarríka
mintist á sína sáttmálsgjörð,
vegsami hann og heiðri líka
himinn, sól, einglar, menn, sjór, jörð,
en þó þessir hvað allra mest,
er hans varðveitti náðin bezt.
41. Þeir héldu burt í herrans nafni,
hver öðrum voru samskipa,
báðu guð sínum stýra stafni,
staðfestu á hann vonina,
allir svo fylgdust, — eg vil tjá, —
út yfir sjálfa Jökulsá.
42. Tók þá að dvína dagsins birta,
drifu því hverir öðrum frá,
ofviðrið fór með ógnum syrta,
út yfir borðið varla sá,
stormurinn hræddi sturlað geð,
stórregn og krapi fylgdi með.
43. Höfðu þá allir sama í sinni,
sér skyldi báran vísa leið,
eyjanna til svo komast kynni,
en kalda forðast dauðans neyð,
hugraun það mesta mönnum gaf,
mundi þá reka út á haf.
44. Samt héldu þeir sem leiðir lágu,
loksins þá daga nokkuð tók
Bjarnarey nálægt sér þeir sáu,
sjóhröktum þetta gleði jók;

undir hana þeir héldu þá,
hvíldarstund litla til að fá.

45\. Aumasta skipið eitt sinn hrepti
áfelli stórt á leiðinni,
hjálpólin sínu haldi slepti,
hrökk því stýrið úr lykkjunni,
enn so það lagfært yrði þó
undir eins lægði vind og sjó.

46\. Orðleingja þarf það ekki framar,
áður nefnd skipin, — svo til bar, —
frí við hafsöldur hættusamar
héldu þar undir eyjarnar,
um nónbil voru öll á land
uppkomin laus við mein og grand.

47\. Viðtektir góðar veitti þjáðum
Vestmannaeyja þjóðin flest,
gáfu þeim kost með kærleiksdáðum,
kaupmaður Hans þó allra bezt,
nákvæma sýndi hjúkrun hann
hverjum, sem til hans koma vann.

48\. Þá, sem aumari öðrum vóru,
í sín hýbýli taka vann,
tuttugu þeirra til hans fóru,
trúlega þessa fæddi hann,
gaf þeim svo upp með sómasöfn
sérhvern kostnað og fyrirhöfn.

49\. Segl og skipsreiða líka léði,
loksins þá héldu þaðan burt,
soddan höfðingsskap, sem hann téði,
sízt hafa menn af öllum spurt,
honum skal það til heiðurs hér,
hans ætt og þjóð, sem maklegt er.

50\. Launi honum með góðum gæðum
gjafarinn allra farsælda,
bæði hér og á himnahæðum
hann fái blessan margfalda,
kærustu hans og börnin blíð
bevari Jesus fyrr og síð.

51\. Öllum Vestmannaeyja lýðum
umbuni drottins trúfesti,

að þeir af *kærleiks þela* þýðum
þessu sjóhrakta landsfólki
hýru veittu og hjástoð mest,
hjúkrandi þeim sem allra bezt.
52. Hjúkri þeim guð í sess og sæti
á sjó og landi, nótt og dag,
hjúkri þeim guð, þá heimsins kæti
hverfur, en þjakar rauna slag,
hjúkri þeím guð í hverskyns neyð,
hjúkri þeim guð í lífi og deyð.
53. Ellefu þeir þar daga dvöldu,
dag sjötta Maji mánaðar
héldu so burtu hafs um öldu,
hittu að kvöldi Landeyjar,
festu þar skipin firtir neyð,
feingu sér hesta heim í leið.
54. Níunda Maji vafðir værðum
voru þeir allir komnir heim,
lausir úr hættum hafs ófærðum,
hver nam af alúð fagna þeim,
úr helju þóttust hafa þá
heimta, sem öll var vonin á.
55. Náungarnir í sorgum sárum
setið höfðu um þetta bil,
sveipaðir *hörðum harmabárum*,
hugðu þá sokkna djúps í hyl,
grátfegnir urðu þá og þeim,
þegar þeir heilir komu heim.
56. Þeim ber ei gleyma þess að minnast
þakklátir alla lífsins tíð,
aungvir skyldu og af þeim finnast
so óguðlegir fyrr né síð,
að hefðu það sagt: Hefnd yfir þá,
er hirtu ei róa páskum á.
57. Drottni sé lof um æfi og aldur,
er þessum veitti land og líf;
gefi það ljúfur guð alvaldur,
vér gleymum ei hans vernd og hlíf,
heldur að dýrkum hans almátt
háleitan bæði dag og nátt.

48. Nú þegar skrifa þjóðin kunni
þúsund sjö hundruð sjötíu ]1776].
og sex frá Christi fæðingunni
furðu opt sást á loptinu
ógna roði sem eintómt blóð,
af þessu mörgum hræðsla stóð.
59. Menn sáu og í Meðallandi
mikil vatnsskrímsli þetta ár
í Feðgakvísl á einum sandi,
á það horfðu þeir stundir þrjár,
aðrir litu með athygli
eins og blóðhnött á jörðunni.
60. Á ári síðar opt menn sáu
ýmisleg teikn á loptinu,
þrumur töldust með hljóði háu
á hálfri eykt hér um fimtíu,
regn og vatnsföllin geystu greitt;
guð lét þó ekki skaðast neitt.
61. Angur er stórt og stríð ei minna
sturlaða menn í landinu,
þrjátíu og tvo má telja og finna
truflaða menn í geðinu;
fyrir þeim biðji frelsarinn,
svo fái ei grandað morðinginn.
62. Ókend veikindi víða heyrast,
verður í burtu mörgum svipt,
angistar streingjum ýmsir reyrast,
elskubandi er sundur kipt;
þjófnaður, lygi, þræta vönd
þrálega fær nú yfirhönd.
63. Þetta oss öllum þrýsta skyldi
að þekkja drottins stóru náð
og hans almættis maktar mildi,
er mönnum bendir svo í náð,
leggjandi jafnan líkn með þraut,
leiðandi svo frá glæpabraut.
64. Vakna því, aumi Íslands lýður,
upp við bendingar lausnarans,
eptir þér drottinn enn þá bíður,
ei vill hann dauða syndarans,

grát þinn blóðugan glæpa stig,
guðs son bið þú að lækna þig.
65. Meðan útlegðarlíf þitt varir
líf þú varlega ætíð hér,
so með Símoni í friði farir,
þá fjörið lífsins seinast þver,
og sanna kunnir sælu að ná
sólfögrum lambsins stóli hjá.
66. En þú miskunnar merðin Jesus
minstu á sjálfs þíns dreyra foss,
vertu oss aumum ætíð Jesus,
í gæzku þinni vek þú oss,
blóðið þitt á oss blæði hér,
burt taki vorar misgerðer.
67. Það frelsi oss úr fári og nauðum,
fyrir oss biðji ár og síð,
líkni oss bæði lífs og dauðum,
so lendum eptir heimsins stríð
inn í ljómandi lífsins borg
lausir við mæðu, eymd og sorg.
68. Þig, þú lifandi lífsins brunnur,
lofi og dýrki hvert eitt sinn
vor tunga, hjarta, mál og munnur,
menn, einglar, jörð og himininn.
Alt það, sem hefur andardrátt
efli þinn prís í hverri átt.

Amen.

XIX.

Kvæði, sem kallast

*Angurvaka*

um jarðeldinn, sem upp kom í Skaptafellssýslu 1783. 8da Junii, hans helztu verkanir, þar hann yfir féll og í kringum hann, sérdeilis í Kirkjubæjarklausturs sókn, til útgaungu ársins 1784, með öðrum fleirum umbreytingum, sem framkomu það ár. Kvæðið er sorglegt, en endast með fyrirbæn og þakkargerð. Ort af þar verandi kennimanni síra

*Jóni Steingrímssyni.*

[Eptir kvæðabók með eiginhendi síra Jóns Steingrímssonar í safni Reykjavíkurdeildar Bókmentafélagsins 160. 8vo, bls. 223—230, og er kver það komið til félagsins 1873 frá síra Sigurði Sívertsen á Útskálum. — Til eru nokkrar fleiri afskriptir þessa kvæðis, svo sem í ÍBfél. Khd. 136. 8vo, ritað á Hnappavöllum í Öræfum 1797 af Sigurði Magnússyni, og í JSig. 578. 4to (JÁrn.), skrifaði á Klauf í Meðallandi 1817].

*Herrann Jesús hjálpi mér*
*í heiminum vel að stríða,*
*sendi oss drottinn sigurinn fríða.*

Ó guð allsvaldandi,
öllum heim stjórnandi
í æðsta einvalds standi,
allskyns gott veitandi,
öllu eyðir grandi,
alt með sínum krapti hann ber.
*Herrann Jesús hjálpi mér,*
ljái mér lið þinn andi
lítið kvæði að smíða.
*Sendi oss drottinn sigurinn fríða.*

2. Eg vil þar frá inna
og sem flesta áminna,
kunnugt gera og kynna
um kraptinn handa þinna,
sá má heita afsinna,

er sér ei tiptan þá við ber
H. J. h. m.
Mitt þar má í finna
mildi drottins þýða.
S. o. d. s. f.

3. Hér var bygð ein bezta,
blómgvan veitti flesta,
í allsnægt ágirnd mesta,
hjá auðugum tíund vesta,
kirkju og kenning presta
kauðar smáðu práláter.
H. J. h. m.
Einn réð ekki bresta
ofan hinn að ríða.
S. o. d. s. f.

4. Og svo annað fleira,
sem of ljótt er að heyra,
hræsni og heil hóp meira
úr hófi gerði að keyra,
sú blinda og banvæn leira
hjó því mörgum dauðans hver.
H. J. h. m.
Alt heyrir guðs eyra
um alla veröld víða.
S. o. d. s. f.

5. Guð hér marga góða,
gætna og þolinmóða
átti, er andans gróða
æðstan möttu sjóða,
veröld æra og óða
ei fékk þá í lið með sér.
H. J. h. m.
Slíka setti opt hljóða
að sjá þar á og hlýða.
S. o. d. s. f.

6. Þreytti hans þolinmæði
þrálegt synda æði,
eins og annað flæði
yfir oss féll hans bræði,
var sízt von, að slæði

volsið, dramb og samdrætter,
H. J. h. m.,
eiðar og ýms svikræði,
er svo frömdust víða.
S. o. d. s. f.

7. Hér fyrir herrann reiddist,
honum — má segja — leiddist,
að of sein iðran greiddist,
eptir hverri hann beiddist,
af því land vort eyddist,
eptir stendur foldin ber.
H. J. h. m.
Um eigur allra sneyddist,
öll hvarf heimsins blíða.
S. o. d. s. f.

8. Af eiðum að oss sendi
eld, sem hingað vendi,
fjórtán bæi upp brendi
og blómleg undirlendi,
ákaft áfram rendi,
eptir skildi hraun og sker.
H. J. h. m.
Býsn sú biðja kendi
og betur guði hlýða.
S. o. d. s. f.

9. Rauð varð sólin sæla,
sands féll yfir pæla,
brennisteins vatn og bræla,
bliknaði fold og dæla,
skepnur veina og væla,
viltar dóu þar og hér.
H. J. h. m.
Soddan sorgargæla
sáran jók oss kvíða.
S. o. d. s. t.

10. Bifuðust björg og grundir,
brendust skóga lundir,
glossuðu glumra fundir,
gjörvalt skalf þá undir,
þrumaði í þessar mundir,

það voru stórar ógnaner.
H. J. h. m.
Ó, hvað um þær stundir
aumleg varð hún Síða!
S. o. d. s. f.

11. Um sumarið s(k)jaldan sáum
sól fyrir mökkum háum,
með ódaun ofurþráum,
askan sat á stráum,
frá sagt varla fáum,
hvað fjölguðu ýmsar mannrauner.
H. J. h. m.
Eldurinn aurnum gráum
yfir oss gerði hýða.
S. o. d. s. f.

12. Má almættið merkja,
hvað mikið það kann verkja,
að ólga eldsins kverka
ekkert kunni oss lerka,
enn til aungra verka
af loptslögum kendum vér,
H. J. h. m.
og sú ógnin sterka
eitt hár náði ei svíða.
S. o. d. s. f.

13. Helstríð hörmunganna
hlutum þvílíkt kanna,
segja kann eg hið sanna
um sóknar minnar granna,
af hálf-fimm hundrað manna
hundrað tæpt hér eptir er.
H. J. h. m.
Sumir í sælu ranna,
sumir komnir víða.
S. o. d. s. f.

14. Ó, guðs hús í eyði,
autt er land og heiði,
verkaði synda seyði
soddan drottins reiði,
sjötíu og sex í leiði

settir þetta ár framliðner.
H. J. h. m.
Í hungri heil hóp deyði,
þá helið að gekk tíða.
S. o. d. s. f.
15. Sæla má þá segja,
sem nú burtu deyja,
er ýms réð angist beygja
og eptir frelsi þreyja,
fúsum réð þeim fleygja
að fara í dýrðar tjaldbúðer.
H. J. h. m.
Þar syngja eilíft eia
og sinn skrúða prýða.
S. o. d. s. f.
16. Ó, þann eldsins bruna
ætíð skyldum muna,
þá ógn réð yfir duna
með elds og hára funa,
sú harða hrauna runa
hér til sýnis eptir er.
H. J. h. m.
Við eigum þar við una
allskyns böl að líða.
S. o. d. s. f.
17. Sá hæsti hjálp oss sendi
og hlífð með straffsins vendi,
í brjóst um börn sín kendi,
svo blessan til vor rendi
frá framanda herra hendi,
hér með keyptust gripirner.
H. J. h. m.
Þar er einginn endi
á ástarþeli hans blíða.
S. o. d. s. f.
18. Ýmsir aðstoð veittu
og ærlega við oss breyttu,
aðrir okri beittu,
um aumleik vorn ei skeyttu,
sumir rændu og reyttu,

reyndust menn svo misjafner.
H. J. h. m.
Heimskir að oss hreyttu,
hæðnir gerðu níða.
S. o. d. s. f.

19. Svo vér skyldum sanna
að slík er aðferð manna,
þá herrann himna ranna,
heim vill láta oss kanna,
völt er hjálp vinanna,
voldugir reynast afundner.
H. J. h. m.
Bezt er í ógn eymdanna
að guðs fótum skríða.
S. o. d. s. f.

20. Yfir því enn má gráta,
hvað ilt vill seint af láta
og aktar í aungvan máta
það á hefir gert að bjáta,
margur má síns pláta[1]),
mikil eru enn þjófager.
H. J. h. m.
Vondir víst ei státa
Vítis milli skíða.
S. o. d. s. f.

21. Þó megum vér ei þreytast,
þar við heldur leitast
herrann biðja heitast,
í hjarta og anda sveitast,
eflaust um mun breytast
illgerð sú, sem fram úr sker,
H. J. h. m.
og vægð á straffi veitast,
sem vill að garði ríða.
S. o. d. s. f.

22. Víst eru allir eigi
á þeim Satans vegi,
þá særir sárt, þó þegi,

1) Þ. e. missa.

sorg og hjartans tregi,
þeir hugsa á hverjum degi
að haga ætíð betur sér.
H. J. h. m.
Soddan sæla eg segi,
sem nú þanninn stríða.
S. o. d. s. f.

23. Vörunst vondra dæmi,
sem vitum það alræmi,
hversu heimurinn slæmi
hefur sitt véla næmi,
hann hatar, hneykslar, flæmir,
hnuplar, rænir, ofsæker.
H. J. h. m.
Óskum, að því kæmi,
*það illa mætti af sníða.*
S. o. d. s. f.

24. Biðjum guð oss geyma
við grandi, er nú um sveimar
og því að vill streyma,
æru og mannorð kleima;
hjá oss á það heima:
heppinn er sá drottinn ver.
H. J. h. m.
Gefi hann oss ei gleyma,
að gott er hans að bíða.
S. o. d. s. f.

25. Framar en frá eg ræði
fargast lands vors gæði,
æ vort lífs ástæði
er sem fugls á flæði,
leikur líf á þræði,
lukkan fallvölt eins og gler.
H. J. h. m.
Hvergi heppnast næði,
hvergi staðföst blíða.
S. o. d. s. f.

26. Oss guð að sér taki,
illra forði blaki,
að ekkert upp á saki,

yfir oss jafnan vaki,
bæði að brjósti og baki
bevari oss hans eingla her.
H. J. h. m.
Hygg að harma kvaki,
hjartanu vill svíða.
S. o. d. s. f.

27. Herra, í heiðri sönnum
hjálpaðu Síðumönnum
og sömu sveitar grönnum,
er sútar vefjast hrönnum,
í allskyns nauð og önnum
oss nú veittu rósemder,
H. J. h. m.
að vér aptur könnum
upprof mæðuhríða.
S. o. d. s. f.

28. Veittu oss föt og fæði,
fargist alt kvalræði,
hverfi hugarins mæði,
heppnist landsins gæði,
að um alt heims svæði
aukist þínar dásemder.
H. J. h. m.
Öll vor eymsli græði
alsærð Jesu síða.
S. o. d. s. f.

29. Hjálpi oss guð og hlífi,
háskasemd burt drífi,
við allskyns illsku kífi,
yfir oss náð þín blífi,
svo á sál og lífi
sífelt verðum blessaðer.
H. J. h. m.
Frá elsku þinni oss rífi
eingin holds ástríða.
S. o. d. s. f.

30. Hvern einn hér á landi
af hærra og lægra standi,
sem á er einhver vandi

og angur reyrast bandi,
að öllu eyddu grandi
innleið þá í dýrð hjá þér,
H. J. h. m.
svo lofi þig þar ljómandi
með lofgjörð helgra lýða.
S. o. d. s. f.

31. Hér greind hróðrar staka
heiti *Angurvaka*;
þó beri hún bragsmíð laka
börn það vel upp taka.
Svo nam kveða og kvaka
*klerkur* sá *á Bakka*[1]) er.
H. J. h. m.
Minn eg ektamaka
misti[2]) lyndisþýða.
S. o. d. s. f.

32. Hún eitt mannval mesta
manndygð hafði flesta,
hér með lund vel hresta,
þá heimurinn lét hið vesta,
bæn réð aldrei bresta,
þá beizkar reyndi mannrauner,
H. J. h. m.
svo varð síðast bezta,
þá sælu gekk til tiða.
S. o. d. s. f.

33. Einmana eg því þreyi
eptir feiginsdegi.
Guð, þó böl mig beygi,
bila lát mig eigi.
Hulin hrygð og tregi
híndra tíðum svefnværðer.
H. J. h. m.
Hann minn huga hneigi

---

1) Þ. e. Prestsbakka á Síðu.

2) Þórunn kona síra Jóns andaðist 4. Okt. 1784. Sjá Æfisögguna bls. 181.

að hlýða, bíða og líða.
S. o. d. s. f.
34. Lofi guð lopt og grundir,
lofi hann allar stundir,
lofi hans lífs vors undir,
lofi hann menn og sprundir,
lofi hann lögur, lundir,
lofi hann alt hvað með oss er.
*Herrann Jesus hjálpi mér.*
Fagrir verða fundir,
þá finnunst allir síðan.
*Sendi oss drottinn sigurinn fríða(n).*

## XX.

Tabla yfir fólk það, sem hér var í Kleifaþinglagi, þá jarðeldurinn hér fram kom 8da Juni 1783 og svo hvað margir af því dóu hér og annarstaðar af hans verkunum, ásamt hungursneyð og dýrtið árin 1784 og 1785.

Saman tekið í eitt sem eptir fylgir[1]).

### Kálfafellssókn í Fljótshverfi.

*Núpstaður.*

Hannes Jónsson, *dauður.*
Guðrún Bjarnadóttir.
Jón Hannesson }
Jón yngri } börn þeirra.
Eyjólfur Hannesson }
Mad^me^ Málmfriður Brynjólfsdóttir, *dauð.*
Solveig Hjálmarsdóttir.
Margrét Bjarnadóttir, *dauð.*
Helga Jónsdóttir, *dauð.*

*Rauðaberg.*

Sverrir Eiríksson.
Olöf Jónsdóttir, *dauð.*

---

1) Þetta manntal fylgir frumritinu að riti síra Jóns Steingrímssonar um Skaptáreldinn, sem nú er geymt í handritasafni Landsbókasafnsins 1552. 4to.

Bjarni
Margrét
Jón
Ólafur } börn þeirra.
Jón
Nikulás
Vilborg
Hálfdan Guðbjargarson.
Guðrún Einarsdóttir.

*Kálfafell.*

Síra Jón Hjaltalín.
Mad<u>me</u> Guðrún Jónsdóttir.
Oddur, sonur þeirra.
Kristín Ófeigsdóttir.
Vigdís Einarsdóttir.
Jón Þórðarson, *dauður.*
Jón Benediktsson, *dauður.*

*Blómsturvellir.*

Bjarni Guðbrandsson, *dauður.*
Guðrún Gizursdóttir.
Gizur, þeirra son.
Þóra Guðbrandsdóttir.
Jón Bjarnason, *dauður.*

*Kálfafellskot.*

Gísli Pálsson.
Guðný Bjarnadóttir, *dauð.*
Þorlákur Jónsson.
Eyjólfur Eyjólfsson.

*Maríubakki.*

Bjarni Ólafsson meðhjálpari, *dauður.*
Björn Bjarnason
Margrét Ólafsdóttir } hjón.
Ingigerður
Bjarni *dauður.*
Einar } þeirra börn, *dauður.*
Guðrún *dauð.*
Björn
Þorbjörg Árnadóttir.
Þórður Bjarnason, *dauður.*
Guðbjörg Hávarðsdóttir, *dauð.*
Guðrún Jónsdóttir niðurs., *dauð.*

*Hvoll.*

Árni Hávarðsson, *dauður*.
Ragnhildur Jónsdóttir, *dauð*.
Kristín
Ingunn
Jón
Bjarni
} þeirra börn
*dauður*.

*Núpar*.

Páll Nikulásson.
Guðrún Þorsteinsdóttir.
Guðrún
Daníel
Ögmundur
} þeirra börn.
Guðrún Eiríksdóttir.
Andrés Guðmundsson.

---

Cecelia Ingjaldsdóttir, *dauð*.
Auðólfur } hennar börn, *dauður*.
Ingjaldur } hennar börn, *dauður*.
Guðlaug } hennar börn, *dauð*.
Einar Auðólfsson, *dauður*.

*Seljaland*.

Oddur Jónsson.
Steinunn Ingimundsdóttir, *dauð*.
Guðríður Ingimundsdóttir.
Jón Jónsson.
Ingibjörg Hinriksdóttir.
Sigríður Pétursdóttir.

*Eystridalur*.

Jón Jónsson.
Þuríður Jónsdóttir.
Guðlaug
Jón
Bjarni
} þeirra börn.
Oddur Jónsson, *dauður*.
Sigurður Vigfússon, *dauður*.
Margrét Bjarnadóttir, *dauð*.
Sigríður Bjarnadóttir, *dauð*.
Guðlaug Þorsteinsdóttir, *dauð*.

Jón Jónsson, *dauður*.
Sigurður Eiríksson.

Annar bóndi.

Bjarni Jónsson.
Ragnhildur Einarsdóttir.
Guðfinna þeirra dóttir.
Guðrún Einarsdóttir.
Eyjólfur Bjarnason, *dauður*.

*Ytri-Dalur*.

Vigfús Þorgeirsson, *dauður*.
Ólöf Jónsdóttir. *dauð*,
Hallgerður, Jón, Elín, Ólafur, Helga, Páll } þeirra börn. *dauð*.

Eyjólfur Bjarnason á Seljalandi, *dauður*.

**Kirkjubæjarklausturssókn, Síða og Landbrot.**

Á Síðunni.

*Þverá*.

Árni Pálsson, *dauður*.
Þuríður Árnadóttir, *dauð*.
Ingibjörg, Oddný, Hallbera, Jón } þeirra börn. *dauð*.
Gróa Valdadóttir, *dauð*.

---

Þorlákur Árnason.
Halldóra Gunnsteinsdóttir.
Rannveig, Margrét } þeirra börn.

*Foss*.

Mr. Jón Vigfússon.
Madme Sigurlaug Sigurðardóttir.

Dómhildur
Jón
Vigfús
Jón } þeirra börn.
Elín
Árni *dauður.*

Finnur Snjólfsson, *dauður.*
Óræke Alexandersson.
Ingibjörg Stephansdóttir.
Guðrún Pálsdóttir.

---

Jón Ólafsson, *dauður.*
Guðlaug Sigurðsdóttir.
Emerentiana
Halla
Guðlaug } þeirra börn.
Katrín
Elín

---

Eiríkur Sigurðsson.
Gróa Jónsdóttir, *dauð.*
Jón
Vilborg
Halla } þeirra börn.
Guðlaug
Þórdís

*Austur-Hörgslandskot.*

Hreiðar Pálsson.
Ingibjörg Einarsdóttir.
Páll þeirra son.
Kristín Einarsdóttir, *dauð.*
Helgi Þorsteinsson.
Tumas Stephansson.

---

Magnús Jónsson, *dauður.*
Guðrún Jónsdóttir, *dauð.*
Jón
Guðrún } þeirra börn.
Guðrún

*Hörgslands hospital.*

Mr. Páll Jónsson.
Madme Valgerður Þorgeirsdóttir.
Ólafur }
Þorgeir } þeirra börn.
Jón } *dauður.*
Jórunn Jónsdóttir.
Guðrún Steinsdóttir.
Sigurveig Sigurðsdóttir, *dauð.*
Margrét Nikulásdóttir, *dauð.*
Helga Sigmundsdóttir, *dauð.*
Helga Magnúsdóttir.
Ingibjörg Salomonsdóttir.
Rannveig Gísladóttir.
Ólafur Þorsteinsson.
Bjarni Gunnsteinsson.
Nikulás Hreiðarsson, *dauður.*
Guðrún Jónsdóttir, *dauð.*
Þóra Einarsdóttir hospitalslimur, *dauð.*

*Mosakot.*

Bjarni Sigurðsson.
Margrét Nikulásdóttir.
Cecelía }
Margrét }
Einar } þeirra börn.
Gróa } *dauð.*
Katrín }
Ingimundur } *dauður.*
Nikulás Ingimundsson, *dauður.*

*Múlakot.*

Ásgrímur Ingimundsson, *dauður.*
Þorgerður Alexandersdóttir.
Gróa þeirra dóttir.
Guðrún hans dóttir, *dauð.*
Salomon Árnason, *dauður.*
Guðrún Jónsdóttir, *dauð.*
Guðmundur Salomonsson, *dauður.*

*Hörgsdalur.*

Björn Jónsson.
Ragnhildur Salomonsdóttir.

Þorleifur Guðmundsson.
Ingibjörg Eiríksdóttir.
Guðrún Árnadóttir, *dauð.*

---

Jón Eiríksson.
Margrét Jónsdóttir, *dauð.*
Helga }
Eiríkur } þeirra börn.
Jón } *dauður.*
Elín Jónsdóttir, *dauð.*
Helga Sveinsdóttir, *dauð.*
Emerentiana Runólfsdóttir, *dauð.*
Þorgerður Steinsdóttir.
Þorgerður Árnadóttir.

---

Jón Jóhannsson, *dauður.*
Halldóra Jónsdóttir, *dauð.*
Geirlaug } *dauð,*
Steinunn } þeirra börn. *dauð.*
Salomon } *dauður.*

---

Oddur Bjarnason.
Guðlaug Björnsdóttir.
Guðríður }
Þórunn }
Anna }
Ragnhildur } þeirra börn.
Anna }
Guðrún }
Bjarni Skúlason.
Bjarni Skúlason yngri, *dauður.*
Helga Skúladóttir.
Sigríður Aradóttir, *dauð.*

*Keldunúpur.*

Ólafur Bjarnason.
Guðrún Þorgeirsdóttir.
Bjarni }
Þorgerður }
Þorbjörg } þeirra börn.
Þorgeir }
Þorbjörg Skæringsdóttir, *dauð.*

Eyjólfur Bjarnason, *dauður*.
Þuríður Ragnhildardóttir.

---

Þórður Ólafsson.
Ragnhildur Eyjólfsdóttir.
Ingibjörg Ólafsdóttir.
Halla Einarsdóttir, *dauð*.
Guðrún Ámundadóttir.

---

Þorsteinn Þorláksson.
Katrín Bjarnadóttir, *dauð*.
Katrín Sveinsdóttir, *dauð*.

*Breiðabólsstaður*.

Hallur Jónsson.
Margrét Einarsdóttir.
Guðrún Guðrúnardóttir, *dauð*.

---

Guðbrandur Eiríksson.
Þuríður }
Margrét } hans börn, *dauð*.
Valgerður }
Andrés Nereiðarson.

*Bakkakot*.

Snjólfur Finnsson, *dauður*.
Margrét Þorgeirsdóttir, *dauð*.
Margrét } þeirra börn. *dauð*.
Sigríður }
Jón Jónsson, *dauður*.

*Prestsbakki*.

Síra Jón Steingrímsson.
Mad^me^ Þórunn Hannesdóttir, *dauð*.
Katrín } þeirra dætur.
Helga }
Björn Ásbjörnsson, *dauður*.
Oddur Einarsson, *dauður*.
Björn Sæmundsson, *dauður*.
Sigríður Bjarnadóttir, *dauð*.
Halldóra Árnadóttir, *dauð*.
Jón Eiríksson.
Arndís Sigurðardóttir.
Jón Sigurðsson.

Guðrún Jónsdóttir.
Margrét Jónsdóttir.

*Morðtunga.*

Þorleifur Jóhannsson.
Sigríður Ísleiksdóttir.
Ísleikur }
Geirlaug } þeirra börn.
Steinunn Þórarinsdóttir.
Guðrún Hallnýjardóttir.

---

Þorsteinn Jónsson.
Ingveldur Jónsdóttir.
Helga }
Jón } þeirra börn.
Margrét Sveinsdóttir, *dauð.*

---

Páll Snjólfsson.
Guðný Guðmundsdóttir.
Ásgrímur Pálsson.
Sigurður Pálsson.
Bjarni Pálsson, *dauður.*
Halldóra Pálsdóttir.
Guðríður Jóhannsdóttir.

*Geirlandssel.*

Sigurður Sigurðsson, *dauður.*
Hildur Þorvaldsdóttir.
Vilborg }
Guðrún } *dauð,*
Sigmundur } þeirra börn, *dauður.*
Þorvaldur } *dauður.*

---

Sigurður Þorgeirsson.
Margrét Runólfsdóttir.
Guðleif } *dauð.*
Elín } hans dætur.

*Breiðabólsstaðarsel.*

Jón Eyjólfsson.
Þuríður Gunnarsdóttir.
Oddný }
Ólafur } þeirra börn.
Guðmundur }

*Geirland.*

Gísli Þorsteinsson.
Rannveig Þorgeirsdóttir.
Sigríður
Emerentiana } þeirra börn.
Ragnhildur
Þorsteinn
Þorgeir *dauður.*
Sigríður } hennar börn.
Þórunn
Guðný
Sigríður Ólafsdóttir, *dauð.*
Björn Jónsson, *dauður.*
Guðlaug Örnólfsdóttir.

*Mörk.*

Gunnar Ólafsson, *dauður.*
Helga Eiríksdóttir.
Þóra
Oddný } þeirra börn.
Steinvör
Ragnhildur } hans dætur.
Jón Pálsson, *dauður.*
Guðrún Jónsdóttir.
Hallný Jónsdóttir, *dauð.*
Jón Pálsson.

---

Ingunn Pálsdóttir.
Runólfur Jónsson, *dauður.*
Vigfús Valdason, *dauður.*
Hólmfríður Vigfúsdóttir.

*Klaustrið.*

Sr. Sigurður Ólafsson.
Madme Ingibjörg Bergsdóttir.
Þóra
Guðrún
Þorbjörg } þeirra börn. *dauð.*
Bergur
Valgerður Ólafsdóttir, *dauð.*
Jón Ólafsson, *dauður.*
Sigríður Jónsdóttir, *dauð.*

Michael Sigríðarson, *dauður.*
Margrét Högnadóttir, *dauð.*
Þorgerður Gísladóttir, *dauð.*
Runólfur Sigmundsson, *dauður.*
Árni Einarsson, *dauður.*
Jón Árnason.
Geirlaug Sigurðardóttir.

*Hunkubakkar.*

Páll Ólafsson.
Margrét Ingimundsdóttir.
Halldóra }
Sigríður }
Ólöf } þeirra börn.
Katrín }
Ingibjörg } *dauð.*
Guðný Jónsdóttir.

*Heiði.*

Björn Árnason.
Sigríður Stephánsdóttir.
Árni Höskuldsson, *dauður.*
Jódís Gunnarsdóttir, *dauð.*
Ragnhildur Pálsdóttir, *dauð.*
Margrét Jónsdóttir, *dauð.*

---

Hinrek Höskuldsson.
Aldís Þorsteinsdóttir.
Guðný }
Helgi }
Margrét } þeirra börn.
Sigurður }

*Klausturselið.*

Þorkell Valdason, *dauður.*
Ragnhildur Þorsteinsdóttir.
Valdi Þorkelsson, *dauður.*
Árni Jónsson, *dauður.*
Þuríður Þorsteinsdóttir, *dauð.*

---

Sveinn Gíslason, *dauður.*
Úlfhildur Björnsdóttir, *dauð.*

Gisli Sveinsson, *dauður*.
Árni Gíslason, *dauður*.

### Landbrotið.

*Dalbœr.*

Snjófríður Símonsdóttir.
Þórdís Jónsdóttir.
Ólafur Einarsson.
Jón Einarsson.
Guðrún Einarsdóttir.

*Hólmur.*

Einar Ólafsson.
Kristín Árnadóttir.
Ingibjörg Árnadóttir.
Jón Árnason.

---

Magnús Salomonsson, *dauður*.
Fides Eiríksdóttir, *dauð*.
Eiríkur Guðbrandsson, *dauður*.
Helga Ólafsdóttir.
Guðbjörg Árnadóttir.

*Nýibœr.*

Jön Þorsteinsson.
Þuríður Árnadóttir.
Sigríður hans dóttir, *dauð*.
Kristín Jónsdóttir, *dauð*.
Halldóra Jónsdóttir, *dauð*.
Guðrún Jónsdóttir, *dauð*.
Guðný Jónsdóttir.

*Hœðargarður.*

Þorgeir Snjólfsson.
Margrét Þorsteinsdóttir, *dauð*.
Snjólfur }
Sigurður } þeirra börn. *dauður*.
Þorsteinn } *dauður*.
Ragnhildur }

*Ytri-Tunga.*

Jón Eyjólfsson.
Cecelia Jónsdóttir.
Guðbjörg Eyjólfsdóttir, *dauð*.
Ingigerður Snorradóttir.

Ólafur Eyjólfsson, *dauður.*
Ingibjörg Þórðardóttir.
Cecelía Ólafsdóttir.

*Austari-Tunga.*

Guðmundur Pálsson, *dauður.*
Guðrún Erlendsdóttir, *dauð.*
Erlendur } þeirra börn.
Sigríður }

*Ásgarður.*

Sigurður Gunnsteinsson, *dauður.*
Solveig Halldórsdóttir.
Gunnsteinn } þeirra börn.
Björn }
Páll Ormsson.

*Kárstaðir.*

Guðmundur Hreiðarsson.
Guðrún Þorsteinsdóttir.
Eyjólfur }
Jón } þeirra börn *dauður.*
Þorsteinn } *dauður.*
Sigurður }
Árni Hreiðarsson, *dauður.*
Þorbjörg Valdadóttir.

*Refstaðir.*

Ólafur Þórðarson, *dauður.*
Halla Ögmundsdóttir, *dauð.*
Guðný Ólafsdóttir.

*Hátún.*

Jón Árnason, *dauður.*
Sigríður Jónsdóttir, *dauð.*
Margrét Jónsdóttir, *dauð.*
Kristín Jónsdóttir, *dauð.*
Sveinn Jónsson, *dauður.*
Helga Jónsdóttir, *dauð.*
Hallgerður Þórarinsdóttir.

---

Bjarni Ólafsson, *dauður.*
Anna Vigfúsdóttir. *dauð.*
Ólafur } börn þeirra, *dauður.*
Ragnhildur } *dauð.*

---

Kristín Árnadóttir.
Aldís Jónsdóttir.

*Efri-Vík.*

Helgi Guðmundsson, *dauður.*
Steinunn Eiríksdóttir, *dauð.*
Guðný, Gizur, Jón, Ingibjörg — þeirra börn.

---

Guðni Ólafsson.
Geirlaug Sigmundsdóttir.
Sigríður, Ásgrímur, Ólafur — þeirra börn.
Gunnvör Ólafsdóttir, *dauð.*

*Syðri-Vík.*

Jón Ólafsson.
Ingibjörg Vigfúsdóttir.
Snjófríður þeirra dóttir.
Þorbjörg Hinriksdóttir.

*Dalbær.*

Jón Magnússon.
Vigdís Erlendsdóttir.
Þórunn Jónsdóttir.
Ingibjörg Gunnsteinsdóttir, *dauð.*

*Uppsalir.*

Sigurður Einarsson.
Ingveldur Ólafsdóttir.
Þorsteinn Sigurðsson.
Margrét, *dauð.* — þeirra börn
Jón, *dauður.* — tvíburar, þeirra börn
Þuríður, *dauð.* — tvíburar, þeirra börn
Arnoddur, *dauður.* — þeirra börn
Sigurður lifir — þeirra börn
Margrét Sigurðardóttir, *dauð.*
Ólöf Sigurðardóttir, *dauð.*

*Fagurhlíð.*

Alexander Órækjuson, *dauður.*
Elín Ögmundsdóttir, *dauð.*

Ögmundur Alexandersson, *dauður*.
Ragnheiður Böðvarsdóttir,
Þuríður Ögmundsdóttir, *dauð*.
Oddrún Alexandersdóttir.
Eiríkur Alexanderson, *dauður*.
Guðrún Jónsdóttir, *dauð*.

*Kot.*

Jón Snorrason, *dauður*.
Solveig Björnsdóttir.
Ingibjörg Snorradóttir.
Þuríður Einarsdóttir, *dauð*.

*Þykkvibær.*

Jón Sigmundsson.
Katrín Ögmundsdóttir.
Þuríður Jónsdóttir.
Hildur Sigmundsdóttir, *dauð* og so
Nikulás Jóhannsson.
Ingibjörg Árnadóttir.
Bjarni, Guðmundur, Jón } þeirra börn.

---

Hinrek Jónsson, *dauður*.
Gróa Bjarnadóttir, *dauð*.
Hallný, Bjarni, Guðrún } þeirra börn.

---

Pétur Vilhjálmsson.
Sigríður Eiríksdóttir.
Ástríður, Halldóra, Hólmfríður, Þorbjörg } þeirra börn.

*Seglbúðir.*

Sigurður Jóhannsson.
Sigurður Sigurðsson.
Guðrún Oddsdóttir, *dauð*.
Ingibjörg Illugadóttir.

Kristín Erlendsdóttir.
Þórunn Nikulásdóttir.

*Arnadrangur.*

Pétur Sveinsson.
Þuríður Guðmundsdóttir.
Guðrún } þeirra börn.
Sveinn }
Sveinn Halldórsson.
Eiríkur Árnason.
Halldór Sveinsson, *dauður.*
Guðbjörg Guðmundsdóttir, *dauð.*
Helga Árnadóttir, *dauð.*

*Austara-Hraun.*

Ólafur Ólafsson.
Guðrún Jónsdóttir.
Ingibjörg } börn þeirra.
Anna }
Sigríður Jónsdóttir, *dauð.*
Þorbjörg Alexandersdóttir.
Ólafur Björnsson, *dauður.*
Jóhann Einarsson.
Páll Guðmundsson.

*Ytra-Hraun.*

Mad<u>me</u> Guðrún Jónsdóttir.
Þóra Þorláksdóttir.
Ólafur Ólafsson.
Sigríður Hinreksdóttir.
Oddný Gunnsteinsdóttir, *dauð.*

---

**Niðursetningar, uppgjafa- og umferðarfólk í Kirkjubæjarklaustursókn.**

Þórdís Sveinsdóttir.
Sigríður Sigurðardóttir.
Ólafur Ísleifsson, *dauður.*
Jón Jónsson búði, *dauður.*
Árni Oddsson, *dauður.*
Jón Eyjólfsson, *dauður.*
Sigríður Margrétardóttir, *dauð.*

Sigmundur Jónsson, *dauður*.
Halla Jónsdóttir, *dauð*.
Guðlaug Gizursdóttir, *dauð*.
Aldís Jónsdóttir, *dauð*.
Guðfinna Alexandersdóttir, *dauð*.
Rakel Ímadóttir, *dauð*.
Árni Hreiðarsson, *dauður*.
Gróa Þorsteinsdóttir, *dauð*.
Agnes Jónsdóttir, *dauð*.
Halldóra Ingimundsdóttir, *dauð*.
Snorri Þórðarson, *dauður*.
Þorgerður Jónsdóttir, *dauð*.

---

**Fólkstal í Skálarsókn á Síðu 1783.**

*Holt.*

Ólafur Jónsson, *dauður*.
Ragnhildur Arnbjarnardóttir.
Hallbera Alexandersdóttir.
Margrét Pálsdóttir, *dauð*.
Anna Pálsdóttir, *dauð*.
Eyjólfur Nikulásson.
Sigurður Þóroddsson.
Sigríður Pálsdóttir.
Guðrún Sigurðardóttir, *dauð*.
Vigfús Jónsson.
Sigurður Guðmundsson.

---

Rannveig Sigurðardóttir, *dauð*.
Sigurður
Jón
Einar
Steinunn
Þorgerður
Halldóra
Ólafur } hennar börn.

---

Þórhalli Jónsson, *dauður*.
Steinvör Ólafsdóttir.
Guðný þeirra dóttir.

Runólfur Steingrímsson.
Æsa Gunnarsdóttir.

*Skál.*

Bjarni Björnsson.
Valgerður Eyjólfsdóttir.
Sveinn }
Eyjólfur } hennar börn.
Guðrún } *dauð.*
Ólöf Árnadóttir, *dauð.*
Ingibjörg Einarsdóttir.
Anna Valdadóttir niðurs. *dauð.*
Þóra Natanaelsdóttir, *dauð.*

Annar bóndi í Skál.

Þórarinn Ísleiksson.
Þóra Eyjólfsdóttir.
Arnbjörg }
Steinunn }
Ísleikur } *dauður.*
Eyjólfur } þeirra börn.
Jón }
Ingibjörg }
Þorleifur }
Guðrún Þórarinsdóttir niðursetningur, *dauð.*
Ólafur Þorleifsson, *dauður.*

*Á.*

Jón Þorláksson, *dauður.*
Gróa Högnadóttir.
Högni }
Ragnhildur } hennar börn.
Solveig }
Ragnheiður } Bjarnadóttir.
Guðrún Jónsdóttir.
Ingibjörg Jónsdóttir, *dauð.*
Kristín Snorradóttir.
Gizur Pálsson, niðursetningur.
Bjarni Jónsson, *dauður.*

*Skaptárdalur.*

Sigurður Sverrisson.
Kolfinna Björnsdóttir.

| | | |
|---|---|---|
| Sverrir | þeirra börn | *dauður.* |
| Hugborg | | |
| Rannveig | | |

Jón Sverrisson, *dauður.*
Runólfur Sigurðsson, *dauður.*
Gróa Þórhalladóttir, *dauð.*
Salgerður Eyjólfsdóttir.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í Fljótshverfi | 98 menn. | Þar af dauðir | 36 |
| Á Síðunni . | 264 — | — - — | 93 |
| Í Landbroti | 177 — | — - — | 75 |
| Í Skálarsókn | 63 — | — - — | 20 |
| Samtals | 602 | | 224 |

## XXI.

*»Stutt æfintýr« (æfiatriði og lýsing) þeirra stúdenta, sem útskrifuðust úr Hólaskóla i skólameistaratíð Gunnars Pálssonar (1744—1753), samið á árunum 1808—1809 af síra Benedikt Pálssyni, bróður Gunnars, prests á Stað á Reykjanesi, þá hálf níræðum.*

[Eptir rotnu og skertu frumriti í Landsskjalasafninu, komnu 1902 úr dánarhúi síra Friðriks Eggerz, og afskript með hendi Gísla Jónssonar konrektors á Hólum og síðar prests í Stærraárskógi (d. 1838); er sú afskript komin 24. Júní 1896 frá síra Arnljóti Ólafssyni. Lýsing þessi er án efa gerð að nokkru leyti að tilmælum Gísla konrektors og honum send. — Á flesta þessa skólabræður sína, sem hér er sagt frá, minnist síra Jón Steingrímsson einmitt hér að framan í æfisögu sinni á við og dreif, sbr. þó einkum bls. 310—312. Bæði síra Jóns og síra Benedikts er getið í þessari lýsingu].

[Stutt æfintýr þeirra[1]), er voru útskrifaðir úr Hólaskóla frá árinu 1744, í rectors Gunnars Pálssonar tíð.

*1744.*

1. *Stephán Björnsson*, prests á Hjaltastöðum Skúlasonar. Stephán var skarpleikspiltur hinn mesti og svo mjög námgjarn, að hann sleit sig aldrei um nokkurt aug(n)ablik frá bóklestri, aldrei nokkru sinni lék hann né glímdi, og varla leit hann við né brosti, þó aðrir piltar væri að glaðlegum skemtunum, heldur var hann þurlegur og talaði harla fátt og sjaldan. Nú get eg ei munað, hvort Stephán sigldi þá strax nýdimissus til Academ(iam) Havn(iensem) eður hann gerðist áður djákn á Múkaþverá. En aptur kominn attestatus, sagður þá nokkuð hugtrublaður, gerðist hann djákn á Þingeyrum. En þegar Gunnar vék frá Hólum, vígður prestur til Hjarðarholts, varð Stephán constitutus rector á Hólum, og þjónaði þar, trúi eg, 2 vetur, og suppliceraði um konglega confirmeran. Þá innféll nokkurt mislyndi milli hans og stiptsprófasts síra J(óns) M(agnús)s(onar), er Stephán dimitteraði einhverja scholasticos í forboði hans og í fullkomnum contemtu við hann. Nú vék í burtu síra J(ón) til Staðastaðar, en biskup G(ísli) kom í staðinn, færandi með sér frá K(aupin)havn attestatum Hálfdan Einarsson, og undir eins hafandi konglegt privilegium til að setja rectorem annaðhvort þennan eður Stephán Björnsson. Hann kjöri strax avidus Hálfdan, en Stephán inexorabilis rak hann burt, hvar upp á Stephán sigldi strax til Kaupenhafnar, hvar hann deyði nú fyrir allfám árum[2]).

2. *Guðmundur Sigurðsson*, prests á Barði, Einarssonar. Guðmundur var indolis bonæ, ingenii mediocris. Þá hann hafði aldur til feingið, kvæntist hann bæði og vígðist capellan að Barði; hlaut það kall eptir föður sinn, og þar ætla eg hann hafa æfina ent[3]).

---

1) Ίlagað eptir afskript síra Gísla; Listi yfir þeirra nöfn, frumr.

2) Stephán lézt 15. Okt. 1798.

3) Hann lézt árið 1800.

3. *Hallgrímur Eldjárnsson*, prests að Möðruvallaklaustri, vir varius, ingenii acuti et ad quodvis discendi genus satis applicabilis, cujus toto ex ore, manibus, pedibus, oculis, occipite[1]), tergo, sæpissime non nihil æmulationis ac ostentatonis emicuit. Þessi var strax undir eins af biskupi Harboe settur djákn að M(úka)þverá, hvaðan hann, að liðnu ári, sigldi til K(aupin)h(afnar), hvar hann um veturinu 1746 tók attestaz og kom með það til baka. Þá gat hann ekki horfið aptur að Múkaþverá, því þá var þar annar djákn. Því hvarf hann til Hrafnagils, og var þar at fóstra síns prófasts síra Þorsteins Ketilssonar, kvæntist, vígðist capellan sama staðar, bjó á Kristnesi og skikkaðist viceprófastur. Síðan hlaut hann prestákallið Bæsá, og gerðist þar niðri í ánni einn mikið skæður Leviatan, og uppi á þurlendinu einn gagnefldur Behemoth (ofjarl, ofjarl, sagði Einar þambarskelfir um Svein Úlfsson, þá hann var settur til jarldóms), og þó gerðist enn meiri sá viðbjóðslegi voldugleiki, þegar maðurinn var orðinn virkilegur prófastur. Þá G(ísli) settist á Hóla og gerðist þar Assverus og lét þenna Haman ríða sér í hverja átt, er honum kynni þokknast, svo að slíkt mátti gilda jafnvel alls Gyðinga lýðs, Abrahams slektis, eyðilegging, ef svo vildi til takast (vid. quod perhibent Historiæ de ambitione papæ Gregorii 7.). Dygð mannsins fékk reynda ekki eg aleinn, heldur og (hvað meira er) þeir dýrmætu guðs menn síra Þorlákur Þórarinsson og síra Jón Jónsson prestur að Grund. Um síðir suppliceraði síra Hallgrímur um Grenjaðarstað, en með því Laufás varð þá liðugur strax um haustið, fékk hann þann stað og var þar um veturinn, en vék um sumarið eptir að Grenjaðarstað, þá konungleg bevilling til þess var komin. Þar lifði hann þau 10 ár, sem eptir voru æfinnar. Perpetuus summatum adulator, ingenio aquila in nubibus, indole atque studiis pellis vulpina. Mér falla í þanka dánumennirnir hann Sigvaldi jarl Jómsvíkingur, Þrándur heitinn í Götu með hans frændum, Val-

---

1) sincipite, afskr. síra G. J.

garður grái með syni hans Merði, og ekki sízt hann herra Cromwell, sá sig lét kalla protectorem Angliæ.

4. *Stephán Haldórsson*, bónda á Bakka i Öxnadal, skarpur, námgjarn og vel að sér gjör. Þessi var strax af biskupi Harboe creatus djákn að Reynistaðarklaustri, og eptir nokkur ár vígðist hann capellan að Myrká; snart ektaði (hann) dóttur gamla prestsins þar síra Jóns Ketilssonar, eptir hvern hann og svo hlaut kallið; eignaðist mörg börn og reyndist vænn, bæði í prestskap og búskap, hófsamur, siðsamur, stjórnsamur, artugasti hreppstjóri. Hann affecteraði hvert prestakall, er liðugt varð, það sem talið var bedreslags middelmaadigt, unz honum tandem öldruðum orðnum hlotnaðist Laufás, hvar hann að seztur hlaut að reyna hvert mótlætið öðru þyngra, sc. strax á 1. vetri (trúi eg) lærbrotnaði hann af óhapp(a)legu falli um baðstofu þröskuldinn. Þar eptir misti hann sjón. Og þegar hann tók sér capellan (sá hét Gamalíel), hverjum hann og gipti dóttur sína, þá til féll þeim sama varanlegur veikleiki, sá er gerði hann ófæran til að fremja prestleg embættisverk. Þanninn örmæddur og þjáður deyði síra Stephán[1]).

*1745.*

5. *Bjarni Pálsson*, sá eptir á varð landphysicus, — satis notus.

6. *Jón J(ónsson) Vidalin*, dótturson biskups Steins og sonarson lögmanns Páls Vídalíns, indolis bonæ, ingenii optimi. Þessi sigldi og kom aptur attestatus, vígðist prestur að Ríp, undir eins og eg, um haustið 1748, kvæntist snart á eptir Sigríði jómfrú á Ökrum systur sýslumanns Skúla (síðar landfógeta). Eptir þetta var síra Jón prestur á Þingeyrum nokkur ár, og seinast að Laufási, og þá undir eins prófastur (i) Þingeyjarsýslu, hvar frá hann deyði, og strax á eptir kona hans, svo að þau hjón greftruðust undir eins bæði saman í sömu gröf. Þau áttu nokkur börn saman, hverra 1 er biskup Geir Vidalin.

1) Hann lézt 1802.

7. *Einar Þórðarson*, prófasts í Dalasýslu. Hann átti heima í Viðvík á sumrum. Gáfaður í betra lagi, glaðlyndur, leikinn, glímumaður góður, mikið umgeingnisþægur. Hann varð fyrst djákn á Múkaþverá 1 ár, og þá prestur að Tjörn í Svarfaðardal nokkur ár. Kvæntist fyrst Sæunni Eireksdóttur, bónda á Óslandi, með hverri hann eignaðist 1 dóttur. En að henni andaðri kvæntist hann Björgu Pálsdóttur, systur rectors Gunnars. Eptir þetta var hann prestur að Hvammi í Dalasýslu, bæði vel, leingi og sómasamlega. Hann var medicus dágóður, hvað að kom mikið mörgum í mikið góðar þarfir. Þau hjón voru bæði full guðræknis og góðra verka, hugsuðu aldrei að safna sér fésjóð til þessa lífs, heldur til hins eptirkomanda. Síra Einar var forstandsmaður til búskapar, framkvæmdarmaður til útréttinga. Hann var hreinlyndur, einlægur, öldungis óveill, stjórnsamur. Deyði með sama sóma, orðinn sjónlaus og háaldraður[1]).

8. *Jón Jónsson*, lögréttumanns frá Bakka í Svarfaðardal, mikið laglegur maður, integer vitæ scelerisque purus, ingenio quidem tardus, ast industria indefessus, quo etiam bene doctus evasit. Þessi gerðist strax djákn að Möðruvöllum, og þó honum kæmi þá snart á eptir amtmannsskikkun, að hann léti sig vígja prest til Grímseyjar, varð hún snart fyrir aðstuðning stiptsprófasts síra Þorleifs Skaptasonar aptur kölluð, svo að Jón þjónaði djáknaembætti á Möðruvöllum (mig minnir) heil 14 ár, takandi æ meiri framför í lærdóminum, og gerðist meðal annars einninn góður medicus. Kvæntist matseljunni á Möðruvöllum, forstands og handirða konu, Sigríði Bjarnadóttur, og gat við henni 1 son. Seinast varð Jón prestur til Grundar og Möðruvalla, hvar hann vel og leingi lifði, og deyði vel aldraður[2]).

9. *Jón Sveinsson*, prests í Goðdölum. Hann var maður frískur, líflegur, sterkur, hagur, ad labores atque oeconomiam pariter ac ad literas factus. Þessi

---

1) Síra Einar lézt 1801.

2) Dó 1795.

vígðist (mig minnir) fyrst capellan að Goðdölum, og síðan varð hann þar virkilegur prestur eptir föður sinn. Kvæntist og gat börn, ekki mörg; reyndist (trúi eg) bæði góður klerkur og góður bóndi. Endaði æfina í Goðdölum[1]).

10. *Benedikt Pálsson*[2]).

Haldinn var mesta heljar svín
hágikkur Snorri í lífi sín etc.

scurra semper contemptus, simius levis, vilis, ridiculus, asinorum omnium asinissimus, boum boissmus, suum suissimus. Grár í lund etc.

11. *Jón Eiríksson*, gilds bónda á Óslandi, fóstursonur biskups Steins. Þessi var rétt vel skarpur piltur og vel að sér. Honum féll það til tvisvar að reka nokkuð svo fastan koss að stúlkum, en fékk aptur í hvorutveggja sinn konglega restitution. Þó hann væri vel gáfaður, þá var samt inclinationin langt heldur fallin til annara hluta en prestskapar. Samt var hann strax á næsta ári skikkaður prestur til Grímseyjar, hvar hann ókvæntur þjónaði um nokkur ár, og auðgaðist drjúgum að peningum, eptir hvað hann gerðist prestur að Grund og Möðruvöllum, og kvæntist undir eins Margréti Magnúsdóttur, prests á Mælifelli, með hverri hann ei eignaðist barn, en græddi óðum fémuni, frá hverjum hann síðan deyði[3]).

12. *Guðmundur Teitsson*, lögréttumanns úr Miðfirði. Hann var að gáfulagi rétt mediocris, víst vel moratus, og í bland máske aliquantulum morosus. Þessi sigldi strax samsumars frá Grenjaðarstað, hvar hann átti heima, til Kaupenhafnar Academiam, hvar hann strax á næsta vetri deyði[4]).

*1746.*

13. *Eyjólfur Sigurðsson*, bónda á Þrastarstöðum á Höfðaströnd. Hann varð fyrst capellan að Hofi og Miklabæ, og síðan, eptir prestinn þar síra Jón Helga-

1) Dó 1798.
2) þ. e. höfundur þessara frásagna.
3) Lézt 1757,
4) Dó 1747.

son, virkilegur prestur leingi; drukknaði[1]) skamt frá heimili sínu Brúarlandi. Átti konu og börn.

14. *Halldór Jónsson*, prests á Völlum, mikið laglegur maður, bæði að sjón og raun. Hann varð djákn að Þingeyrum og þar síðar sóknarprestur. Nú sem hann fór að biðja sér kvonar, Salvarar Þórðardóttur, sem þá var jómfrú, búandi á eignarjörð sinni Vík í Sæmundarhlíð, þá setti hún það upp á hann, að láta sig ekki þurfa burt þaðan, heldur skyldi hann gerast prestur að Reynistað og búa á sinni Vík, hvað alt varð framgeingt með háyfirvaldanna samþykki, hvar með síra Eyjólfur Reynisstaðarprestur gerðist prestur að Þingeyrum, en síra Haldór að Reynistað. Hér eptir varð síra Haldór dómkirkjuprestur á Hólum, og prófastur Hegranessýslu, hvar frá hann deyði[2]).

15. *Jón Jónsson*, timbursmiðs á Hólum. Hann hafði ingenium gott, quamvis non admodum capax, tamen solers et habile; fuit nostra constans a volubilitate alienus. Hann hafði þegar í ungdómi geðhneiging til þess forna norrænu-máls, með því unglingar þeir, er upp ólust á Hólum, voru mjög um kvöldvökur hafðir við sagnalestur hjá kvenfólki á Biskupsbaðstofuloptinu, svo að þeir æfðust vel í fornfræðum og lestrum. Jón, ætíð við bóknám industrius, varð vel að sér. Hann varð fyrst eleemosynarius á Hólum og famulus biskups Haldórs, á hverjum tíma eg man orð rectors Gunnars þessi: »Mér þykir Jón fara vel að sínu ráði í því, er hann ekkert inndrekkur af hettusjónum biskupsins«. Síðan gerðist Jón prestur á Ríp, þar eptir á Hjaltastöðum leingi, og prófastur Hegranessýslu. Þjónaði og biskupi Gísla gömlum með nokkrum prestvígslum. Hann átti konu og með henni eina dóttur. Seinast varð hann prestur að Grímstungum, hvar hann deyði[3]).

16. *Eiríkur Guðmundsson*, prests að Sauðafelli

---

1) Það var 1794.
2) Lézt 1769.
3) Hann dó 1799.

og Snóksdal, alumnus síra Gísla Einarssonar á Kúlu, með því hann var bróðursonur konu hans, Kristínar Eiríksdóttur. Eiríkur var sæmilega gáfaður, þurr og einslegur, fátalaður og óleikinn. Þegar hann varð glaður, — mjög sjaldan, — þá gerðist það með ofsalegri kæti, ekki að hann léki við nokkurn skólapiltanna né glímdi, — það sást aldrei, — heldur danzaði hann einn um skólagólfið, hlaupandi, hoppandi, þverskælandi andlitið og úthverfandi mussuna, með óvanalegri mælgi, og þá var þetta hans viðkvæði: Jam sum hilaris. Hann varð vel að sér, og reyndist á sínum tíma concionator egregius. Dimissus varð hann fyrst eleemosynarius á Grenjaðarstað, og síðan þar capellan; kvæntist og gat 1 dóttur. Eptir þetta varð hann prestur að Stað í Hrútafirði, en strax þangað nýkominn varð hann ekkjumaður; kvæntist snart aptur Helgu Eggertsdóttur, prests að Undirfelli, og eignaðist með henni nokkur börn. Lifði leingi á Stað, og deyði þar vel aldraður, á seinustu 2 árum orðinn mjög minnissljór, rænulítill og þankadofinn[1]).

17. *Helgi Jónsson*, prests að Hofi og Miklabæ. Ignarus et ignavus idiota bonis non placet. Þessi piltur var ljótur sjónum og að allri líkamalögun, limaburði og tiltektum yfirburða óliðlegur, réttur lurkur; ingenio mediocris. Aldrei lék þetta bolamenni sér í skólanum nokkurn tíma, og ef einhver scholasticorum einhvern tíma í hálfglettu-gamni kipti í hár honum, þá heyktist hann niður á knén og rassinn, upprekandi undir eins einn skrekkilegan, skrykkjóttan og ámátlegan skræk, svo að sumir skelfdust við. Þó töldust hinir fleiri, er hlóu. Dimissus vildi Helgi gerast capellan að Hofi (hvað að vísu ei sýnist ónáttúrlegt), svo að þeir Eyjólfur (vide supra) flugust á þar um, en Eyjólfur náði frá Helga pálmanum, og evaderaði victor. Helgi minnir mig eptir á feingi sér veitta Vesturhópshóla, en dæi fyrr en hann yrði vígður. Ef fleira væri sagnavert um hann, hvað eg ei man, þá máske það muni systir mín Steinunn.

---

1) Síra Eiríkur andaðist 1795.

*1747.*

18. *Ásmundur Pálsson.* De hoc nostro charo fratre, venerabilis memoriæ, nihil heic scribere attinet in tanta notitia[1]).

19. *Bergur Magnússon,* bónda á Kongustöðum í Svarfaðardal. Þessi var rétt laglega gáfaður piltur. Gerðist fyrst famulus biskups Haldórs; kvæntist síðan; prestur að Nesi í Þingeyjarsýslu, hvar hann deyði[2]).

*1748.*

20. *Ólafur Gíslason.* Þessi hefur víða verið nefndur og er víða kendur. Hann var vel gáfaður maður. Æfi hans leið mikið skrykkjótt með sífeldu þrasi og óró. Ólafur vígðist capellan hjá föður sínum til Hvols og Staðarhóls í Dalasýslu, og varð þar síðar virkilegur prestur, þó faðir hans lifði enn nokkur ár emeritus. Ólafur kvæntist rétt vænni konu og eignaðist nokkur börn. Sonur hans Sigurður varð prestur einhversstaðar sunnanlands, en sá frami varð skammvinnur. Önnur systkinin hafa[3]) ekki enn náð stórum frama. Ólafur var síktaður um stuld nokkurs koparhrings, er hafði verið úr kirkjuhurð á Staðarhóli, hvaðan þá Ólafur flutti sig að Hvítadal, þá hafði hann sett hring þenna þar í stofuhurð. Um þetta varð leitt þingdeilda jag og langvint. En með því soddan alt var afgeingið fyrr en eg kæmi á Vesturland, svo að efnið er alt hjá mér svo sem í dimmri þoku, satis duco calamum cohibere quam eo aliquod incerti vel etiam mendacis referre. Ólafur sigldi til Kaupinhafnar og var þar um veturinn að erfiða upp á (hvað eingi hér á landi vissi fyrr en um sumarið eptir, þegar það fréttist), að á Helgafelli skyldi stiptast hinn þriðji biskupsstóll landsins, hverjum tilleggjast skyldi kongsjarðir þær í Snæfellsnessýslu, sem kallast Stapaumboð, en hann sjálfur yrði þar fyrstur biskup. Hafði hann með slíkri ákefð framknúð þetta við herrana, að stundum hafði legið við

1) Síra Ásmundur Pálsson á Auðkúlu andaðist 1803.

2) Lézt 1767.

3) þ. v. afskr. síra Gísla.

áflog. Samt kom hann aptur án biskupsbagals og míturs og settist að sínu fyrra prestakalli. Eptir þetta féll það til suður á Alþingi við Öxará inni í Amtmannsbúðinni, að síra Ólafur þótti heldur frekorður til nafna síns, herra amtmannsins. Var hann þá strax af enum geistlega rétti dæmdur frá kjól og kalli, og af enum verzlegu til varðveizlu í Kaupinhöfn tanquam homo delirans, hvar upp á hann sendist strax þaðan til Kaupinhafnar sem einn fangi[1]). En þá hann var þannig[2]) kominn, virtist eingum þar sem hann galinn væri, né á[3]) neinn hátt fanaticus. Aumkuðu hann margir og gáfu honum peninga. Kom hann svo til baka næsta sumars rétt biskuplega búinn með hárri *recommendation* til prestakalls að nýju, og varð svo enn snart á eptir prestur að sínu fyrra kalli. Eptir alt þetta flæktist hann enn við óþrifalegt kallað Merarmál, á þann hátt vaxið: Með því að Saurbæjarsveitin er vel grösug og þar með á vetrum snjóber og jarðsöm, þá ganga þar jafnan á vetrartímum hross úr öðrum snjóþyngri sveitum. Nú bar svo til á einum hörðum vetri, að unghryssa nokkur norðan úr Bitrusveit slæptist þangað og staðnæmdist hjá síra Ólafi, að hverrar hörku og holdsemi hann dáðist, og tók [af meðaumkun[4]) að tæra henni dálítið rudda og moðrusli, svo að hún hélt lífinu. Um vorið fékk nú Bitrubóndinn fregið, hvar hryssa hans var niður komin; gerði sér því ferð til að sækja hana, bjóðandi fram betaling fyrir bjargræðið, hvar í mót prestur setti sig örðugan, þverneitandi öllu öðru en merinni sjálfri, hverrar líf hann sagði sitt vera. Nú man eg ekki, hvort bóndinn tók hana samt með sér strax, ellegar, af öðrum hvattur, sótti hana litlu síðar með meiri alvörugefni. Prestur sótti hana nú aptur, og heldur minnir mig hann tæki hana með leynd, og færði hana heim með sér að Hvítadal. Hér upp vaktist þá process, og nú jók prestur þar

1) Þetta var 1768.
2) Svo frumritið: þangað, afskr. síra Gísla.
3) þ. v. afskr. síra Gísla.
4) [af meðaumkum, frumr.; sl. afskr. síra Gísla.

við, að merin væri heima hjá sér fædd, og sem sín eign uppalin, en hefði aldrei orðið bónda eign. Að þessu gat hann eingi vitni leitt, en þvert á móti sóru nóg vitni bóndann eiga merina, hvar upp á prestur var enn eitt sinn dæmdur af kjól og kalli, og sá prófastsdómur, af consistorio staðfestur, færðist til hæstaréttar, hvar hann einninn staðfestist, þó með þeirri restriction, að Ólafur skyldi vera frí frá víðara tiltali[1]). Eptir þetta varð Ólafur aldrei prestur, og smámsaman tók hans góða kona (sú furðu leingi hafði honum mjög elskurík reynzt) og börnin að gerast honum fráhverf og afundin; tók hann nú í óyndi að ráfa um yfir sveitir, einninn á Suðurlandi, hvað herrum þar varð heldur leitt, svo að amtmaður Vibe bauð streingilega, að þessum manni, sem með sínu flakki gerði mörgum leiðindi og óró í ilskublandaðri vitleysu, skyldi vera haldið kyrrum innan hans réttu takmarka á Vesturlandi, hvar upp á hann var niðurursettur og rígfestur með sína pension 20 rd. hjá Guðmundi hospitalshaldara systurmanni[2]) sínum. Það beið ekki leingi heldur, að Ólafur þótti einninn þar lítt þolanlegur, einkum vegna óhentugrar umgeingni með þeim sjúku hospítalslimum. Því tók prófasturinn, sóknarprestur plázins, síra Björn Þorgrímsson á Setbergi hann að sér með hans litlu pension, og þessum tókst með haganlegum reglum, settum bæði honum og öllu sínu heimafólki, að halda Olafi mikið vel í taumi, stilli og skorðum um þau fá ár, er hann þar síðan lifði. Um þenna veslings síra Ólaf held eg sálugi prófessor Holberg hefði vel kunnað segja: Quem non minus adversa quam secunda fortuna nobilitavit[3]).

21. *Guðmundur Bersason*, bónda út í Fljótum. Með því þessi var systursonur madömunnar á M(úka)þverá, konu klausturhaldara Sölva, þá var hann þar og uppfóstraður, og, sæmilega gáfaður, í Hólaskóla settur. Strax um vorið 1749, þá vatnavöxtur var mikill,

1) Þetta hefur verið 1792.
2) sýslumanni(!), afskr. síra Gísla.
3) Mála-Ólafur dó 1801.

vildi Guðmundur ríða yfir um Eyjafjarðará rétt ofan undan bænum (Múkaþverá), treystandi of vel sínum artuga hesti. En þar í ánni varð hann allur.

22. *Þorlákur Þórðarson.* Sá veslingur var upprunninn sunnan úr Hreppum, skyldur síra Árna í Hruna Franzsyni, hjá hverjum hann fékk einhvern þef af latínu. Man eg ekki, hvort hann var þá 1 vetur í Skálaholtsskóla, ekki gáfumikill; en eptir það flæktist hann í Breiðafjarðardölum, kaupamaður á sumrum, en discipulus-nefna á vetrum hjá einhverjum presti, ætíð gangandi, þungaður með latínu og mentaframa-fýsn. Þanninn færðist hann í Norðurland, hvar hann á sumrum innvann sér kaupkorn, svo sem hann nú var orðinn maður fullorðinn að bæði aldri og vexti og ekki óframkvæmdarsamur. Hann fékk sér svo inntroðið í Hólaskóla, til leggjandi kaupkornið sitt sem minerval, og þá var ekki mikið afgangs til fatnaðar, hvers vegna hann gekk altíð ræflaður sem einn leppalúði, þó heldur væri hann til skrauts náttúraður. Andlit og vaxtarlag lögðu varla heldur mikið til prýðinnar (maðurinn leit út heldur ógeðlega). Hann komst til slíkrar hátignar í Hólaskóla, að hann varð suppremus (minnir mig, sem þá var í skólanum) inferiorum. En sem þá kom til Hóla visitator Harboe um sumarið 1741, þá kom Þorlákur (eins og fáeinir aðrir) ekki til skólans um haustið, heldur flæktist hann einhverstaðar, og um síðir staðnæmdist hann í Grenivík (Þingeyjarsýslu) hjá þar búanda gömlum og sjóndöprum orðnum, heiðruðum sýslumanni Vöðlusýslu sr. Jóni föður Þórarins. Þar var Þorlákur leingi og slepti aldrei framafýsninni, heldur æfði sig diligenter, svo að ekkert tapaðist þess, hann hafði numið, heldur dálítið ávaxtaðist. Um síðir fór hann á fund biskups Halldórs og rectors Gunnars (mig grunar, með recommendation gamla öldungsins) og fékk dimission, varð djákn á Múkaþverá og kvæntist matseljunni þar, Þórhildi. Síðar var hann prestur í Grímsey fáein ár, og fékk dauða hörmulegan, þannig: Hann fór um haustið frá Grímsey til meginlands við nokkra menn,

hvar og var í för kona hans. Og sem þessir komu inn á Eyjafjörð, þá tók mjög svo meir og meir að styrma að þeim. Í þeirra þrautum héldu þeir undir þann bæ Hríseyjar, sem heitir Instibær, hvar góð er sögð lending. En sem þeir í briminu og sjóarólgunni erfiðuðu að koma skipinu upp í naustið, féll presturinn, varð undir skipinu flatur, hvar hold hans og bein sundur mörðust með grátlegu kvalræði. Honum varð komið þar heim í rúm, í hverju hann lifði (mig minnir) 2 daga[1]). Æfi þessa aumingja var molesta, uppheföarkornið coactio, endirinn cruciatus.

*1749.*

23, *Sveinn Jónsson,* bónda á Tungu í Fljótum, fósturson síra Þorvarðs á Kvíabekk, var vel gáfaður og laglegur piltur. Hann gerðist fyrst capellan að Kvíabekk og skömmu síðar prestur að Knappstöðum leingi tíðar inn til síns dauða[2]). Átti konu og með henni mörg börn, hverra eg trúi (hann) ekkert hafi til menta sett.

24. *Erlendur Jónsson,* vel gáfaður, einkum gætinn og sinnugur, (sonur) guðræknasta og mikið vel mentaðs b(ónda) á Þrastarstöðum. Erlendur varð fyrst famulus hjá sýslumanni Þórarni á Grund, síðan djákn á Múkaþverá, og snart á eptir capellan að Hrafnagili, og síðan sóknarprestur þar, og fám árum síðar prófastur í Vaðlasýslu, þegar sá skaðlegi stökkull stiklaði burt úr Bæsá, og þanninn þjónaði Erlendur með sóma um langa æfi, frá fæðingu sinni til dauða[3]) af hverri manneskju elskaður. Konu átti hann höfðinglega í sjón og raun, Guðlaugu systur biskups Gísla, og með henni 2 sonu, hverra sá, sem enn lifir, er síns föður successor í embættinu. Erlendur var í sannleika vir frugi, eximium virtutum exemplar, homo antiqua virtute et fide.

25. *Magnús Ketilsson.* Hann var vel skarpur (til) lærdóms, bæði gáfu og fýsnar, ad artes liberales pari-

1) Síra Þorlákur andaðist 1756.
2) Síra Sveinn lézt 1804.
3) Síra Erlendur dó 1807.

ter ac ad opera civilia, oeconomica et fabrilia factus. Viðmót þessa manns var hið allra þurasta og afundnasta, viðtal nokkru viðfeldnara. Hann var hinn bezti skrifari, og varð strax sem frá skólanum losnaði famulus hjá lögmanni Sveini á Múkaþverá, hvaðan hann sigldi til academiam, og kom aptur þaðan að fárra vetra fresti með sér lénta Dalasýslu, hverri hann þénti sem sýslumaður til dauðadags[1]). Hann hafði umsjón prentsmiðjunnar Hrefnu[2]). Hann lagði mikla stundan og rækt við sáðgarða, og heppnaðist með þá í betra lagi. Konu átti hann Ragnhildi Eggertsdóttur, bónda á Skarði Bjarnasonar ens ríka bónda á Skarði, Péturssonar, og með henni mörg börn, hverra það, sem heitir Skúli, nú er hans successor í embættinu. Síðari konu átti Magnús Elínu Brynjólfsdóttur, bónda í Fagradal, Bjarnasonar ens ríka bónda á Skarði, ekkju frá Auðkúlustöðum, conjugio sterili. Magnús var alment álitinn maður einn hinn mesti, eg skyldi og, ef gæti, segja: einn hinn bezti.

26. *Davið Hansson Scheving* klausturhaldara á Möðruvöllum. Hann hefur víst verið vel gáfaður maður með inclinatione hinni allra sterkustu til búskapar iðjusemi og smíða, vel hagur maður, ráðsettur, sobrius. Strax ný-dimissus sigldi hann til academiam, hvaðan hann kom aptur creatus bókhaldari við þá nýstiptaða Reykjavíkur fabriku, hvar eptir hann gerðist sýslumaður Barðstrendinga; kvongaðist strax Þóru Eggertsdóttur frá Álptanesi á Mýrum, og gat við henni eina barna Ragnheiði, sem nú býr í Haga ekkja móti syni sínum Guðmundi Bjarnasyni, hver nú agerer sýslumanns vices, inter-sýslumaður. Davíð er og í Haga at dóttur sinnar, fyrir marglaungu ekkjumaður og emeritus, með pension 60 rd., heilsuhraustur og harla lítið ellibeygður, 77 ára[3]), viðfeld-

1) Dó 1803.

2) Þ. e. Hrappseyjarprentsmiðja.

3) Davíð Scheving er fæddur 1731. *Þetta er því ritað 1808—1809.* Ragnheiður var og hvorki ekkja leingur né bjó leingur í Haga en til 1809. Það ár giptist hún Þorkeli Gunnlaugssyni og fluttist frá Haga. En Davíð sýstumaður dó 1815.

inn og viðtalsþægur, þó sköruglegur, af öllum kunnugum, æðri og lægri, nær og fjær, elskaður bæði og heiðraður.

*1750.*

27. *Jón Steingrímsson*, bónda einhvers í Skagafirði, laglegur maður. Hann var djákn á Reynistað, þegar þar deyði klausturhaldari Jón Vigfússon. Þá ektaði Jón djákn hans ekkju Þórunni Hannesdóttur Scheving sýslumanns í Vaðlasýslu. Og með því að börnum hennar tilheyrði eitthvert fastagóz suður í Skaptafellssýslu (ei man eg þau fleiri en 2), þá fýstist Jón þangað, og vígðist prestur að Sólheimum í þeirri sýslu, og síðar varð hann prestur að Kirkjubæjarklaustri og prófastur héraðsins. Ekki veit eg, hvort honum auðnuðust börn, né hvort hjónanna leingur lifði. Þessi var móðurbróðir Steingríms skólalectoris. Lifði víst vel og leingi. Nú fyrir nokkrum árum dáinn.

28. *Illugi Jónsson*, bónda á Blikalóni norður á Sléttu. Þessi var rétt vel gáfaður til bókarinnar; þó tók yfir um hans handa hagleik, að hverjum hann mátti segjast eitt miraculum og réttur nanus. Þá hann var dimissus fýsti hann sem snarast að gerast prestur; sætti þess vegna því, sem þá varð liðugt, og vígðist prestur að Árnesi (norðasta kalli í Strandasýslu, mikið líku þeim hjá ykkur[1]) Hvanneyri og Þaunglabakka). Hann fékk kvonar, dóttur prófasts síra Magnúsar í Vatnsfirði Teitssonar, bróður biskups Jóns Teitssonar, og eignaðist nokkur börn; gerðist þar með capellan að Vatnsfirði, og lifði í því standi leingi, ætíð þungaður þankans að hljóta þann stað eptir teingdaföður sinn. En þetta hlaut að bregðast honum, því þegar teingdafaðir hans deyði, þá fór eptir líkindum, að prófastur héraðsins sá hágáfaði síra Guðlaugur Sveinsson varð hlutskarpari og náði pálmanum, en síra Illuga veittist það kallið, sem prófastur nú skildi við, Kirkjuból, svo að nú hlaut síra Illugi (veslingur)

---

1) Þ. e. Gísla konrektor og Norðlendingum.

í meira lagi indignabundus, með þessum hætti, einninn að verða prófastsins leiguliði. Dauði þessa væna manns tilféll heldur hryggilega, þanninn: Hann var á heimleið frá kaupstað (Skutulsfirði) um haustið síðla; settist að um kvöld sem náttgestur, ásamt sínum samskipverjum á nokkrum bæ. En sem hann þá frétti, kominn í sæng, en ekki sofnaður, að prófast síra Guðlaug hefði þar að borið ætlandi þar að pernoctera, misti hann eirð alla, spratt á fætur, kallaði sína samfylgjendur og lét svo fara í náttmyrkri og nokkru fjúki. Þeirra skip komið heim í Kirkjubólssókn, brotnaði á blindskeri, og þeir týndust þar allir[1]). Alt er með ráði gerandi, og fátt er betra en fara vel.

29. *Friðrik Guðmundsson*, bónda veslings í Höfðabúð, bróður Jóns á Framnesi, föður Ólafs á Frostastöðum, föður Ólafs prófessors og tegnemester í Noregi. Friðrik hafði fljúgandi námsgáfu. Varð fyrst famulus sýslumanns Ólafs Árnasonar í Haga á Barðaströnd, og vígðist eptir fá ár prestur að Gufudal hér í Barðastrandasýslu, en þénti þar ekki prestlegum verkum leingur en sem $^1/_4$ árs, fyrir því að nýgefin honum kona fæddi honum barnkorn dálítið mikils til of snemma, hvert þó reyndist fullsterkt til að toga af honum hempuna, eða heldur að segja, að nema frá honum kallið (þetta er það háskasama ólukku blindsker, sem á þessum tímum lamar of marga báta). Ekki bleif séra Friðrik leingi í þessum útistöðum. Honum hlotnaðist áður en langt var frá liðið prestakallið Borg í Borgarfirði. [Veit eg ei annað en hann lifi þar enn nú, þó hann sé fyrir mörgum árum emeritus. Ekki veit eg hvort hann á nokkurt barn á lífi eður ei. Hann á víst nokkur börn. [Hann lifir á Útskálum hjá dóttur sinni][2]).

---

1) Það var 1782.

2) [Svo frumritið. Afskript síra Gísla hefur: »ätti hann nokkur börn, og lifir enn nú (fyrir mörgum árum emeritus) hjá dótiur sinni á Útskálum«. — Síra Friðrik dó 1812.

30. *Bjarni Jónsson*, bónda einhvers norður á Langanesi. Hann var maður rétt sæmilega gáfaður; varð eleemosynarius á Grenjaðarstað og síðan þar capellau; kvongaðist þar og Elínu Stephánsdóttur, systur stiptamtmanns herra Ólafs, matrimonio sterili. Síðan var hann prestur leingi á Þingeyrum, og svo síðast á Breiðabólsstað, og præpositus Húnvetninga; nú fyrir laungu dáinn[1]).

*1751.*

31. *Sigfús Jónsson*, lögréttumanns í Hörgárdal, hálfbróðir Hallgríms heitins í Bæsá. Hann var maður vel gáfaður, bæði á tungu og hendur. Þessi var leingi famulus í Rauðaskriðu hjá sýslumanni Jóni Benediktssyni, viljandi ekta systur hans Sigríði, móður fjórðungschirurgi Hallgríms Bachmanns. Enn þó hún og eins gjarnan vildi fastnast honum, þá fanst þar á svo forundrunarlega frek fyrirmunun, að þetta náði aldrei að framkvæmast. Samt fylgdi Sigríður honum, þegar hann vígðist prestur að Höfða, og áður langt leið varð prófastur Þingeyjarsýslu, og þar bjuggu þau leingi saman í kærleika (aumkunarver(t) þykir mér, að ekki feingu að sænga saman). Um síðir kvæntist síra Sigfús einni bónda ekkju, Guðrúnu Ketilsdóttur prests í Húsavík, áttu 3 börn; en Sigríður færðist þá úr stað að Bjarnarhöfn til sonar síns, og lifði þar ekki leingi. Síra Sigfús er og fyrir nokkru dáinn[2]).

32. *Pétur Björnsson*, gáfumaður hinn mesti og ágætt skáld, hvað gerla sýnir hans allsnotra *Hávellukviða*. Hann kvænlist strax, og varð prestur að Tjörn á Vatnsnesi, hvar hann þénti leingi, unz hann um síðir emeritus hvarf að Miklabæ til sonar síns prófasts síra Péturs, hvar hann endaði æfina[2]).

33. *Ólafur Stephánsson*, qui eximiis animi dotibus præditus potens opibus, ad dignitatum summa evectus

---

1) Lézt 1798. — Hér þrýtur frumrit síra Benedikts, og er alt niðurlag þess nú glatað; er það því tekið hér eptir afskript Gísla konrektors.

2) Dóu báðir 1803.

fastigia, fortunæ amplexu amabili tanquam veræ nutricis diu atque prospere utens et gaudens omnibus bene notus est.

Quisquis habet nummos secura naviget aura
fortunamque suo temperet arbitrio[1])

*1752.*

34. *Magnús Jónsson*, ríkisbónda á Eyrarlandi. Þeir voru systrasynir stiptamtmaður Ólafur. Magnús var í ungdómi (líka sem bróðir hans Vigfús, sá eptir á varð sýslumaður Þingeyjarsýslu) kallaður ad litteras aldeilis inhabilis, inclineret vel og mest ad oeconomica, en fyrir kappsfullan aðfylgis framtroðning foreldranna brutust þeir og knúðust fram til nokkurs mentaframa. Magnús varð svo fyrst capellan á Grenjaðarstað, og reyndist til nógu góðrar hlítar í prestlegri þjónustu. Þar kvæntist hann Margrétu Stephánsdóttur, systur stiptamtmanns Ólafs, svo að þau hjón voru systrabörn. Hér eptir (1764) varð Magnús prestur að Miklagarði, hvar hann lifði 20 ár, ætíð kallaður góðmenni. Þar misti hann snart sína konu og barn við henni alið. Hann fékk snart aptur annarar konu, Þórunnar Björnsdóttur frá Grenjaðarstað, svo að enn voru nú hjónin systkinabörn. Með henni átti hann barna eina dóttur Elínu, og síðan misti hann enn þessa sína konu, svo að hann reyndist víst mótlætismanneskja þá tíð, hann dvaldi í Miklagarði, með því þá einnig geysaði sú leiða fjárpest um Norðurland. Eptir þetta alt færðist Magnús að Saurbæ, og jafnframt því teingdi sér hina þriðju konu, Guðnýju Guðnadóttur, ekkju frá Úlfsstöðum. Þar lifði hann enn um vel 20 ár; tók capellan systurson sinn Sigurð Jónsson, hver og svo varð hans successor í kallinu, og gipti honum dóttur sína. Loksins deyði hann 1808[2]), orðinn emeritus.

*1753.*

35. *Bjarni Pétursson.* — Um þann ágæta mann

1) Ólafur lézt 1812.
2) Réttara 1807.

mætti spyrja hana Steinunni Pálsdóttur á Hólum. Eg ætla, hún muni hafa séð hann einhvern tíma vestur á Melstað[1]).

36. *Sigfús Sigurðsson*, prests að Barði. Hann var leingi prestur að Felli í Sléttuhlíð, og átti konu Ólöfu Þórarinsdóttur, föðursystur assessors Benedikts Gröndals. Loksins emeritus færðist síra Sigfús til sonar síns síra Þórarins út i Siglufjörð, að Hvanneyri. Framar veit eg ekki um hann[2]).

37. *Þorvaldur Sörensson*, bónda á Ljósavatni, eg trúi skikkanlegt ungmenni. Þegar þessi raunavesling-ur, voceraður capellan að Breiðabólstað og máske nývígður, vildi halda brúðkaup sitt á Reynistað með artugri mær Guðrúnu Þorkelsdóttur, hálfsystur Þorkels Fjældstæd amtmanns i Noregi, þá tilféll svo raunaleg hörmung, að um nóttina fyrir þann ákvarðaða brullaupsdag kviknaði þar háskalegur voðaeldur, sá gjörvallan bæinn til ösku brendi með öllu því, inni var öðru en manneskjum[3]). Fóru svo þau sármótlættu hjónaefni vestur. Er mér óglögt, hvort hjónavígslan fullgerðist eður ekki, lika sem það, hvort Þorvaldur entist til að gera nokkurt prestsverk eður ei. En skömmu hér eptir tók hann sótt og andaðist[4]), og sú ágæta sorgmædda kona trúi eg ekki heldur lifði leingi (flos cinis).

38. *Jón Sigurðsson*, bónda einhvers í Ólafsfirði. Þessi varð fyrst famulus á Grund hjá sýslumanni Þórarni, síðan djákn á Múkaþverá, þar eptir capellan að Hvammi í Dalasýslu, en ekki leingi, því eg ætla það bæri til strax á 1ta ári hans þarveru, að presturinn á Breiðabólsstað á Skógarströnd deyði (síra Jón Ásmundsson[5]),) hvers eptirlifandi (ekkja) Þorbjörg

---

1) Síra Bjarni var prestur á Melstað, og andaðist 1790. Steinunn Pálsdóttir (d. 1817), systir síra Benedikts, sem þetta ritar, var kona síra Bjarna. Hún var þá, þegar þetta er ritað 1808–1809, á Hólum í Hjaltadal hjá Páli Hjálmarssyni teingdasyni sínum.

2) Hann lét af prestskap 1796, og andaðist 1816.

3) Það var 1757.

4) Síra Þorvaldur lézt 1758.

5) Á að vera síra Ásmundur Jónsson (d. 1757).

(var) náskyld þá verandi amtmanni Magnúsi, hvers vegna hann tilhlutaðist, að nefndur capellan frá Hvammi þjónaði Breiðabólsstað þann tíma, er liði milli presta, og þessa naut capellaninn, að hann hlaut strax á eptir prestakallið Ingjaldshól og Fróða[1]), hverju hann þjónaði leingi, reyndist maður laglegur og góður orator, passaði vel upp á efni sín og auðgaðist að peningum; kvongaðist ekki; varð líkþrár og deyði síðan[2]).

39. *Jón Skúlason*, landfógeta, varð vicefógeti með von embættisins virkilega eptir föður sinn. En hann tók sótt og andaðist fyrri föðurnum. Jón átti væna konu og við henni 1 son barna, hver eð deyði strax á hæla föður sínum raunalega í sjóferð frá Reykjavík heim til sinnar Viðeyjar[3]).

---

1) Fékk brauðið 1759.
2) Lézt 1777.
3) Þeir dóu 1789.

## XXII.

*Úr prestastefnubók Skálholtsbiskupsdæmis 10. Júlí 1786 um peningaböggulsmál síra Jóns Steingrímssonar.*

Anno 1786 dag 10da Julii . . . .

Kom þá fyrst fyrir réttinn prófasturinn síra Jón Steingrímsson, sem, i fölge af herra kammerherra og stiptbefalingsmanns Hr. von Lewetzows og biskups herra Hannesar Finnssonar eragtning af 6ta Octobris 1785, grundaðri á þess konglega danska Cancellies befaling af 25ta Junii sama árs, játaði og afbað þá sína yfirsjón, að hann hafði mót ordre 1784 úttekið nokkra af þeim peningum, sem herra stiptamtmaður Thodal hafði undir forsiglingu sent til sýslumannsins Lýðs Guðmundssonar, hverja úttekna peninga prófasturinn útdeilt hafði til nauðstaddra manna í Skaptafellssýslu, en þó eptir eigin hugþótta og móti því hensigti, sem peningarnir voru til ætlaðir.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Actum ut supra.

Paa Kr. Cammerherre Stiftamtmand
Levetzou's Vegne
B(jörn) Markússon. Hannes Finnsson.
P(áll) Sigurðsson. Sveinn Halldórsson.
Jón Steingrímsson. M(arkús) Magnússon.
E(iríkur) Vigfússon. G(ísli) Thorarensen.
Hilarius Illugason. A(ri) Guðlaugsson.
A(rngrímur) Jónsson. J(ón) Henriksson.
Vigfús Jónsson. J(ón) Grímsson.
G(uðmundur) Böðvarsson.

